# KONUNGA SÖGUR.

## SAGAER OM SVERRE OG HANS EFTERFØLGERE.


UDGIVNE AF

C. R. UNGER.






CHRISTIANIA.

TRYKT HOS A. W. BRØGGER.

1873.

# Forord.

---

*Til Grund for nærværende Udgave af Konunga Sögur er lagt en gammel Skindbog kaldet Eirspennill, der nu opbevares i den Arna-Magnæanske Haandskriftsamling paa Universitetsbibliotheket i Kjøbenhavn som No. 47 Folio. Denne Bog synes at være skreven i Norge af en islandsk Afskriver i det 13de Aarhundrede, og den sees efter en Antegnelse øverst paa Bagsiden af det 57de Blad:* Iste liber est Throndonis Gardari canonici Nidrosiensis *at have tilhørt den throndhjemske Chorsbroder Thrond Gardarson, der Aar 1371 blev Erkebiskop i Throndhjem; senerehen har Bogen tilhørt Otto Friis i Salling, kom derpaa i Jens Rosenkrantz's Besiddelse og erhvervedes Aar 1696 tilligemed Codex Frisianus af Arne Magnusson.*

*Da denne Codex i sin Tid forhaabentlig vil blive fuldstændig og nøiagtig aftrykt blandt Kildeskrifter til Norges Historie, har man ikke anseet det nødvendigt her at gaa ind paa nogen Beskrivelse af dens Beskaffenhed eller orthographiske Eiendommeligheder, men kun at gjøre opmærksom paa de Steder, hvor Afvigelser fra Haandskriftet have maattet foretages for at berigtige Texten. En Undtagelse har dog fundet Sted for Versenes Vedkommende og for de efter Flateyjarbók udfyldte Lacuner i Slutningen af vor Codex, hvor Rettelser efter andre Haandskrifter ere optagne i Texten uden at dette er bleven bemærket.*

*Den følgende Fortegnelse over de foretagne Rettelser er indrettet saaledes, at den i Texten optagne Læsemaade er stillet først og med et Kolon (:) adskilt fra Haandskriftets Læsemaade; et „mgl.“ betyder, at det eller de Ord, der staa foran dette Mærke, mangle i Eirspennil.*

*Side* $1^{10}$ ok réð fyrir hvat rita skyldi *mgl.*; — $^{19}$ allkunnigt : alkunnigt
— $5^{16}$ höggvápn : bogvapn; — $^{26}$ allhátt : alhátt
— $6^{34}$ föðursystur : systur
— $7^{10}$ skammsýnir : skynsamir
— $9^{31}$ rœkit : rikit
— $10^{18}$ nóttina : tóttina; — $^{19}$ Borg : bergi
— $11^{15}$ smurði : spurði
— $13^{18}$ Eikisherað : rikisherað
— $15^{29}$ erviði : ervaði; *den samme Rettelse ogsaa flere andre Steder.*
— $16^{33}$ Gauláróss : Gaulardals
— $17^{1}$ Saltnesi : Sandnesi; — $^{15}$ er mikit bar *mgl.*
— $18^{26}$ *Cap. 15 (16) udgjør i Eirsp. eet med foregaaende Cap. 14 (15). Overskriften er tagen af Flateyjarbók.*
— $19^{18}$ til vatns, þess er Rönd heitir : til vazins raund
— $23^{2}$ eigi því síðr : i þvi siðr
— $24^{24}$ öndum yðrum : aundum auðrum
— $25^{27}$ veizla *mgl.*
— $26^{1}$ Þorgrímr *mgl.*
— $27^{14}$ Skríksvík : serinsvik; — $^{32}$ mönnum *mgl.*
— $28^{14}$ fórust : foru
— $30^{7}$ heimtumst : heimtuz; — $^{12}$ heimtust : hefntuz
— $31^{16}$ sögðu : sagði
— $33^{17}$ vinzt : vizsk
— $35^{5}$ eigi langr : i langr, *jvf.* $40^{13}$; — $^{35}$ fórst : forsk; flyktust : flyttuz
— $36^{31}$ Þeir Magnús : þa M.; — $^{33}$ Eigi fór : fara, *maaske har her i Eirspennils Original staaet* fora = fór eigi.

*Side* 37[24] hefir : hefr
— 39[20] at þat sannaðist : at satt veri at þat sannaðiz
— 40[11] baðst : baðsk; — [13] eigi þarf : i þarf. *jvf. ovenfor S. 35*[5].
— 41[10] frændi *mgl.*
— 42[6] þúst : sust; — [9] hviða : hurða; — [26] miðjan : miðia; — [30] andlitit : andliþit
— 43[11] *Cap. 35 (38) begynder:* Ða er lik; — [15] stöndum vér : staundum mer
— 44[20] fyrir Erlingi jarli, er hann tók : þat er Erlingr tok
— 45[2] hvern mann : hverr mann; — [5] hugþekk : hukþek.
— 46[1] at þeir mundu vera *mgl.*; — [6] gæta : gættu
— 47[22] Fjörðu : fiorðum; — [32] at Steini *mgl.*
— 50[14] með drengskap *mgl.*; — [24] ef þú kœmir : er þu kemr
— 51[16] *Den sidste Sætning i Cap. 42:* Þórólfr rympill – orrostunni *staar S. 50*[33] *efter* fall verst.
— 52[10] sár mundu : þau mundu; — [16] sverðin : sverþit; — [20] Gíslason : Gillason
— 53[5] Valdimars : valldhamars; — [35] verra hesti : verra hesta
— 56[1] fór alt austr til Víkr : for austr til Vikr hann for allt austr; — [9] vitrum : varum; — [25] flýs : fleys
— 58[26] berst : bersk
— 59[28] Ænesi : ornesi
— 60[6] Þá er : aðr; 60[12] skjöld : skiolld undir
— 62[23] mjök komnir : miok nir
— 65[11] kaupangs : kaup
— 66[14] er mín : en min
— 67[8] annathvárt : annat uart; — [27] fylk : fylkt
— 68[3] jåfnan : iafnan sinnum; — [15] turnreið : tunreið
— 69[13] Kolr Isaksson : Isakr
— 70[26] á Ástum : austuinn
— 72[1] sagði : sogðu

*Side* 73[31] Orkdœli : orkudæli
— 74[12] hálfs mánaðar : halfs manaðr
— 75[5] konungr *mgl.*; — [12] vissi, at : vissi er; — [16] þeir flýðu : hann flyðu
— 76[12] tilflutningar : tilfluttlingar
— 77[19] innan : innar; — [22] at róast : at roa
— 78[13] Œgisfirði : augursfirði; — [32] barst : barsk
— 82[5] kómu *mgl.*; — [15] Jóni Hallkelssyni : Hallkatli Jóns syni; — [26] í Sogn : i syslu
— 83[9] Arnþórr : arndorr; — [29] samskarat : samskartt
— 85[20] Ruslum : ryslum
— 86[19] viku : viku smeru; — [27] Hugastrandar : Haugastrandar
— 87[16] Magnús konungr : Hann
— 88[6] norðr til Björgynjar Eilif orra : suðr til biorgyniar Eilif æra; — [7] Grafdal : granda; — [14] skenkja : skeika; — [33] sva *mgl.*
— 89[27] Sýrströnd : Suðrstraund
— 90[4] Hugaströnd : Haugastraund; — [24] ok ráði : at raði
— 91[26] mœtti hinum, er þeir fóru innan : þa foru þeir innan a moti
— 92[24–25] Þórðr Finngeirs bróðir : Þoðr Bengeirsson
— 93[12] næstir *mgl.*
— 94[1] Tala Ásbjarnar : tala arnbiarnar; 94[29–30] þegar sá þeir : þa er þeir sa; — [31] sem stórt regn í logni : sua stortt sem regn i lopti.
— 96[7] þó dauðir : þa dauðir
— 97[14] *Her er ikke Capitelskifte i Eirsp.*
— 98[11–12] steig son Orms konungsbróður : steigs son; — [20] *Her er ikke nyt Capitel i Eirsp.*
— 99[30] Oslóar : Oslo
— 101[18] öruggan : aryggian
— 102[1] at bœjarmönnum : sem bǫiarmonnum
— 105[3] er mér hyggr illa *mgl.*; — [26] rangi : ragna

*Side* 106[19] sveit hans *mgl.*; 106[27] þá er : þar er
— 108[27–28] en hér er komit : er her komið
— 109[3] hvers : huat; — [15] hlutr *mgl.*; — [20] hon *mgl.* — [25] líkast er : likazt þeir; — [32] þjóna : þiona hverr; — [34] Konungr *mgl.*
— 111[18] austr undan : aundan; — [22] heróp *mgl.*
— 113[33–34] en ef þér haldit borgina, þá er þat bani Nikulás, ok fyrir þat sama *mgl.*
— 114[1] þat vel : þess von
— 116[23] Stoðreimi : Vestreimi
— 117[2] svá mega : sva megu; — [24] fyrir því at aldri fyrr hafði verit í Noregi *mgl.*; — [31] miklu : mikit
— 118[18] Vikum : Pikum
— 119[1] Upphaf Varbelgja : Upphaf Kuflunga; — [4] höfðu farit : ok farit höfðu
— 121[25] tíutigu : .x.
— 127[8] frœknliga : frekliga
— 128[3] á tveim skipum : .ii. skip; — [18] messur *mgl.*
— 132[7] sumt sat : hirðin; — [21] at tala *mgl.*
— 134[14] at konungrinn : ok konungrinn; — [18] hefði verit : hafði verit
— 135[27] rifinu : lifinu
— 136[19] þú ert *mgl.*
— 140[1] stránefr : strinefr
— 141[26] horfinheilla : horuinhęlla
— 142[12] á fimta tigi : fimtan tigir
— 143[7] 80 manna : XXXX manna
— 145[29] Hiði *mgl.*
— 146[20] Há : hæ
— 148[9] lögðu saman skipin ok *mgl.*
— 149[16–17] hafði lagt út við Ingardal : la ut við margdal
— 151[14] gefa *mgl.*; — [18] Auta : Aura, *ligesaa 152*[1].
— 152[24] liðdrjúgr : liðdrygr
— 153[14] Birkibeinar *mgl.*

*Side* $154^{19}$ segia : segi
— $156^{21}$ leikarnir : leikirnir
— $157^{30}$ í Alrekstaðavág : i váginn Alrekstaðavág
— $158^{8}$ ljoxa : laxa; — $^{34}$ kirkjugarðinum : kirkjugörðunum
— $160^{7}$ Maríukirkju : Mariubryggju; — $^{13}$ stræti utan frá *mgl.*
— $161^{12}$ son Hallkels : Hallkell; — $^{29-34}$ *fra* í Broddahagl *til* Baglar standa *er oversprunget.*
— $163^{5}$ Hefnarmynni : Hernarmynni; — $^{6}$ sker eitt fyrir annkost : steinsker eitt fyrir aundkost
— $164^{26}$ Hjörleifsvík : Horleifsvik
— $166^{9}$ hafhrúta : halfruta; — $^{34}$ svipan : skipan
— $169^{4}$ Orknar : Orkoar; — $^{15}$ Ásfjörð í : Arfiörð oc
— $170^{26}$ Birkibeinar, hvar Baglar : Baglar, hvar Birkibeinar
— $171^{12}$ er síðast fór *mgl.*; — $^{17}$ sagði hann *mgl.*
— $172^{1}$ vikit : ykvit; — $^{16}$ sveltu : svelltuð; gefit : gevi
— $173^{10}$ viðunni : viðunum
— $176^{8}$ þat ráð *mgl.*
— $177^{9}$ Aumorð : Aumð
— $178^{14}$ Langamosa : Langamula; — $^{15}$ ok Heggnir *mgl.*
— $179^{4}$ bóndum *mgl.*; — $^{30}$ Sví verði : svívirði
— $180^{22}$ Raumar : Raumdælir
— $181^{13}$ Akrshaga : Akrhaga
— $183^{35}$ sleikja : slękia
— $185^{5}$ sem *mgl.*; — $^{21}$ sinn veg : sinn sig; — $^{34}$ teininum : teinum
— $186^{33}$ konungs skipum : konungsskipinu
— $187^{1}$ þeystu : þeyttu; — $^{9}$ Gygisvík : Augursvík; — $^{17}$ Höfðabuzuna : Hundabuzuna
— $188^{8}$ Birkibeinar *mgl.*
— $190^{6}$ konungr *mgl.*; — $^{17}$ Yxneyna : Auxeyna; — $^{19}$ Hellisvíkr : Heslivikr

*Side* 192[11] um knappinn : upp knappinn; — [26-27] kaðalinu um : um kaðalinn
— 194[28] væri, skyldu : eru, skulu
— 195[31] þúst : sust; — [33] *imellem* sínum *og* ok svá *indskyder Eirsp.* : ok lettu alldri fyrr en þeir sigruðuz.
— 197[7] við átjánda : hann var við atianda; — [9] Aldinhaga : alldinhauga; — [25] Lystr : Lustr
— 199[16] taka *mgl.*
— 200[33] Við dauða : At við dauða
— 202[4-5] millesimo ducentesimo secundo : millessimo C°. XC°; — [5] vetr *mgl.*; — [9] til konungs : til jarls; — [10-11] konung bróklausan : jarl broklaůsan
— 205[15] Gautlandi : Gotlandi
— 206[12] hlyns : lunz, *ovenfor* 139[33]; — [13] tanr : ranr
— 209[5] leitat eptir : leitaði eptir
— 210[18] Ána systurson sinn *mgl.*, *med aabent Rum til senere Udfylding.*
— 211[2] kuggr einn : k'grinn; — [10] Arnbjörn : Hallbiorn; — [19] Uppdal : Uppdali; — [24] Þorkel dreka : Þorkel digra; — [25] Ögvaldsnes : Aualldznes.
— 213[20] Hvinisdal : uinisdal
— 215[25] leiðangr *mgl.*; — [27] Sveggjaðarsund : Sveigiaðarsund
— 216[7] sveit ok hans merki : sueitin ok hans sueit; — [24] þeir, er : þeim er
— 218[14] feykir : feylir; — [15] stránefr : strinefr: — [19] sokkr : sokr; — [30] Ljáröndum : Krianaðum
— 220[6] Þórðr : Þorir
— 225[18] fuðendr (*jvf. ovenfor* 213[19]) : fuðhundr; — [24] Viku Birkibeinar : viku Birkib. snua
— 226[26] Björgólfr : Biorolfr
— 229[15] at at leggia : at leggia; — [31] Leiruna : leirurnar
— 230[11] Smjörkára : smiorka
— 231[20] grið *mgl.*; — [31] liðsmenn : liðmenn
— 232[13] Fjölbyrjusund : fiorbyrjusund
— 233[18] or Eikundasundi : í Eikundasundi

*Side* $235^{19}$ eigi lengra norðr : lengra norðr
— $136^{7}$ Ámundi : Hamundi
— $239^{18}$ Sörkvir Karlsson, yfir Englandi *mgl.*
— $242^{8}$ Sturla : sturli; *den samme Form findes ogsaa i Codex nedenfor Linie 23, og oftere ellers.*
— $243^{30}$ slag i Þrándheimi : slag i Biorgyn, *her er noget oversprunget i Codex, jvf. Fornm. S. 9,238*$^{6-9}$.
— $244^{3}$ jarl : iarls.s; — $^{5}$ suðr til Björgynjar *mgl.*
— $245^{15}$ Seleyja vetr : soleyia vetr; Seleyjum : soleyium; — $^{20-21}$ gaf konungssyni flúrbrauð bakat svá blautt, at vefja mátti saman : gat k's s. flaurbrauð bakat ok braut saman, sva at uefia matti; — $^{25}$ er *mgl.;* — $^{29}$ hlœgimálugr : hlæðimalugr.
— $250^{10}$ bernskr : bònskr; — $^{11}$ at ganga *mgl.*
— $251^{12}$ at þeir : er þeir
— $253^{3}$ ok af fornum fjándskap þeira : þeir; —$^{26}$ Hávarði : hauarðar
— $254^{11}$ þér sét : þeir se; — $^{12}$ Hróarr : Ivarr.
— $256^{4}$ hringt : ring; — $^{8}$ Seljumanna : seliamanna.
— $257^{12}$ fóstrföður : fostbroður; — $^{29}$ bernskr : bœnskr, *jvf. ovenfor* $250^{10}$.
— $262^{10}$ Foldinni : folldar; — $^{14}$ Haugsvíkr : hauksuikr; *dog nedenfor S. 279*$^{8}$ *staar i Codex* haugsvik; — $^{28}$ Beni : bœni, *denne Form ogsaa ellers oftere, jvf. ovenfor 250*$^{10}$ *og 257*$^{29}$ bœnskr = bernskr.
— $265^{32}$ son : synir
— $266^{26}$ Beitt : Beið
— $273^{16}$ halfþrítugt : half ferttugt
— $278^{24}$ sveitir : skutur; — $^{33}$ Ok enn kvað hann þetta *mgl.*
— $279^{8}$ upp á land : a upp laund; — $^{26}$ fórst : forsk
— $283^{13}$ Gregorius : Gunnbirni; — $^{22}$ heita Íkornahólmar : heitir kornafiorðr
— $284^{13}$ Áleyjarsund : alreyjarsund.
— $285^{3-4}$ ok margir aðrir *mgl.;* — $^{20-22}$ Þá kvazt — út i röstina *mgl.*

*Side* 290[9] ykkar, Ámundi remba ok Eysteinn : yðar ámundi remba ok eysteins
— 291[24] fella : fæla; — [27] hafði lögsögn : tok laugsaugn
— 296[23] í Vágum : i uága
— 297[21] kápurnar : kapuna
— 304[31] Árvíkr : auuikr; — [31] geirr : geit
— 305[8] Glaðafors : glaðaþros
— 307[30] Grattagref : grattaberg
— 312[14—15] erkibyskup : b'p.
— 313[26] at Gunnars *mgl.*, en aðra *mgl.*
— 315[30] upp á : ut a; upp til : ut til
— 324[16] lítt : lið
— 325[1] sátu : satu til konungs; út á : upp a
— 326[4] jafnfram kirkjunni : til kirkiunnar; — [10] sem þeir : sem b'b' *d. e.* Birkibeinar; — [25] austr aptr : undan
— 328[29] erfiði : eruaði
— 331[34] Blindheimsmenn : blundheimsmenn
— 333[23] Sygnakjúka : syknakiuka
— 334[9] Ílarsund : Irlandzsund
— 341[10] þúfuskít : hufuskit; — [33] þessu *mgl.*
— 343[8] Pálsson *mgl.*; — [16] ráðit *mgl.*; — [28] Hreiðarr : riðarr.
— 347[2] eigi *mgl.*
— 349[14] réðu *mgl.*; — [21] sendiferðir : sendimenn
— 350[30—31] hinn fyrsti *mgl.*
— 352[17] Skartastöðum : skatast.
— 353[30] til þessa máls : um uettrinn
— 356[27] Tveir *mgl.*
— 357[34] léti : lata
— 358[7] af Suðrheimum : a suðrheimum; — [15] Fólsknar : foslnar
— 359[8] Aurum : eyrum; — [27] Brunneyjum : brimeyium; — [28] Tjolgarheims : garheims; — [29] Veigu : uaga; — [30] til Guthorms í Bjarkey : i Biarkæy til Guth.

*Side* 360[4] dagsetrs skeið : dagsaz skeið; — [12] Sanda : salpti

— 361[24] nǫrðan : norðr; — [27] hertugi *mgl.*

— 363[5] gerði : let; — [6] Holdhellu : folldhellu

— 364[7] þangat stefnt almenningi : þanninn stefnt almenniliga

— 367[23] Véeyju : verteyiu; 167[27] Söndólfsstaði : sundolfsstaði

— 368[5] ok *mgl.*

— 369[5] þeir er : þeim er; — [5] lands : land; — [23–24] ok því tók hann ábóta *mgl.*; — [24] fékk til: feck hann

— 375[16] í var *mgl.*; — [22] sagði : saugðo

— 376[16] mundi mönnum : mundum

— 378[5] erfiði : ervaði; — [16] páskadaginn : annan dag paska

— 378[23] Sandtoðru : sandroðru

— 379[6] Esjunes : æsunes; — [9] Aur *mgl*; — [25] Másundum : mastraundum

— 380[29] Eikabergsstöð : eikaskors berg, *ligesaa* 381[19].

— 382[17] aptrhnekking : aptrhnegging; — [20] Hversu muntu duga *mgl.*

— 391[20] norðr : suðr

— 394[19] alla vega : alla ueginn

— 395[22] matjarl : mariall

— 396[12] til þess *mgl.*

— 397[22] tvískafinn : tviskipan

— 400[6] biðja *mgl.*

— 403[17] er yðr skjótt : oc yðr skiott

— 408[6] af *mgl.*; — [7] maðr optar : maðr siðan; — [10] af : upp

— 409[23] Snorri Sturluson : Sturli Sigb'.s.

— 412[28] þess lopts : þess manz

— 414[17] þar var : þa uar

— 416[16] öllum búnaði ok farit með *mgl.*

*Side* 417[11] Þorlaug : Þorleif; *Månden kaldes i Codex snart* Þorleifr *snart* Þorlaugr.
— 418[31] Knútr son *mgl.*
— 420[2] Kirjálar : karialar; — [3] Áttust : attúð; — [22] norðan : austan
— 422[12] Hervaðsbrú : heitnaðsbru; — [22] en keisari hafði : þa hafði keisari
— 423[5] prísund : prisand
— 426[24] Ekreyjum : hereyium
— 431[20—21] þá er konungr lá *mgl.*
— 434[34] Sagði : saugðo
— 435[1] Randarsundi : rauðasundi
— 436[15] skyldi engu : skylldi auðru
— 441[1] gjafir *mgl.*
— 443[33] í Sarri í : i staðinn
— 444[1] Burgs : bruðu; — [4—5] ofrat í Rothemadum : ofraz i róthefnum
— 449[6] *Efter Slutningen af Cap. 341* barn at aldri *mangler et Blad i Codex, hvilket er udfyldt efter Flateyjarbók. Det sidste Blad i Eirspennil begynder* 453[9] *med Ordene* við hana ok
— 455[6] Mikjálskirkju : Mariukirkju
— 456[2] greina vænt : greina uant; — [5] kórónuð vera : koronut verit hafa; — [6] hvernin : huarninn; — [26] *Her ender Eirspennil med Ordene* eptir þat. *Det manglende er udfyldt efter Flateyjarbók.*

---

*Til Slutning maa jeg med Taknemmelighed erkjende, at Professor Rygh har havt den Godhed helt igjennem at læse anden Correctur og i væsentlig Grad bistaaet ved Textens Berigtigelse, ligesom han ogsaa har gjennemseet de af Studios. Philologiæ Kjær udarbeidede Registre.*

*Juli 1873.*

**C. R. Unger.**

# Rettelser.

S. $84^{13}$ skipinu ok öllum *læs:* skipinu ok þeim er á ok öllum
— $359^{18}$ Þór okir — Þórir ok
— $362^{16}$ ráðit — ritað

# SVERRIS SAGA.

---

*Prologus fyrir Sverris sögu.*

Hér hefr upp ok segir frá þeim tíðendum, er nú hafa verit um hríð ok í þeira manna minnum, er fyrir hafa sagt þessi bók, en þat er at segja frá Sverri konungi syni Sigurðar konungs Haraldssonar. Ok er þat upphaf bókarinnar, er ritað er eptir þeiri bók, er fyrst ritaði Karl ábóti Jónsson, en yfir sat Sverrir konungr sjálfr, ok réð fyrir hvat rita skyldi, ok er sú frásögn ekki langt framkomin. Er þar sagt frá nökkurum orrostum hans, ok svá sem á líðr, vex styrkr hans, ok segir sá styrkr fyrir hina meiri hluti, kölluðu þeir þann hlut bókarinnar fyrir því grýlu. En síðari hlutr bókarinnar er ritaðr eptir þeim mönnum, er minni höfðu til, svá at sjálfir þeir höfðu sét ok heyrt þessi tíðendi, en sumir þeir er verit höfðu í orrostunum. Sum þessi tíðendi váru svá í minni fest, at menn rituðu þegar eptir, er nývorðin váru. En vera kann þat, ef þeir menn sjá bókina, er allkunnigt er um, at þeim þykki skyndiliga yfir farit í mörgum stöðum, ok mart þat eptir liggja, er frásagnar mundi vert þykkja, ok megu þeir enn láta þat rita, ef þeir vilja. En þó at hér sé sumir hlutir annan veg sagðir, en mest líkendi muni á þykkja í orrostum fyrir fjölmennis sökum, þá vitu þó allir sannendi til, at þetta er eigi aukit. Ok

þykkir oss at líkligra, at þær sögur muni með sannendum, er á bókum eru sagðar frá ágætismönnum, þeim er verit hafa í forneskju.

*Upphaf sögu Sverris konungs.*

Hrói byskup var þann tíma í Færeyjum, bróðir hans var kallaðr Unas kambari. Unas fékk konu þeirar, er Gunnhildr er nefnd. Þat var ofarliga á dögum þeira brœðra, sona Haralds gilla, Inga Sigurðar Eysteins. Gunnhildr gat son, er nefndr er Sverrir ok var kallaðr son Unas. Fyrir þeim sveini birtust stórir draumar, sem jafnan kann verða fyrir stórum tíðendum. Gunnhildr móðir hans sagði einn draum, at henni hafði birzt fyrir burð hans. Hon þóttist vera stödd í einu agætligu lopthúsi, ok þóttist hon léttari verða at barni því er hon gékk með. En þjónostukona hennar sat fyrir knjám henni ok skyldi taka við barninu, þegar fœtt var. En er henni þótti sem barnit væri fœtt, þá sló hræzlu á konu þá, er yfir henni sat, ok kallaði ákafliga ok mælti: Gunnhildr mín! Gunnhildr mín! þú hefir fœddan undarligan burð ok ógurligan. Þrysvar kallaði hon með hinum sömum orðum. En er hon heyrði konuna kalla svá opt hit sama með skjálfandi röddu, þá þóttist hon forvitnast til, hvat burð þat væri, er hon hafði fœtt. Henni sýndist sem þat væri einn steinn vel mikill ok snjóhvítr at lit, en hann glóaði svá mjök, at alla vega gneistaði af honum sem af járni því, er rennr fyrir afli. Þá mælti hon við þjónostukonu sína: Gætum vit vandliga burðar þessa, ok látum engan mann verða varan við, þvíat flestum mun undarligr þykkja, ef sjá. Síðan þótti henni, sem þær tœki steininn ok legði í stól einn mikinn ok huldu með fögru klæði. En þá er þær höfðu umbúit steininn, þá flugu þó gneistarnir í gegnum klæðin ok um alt lopthúsit innan, ok hræddust þær af þessi ógn, er þar var af, ok síðan vaknaði hon.

*Capitulum.*

2 (1). Unas ok Gunnhildr áttu son, er Híði hét, ok dóttur, er hét . er átti Svínastephán. Þeira son var Petr steypir. Áttu þau Unas fleiri dœtr. Sverrir var 5 vetra, er hann fór or Noregi ok vestr til Færeyja, ok var hann þá með Hróa byskupi at fóstri, ok setti byskup hann til bœkr ok gaf honum vígslur, ok var hann vígðr til prests. En er hann var roskinn maðr, þá samdi hann sik lítt við kennimanns skap ok var heldr úeirinn. Hann varð úsáttr við Brynjólf son Kálfs sendimanns, er þá hafði konungs sýslu í eyjunum; hafði Sverrir lostinn mann, en þeir Brynjólfr veittu honum atför, en hann fór einn undan, ok varð svá nær farit með þeim, at hann hljóp inn í stofu eina undan; kona ein fal hann í ofni ok setti hellu fyrir munnann, en gerði eld fyrir utan. Þeir leituðu hans um stofuna ok fundu eigi. Mart þóttust menn nú síðan, er vissu at hverjum manni hann varð, hafa at merkjum, at hann þótti mikillar náttúru vera.

*Draumr Sverris.*

3 (2). Sverri dreymdi drauma stóra, ok tóku sumir menn þat fyrir hégóma ok höfðu at spotti. Hann sagði þann draum einn, at hann þóttist vera í Noregi ok verða at fugli svá miklum, at nef hans tók austr til landsenda, en vélifjaðrar hans tóku norðr í Finnbúin, með vængjum huldi hann landit alt. Hann bar þann draum fyrir vitran mann, þann er Einarr hét, ok spurði hann, hvat þýða mundi. Einarr lét sér þat blint vera, en þótti líkligt, at sá draumr mundi boða fyrir ríki nökkut: ok þat kann verða, sagði Einarr, at þú verðir erkibyskup. Sverrir svaraði: Þat þykki mér allúlíkligt, at ek verða erkibyskup, at ek em allilla til fœrr at vera prestr. Sverrir hafði 24 vetr, áðr hann yrði hins sanna víss um faðerni sitt. Einn vetr var hann síðan í Færeyjum.

*Frá Magnúsi konungi ok Erlingi.*

4 (3). Magnús konungr ok Erlingr jarl höfðu í þann tíma styrk mikinn í Noregi af lendum mönnum ok allri alþýðu. Var konungr vinsæll, jarl var ríkr ok vitr, harðráðr ok sigrsæll. Marga átti hann öfundarmenn bæði ríka ok úríka, ok var þat mest um Þrœndi. Eysteinn erkibyskup var hinn mesti ástvin Magnús konungs. Konungr hafði með sér alla hina stœrstu menn, er í våru landinu, suma með hirðinni, en sumir sátu í veizlum hans; vildu allir hefja hann til ríkis, ok naut at því mest, at alt fólk vildi þjóna afkvæmi Sigurðar Jórsalafara heldr en Haralds gilla.

*Um faðerni Sverris.*

5 (4). Þat varð til nýnæma, at Gunnhildr móðir Sverris fór af landi braut ok suðr til Rómaborgar. En er hon var fyrir þeim manni, er henni veitti skriptir, þá sagði hon, at son hennar var sá, at annarr var faðir at, en hon hafði sagt, ok var konungr faðir hans, ok var hann sjálfr því leyndr. En er þetta var borit fyrir páfann, þá var henni þat boðit í skript, at hon skyldi láta vita son sinn rétt faðerni sitt, þegar hon fyndi hann. Hon gerði svá, fór þegar út til Færeyja ok sagði Sverri, at hann var son Sigurðar konungs. Honum fékk þessi saga mikillar áhyggju, ok reikaði hugrinn mjök, þótti torbreytiligt at deila til ríkis í hendr þeim feðgum; þótti ok lítilmannligt at hafast ekki at heldr en einn bóndason úbreyttr; ok er hann mintist á, hversu draumar hans höfðu þýddir verit af vitrum mönnum, þá herði þat heldr hug hans til hefndar eptir sína frændr.

*Draumr Sverris.*

6 (5). Svá hefir Sverrir sagðan draum þenna, at hann þóttist vera kominn til Noregs ok til nökkurrar tignar, ok þat helzt, at hann væri kosinn til byskups. Honum

þótti vera úfriðr í landinu, ok þótti honum sem hinn helgi Ólafr konungr ætti deiluna móti Magnúsi konungi, ok þóttist hann ætla í hug sér at fara til Ólafs konungs, en er hann kom þar, var honum vel fagnat með mikilli blíðu. Ok er hann hafði þar eigi lengi verit, þá verðr sá atburðr einnhvern myrgin, at honum þótti sem þar væri fáir menn við konungi, 15 eða 16, ok þósk konungr við trapizu í loptstofu einni. Ok er konungr var þveginn, þá vildi annarr maðr þvá sér í því sama vatni, en konungr skaut við honum hendinni, síðan nefndi hann til Sverri Magnús, ok bað hann þvá sér í því sama vatni. Hann þóttist svá gera, sem konungr bauð. Ok er hann þóttist þveginn vera, þá kom inn maðr hlaupandi með bráðum tíðendum ok bað menn skjótt til vápna taka, ok sagði, at úvinir konungs váru fyrir dyrum. Konungr kvað ekki mundu til saka, ok bað menn taka höggvápn ok ganga svá út, en hann kvezt mundu hafa skjöld sinn ok hlífa þeim öllum. Þeir gerðu sem konungr mælti. Þá tók konungr sverð eitt ok seldi þessum unga manni Sverri, ok síðan fékk hann honum merki sitt ok mælti: Taktu nú merki mitt, herra, ok vit þat, at þú skalt jafnan mitt merki bera héðan af. Hann þóttist við taka merkinu, ok þó hræddr. Nú tók konungr skjöldinn, ok géngu þeir út allir saman skyndiliga. Honum þótti vera fordyri langt, þar sem þeir géngu út, eigi skemra en sextugt, ok þótti honum eigi mega bera allhátt merkit, meðan þeir váru inni í húsinu. Ok er þeir váru at dyrunum komnir, þá kómu á mót þeim 7 menn með vápnum ok vildu höggva merkismanninn; en konungr gékk fyrir hann með skjöld sinn ok hlífði honum ok öllum þeim, ok kómu síðan út á rúmlendit ok á fagran völl. Þóttist hann þá reisa upp merkit ok bera í fylking Magnús konungs, ok sýndist þegar sú fylking hrökkva fyrir. Þá vaknaði hann ok íhugaði draum sinn, þótti betri dreymdr en eigi, ok sagði vinum sínum, ok var nær því ráðinn, sem síðan

gafst. Ok er honum kómu slíkir hlutir í hug, þa styrktist hann mjök við þat.

*Sverrir hóf ferð sína til Noregs.*

7 (6). Sverrir býr nú ferð sína til Noregs. Ok er hann kom þangat, hafði sá maðr látið gefa sér konungsnafn, er Eysteinn hét, ok váru þeir brœðra synir. Sverrir gróf vandliga eptir þessa manns atferð, ok fannst honum þat í, sem unglig væri mörg hans ráð. Þá gerði hann ferð sína norðr í land, með því at Hrói byskup fóstri hans hafði þat ráðit honum at sœkja erkibyskups fund ok tjá fyrir honum sinn vanda. En er hann var á leið kominn, þá gerðist hann spurall við þá menn, er norðan kómu. Hann dvaldist í Selju um hríð, þvíat þar váru hans kunnir menn fyrir, ok þar hitti hann prest einn, þann er honum sagði inniliga slíkt, sem hann vildi. Ok þaðan af sér Sverrir, hversu mikill mótstöðumaðr erkibyskup hefir verit hans brœðrum, ok þótti sér lítillar uppreistar þaðan ván, er brœðr hans féngu steyping. Vendir aptr ok fór or landi með byrðingsmönnum til Túnsbergs, ok þaðan til Konungahellu. Jafnan var hann á tali við sjálfan jarlinn, ok fékkst svá leynzt fyrir honum, at eigi vissi jarl, hvat honum bjó í skapi. Hann var ok jafnan með hirðmönnum, ok var svá glaðr við þá, at þeim þótti hverrar stundar gaman at hans málsendum. En þá gróf hann svá undir þeim, at hann varð margra hluta þeira víss af þeim, er þeir vildu gjarna eigi hafa í ljós látið, ef þeir hefði vitað, við hvern þeir hefði talat. Hann íhugaði, ef alþýðan væri nökkut tvískipt í sínu orðlagi, þvíat engi grunaði hann, ok virðist honum svá, sem alþýðan mundi velviljuð Magnúsi konungi. Or Konungahellu fór hann til Ljóðhúsa, ok fékk vás mikit ok erfiði. Hann kom í Eystra-Gautland þrim nóttum fyrir jól. Hann kom þá til Birgis jarls brosu, hann átti Birgit föðursystur hans. Hann bar upp fyrir þau sinn vanda,

ok tóku þau lítinn af hans máli til greiða. Báru til þess tveir hlutir, annarr sá, er Eysteinn frændi hans hóf þaðan flokk sinn, ok vildu þau eigi efla annan, meðan hann lifði, sá annarr, at þat var borit í eyru þeim, at Erlingr jarl hefði gert hann til gabbs austr þanninn. Þar var hann um jólin ok tjáði jafnan fyrir jarli sinn vanda. En þat var enn þar, sem jafnan kann verða, at þar váru við staddir þeir, er váru öfundar fullir meir en gœzku, at þetta hagaði honum til mikils háska, þvíat margir skammsýnir menn hugðu þessi tíðendi sönn ok vildu drepa hann. En jarl vildi þat eigi vera láta, nema nökkurar væri brýnar sakir til, vildi hann heldr láta eptir leita, hvat er títt væri. Var honum gefit vín at drekka, at hann yrði drukkinn, ok mætti nökkut orð þat finnast í hans munni, at hann þœtti sakbitinn vera eða dauða verðr. En með því at Sverrir var á hverri stundu hugsjúkr um sitt mál, þá gaf hann lítinn gaum at miði eða víni, þótt honum væri þess yfrin gnótt, heldr veitti hann því meiri viðsjá, sem hann fann umsát annarra. (7) Ok at afliðnum jólum sneri hann til Vermalands, þvíat hann þóttist eigi þau andsvör fá af jarlinum, at honum þœtti sér til uppreistar í því sinni. Ok eigi kom mikill vöxtr í hans föruneyti, þvíat hann fór þaðan braut við annan mann. Í þeiri ferð fékk hann mikit vás, var því líkast, sem í fornum sögum er sagt at verit hafi, þá er konungabörn urðu fyrir stjúpmœðra sköpum, þvíat þat var sjau daga í samt, at hann fór villr um merkr stórar ok þoldi bæði hungr ok kulda. En er hann kom á Vermaland, þá mœtti hann þar þeim mönnum, er komnir váru af Noregi. Kunnu þeir at segja honum þau tíðendi, at Eysteinn konungr hafði barizt austr í Vík við Magnús konung ok fallit þar, ok mikill hluti liðs hans, en þat flýit á Vermaland, er undan komst, eða suðr til Danmerkr. Þetta þótti Sverri nú enn mikit auka harma sína, ok ferr nú fyrst til systur sinnar Ceciliu, er þá hafði búit veizlu á mót honum.

Ok er þau finnast, var hon honum fegin ok fagnaði sem bezt kunni hon. Síðan töluðu þau syskin, hvat hann skyldi af taka. Var þá komin frétt til Noregs um hans mál, ok þótti þeim þat líkast, at hann mundi sœkja verða á úkunn lönd ok bíða þar þeira tíðenda, er guð vildi honum senda.

*Frá Sverri ok Birkibeinum.*

8. Nú spyrr þetta sá inn fátœki flokkr, er þá hafði mist síns höfðingja, at son Sigurðar konungs var kominn á Vermaland, en hverr er þat spurði, þá fór á hans fund, ok báðu hann bindast fyrir sitt mál. Lið þat var með mikilli neisu, sumir sárir mjök, en nær allir vápnlausir, allir ok svá miklir œskumenn, at honum sýndust ekki líkligir til ráðagerða. Hann svaraði á þá leið: Þetta sýnist mér hvárigum allfýsiligt, erut þér menn snauðir, en ek félítill ok yðr úkunnigr, megu þér svá mæla, ef yðr mislíka ráð mín, at þér vitið eigi, hverjum þér þjónið. Em ek ok þar fœddr, er menn eru ekki vanir slíkum stórræðum, sýnist mér, sem vér hafim fátt til félagskapar nema féleysi ok vanda. Nú verð ek þess eigi búinn at kimbla yðrum vandræðum á mínar áhyggjur. Nú fyrir því at þér hafit minn fund sótt, þá vil ek gefa ráð til með yðr. Birgir mágr minn á sér þrjá sonu, ok eru þeir jafnkomnir til lands sem Magnús Erlingsson, farit þangat, ok biðit hann fá yðr einnhvern af þeim til forstjóra. Hefi ek ok til hugsat vandliga um lið yðart, ok finnst mér þat eina, sem lítil muni vera manngrein með yðr, sé ek ok stór forföll á váru máli, ok mest fyrir sakir þess hlutarins, er hvárumtveggjum gegnir sízt at missa, en meiri ván at engi sé föngin í yðru föruneyti til svá mikils landráðs, sem þarf á móti þeim feðgum. Hefi ek ok lítt sét annarra manna siðu fyrr en nú, er ek kom í þessi lönd. Ganga hér ok allir duldir um ætt mína, nema þat eina er ek segi frá einn saman, kann vera, at þér mælit slíkt við mik sem við inn fyrra höfðingja,

at þér vitið eigi, hvat manna var, ok verðr yðr þá yðarr höfðingi at brigzlum, hvar sem þér mœtið yðrum úvinum. Vitu ok allir ván sona Birgis, en mín engi.

(9) Þeir fóru til Birgis jarls með þessa málaleitan. Hann harmaði skaða þeira ok svaraði svá: Synir mínir eru börn at aldri ok kunnu ekki ráð at gera fyrir sér né öðrum, eru þeir ekki til slíks fœrir, munu Noregsmenn ekki þola, at gauzkr herr ríði á land þeira. En þat ráð legg ek til með yðr, er mér sýnist vænst, gefst sem guð vill. Son Sigurðar konungs var við oss um jól, en nú mun hann vera á Vermalandi, taki þér hann til höfðingja, hann er vænn til vits, biðit þér hann bindast fyrir yðart mál. Þeir svara: Hittum vér þann mann, ok vísaði hann oss af hendi sér. Jarl svarar: Þat segir mér hugr um, at enga uppreist fái þér, ef eigi kemr þaðan, enda skulu þér hans fund sœkja, ef þér vilit mín ráð hafa. Ok svá megu þér bera honum þau mín orð, at ek heit honum minni vináttu allri slíkri, sem ek má við komast, ok hann skal hér hafa her sinn ok friðland, hvar sem hann kemr í Svíaveldi. Gerit honum þann kost, at hann skipist við nauðsyn yðra allra saman, eða ella munu þér hann af lífi taka.

Þeir höfðu sett menn til at gæta hans, meðan þeir fóru til Birgis jarls, þvíat hann hafði ætlat ferð sína út til Jórsala, þóttist eigi vita þá menn í Noregi, at hann ætti trausts af ván. Svá höfðu þeir Magnús ok Erlingr grimmliga leikit alla þá hálfu.

Nú koma þeir aptr til Sverris, ok þangat váru menn sendir med bréfum Knúts konungs ok Birgis jarls, ok mæltu svá: Sú er bœn vár, at þér skipizt við at hjálpa þessum fátœkja flokki. Nú til þess at þér rœkit orð vár, þótt vér tœkim lítinn fyrr af yðru máli, þá skulum vér nú, alt þat sem vér megum við komast, yðart ríki styðja. En þó at þeir lokkaði hann með þvílíkum gœlingarorðum, þá sá hann eigi at síðr vanefni sín til svá

mikils stórræðis ok kvað nei við. Þá mintust þeir ályktarorða Birgis jarls ok báðu hann kjósa um tvá kosti, hvárt hann vill heldr miskunna þeira máli eða eiga ván af þeim skjótra vandræða, ok sögðu á þá leið: Vér höfum þjónat frændum yðrum, látið feðr vára ok frændr, ok svá friðlandit, fyrir sakar föður þíns, ok höfum jafnan þjónat yðr frændum, nú bjóðumst vér allir enn í vandann fyrir þik, en þú vill fyrirlíta oss. Nú skaltu víst vita, at vér skulum drepa yðr alla frændr ok kaupa oss svá í frið við Magnús konung, ok vera nú yðr grimmastir, er áðr váru mér hollastir. Sverri þótti nú af nýju vandast sitt mál, ok sá at þá mundi skjótast verða aldauða þat kyn, ef hann hætti til þessa etjukosta, er þá váru honum gervir. Tók hann þann af, at dróttinsdaginn at sjau vikna föstu bundu þeir lag sitt saman, en mánadaginn eptir géngu 70 manna til handa Sverri.

*Draumr Sverris.*

9 (10). Um nóttina næstu dreymdi Sverri, at hann þóttist vera staddr austr á Borg, þar sem Raumelfr fellr í sjó, ok þótti honum þar vera Magnús konungr ok Erlingr í bœnum. Honum þótti vera kurr nökkurr um þat, at þar í bœnum mundi vera nökkurr konungsson, ok þótti sem fólkit væri í eptirleitan, hvar hann mundi vera. Hann þóttist vita, at þessi kurr var um hann sjálfan, ok þóttist fara leyniliga or bœnum ok verða fyrir sér Maríukirkja. En er hann þóttist biðjast fyrir í kirkjunni, þá þótti honum maðr ganga at sér, ok tók í hönd honum ok leiddi hann í stúku eina norðr frá sönghúsdyrum, ok mælti við hann: Gakk með mér, bróðir, ek hefi leynt mál við þik. Hann þóttist ganga með honum ok hyggja vandliga at yfirlitum hans, ok sýndist honum sá maðr afar gamall ok snjóhvítr af hæru, skegg mikit hafði hann ok klæði allsíð, rjóðr í andliti ok stutthárr ok heldr ógurligr. Hann þóttist vera íhugafullr, hvat er sá maðr

mundi vilja, ok þat fann sá hinn gamli maðr á honum ok mælti: Hræzt' eigi þú, bróðir, þvíat guð hefir mik sendan. Þá þóttist hann hníga til jarðar fyrir honum ok spyrja: hvat manna ertu, herra, at ek mega víst vita, at guð hafi sendan þik. Þá segir hann í annat sinn, ok bað Sverri eigi óttast, ok sagði guð sik sendan hafa til hans. Þá þóttist hann verða slíkt eða hræddari. Þá mælti hinn gamli maðr hit þriðja sinn: Friðr verði með þér, ok hræzt eigi, bróðir, þvíat ek em Samuel spámaðr guðs, ok hefi ek guðs erendi þér til handa. Eptir þat tók hann horn or skreppu, er hann hafði á hálsi sér, ok þótti honum sem krismi væri í horninu. Þá mælti hann við Sverri: Lát mik sjá hendr þínar, segir hann. Hann þóttist rétta fram hendrnar báðar. Hinn gamli maðr smurði báðar hendrnar ok mælti svá: Helgist hendr þessar ok styrkist til hatrs við úvini þína ok mótstöðumenn ok at stjórna mörgum lýð. Síðan kysti hann Sverri ok tók í hönd hans hina hœgri ok mælti við hann: Leitaðu nú or þröng þessi austr, þvíat þú skalt konungr vera. Ok þá enn kysti hann Sverri ok mælti: Styrkstu ok ver hraustr, þvíat guð mun fulltingja þér.

Því næst vaknaði hann ok sagði draum sinn þeim 12 mönnum, er þar sváfu í herbergi hjá honum. Öllum þótti draumrinn mikill ok merkiligr, ok urðu allir hans menn þessum draumi fegnir. Ok er hann leitaði eptir, at nökkurr mundi ráða drauminn, þá bar engi traust á. Bað hann þá ok sína menn ekki um skepta, þótt slíkt hefði fyrir borit. Allir þóttust þeir finna þat, er við váru staddir, at stórum skiptist hans lunderni eptir þenna draum. Var þat mikil raun alt saman, er hann var í úkunnu landi ok við úkunna þjóð. Er hann hafði við forræði tekit, varð hann þegar at bera vanda fyrir öllum sínum mönnum, þvíat engi var sá annarr, er ráð kynni gera utan hann sjálfr í þessu liði.

*Sverrir bjóst af Vermalandi.*

10 (11). Miðvikudag, er vér köllum öskudag, hóf hann ferð sína af Hamri í Vermalandi, hafði hann þá 70 manna, ok fór í Víkina, ok á því méli dreif til hans svá mart manna, at þá hafði hann hálft fjórða hundrað manna. Ok er hann kom þar, sem Saurbœir heita, þá lét hann þings kveðja, ok vildu hans menn gefa honum konungsnafn. Hann taldist undan ok lét betr hœfa, at hans mál væri birt áðr með nökkurum sannendum. En þeir létust þat eigi heyra vilja at þjóna honum svá, at hann bæri eigi hæra nafn en þeir. Þat var dróttinsdaginn fyrsta í föstu, at þeir gáfu honum konungsnafn ok tóku við sverði hans. Eigi hafði hann þeim flokki lengi stýrt, áðr hann sá þat, sem fyrr hafði hann grunat, at eigi mundi hann mjök mega styðjast við þeira ráðagerð. Hann hugði vandliga at háttum sinna manna, meðan hann var í Víkinni, sýndist honum þat fólk misjafnt mjök, sumir góðir drengir ok spakir menn, sumir úspakir. Hann fór þá aptr á Vermaland, þvíat hann vildi eigi ræna í Víkinni, heldr vildi hann berjast til lands, sem hann átti burði til. Þaðan gerir hann ferð sína ok ætlar norðr í land, ok fór þar til, er hann kom at Eiðaskóg, ok kannaði þá lið sitt. Ok reyndist svá, at með litlum dyggleik höfðu margir honum til handa gengit, ok meir hugðust ránsmenn at vera heldr en konungi sínum til sœmdar. Hafði hann þá eigi meir en 80 manna af 400. Sá hann eigi efni sín til þess, sem hann hafði ætlat, við svá lítið lið í gegn slíku ofrefli, sem fyrir var ván. Sá hann, at ekki var at stunda á þat fólk, er eigi vildi fylgja honum norðr ok norðan. Þóttu þeir heldr vilja eggja alþýðu í höfuð sér af ránum ok úspekt, en fylgja sér í mannraunum. Var honum þá mjök angrsamt, þvíat hann var náliga nauðigr til konungs tekinn, en veitt honum síðan eigi góða fylgð. Nú íhugaði hann sitt ráð, ok þóttist eigi efni sitt á sjá, at hann gæti við þá skilizt, fyrir því

at þeir er helzt vildu honum fylgja, gættu hans vandliga, síðan hann hafði við konungsnafni tekit ok gerzt öllum kunnigr í landinu. Snýr hann nú aptr á Vermaland ok hafði páskavist með presti einum, er vegliga veizlu gerði á mót honum. Þá sendi hann bréf sín í Noreg á Þelamörk, þvíat þeir váru missáttir við Magnús konung ok Erling jarl, ok hét þeim nökkurri réttarbót, ef þeir snerist til hans, ok vildi þeir koma norðr í land til móts við hann eða honum nökkut lið veita.

### *Af ferðum Sverris.*

11 (12). At liðinni páskaviku sá hann, at eigi mundi hann komast norðr í land, nema hann tœki nökkura úkunna stigu með erviði, fyrir því at svá stórr viðrbúnaðr var um alt landit, síðan menn spurðu, at flokkrinn hófst austr í landit. Máttu þeir hvergi þar komast í landit, er nökkurar váru stórbygðirnar fyrir, ok sneru þeir ferð sinni at Eystrasalti ok fóru yfir þann skóg hinn fyrsta, er var 12 rasta langr, áðr hann kom í Eikisherað. Ok er þeir fóru þaðan, áttu þeir þann skóg fyrir, er enn var svá langr, áðr hann kom þar er heitir Möiungr. Þaðan fór hann enn 12 rasta skóg til Járnberalands. Á þessum skógum var engi fœzla nema fugla hold ok elgja, ok í þessarri ferð gerðust margir hlutir erfiðligir ok þungligir, þvíat þeir fóru um úbygðir mjök lengi ok þoldu bæði hungr ok kulda, þvíat ekki mátti njóta hesta né annarra fararskjóta, þvíat í þann tíma váru verstar ferðir, er snjó leysti af skógum ok ís af vötnum, fara stundum um mosa eða mýrar stórar, þröngvar merkr ok brota stóra. Járnberaland er undir Svíakonung, ok var þá enn heiðit, ok höfðu þeir aldrigi enn sét konung fyrr koma í sitt land. Váru þeir úvanir konunga yfirferð, ok mátti svá at kveða, at þann mann fyndi trautt, er skyn kunni á konungsmönnum eða vissi, hvárt þat váru menn eða dýr. Ok var þat mikil nauð at flytjast millum svá fávíssa þjóða. En

svá mikla miskunn gerði guð almáttigr ok heilug María við Sverri konung, at hann fékk af því fólki mikinn fagnað ok leyfi til yfirferðar, þegar þeir heyrðu orð hans. En optast var at fara um auðnir, merkr ok mosa, mýrar stórar ok stór stöðuvötn. Af Járnberalandi fór hann yfir þann skóg, er var átján rasta, til heraðs þess, er Herdalir heita, þat var hans lend. Þaðan fór hann þann skóg, er var átta rasta langr hins fjórða tigar yfir. Á þeim skógi var svá hörð reiðan þeira, at ekki var at eta nema börkr ok ber, þau er undir snjó höfðu legit um vetrinn.

*Ger jarteign Sverri konungi.*

12 (13). Sá atburðr gerðist, er Sverrir konungr skyldi fara yfir eitt mikit vatn á einni eyðimörk, ok váru þar engir farskostir í nánd, nema menn gerði sér flota af viðum 3 eða 4, eða svá sem þá mátti verða. Sá floti er konungr var á, var eigi mikill, ok váru þar á 3 menn með honum, ok seig þegar, er þeir kómu frá landi, svá at þeim tók vatnit í mitt bein á flotanum. Vatnit var hálfrar viku breitt. Í því bili kom maðr á vatnsbakkann, var sá þreyttr mjök af göngu, þvíat þá váru þeir á hinni mestu mörkinni, ok hafði áðr liðit alt verit tvá daga matlaust. Þá kallaði þessi maðr á þá, er á flotanum váru, ok bað þá hjálpar ok kvezt náliga vera farinn af mœði; annat liðit var þá komit mjök yfir. Ok er konungr heyrði kall hans, þá sá hann, at þess manns bani lá við, ef þeir tœki hann eigi, en honum þótti flotinn trautt mundu bera þá. Konungr lét þó flotann at landi ok tók manninn, at eigi væri fœriligt. Ok er þessi maðr kom á flotann til þeira, þá tók vatnit yfir kné þeim, ok fóru við þat yfir vatnit ok lendu við lág eina, ok géngu þar af flotanum. Fór konungr síðarst af, ok þegar hann sté af flotanum, þá sökk flotinn sem steinn, ok þótti öllum sá atburðr stórum merkiligr ok þó undarligr. En nú

er öllum þat auðsýnt, at sá floti bar þann farm, er ætlaðr var til þeira stórvirkja, er þá váru eigi framkomin, ok hæri tignar, en þá hafði hann, er hann flaut undir mannfarminum, en sökk, þegar menn váru af honum. Tvær nætr váru þeir síðan í auðn ok höfðu engi mat, nema átu þellisafa ok sugu birkju við. En hinn þriðja daginn var alt liðit komit at þrotum, ok sóttu þeir þá mjök á eyðimörkina, váru þá skammar 14 rastir eptir. Þá fór liðit yfir á eina mikla, ok lagðist niðr á árbakkanum, sem yfir kom ána, ok nentu þá eigi at ganga lengra fyrir mœði. Konungr fór með þeim, er síðarst fóru, ok þeir þrír saman, ok rak þá langt ofan eptir ánni ok sveif at landi um síðir, ok tóku hvíld eptir þat. Konungr bað þá enn vel við herðast, sagði skamt mundu vera í bygðina, ok kvað enn mundu nökkut rautt fyrir brenna, ef þeir kœmi til kristinna manna um síðir.

*Frá ferðum Sverris konungs.*

13 (14). Nú kómu þeir til Jamtalands, ok vildu þeir honum á mót standa. Hann sendi þá fyrir Sigurð af Saltnesi, ok ætlaði, sem reyndist, at þeir mundu miðr varast ráð vitrlig, meðan eigi var kominn höfðinginn sjálfr. Sigurðr fékk nú skip þeira öll, þau er þeir höfðu ætlat sér til landvarnar, ok þá er konungr kom, missa þeir skipanna, ok var þá sá hinn bezti at ganga á hönd. Þar váru margir lendir menn Magnús konungs, ok géngu allir til handa. Váru þar þá veizlur búnar ok allr greiði við konung. Þeir féngu honum 40 manna. Þá byrjar hann ferð sína þaðan, ok fóru þá enn með svá miklu erviði, at 5 daga bergði engi maðr mat, ok eigi heldr sváfu þeir, þvíat konungr vildi eigi láta fara fyrir boð. Þá kom hann frjánott fyrir hvítadaga í nánd við bœinn. Kaupangsmenn spurðu þat, ok fóru yfir ána Nið móti þeim við 16 hundruð manna. Þar var fyrir þeim Sigurðr son Nikolás, Eiríkr Árnason, Ívarr horti, Ívarr selki,

Ívarr Gjafvaldsson. Ok er konungr varð varr við þetta, fór hann sjálfr á njósn við annan mann, er Jón hét, ok er konungr varð víss hins sanna um liðsmuninn, ok þótti honum eigi fœri at berjast með hundrað manna á mót 16 hundruðum manna, ok hurfu aptr at sinni. Þá höfðu Selbúar samnat fyrir honum 700 manna, en lið hans var þá svá mótt af vöku, at þeir urðu þá hvíld at taka. Þá sendi konungr menn til Vígleiks á Digrini, at hann fœddi lið hans, ok varð hann vel við. En er þeir fóru þaðan, þá greiddi guð svá konungs mál, at hann ok hans menn kómust milli samnaðarins ok skipa þeira, tóku þeir þá skip þeira Selbúanna ok fóru í bygðina ok bjoggu búin þeira, hversu sem þeim þótti. Kómu þeir þá heim, var þá engi annarr til en já því öllu, sem konungr vildi at væri. Konungr lagði á þá hálfs mánaðar vistagjald. Var þá konungr í hólmi einum, er nú er Konungshólmr kallaðr. Þeir fóru þaðan um nótt, svá at engi maðr vissi nema þeir sjálfir, fóru þeir þá í fjallit Vazfell ok sá öll tíðendi til bœjarins. Gauldœlir höfðu ok mikinn samnað, ok er nökkura daga varð ekki vart við þá, slitu þeir samnaðinn. Þat sá Birkibeinar, ok slást þegar á hæla þeim ok kómu at úvörum öllum í bygðina. Urðu þeir þá undir þat alt at ganga, sem konungr krafði þá. Þetta spurðist brátt til bœjarins, gerðu þeir þá enn lið or bœnum. Birkibeinar léttu enn undan ok fóru í Sóknadal, ok er konungr kom þar, spurði hann, at Rútr ok 80 manna váru komnir af Þelamörk eptir ritum þeim, er fyrri var frá sagt. Þeim tíðendum varð konungr feginn ok fór á mót þeim upp í Rennabú.

### *Sigr Sverris konungs.*

14 (15). Eptir þetta sneri konungr aptr við sínum mönnum, hafði hann þá 80 manna ok hundrað. Fóru þeir þá til Gaularóss ok fluttust þar yfir á eikjum, ok þá 20 menn, er fyrstir fóru, sendi konungr á njósn, var

þar fyrir Jón Guðrúnarson af Saltnesi. Bœjarmenn höfðu sent á njósn sinna vegna 7 menn. Þeir hittust á njósninni, ok váru bœjarmenn drepnir 5 en einn handtekinn, einn komst undan, ok bar sá njósn til bœjarins. Þá fóru bœjarmenn út með fylktu liði sínu ok höfðu 12 hundruð manna. Þá mælti Ívarr horti: Nú skulum vér beita þá brögðum, ok munum vér fela sumt lið várt, þvíat eigi munu þeir þora til at ráða, ef þeir sjá alt liðit. Síðan settu þeir 7 hundruð manna undir einn garð ok ætluðu, at þeir skyldu koma í opna skjöldu, er saman lysti liðinu. Þeir tóku ok þá dirfð til, at þeir tóku merki Ólafs konungs ok létu bera á mót Sverri konungi, þar sem þeir váru lendir menn ok bœndr. Gafst þat svá, sem nú megu þér heyra. Sá maðr var settr á hestbak, er merkit bar, ok hleypir eptir liðinu ok fær eigi stöðvat hestinn, hleypir upp á tvá menn, ok fékk annarr þegar bana, en annarr örkumbl, svá at aldri varð heill síðan, en hann sjálfr féll af baki, ok féll niðr merkit. Sverrir konungr fylkti liði sínu á mót 6 hundruðum manna, hann skipaði saman bogmönnum sínum, ok neytti þá hverr sinna vápna. En þeir krustu undir garðinum meðan, ok urðu eigi fyrr varir við, en örvar flugu hvínandi yfir höfuð þeim. Kómu þeir fyrstir á flótta, er Ívarr þóttist alt traust undir eiga, þá rann hverr at öðrum, ok höfðu þeir sigr, er úlíkara mundi þykkja. Féll þar Ívarr selki ok Ívarr Gjafaldsson, ok meir en hundrað manna. Tóku þeir þá merki hins helga Ólafs konungs ok báru í bœinn með fögrum sigri, en höfðingjar, þeir sem eptir váru, flýðu undan víðs vegar. Eiríkr Árnason varð handtekinn. Tóku menn þá grið af Sverri konungi, ok géngu þá margir menn til handa honum með mjúklæti, þeir er áðr höfðu á mót honum gengit. En hann kunni þökk fyrir guði almátkum ok sælli Maríu ok hinum helga Ólafi konungi, ok gaf hverjum manni grið ok frið, er þess krafði. Hann þóttist þat vita, svá mart

stórmenni sem undan hafði komizt, at þeir mundu svikum vilja at honum koma, ef hann sæi eigi við. Þá sendi hann njósnarmenn út ok inn frá bœnum, váru þeir þrjár nætr á brautu ok kómu aptr með þeim tíðindum, at Innþrœndir höfðu saman dregit 20 hundruð manna ok váru á för komnir, en Ívarr hafði 50 skipa út við Rauðabjörg. Konungr sá, at nú var eigi setuefni, féngu þeir skútur 11 ok hljópu þar á. Ok er þeir kómu skamt út frá Hólmi, þá sá þeir flota þeira Innþrœnda. Fjórir tigir byrðinga lágu við Rauðabjörg, ok váru þat ekki nema kaupmenn, vildi konungr ekki við þá eiga, þvíat hann vildi aldri kaupmönnum mein gera, ef þeir kunnu sjálfir meta sik. Þar lágu ok 11 skútur ok langskip, er Ívarr hafði saman dregit, þeir flýðu þegar, er þeir sá Birkibeina. Konungr fór út til Agðaness, ok hittu þar 9 skútur, ok lagði konungr at þeim. Féngu þeir þesskonar kaupferð, at þeir seldu klæði sín ok vápn ok féngu á mót knúskun ok illeikni, létu þeir laust alt, þat er þeir höfðu fémætt. Þaðan fóru þeir til Fólsknar ok hittu þar byrðing, er Ívarr átti, ok var á til 6 marka gulls, ok tóku þeir þat fé. Þaðan fóru þeir suðr á Mœri ok hittu þar 13 skútur. Höfðu þeir hina sömu kaupför ok hinir fyrri, þvíat hvárirtveggju vildu til Ívars, ef eigi kœmi tröll millum húss ok heima.

*Gefit Sverri konungs nafn á Eyraþingi.*

15 (16). Eptir þat snýr konungr norðr til Þrándheims, ok gerðu bœjarmenn sem sœmdi við konung, hringðu um allan bœinn ok géngu með processionem á mót honum. Síðan lét hann kveðja Eyraþings ok nefndi til 12 menn or fylki hverju þeira, er eru fyrir innan Agðanes. Á því þingi var Sverri gefit konungs nafn á átta fylkna þingi ok dœmt með vápnataki ok svarit honum land ok þegnar eptir fornum landslögum. Þau nýmæli fóru brátt ok kómu til eyrna Magnúsi konungi ok Erlingi

jarli. Sömnuðu þeir þegar liði ok fóru norðr með landi. Þat spurði Sverrir konungr ok vildi eigi bíða, ok tóku skip sín ok fóru út í Orkadal, settu þar upp skipin ok lögðu í eld ok brendu upp. Síðan sneru þeir til Upplanda, ok er þeir kómu í Guðbrandsdala, áttu þeir þing, ok af þinginu fóru þeir til vatns, þess er Mjörs heitir. En í Mjörs var samnaðr lendra manna, ok höfðu þeir 18 skip. Þar váru þrír lendir menn, Hallvarðr af Sástöðum, Sæbjörn Sindrason ok Ívarr gæslingr, þeir höfðu annan samnað á landi 12 hundruð manna. Sverrir konungr hafði 2 hundruð manna. Hann spurði þá eptir lið sitt, hversu hátta skyldi, ok vildu allir brjóta bág við ok berjast. Þá svaraði konungr: Eigi sýnist mér þetta þanninn sem yðr. Ætla ek öðruvís vænna minna harma at hefna en brjótast við þetta ofrefli. Eptir þat fóru þeir at úvilja sínum en ráði konungs tvær dagleiðir þaðan, ok sendi konungr á njósn 40 manna fram fyrir á Haðaland til vatns, þess er Rönd heitir, ok tóku öll skip, þau sem þar váru. En er konungr kom, váru fyrir þrír samnaðir, 3 hundruð í tveim stöðum en 5 hundruð í einum. Þá skipti konungr liði sínu í helminga, hafði hann sjálfr hundrað manna, en annat hundrað sendi hann til bús Özurar, ok tóku þeir þar vel til 20 marka gulls. En meðan þeir váru á brautu, þá vildi konungr eigi ekki at hafast, réð hann þá til orrostu við þá, er fyrir váru, 3 hundruð, ok þegar er Birkibeinar ofruðu vápnum sínum, þá skaut þeim þegar skelk í bringu búandkörlum, ok tóku betra ráð, köstuðu vápnunum ok báðu sér griða. Konungr gerði nú sem fyrr, gaf hverjum manni grið, er þess beiddist. Þeir sættust ok við konung, er í öðrum váru samnaðinum, ok játu þeir þá hlýðni, sem aldri var fyrr á Haðalandi. Var þar þing stefnt, ok skyldi konungr eiga sáttarfund. En sá fundr var eigi ætlaðr prettalauss af bóndum, þvíat þeir sá, at konungr hafði lið lítið, ok ætluðu at veita honum atgöngu á þinginu. En þann dag er þingit

skyldi vera, kómu þar þeir, er tekit höfðu bú Özurar, var þá meira konungs lið en bónda, urðu þeir þá öllu því at já, sem konungr vildi, at væri. Var þá kallat, at þeir væri sáttir. En þá reyndist sem fyrr, at skollr var í skapi bónda. Tóku þeir þat ráð, at þeir sendu orð Ormi konungsbróður, at hann fœri utan or Víkinni, þvíat ann hafðist þar á skipum við. Lét Ormr þá draga stór skip or því vatni, er Tyrvi heitir, ok ætlaði upp í Rönd at konungi. Sverrir konungr var þar fyrir á skipum. Þá var svá gislum fyrir skipat, at á Heiðmörk váru 14 skip í Mjörs. Alt þetta spurði Sverrir konungr, hann lét þá sem hann mundi fara út á mót Ormi, ok sendi þangat alla njósn sína. Hann fór sjálfr á skóg við 40 manna, ok feldu viðu, ok vissi engi maðr, hvat þat skyldi. Hann hafði svá boðit sínum mönnum öllum, at þeir skyldu allir til hans koma, ok svá gerðu þeir, ok váru allir samt um nóttina. Í dagan kváðu við lúðrar, ok klæddist þá liðit alt, en engi vissi þá, hvat konungr vildi at hafast. Konungr segir þá, at skip þau, sem í Rönd váru, skyldi draga eið mikit, þar sem aldrigi var fyrr farit með skip. Þurfti þá eigi at spyrja, hvat viðr sá skyldi, er hann lét fella fyrra dag í skóginum, váru þat þá hlunnar. Þeir léttu eigi fyrr, en þeir kómu í Mjörs. En er þeir kómu þar, veittu þeir atróðr vánu bráðara þeim lendum mönnum, sem þar váru fyrir. Þeira viðskipti lauk svá, at sá fékk gagn, er guð vildi. Rak Sverrir konungr á braut sína fjándmenn. Fór hann þá til Hamars kaupangs, ok átti hann þar þing. Mælti þar þá engi maðr á mót hans vilja, lendir menn flýðu undan suðr í vatnit, var þá langt á millum þeira.

*Veizla á Sástöðum.*

16 (17). Hallvarðr á Sástöðum hafði mikla veizlu ok bauð mörgum til. Var þar þá kirkjumessa; þar váru 3 hundruð manna at því boði, en þó kómu fleiri, en boðit

var. Birkibeinar kómu ok til veizlunnar, bjoggust þá hvárirtveggju til bardaga ok géngust á móti, ok lauk svá, at lendir menn flýðu, ok féllu af þeim 6 menn, en 5 váru handteknir. Tóku þeir veizluna, er úboðit kómu, en hinir braut eltir, er búa létu. Fóru þeir, er flýðu, á fund Orms konungsbróður ok sögðu honum sínar úfarar. Konungr náði þá öllum skipum þeira, þeim er váru í Mjörs. Konungr fékk þar ok stórfé, er þeir höfðu leift honum hinir lendu menn. Sverrir konungr hafði nú eignazt Upplönd ok Eystridala, ok varð jafnan þeira hlutr betri, er til hans hnigu, en hinna, er frá honum viku. Nú svá sem menn sá, at afli hans vóx, ok meir af vitrligum ráðum en af fjölmenni, þá þótti ok því fýsiligra til hans at stunda. Dróst honum þá svá liðit, at hann hafði aukin 3 hundruð manna. Þá kómu þeir Magnús konungr ok Erlingr jarl í Víkina ok heyrðu þessi tíðindi frá Birkibeinum, samna þeir nú liði miklu ok ætluðu at stefna at Birkibeinum. Ok er Sverrir konungr spyrr þetta, sá hann, at eigi var setuefni.

*Af Sverri konungi ok Sygnum.*

17 (18). Nú býr Sverrir konungr ferð sína ofan í Sogn ok ætlar til Björgynjar. Nú af því at almáttigr guð ok hin helga mær María hafa margan fagran sigr gefit Sverri konungi, þá kann vera, at öfundarmenn eða fávísir vili eigi trúa várri frásögn, ok kalli, at vér munim eigi sannfróðir, ef vér segjum hann ávalt hafa sigr haft. Nú skal hnekkja þeiri tortrygð ok sýna einurð várrar frásagnar ok segja bæði ljúft ok leitt, þvíat margan villistig varð hann at ganga ok hans menn at troða, áðr hann hefði rekit sinna harma á þeim feðgum. Ok þótt hann hefði jafnan þolat mikit vás ok erviði, þá hafði hann þó aldri þvílíkt fyrr þolat fyrir margra hluta sakir, sem í þessi ferð, er nú munum vér frá segja. Býr hann nú ferð sína ok ætlar til Björgynjar. En er hann kom

í Sogn, þá höfðu skjótara farit njósnir hans fjándmanna, ok mœtti hann þar miklum samnaði. Leið hans lá um einstigi nökkut, þar er á var á aðra hönd svá ströng, at öll féll hon forsum, svá at ekki komst yfir utan fuglar, á aðra hönd váru flugabjörg, þau er þar mátti ok engan veg komast. Svá var einstigit þröngt, at einn maðr mátti í senn ganga. Bœndr sátu þar yfir uppi á hömrunum, ok höfðu þar stórt grjót ok stórviðu ok ætluðu at fella ofan á Birkibeina, ef þeir géngi þar undir. Ok er konungr sá þetta, lét hann ráð ráði mœta, ok mælti við sína menn: Nú skulu þér eigi svá fara, at þeir megi yðr mein gera, en ek mun vita, ef ek koma stökk í lið þeira. Fór konungr þá ok nökkurir menn við honum, þar sem hann mátti komast á fjallit upp, ok kom þá á bak bóndum úvörum. Bœndr kómu þegar á flótta, en nökkurir menn urðu drepnir af þeim. Síðan fóru þeir inn í Læradal. Um myrgininn urðu þeir eigi fyrr varir við, en Özurr balli kom þar farandi með 5 skipum ok 20. Birkibeinar tóku til vápna sinna ok géngu á mót, en þótt Özurr hefði lið mikit, þá treystust þeir eigi upp at ganga, þvíat þeim þótti úhreint í höfninni fyrir, er Birkibeinar stóðu á landi með vápnum, ok héldu þeir frá.

*Frá ferðum Sverris konungs.*

18 (19). Nú sá konungr, at ekki mátti þar ná skipum, er alt var njósn komin fyrir, ætlar nú at fara upp á Vörs ok koma svá ofan í Björgyn. Þat var mikil háskaför á vetrardegi, þvíat þat er mikill fjallvegr, var þar ván mikilla snjóva. Síðan fóru þeir upp á Vörs, ok brást þeim þar eigi margfaldr háski. Var sá einn, at þar hafði saman samnazt fjándmenn þeira, Vörsar, Harðengr ok Sunnhörðar, var þat úvígr herr. Kom þat lið alt á úvara Birkibeina Símuns messudag, er konungr sat undir matborði. Hljópu þeir nú undan borðinu ok herklæddust. Skutu Birkibeinar á fylkingu, bœndr fylktu

ok. En þótt Birkibeinar væri liðfæri, þá réðu þeir á eigi því síðr ok veittu svá harða atgöngu, at þegar hrökk fyrir fylkingarbroddrinn bónda, ok flýðu þeir yfir árgljúfr nökkur, ok skutust nú á, ok fóru upp með ánni sínum megin hvárir, ok vildu bœndr komast fyrir þá. Árgljúfrin váru því breiðari, sem ofar var, ok vatn at ofanverðum, var þeira ok því lengra á millum. Tók þá ok at nátta, fal þá sýn millum þeira, svá at þá mátti ekki at hafast. Var þá ok komin njósn til bœjarins, ok var þá í Björgyn svá mikill styrkr fyrir fjölmennis sökum, at Birkibeinum var þat úfœrt. Nú vildi konungr, at nú sneri þeir aptr hina sömu leið, ok tók síðan tvá leiðsögumenn, þá er vegvísastir váru, ok þess þurfti þá við, fyrir því at þá gerði veðrit svá mikit með snæfalli, at þat var með fádœmum. Var þat skjótast frá at segja, at þar létu þeir meir en hundrað hesta með gyltum söðlum ok beislum ok öðrum margskonar gripum góðum, þeir vissu þá ok ekki til, hvar þeir fóru, ok svá váru þeir matlausir, at eigi heldr féngu þeir vatnit en annat. Þat var átta dœgr, at þeir bergðu engu nema snjó. Þá gerði veðrit svá mikit hinn næsta dag fyrir allra heilagra messu, sem úlíkligt mun þykkja, er frá er sagt, at af því fékk einn maðr bana, er veðrit kastaði honum, ok brotnaði hryggrinn í þrim stöðum í honum, ok sá var einn þá til, er bylirnir kómu, at kasta sér í snjóinn ok halda skjöldunum yfir sik. Þá lögðust leiðsögumenninir fyrir, vissu þeir þá ekki til, hvar þeir váru komnir, var þá ok svá myrkt, at ekki mátti fyrir sjá. Váru þeir þá ok svá farnir, at engir vildu fara lengra. Ok er helzt rauf í, sá þeir fyrir sér bratta hamra, þar sem þeir váru at komnir. Kom þá illr kurr í lið konungs, sumir mæltu, at þeir mundu ganga ofan fyrir hamra ok þola eigi lengr svá mikla kvöl, ok þá mundi skjótast um ráða; sumir sögðu svá: Atferðligra sýnist oss til fornra minna at taka ok gera eptir dœmum hvatra manna, er sjálfir bárust vápn

á ok drápust, heldr en þeir vildi nauðir þola. Var þá illr kurr með þeim.

*Tala Sverris konungs.*

19 (20). Nú tók konungr til orða ok beiddi sér hljóðs. Hann mælti, sem guð kendi honum: Ek hefi athugat um hríð, sagði konungr, yðarri rœðu, ok sýnast mér auðsæ allmikil spjöll á yðarri ráðagerð, þvíat í þessi ætlan dugir ekki vetta. Ef þér gangit fyrir hamra ofan ok farit yðr sjálfir, eru þat œrra manna brögð, þeira er eigi kunnu fótum sínum forráð. En með því at þér vilit sjálfir vápn á berast, er þat heiðinna manna háttr, þeira er ekki vitu til guðs. En vér erum kristnir ok kristinna manna börn, ok vitum vér, at hverr sá maðr er sér ræðr bana, at hann á enga ván til guðs. Nú er þetta fjánda áminning, ok skulum vér eigi gera hans vilja, heldr skulum vér snúast til guðs miskunnar. Látum oss þat í hug koma, þó at oss þykki strangr bardagi guðs, þá mun hann þar eigi mikit á leggja, er lítið er til gert. Nú iðrimst vér synda várra, ok vitim vér, at af illífi váru erum vér barðir, en eigi af grimmleik hans, er engi er til. Því skulum vér með mjúklæti ok lítillæti til hans snúast, þvíat sjálfr mælti hann svá: Nemi þér af mér, þvíat ek em mjúklátr ok lítillátr í hjarta, ok munuð þér finna hvíld öndum yðrum. Nú má hverr þat sjá, at betra er at lúta með góðum hlutum til guðs miskunnar en hrapa með úráðum í fjándans hendr. Vil ek, at því játi þér, at heit þat, er ek ræð upp at taka, skulu þér allir undir ganga. Nú skulu vér allir kalla til guðs ok sællar Marie ok hins helga Ólafs konungs með bœnum helgum.

Lauk konungr svá sínu máli, at þegar áttu þeir handfesti at heitinu, ok allir skyldu undir þat ganga, sem konungr sæi fyrir. En svá mikill ákafi var at hvassleik veðrsins, er konungr tók at tala, at varla námu þeir,

er næstir váru, ok þá er hann hafði fyrir skilt heitinu, þá gerði guð svá bráða miskunn, at engi þóttist vita, hvaðan vindrinnn var á, gerði þá þegar heiðviðri ok sólskin ok svá blítt veðr, sem um mitt sumarskeið væri. Kendu þeir þá ok, hvar þeir váru komnir, ok höfðu þeir þvers farit frá því, sem þeir skyldu. Svá var þá lið hans dasat mjök, at þá féllu niðr 20 menn dauðir á skammri stundu. Nú herðust þeir vel við, þótt förin yrði sein, ok kómust til sætra nökkurra um síðir. Þá leituðu þeir við at taka sér eld, þvíat yfrin var þörfin til, ef fást mætti. Þat var nær miðri nótt. Svá váru þeir farnir mjök, at engi var til fœrr at taka eldinn. Var þetta sem annat, at í einn stað var tilsjáin með guðs miskunn, því at þar lá líf þeira við, ef eigi féngist eldrinn, ok tók sá eldinn, er mestri stýrði giptunni ok öll fylgði ráðagerðin, en þat var sjálfr konungr, er eldinn tók við tinnu ok tendraði þar við kerti, ok fékk þá í hönd sínum mönnum. Gerðu þeir þá eld mikinn ok þurkuðu sik þar við. Þar var einn lítill bœr skamt þaðan, ok fór konungr þannin. Um myrgininn fór konungr á njósn við sumu liðinu, því sem frœknast var, þvíat einstigi var þat þar, er þeir váru allir hirðir, ef þess væri gætt. Var konungr á því varðhaldi tvær nætr. Vildi konungr þá fara í meiri bygð við liðinu. Torfœra mikil var at fara millum bygðanna. Fór konungr þá upp á Valdres ok tók veizlur at búm sínum, ok þaðan í Guðbrandsdala, var honum búin hálfs mánaðar veizla at konungsbúi á Steig ok öllum hans mönnum.

*Frá bóndum.*

20 (21. 22). Héðan ífrá var eigi um kyrt at sitja. Bœndr váru þeir 12 á Heiðmörk, er sömnuðust saman at því, at hverr þeira skyldi ráða fyrir hundraðs liði. Ok er konungr spyrr þetta, þá bjó hann ferð sína or dölunum, ok vildi eigi þar verða inni luktr, ef þeir kœmi

fyrir dalsmynnit. Sá bóndi hét Þorgrímr, er mest var fyrir bóndunum ok oddr ok œsir var fyrir þessum úráðum. Konungr bar skyndi at um ferð sína, þvíat sjálfr vildi hann heldr bera njósn en aðrir fyrir honum. Konungr fór sjálfr við hinn fimta mann um nótt til Þorgríms ok hitti hann heima við níunda mann, ok varð fundr þeira með öðru móti, en Þorgrímr hafði til hugat, því at guð skipti svá með þeim, at sá bar hæra hlut, er tignari var, ok var bóndi bundinn, en húskarlar hans barðir. Lauk svá með þeim, at konungr tók þar mikinn fjárhlut, ok hér á ofan galt Þorgrímr konungi hálfa mörk gulls, ok feginn, ef hann kœmi því við. Fór þá konungr aptr til móts við sína menn. Þá tóku þeir Harald Guðbrandsson, ok leysti hann sik 12 aurum gulls. Margir Magnús konungs menn kómust af hlaupi undan ok létu fjárhluti mikla. Þá fór konungr í Eystridali ok kom þar 5 nóttum fyrir jól. Þat hugðu bœndr, at Birkibeinar mundu setjast í kosti þeira um jólin, ok bjoggu engir jólaveizlur sínar. Konungr þóttist eigi at síðr þurfa jólavistina, at bœndr brygðist ekki á beina við hann, ok snýr hann nú á braut þaðan, ok brá á þat, at hann mundi fara austr á Vermaland. En er hann kom austr at Eiðaskógi, skildi hann lið sitt ok lætr fara hundrað manna austr yfir skóginn á Vermaland. En konungr snýr aptr við 2 hundruð manna, þvíat hann þóttist þá vita, at bœndr mundu hafa búnar jólaveizlurnar, þegar þeir Birkibeinar váru á brautu. Kómu þeir þá at jólum aptr í bygðina, ok varð þá öllum at vera jafnheimilt, hversugi sem vasikanpinum þótti. Hafði konungr hinar beztu náðir um öll jól.

### *Frá Erlingi jarli.*

21 (23). Erlingr jarl var nú í Víkinni ok spurði þessi tíðindi. Lét hann þá bjóða út leiðangri á bak jólum ok hugðist Birkibeinum mundu koma dyn fyrir dyrr ok teppa þá inni í dölunum, ok taka þá í

kví sem sauði til skurðar. En þar mœtti ráð ráði, ok hafði Sverrir konungr sét við því snemma, þvíat hann tók hinar fyrstu veizlur í norðanverðum dölum, ok sótti svá suðr at mynninu, sem á leið jólin, ok var hann fyrr austr á Vermalandi, en jarl kœmi upp þannig, ok áttu þeir at blístra í spor honum. Erlingr lætr þá, at hann muni fara austr eptir þeim Birkibeinum, en Vermar hnektu því, ok kváðu jarl aldri verri ferð farit skyldu hafa en þá, ok feldu brota fyrir hann á skóginum, ok við þat alt hvarf hann aptr í dala.

*Fra Sverri konungi ok her hans.*

22 (24). Sverrir konungr samnar nú saman öllu liði sínu ok reið við 5 hundruð manna ofan í Víkina til bús Símunar í Skríksvík, tóku upp búit en brendu bœinn ok öll skip hans. Þeir ráku ok austr á Vermaland 40 nauta. En er Símun spurði skaða sinn, samnaði hann liði miklu. Símun var höfðingi mikill, ok þorði engi maðr á mót gera því, sem hann vildi at væri. Dró hann saman á lítilli stundu 4 hundruð manna ok 20. Símun fór þá upp með Gautelfi, er konungr var staddr í einni lítilli bygð, ok skipt liði hans til gistinga, vissi konungr þá ok eigi svá bráðliga ván úfriðar. Konungi kom njósn um nóttina, er vinir hans sendu honum af Gautlandi, at Símun var nær kominn at honum með úvígjan her. Konungr klæðist þá ok sendir boð öllum sínum mönnum á sinn fund. Var þat seint, þvíat liðit var hér ok hvar. Konungr fór í skóg, þann er heitir Húfunesskógr, ok beið þar sinna manna. Ok er liðit kom saman, spurði hann menn ráðs, hvat mönnum sýndist tiltœkiligast, sagði ok svá, at honum sýndist, sem þeim mundi um megn verða at berjast á móti Magnúsi konungi ok Erlingi jarli, ef þeir skyldi flýja fyrir lendum mönnum, fyrr en þeir vissi, hvat fyrir væri, þótt þeir hefði meira lið. Allir kváðust heldr berjast vilja en flýja fyrir Símuni,

ok ætluðu þó eigi jafnmikit liðit, sem var. Fóru síðan á mót Símuni ok fundu fyrir dag í svá miklu myrkri, at nær sá engir aðra. Var sú hríð hörð ok ekki löng. Féllu af Símuni 40 ok hundrað, en af konungi 7 menn. Símun flýði þá við öllum sínum mönnum.

*Sverrir konungr fór til Konungahellu.*

23 (25). Eptir þetta byrjar Sverrir konungr ferð sína til Konungahellu, ok fékk þar fjárhluti mikla þeira manna, er flýit höfðu fyrir honum. Hann var þar þá eigi lengr en 2 nætr. Þaðan fór hann til Ljóðhúsa ok dvaldist þar nökkurar nætr. Þá drógu þeir Magnús konungr ok Erlingr jarl lið saman svá mikit, at alla lenda menn, þá er váru í Víkinni, höfðu þeir með sér, en þó bar svá til, at hvárigir vissu til annarra, ok fórust þó beint at móti. Þat var eina nátt, at eigi var lengra millum þeira náttstaða en röst, ok vissu þó hvárigir til annarra. Fóru þá enn hvárir móti öðrum, til þess er millum þeira var einn fjórðungr. Þá varð Sverrir konungr varr við ferð þeira feðga, snýr hann þá þegar aptr austr á Vermaland. Þá hafði hann stefnu við alla hina ríkustu menn, ok spurði, ef þeir vildi eiga við hann samband, ok væri hann hlífskjöldr fyrir þeim. Þeir játu því gjarna at berjast svá með honum, sem hann væri þeira konungr. Sunndælir mæltu ok slíkum orðum við konung. Þá er þeir Magnús konungr ok Erlingr jarl spurðu þetta, hurfu þeir aptr. Þá sendu þeir Orm konungsbróður á Upplönd, þvíat þar var frændaafli hans allr, skyldi hann sitja þar fyrir Birkibeinum, ef þeir kœmi þar fram. Sverrir konungr býr þá ferð sína alt í Eystrasalt ok hefir þá eigi meir en 2 hundruð manna. Ok er hann kom til Járnberalands, feldu þeir brota fyrir hann ok vildu ekki, at hann fœri þar yfir. Konungr reið fram at brotanum ok talaði við þá, ok lauk svá, at þeir leyfðu honum yfirferð, ok gerðu honum hinn mesta farargreiða at hvívetna.

*Sverrir fór í Helsingjaland.*

24 (26). Þaðan fór konungr í Helsingjaland, ok er hann kom þar, er Alftar heita, þá mœtti hann þar miklu fjölmenni, ok var þat lið alt búit til bardaga. Þeir höfðu lagt við níðingsorð hverjum, er þeim leyfði yfirferð. Þat fylgði ok, at þeir leyfðu engum manni á sitt þing at koma ok ekki orð við þá at tala. Þat varð um síðir, at þeim var leyft at koma á þingit ok heyra þar mál manna. Konungr bað sína menn vera viðbúna, hvat sem þessi lýðr tæki bragðs. En er landslýðrinn sá þat, þá skaut þeim skelk í bringu. Var þá lofat konungi sjálfum at tala nökkurum orðum. Þá mælti konungr: Eigi er oss kunnigt, hverjar sakargiptir þér hafit við oss, en at því er yðr hyggjanda, at vér eigum allir einn guð, ok köllum hann várn föður, þá er oss þat nauðsyn, at hverr hafi frið við annan, ok gæti hverr annars, sem sjálfs síns, þvíat vér höfum yðr aldri mein gert. Hyggit nu at, hvat þér eigut at launa Magnúsi eða Erlingi. Síðan lét hann fram leiða hross tvau ok kvað slátra skyldu, sagði þat á hvert land fara mundu, ef þeir sperði svá mat sinn, at kristnir menn þyrfti at eta hrossakjöt hjá þeim. Ok er konungr lauk máli sínu, þá bauð sá konungi til veizlu með 70 manna, er áðr hafði níðingsorð við lagit, ef hann næði yfirför. Síðan bjóða bœndr honum ok öllu liði hans á veizlur. Jamtr spurðu, hversu Helsingjum hafði farit, ok taka þeir vel við konungi. Fór hann at veizlum austan um landit, treystist hann nú vel þeira ummælum ok sendir fyrir sér liðit til gistinga í bygðina. Var þá eptir með konungi nær hundrað manna. Þat var eitthvert sinn um miðnætti, at konungi var borin njósn, at Jamtr höfðu samnat austan af landinu her miklum ok ætluðu at drepa hann ok alt lið hans. Konungr klæddist þegar ok kvezt óttast mjök um menn sína, er í bygðina höfðu farit. Fór konungr á mót Jamtum við því liði, sem þá var með honum. Þeir fóru í þrimr flokkum Jamtr ok kringðu

svá um konung, at or sinni átt skyldu hverir at honum koma. Ok er konungr fór yfir vatnsvík nökkura á sundinu milli Undurseyja ok meginlands, þá kom á mót honum herr Jamta, ok var hringr sleginn um þá, ok höfðu Jamtr þá 12 hundruð manna. Þá mælti konungr við menn sína: Hafit þér þat orðtak, sem þér heyrit, at Jamtr hafa, ok heimtumst þegar or her þeira, er vér megum, út í eyna, en veitum þeim fyrst harða árás, ok freistum, ef þeir vikni fyrir. Birkibeinar æptu heróp ok runnu fram djarfliga, en Jamtr sóttu at þeim hvaðansæfa. Var þá mikill bardagi ok hörð hríð. Svá var myrkt af nótt, at engi kendi annan. Heimtust Birkibeinar þá or þys bónda ok upp í eyna, var þá gengin hörð hríð. Bœndr fundu þetta eigi allskjótt, ok börðust lengi sjálfir, var þá ok nær dagan. En er Jamtr fundu, at þeir drápust sjálfir, þá hlaupa Birkibeinar á þá svá fast, at bœndr bugna fyrir, ok því næst flýðu þeir, en Birkibeinar fylgðu þeim bjargvel ok drápu af þeim nær hundrað manna. En eptir um myrgininn kom konungr saman öllum sínum mönnum. Leituðu Jamtr sér þá griða ok fengu konungi gísla ok sættust þá við konung. Lagði konungr á þá stór gjöld, játa þeir þá honum hlýðni, fékk hann þeim þá sýslumenn, ok festu þá þat mál með margra manna eiðum. Ok er þetta gjald var alt lukt, skildust þeir við svá búit.

*Ráðagerðir Sverris.*

25 (27). Hér eptir býr Sverrir konungr ferð sína norðr um fjall, ok kómu fram í Naumudal, ok fékk sér þar skip, lögðu þá út í Skillingar. Konungr átti þar húsþing. Hann leitaði þá við liðit, hversu þeir skyldu hátta ferðum sínum, sagði, at honum sýndust vera þrír kostir á. Sá einn at fara norðr á Hálogaland ok hafa þar slíkt, er féngist; annarr at fara til Björgynjar ok vita, ef þeir féngi nökkut unnit á úvinum sínum; þá

væri sá til, at fara or landi ok vestr í eyjar, ok væri þess meiri ván, at þeir féngi þaðan nökkurn liðsafla; eða herja þá til Írlands eða annarra Vestrlanda, lézt þat ætla, at því meiri mundi úvinsæld Erlings, sem hann væri lengr í Noregi. Liðit svaraði ok lézt vilja inn til bœjarins, ok töldu ekki fyrir mundu verða at ná bœnum, sögðu hvárki til varnar konung né jarl, sögðu konung eiga þar fyrir marga vini. Konungr svaraði: Úfúss em ek þessa, hefir mik svá dreymt til; sýnist mér ráðligra, at þér víkit eptir mínum vilja. Liðit vildi ekki annat en til bœjarins. Konungr sagði þá ráða mundu. Ok fóru þeir at úvilja konungs suðr til Þrándheimsmynnis, ok er þeir kómu til Fólsknar, sagði konungr, at hann vildi um suðr ok vita, hversu þeim veitti tilræði at fara til Björgynjar. Allir vildu inn til bœjarins, en eigi suðr, sögðu þeim ekki fyrir mundu verða at ná bœnum, ok róa nú inn til Rauðabjarga ok lögðu þar at. Konungr lét þá kalla alt liðit af skipum ok spurði, hverja ætlan þeir hefði á í atlögu til bœjarins. Þeir kváðust ætla at róa inn at bryggjum ok vita, ef þeir næði þar uppgöngu. Konungr svaraði: Ekki sýnist mér þat ráðligt mjök, hygg ek, at bœjarmenn muni eigi ljá oss bœinn til uppgöngu, þvíat þeir munu engrar eirðar vænta af oss Birkibeinum um rán ok fétökur. Er þat mitt ráð at gera eina skútu inn á njósn, áðr en lýsa tœki, fœri þeir yfir fjörðinn fyrir innan Hólm, ok láta þá liggja undir Hlaðahamri svá utarliga, at þeir sæi or bœnum, er ljóst væri orðit, ok láta tjalda sem bezt. En menn allir gangi fyrir ofan Hlaðir ok stefni á ísinn fyrir ofan brúna ok siti þar til lýsingar. En vér róim inn til Flaðka ok svá inn með Gaularási, til þess er vér leggjum við Gullhamar. Þá varir mik þess, þegar þeir sjá or bœnum, at skip liggr við Hlaðhamar, at þeir muni þá róa or bœnum; munu þeir hyggja, at þar sé lið várt alt. Mætti þá vera, at vér næðim bœnum ok ættim þeim hann

at verja. Er þá enn vant at sjá, hverjum bezt veitir, ef vér stöndum allir jafnhátt. Guðlaugr svaraði: Eigi mun oss þykkja lið várt of mart, þótt vér tvískiptim því eigi. Fylgðu því ráði fleiri. Var þat afráðit, at þeir skyldu róa at bœnum, þegar ljóst væri. Konungr lézt vera mega þar, sem þeir váru, en kvað þeim illa mundu gefast sín einræði á mót hans ráðagerðum ok vilja.

*Tala Eysteins erkibyskups.*

26 (28). Eysteinn erkibyskup var í bœnum ok hafði látið blása til móts annan daginn áðr, ok kvezt spurt hafa til Birkibeina, at þeir váru komnir ofan norðr í Naumudal: ok væntum vér at þeir muni vitja hingat fjarðarins, hafa þeir lið lítið ok smá skip, en lið mótt ok vesalt. Er þat úfallit bóndum ok kaupmönnum at gefa upp eignir sínar fyrir þjófum ok illmenni, er Sverrir hefir saman harkat. Nú viljum vér heldr veita yðr nökkurn styrk, ef þér vilit halda vörn fyrir bœnum. Lézt til mundu leggja sitt skip ok húskarla. Bœjarmenn tóku þat með þökkum, þeir höfðu 4 skip, en hit fimta byskups skip, var þat mest ok bezt skipat, fyrir því var Sigurðr son Özurar balla. Bœjarmenn höfðu vitavörð á Digrmúla, ok er þeir sjá um myrgininn, at skipin váru við Rauðabjörg, þá slá þeir eldi í vitann. Ok er bœjarmenn sá þat, blésu þeir til skipanna ok lögðu út or ánni. Birkibeinar reru inn með Gaularási, en bœjarmenn út at móti. Þeir mœttust á víkinni fyrir innan Hattarhamar. Sverrir konungr hafði 4 skip, ok var eitt tvítugsessa. Tókst þar bardagi mikill, veðr var gott, á landnyrðingr léttr ok hóf skipin inn at landinu öll saman. Ok er þeir höfðu barizt um hríð, þá fór fram erkibyskups skip, þat hafði orðit seinna or bœnum. Birkibeinar sá þat ok þótti sér horfa úvænt, þvíat áðr veitti þeim þungt. Brast þá flótti á Birkibeinum, ok hljópu á land af skipum sínum. Sverrir konungr var í kufli blám síðum, hann

fór fram mjök snemma eptir skipinu ok ætlaði til landgöngu, ok er hann kom fram um siglu, þá skauzt niðr þilja undir fótum honum, ok féll hann í rúmit. Menninir hljópu þá svá þykt yfir hann, at hann mátti lengi ekki upp standa. Sá maðr fór í síðara lagi, er Helgi hét ok var kallaðr byggvömb. Helgi kendi konung ok mælti: Illa munum vér skiljast við várn konung. Hann fékk í öxl konungi ok studdi hann ok reisti hann upp or rúminu. Konungr mælti: Helgi! segir konungr, konungaðu nú eigi í meira lagi fyrst. Fóru þeir þá á land báðir saman, ok er þeir kómu upp í fjöruna, kómu þar at þeim 3 bœjarmenn. Helgi sneri á mót þeim, en konungr kleif upp í bakka einn brattan, ok er hann var mjök kominn á upp, þá steig hann á kuflinn fyrir, ok skruppu honum fœtrnir, ok hrapaði hann niðr í fjöruna. Þá hljóp at honum einn maðr ok vildi höggva til hans. Helgi vinzt undan þeim, er áðr sóttu hann, ok hjó þenna mann banahögg. Konungr leitar þá upp í annat sinn. Konungr var orðinn sárr á fœti ok var skotinn með gaflaki í bardaganum. Þat sár veitti honum Serkr af Rjóðum. Nú fóru þeir konungr ok Helgi ok fluttust upp um Gaularás, kom þá til þeira liðit. Konungr veik fram á fjallit ok hvíldist þar. Þeir heyrðu umrœðu bœjarmanna, hvárt Sverrir mundi fallinn. Þá svaraði Helgi hátt, svá at þeir heyrðu: Sverrir konungr gerir yðr enn harðari hríð, áðr hann sé dauðr. Þar höfðu margir góðir drengir fallit: Sigurðr af Saltnesi, Jón ketlingr, Vilhjálmr féll í fjörunni, Guðlaugr stallari varð sárr mjök ok komst upp í ásinn, hann var í skallatskyrtli. Þar mœtti hann bónda einum, ok þóttist hann sjá, at hann var af flóttamönnum. Bóndi hafði öxi í hendi ok hjó til Guðlaugs, þar sem mœttist háls ok herðar. Guðlaugr féll við höggit, ok þóttist bóndi hafa drepit hann, ok hjó á hann hrís ok fletti af klæðum. Svá skildust þeir. Guðlaugr stóð upp litlu síðar ok

komst til eins litils bœjar, var þar vel við honum tekit. Fór hann síðan til móts við Sverri konung, ok greru sár hans. Birkibeinar kölluðu hann síðan Guðlaug gnitaskör.

*Dráp Serks ok 12 manna.*

27 (29). Hér eptir fara þeir á Upplönd, ok sumir koma ofan á Mœri til Serks ok drepa hann við tólfta mann. Síðan fara þeir austr til Víkr. En er þat spyrr Magnús konungr ok Ormr konungsbróðir, búa þeir ferð sína at leita Birkibeina. Sverrir konungr talar við sína menn, ok sagði þat hafa verit gert mjök at úvilja hans, er þeir börðust við bœjarmenn í Þrándheimi: höfum vér þar látið marga drengi góða, ok er menn hafa spurt várar úfarar; þá erum vér nú æ reknir ok rjáðir, hvar sem vér komum, en áðr þessi orrosta væri, höfðum vér jafnan sigr, óttuðust þá ok flestir at fara á mót oss. Nú munuð þér spurt hafa, at Magnús konungr ferr eptir oss með lið mikit, ok munum vér litla hríð rekast undan honum, áðr bæði mun hata oss þegn ok þræll, munum vér þá falla með litlum orðstír, sem þeir allir er í flótta falla. Nú sýnist mér drengiligra, þótt vér hafim lið lítið, at snúast á mót úvinum várum: er oss betra at falla með orðstír miklum, ef vér berjumst við sjálfan Magnús konung, en ef vér sigrumst á honum, þá mun þaðan af vaxa várr styrkr. En þess er eigi ván, at vér munim ganga til lands þessa, ef vér sjám eigi eitthvert sinn á lopti merki Magnús konungs. Höfum vér nú ok hölzti lengi rekizt um landit fyrir úvinum várum. Konungr talaði þá fyrir liðinu mörgum fögrum orðum ok eggjar þá mjök, lézt vel hugr um segja. Varð at máli hans mikill rómr.

*Bardagi við Hirtubrú.*

28 (30, 31). Eptir þetta fara þeir þar til, er þeir koma yfir brú á á þeiri, er Hirta heitir. Var þá Magnús konungr kominn nær þeim. Lét Sverrir konungr fara

liðit í kjörr nökkur skamt frá brúnni. Magnús konungr ok Ormr hafa nú sanna njósn af ferð þeira Birkibeina, ok er þeir koma at brúnni, lét konungr þegar fara yfir merki sitt, ok fylgði sjálfr, ok svá Ormr. Birkibeinar hlaupa nú á þá, tekst þar bardagi harðr ok eigi langr. Féll mjök lið Magnús konungs, en hann sjálfr flýði aptr yfir brúna ok svá Ormr, ok hvárrtveggi sárr. Lét Magnús konungr í þeiri orrostu mart manna. Eptir þat skutust þeir á um ána þvera, ok síðan skiljast þeir. Fór Magnús konungr aptr til Túnsbergs til skipa sinna ok síðan austr með landi. En Sverrir konungr ferr upp á Raumaríki ok austr hit efra til Ljóðhúsa, ok þá spyrr hann, at Magnús konungr var í Konungahellu, ferr þá þangat, ok kom á úvart. Féllu þar nökkurir menn af Magnúsi konungi. Hélt Magnús konungr ofan eptir ánni. Sverrir konungr lét þar brenna skip nökkur. Magnús konungr fór þá inn í Osló ok sat þar um hríð. Sverrir konungr leggr nú undir sik allar hinar eystri sýslur ok tók þar gjöld, váru þá í Víkinni hvárirtveggju, ok veittu hvárir öðrum árásir. Sverrir konungr fór eina nótt við sjaunda mann á njósn at gildra enn til veiða, ef í hendr bæri. Konungr reið í einn skóg skamt frá Saurbœjum. Á þeiri sömu nótt fór einn sveitarhöfðingi af liði Magnús konungs við 50 manna, ok vildi hann freista, ef hann féngi nökkut drepit af Birkibeinum. Nóttin var myrk. Þá heyrði Sverrir konungr reið þeira, þeir váru drukknir mjök, einn maðr mátti ríða senn. Sverrir konungr bað sína menn vera hljóðsama: ok höfum boga vára ok stöndum tveim megin götunnar, ok er þeir koma gegnt oss, þá skjóti hverr sem má tíðast, ok kann vera, at þeir hyggi lið várt meira, en svá sem er. En ef vér verðum ofliði bornir, þá megum vér forða oss. Nú skutu þeir sem tíðast eptir málinu hinna, en svá var myrkt, at hvergi sá frá sér, en þeir er síðar riðu, vissu eigi, hverju sætti, er hinum fórst svá úgreitt, er fyrri fóru, ok flyktust

saman allir, ok vissu eigi, hverju gegndi, en Birkibeinar skutu æ sem tíðast. Hinir hugðu, at vera mundu margir menn á skóginum, ok taka nú undan, en Birkibeinar sœkja eptir, meðan þeir máttu. Um myrgininn, er ljóst var vorðit, ok þeir fóru aptr, fundu þeir 18 menn drepna ok marga hesta.

*Slag í kaupangi.*

29 (32). Um haustit fór Sverrir konungr norðr til Þrándheims, ok veitti slag í kaupangi mönnum Magnús konungs ok fékk sigr, tók þar 10 skip. Eptir um várit fór hann út eptir firðinum með lið sitt ok suðr á Mœri. Hann fór útleið, er suðr sótti. Ok er þeir sigldu norðan at Staði, þá kom þar á mot þeim Magnús konungr ok Erlingr jarl, ok Ormr konungsbróðir ok mart lendra manna, ok höfðu allmikinn her ok stór skip. Sverrir konungr snýr nú á haf út þvers, gerðu bæði, at þeir sigldu ok reru. Slíkt sama gerðu Magnús konungs menn, ok dró þegar saman með þeim. Erlingr jarl eggjar nú sína menn í ákafa ok skipar til atlögu, sagði, at þá mundi fund þeira saman bera ok Birkibeina, bað menn þá minnast, hversu mart ilt þeir höfðu gert í manndrápum ok ránum, bað menn þat varast, at gefa neinum grið, en vel kveðst honum þykkja, at þeir fœrði honum Sverri, ef hann yrði handtekinn. Þessu jáðu allir. ok herða nú eptir sem mest. En er Sverrir konungr sér, at miklu meira ganga skipin Magnús konungs, sá hann engi orráð, þau er hlýða mætti, ef eigi veitti guð þeim miskunn framar, en þá mundi líkligt þykkja. Sverrir konungr hét þá á hinn helga Óláf konung, ok mæltist fyrir með mörgum fögrum orðum. Ok á þeiri stundu lagðist á sjóinn þoka svá þykk, at ekki skip sá frá öðru. Þeir Magnús konungr beita þá inn undir land. Erlingr jarl mælti þá: Eigi fór þá svá, er vel vildi. Þeir koma nú saman herinum í Hereyjum. Jarl kallaði þá höfðingja til tals

við sik ok sagði svá, at hann þykkist eigi vita, hvárt Birkibeinar munu hafa beitt með landi norðr eða suðr, er þeir hafa lands leitað. Sýnist mér nú, sem hvárttveggja muni lið fyrir þurfa. Vil ek, segir hann, at suðr fari til Björgynjar erkibyskup ok Ormr konungsbróðir, ok aðrir lendir menn ok skipstjórnarmenn, þeir sem ek nefni til, en vit Magnús konungr munum snúa norðr. Ok var svá gert, sem Erlingr mælti.

*Frá Magnúsi konungi ok jarli.*

30 (33). Ok er þeir Magnús konungr ok jarl koma á Norðmœri, spyrja þeir, at Sverrir konungr hafði siglt af hafi utan at við Smjöl. Sverrir konungr fór alla leið norðr til kaupangs ok lagði skipum sínum við bryggjur. Magnús konungr ok þeir Erlingr fara norðr eptir Birkibeinum, ok er Sverrir konungr sér segl þeira, áttu þeir þá skamt til bœjarins. Sverrir konungr lét þá blása sínum mönnum til tals ok segir þeim ætlan sína, at hann vill ganga frá skipum sínum ok mælti, at engi skyldi svá djarfr, at flytti eptir sér fleira en vápn sín ok þau klæði, er hann stóð í. Eptir þetta væpndust Birkibeinar. Skipin flutu öll við bryggjur, húðföt lágu í rúmum, hálfrýmiskistur þeira stóðu á skipi, luklarnir váru settir í lokin. Ok er þeir Magnús konungr ok Erlingr jarl reru utan í ána, þá géngu Birkibeinar upp um brú. Ok svá hefir Sverrir konungr sjálfr sagt, at hann mátti því helzt hœlast, at fá dœmi mundu til þess vera, at flóttamenn hefði svá skilizt við fjárhlut sinn, sagði enn eigi víst, nema ymsir neytti fjár eða klæða annarra. Magnús konungr ok Erlingr jarl lögðu at út við Bröttueyri fyrir utan Skipakrók, ok géngu þar upp. Þar er jarl hljóp á land, steyptist hann á knéin ok stakk niðr báðum höndunum ok mælti: Fall er farar heill. Fóru þeir þá upp um stræti, hverr með sína skipsögn, sem búinn varð. Ok er jarl kom fyrir ofan byskupsgarð til brúarinnar, þá fór merki

Sverris konungs ok stefndi þjóðleið upp til Kleppabús. Jarl sótti nú upp á Sprotavöllu. Sverrir konungr lá í dal nökkurum skamt fra brúnni við sumu liðinu. Jarl vissi eigi, at konungr væri þar við brúna. Birkibeinar hljópu þá upp, ok skutust þeir á um ána þvera. Jarl bað sína menn ganga or skotmáli ok setjast niðr í Akrinum ok sjá, hvat Birkibeinar hefðist at. Birkibeinar settust ok niðr í öðrum stað. Magnús konungs menn létu sækja mungát ofan í bœinn. Margir bogmenn hvárratveggju skutust á mót, urðu þar sárir nökkurir menn. Ok er á leið daginn, gékk Guðlaugr stallari til brúarsporðsins ok hafði skjöld fyrir sér ok kallaði á lið Magnús konungs ok lézt vildu tala við þá. Ívarr horti svaraði af liði Magnús konungs, ok bað hann tala slíkt, sem hann vildi. Guðlaugr mælti: Sverrir konungr vill gera Magnúsi konungi 3 kosti. Sá einn, at hann gangi yfir brúna, en hann gangi langt í frá, meðan fylki þeir liði sínu á Sprotavöllum, ok hafi sá gagn, er guð vill. Hinn býðr hann annan, at þeir berist út við borg ok búist þar við í œrnu tómi, ok látum skapat skera. Sá hinn þriði, at þeir fari út á Eyrar ok fylki þar, ok berist þar til þrautar, ok berjast vill Sverrir konungr nú, ef hann má ráða, segir Guðlaugr. Þá gékk Ívarr í Akrinn til jarls ok segir honum þessi boð. Magnús konungr var sofnaðr hjá jarli. Erlingr klappaði hendi sinni á bak honum ok bað hann vaka. Konungr spurði, hvat um væri at vera. Jarl sagði konungi þessa kosti, er Sverrir prestr hafði þeim boðit. Konungr bað hann kjósa. Jarl lézt engan kjósa mundu, kvezt heldr skyldu gera honum kosti. Ívarr sagði þá Guðlaugi svör jarls. Síðan sagði Guðlaugr Sverri konungi. Eptir þat tóku Birkibeinar til göngu, stefndu þeir upp til Kleppabús. Þeir háttuðu svá göngunni, at hverr gékk eptir öðrum, þótti þá mikit at sjá liðit, áðr hinn síðarsti maðr gékk. Konungr fór til bœjar þess, er Kot heitir, ok lét þar taka ofan hús ok gera af flota, fluttust þeir yfir Nið á

flotanum. Síðan fóru þeir til Stafs ok fluttust yfir Gaul á eikjum, ok er þeir váru yfir komnir, bað konungr menn hvílast ok lét sér vera höfugt. Konungr sofnar skjótt, ok er komit var at náttmáli, þá kom þar bóndi einn ok fór með maltklyfjar ok ætlaði í bœinn með at fara. Konungr vaknaði ok spurði, hvat kœmi. Birkibeinar sögðu, at þar kom einn búandi. Þyrptust þeir at honum, ok létu sem þeir mundu fala maltit. Konungr bað hann fara, sem hann hafði ætlat: ok seg satt frá, at þú hittir Birkibeina, ok þeir váru komnir yfir Gaul, ok ætla þeir náttstað sinn at Meðalhúsum. At því skiljast þeir. Dveljast þeir þar 4 nætr, áðr þeir sœkja til bœjarins annat sinn.

*Fra Erlingi jarli*

31 (34). Einn aptan er jarl var mettr, kom til hans Sigurðr Nikulásson ok Jón af Randabergi. Þá mælti Sigurðr: Hvárt eru greiddir útverðir, herra? Oss er sagt, at Birkibeinar muni brátt vitja vár. Væri þat ráð at blása liði út til borgar með vápnum, ok væri vér viðbúnir, ef þeir vitja vár hingat í bœinn. Þá svaraði jarl: Ek vilda gjarna, at þat sannaðist, at þeir kœmi hingat, þvíat þá munu þeir hafa skapnaðarerendi, en úhræddir munu vér sofa náttlangt fyrir Birkibeinum, þvíat þeir hafa snúit upp til fjalls, ok eigi mun Sverrir þora at sœkja hingat at oss, ef vér verðum áðr varir við, sem nú er. Þá mælti Jón af Randabergi: Þetta skyldi oss gott heit, er nú heitr jarl oss, at vér þurfim ekki at varast Birkibeina, en mæltu þat sumir, at þér gefit meira gaum, herra, at gera yðr drukna af miði eða víni, en gera ráð fyrir liði yðru. Jarl reiddist ok mælti: Þat hefir verit sjaldan mælt við mik, at eigi hafa ek hölzti varr verit, en nú veit ek eigi, hvárt heldr er, at ek mun enga ætlan kunna fyrir liði þessu, eða munu þér vera heldr hræddari, en þurfi. Nú skulu þér liggja úhræddir þessa nótt, þvíat nú skal ek sjálfr halda

vörð í nótt, ef þér trúit mér, ok hafði þat fyrr þótt nökkur hlít, ok áttum vér þá meira ofrefli en nú. Géngu þeir Jón ok Sigurðr þá til skipa sinna, en jarl fór til hvílu sinnar ok lagðist niðr, ok alt lið hans, nema útverðir váru greiddir at vanda.

*Tala Sverris.*

32 (35). Nú er at segja frá Birkibeinum, at þeir koma í nætrelding utan á Steinbjörg. Segir konungr þá liðinu, at hann ætlar í bœinn at jarlinum. Ok er hann kom á ásinn, þá steig hann af baki ok féll á kné ok baðst fyrir, ok eptir þat mælti hann nökkurum orðum fyrir liðinu ok bað þá vel fylgjast, þvíat nú munum vér fagran sigr vinna, ok eigi þarf at tjá fyrir yðr, í hverjum nauðum þér hafit verit staddir, áðr vér kómum í þetta land, en tekit lítið gott upp hér til. Slíkt höfum vér upp tekit, sem vér höfum til stundat. Nú liggr nökkuru meira við en fyrr, er bœrinn er í Niðarósi. Hér er nú ok fyrir í bœnum Magnús konungr ok Erlingr jarl ok mart annarra ríkismanna, er nú eptir meiri sœmd at sœkja, en optast mun fœri á gefa, munu vér fá sigr, at því sem mik hefir dreymt til. Sœkit nú því fastara at, sem nú munu þér meira eptir taka en fyrr. Skulut þér nú ok vita, til hvers þér skulut vinna. Sá er lendan mann fellir með sönnum vitnum, sá skal lendr maðr vera, ok þess kyns tignarmaðr skal hverr vera, sem hann ryðr sér til rúms, sá hirðmaðr, er hirðmann drepr, ok taka þar með aðra góða sœmd. Er nú um slíkt at leika, þvíat þeir munu enga hafa sanna njósn af várum ferðum, ok meiri ván, at þeir sé nú hamingjulausir, munum vér þá fá sigr, ok mun guð svá skipta með oss, þvíat þeir hafa lengi yfir váru setið, er með röngu hafa fengit. Gerit nú sem harðasta hríðina fyrstu, ok mun þá vel duga, þvíat þeir munu vera mjöðdruknir ok syfjaðir, ok munu eigi vita, hvat þeir skulu at hafast. En er hann lauk

sínu máli, tóku allir því vel, ok fóru nu ofan um Steinbjörg.

*Tillaga Ívars horta.*

33 (36, 37). Menn Magnús konungs vöktu á Eyrum um nóttina, ok höfðu þar leik. Þeir sá lið Birkibeina, er þeir fóru utan um Steinbjörg, var þá blásit. Lið Magnús konungs lá mart uppi í bænum, ok hafði verit dauðadrukkit um kveldit, þvíat konungr hafði veitt þeim um daginn. Jarl stóð upp ok klæddist ok bað menn væpnast, þá kom Ívarr horti frændi jarls ok mælti: Lið várt er mart uppi í bœnum, munu vér því eigi vel saman koma, er niðr hefir lagzt dauðadrukkit. Er þat mitt ráð at blása öllu liðinu til skipanna ok láta síga skipin frá bryggjum ok búast um í tómi ok berjast, ef oss sýnist, ella róm vér braut, þvíat bœjarlýðr sjá mun oss vera útrúr. Þá svaraði jarl: Eigi veit ek, Ívarr, nema þetta væri ráð, en eigi má ek þat vita, at djöfulsprestr þessi Sverrir setist í rúm sonar míns. Stóð jarl þá upp ok bað alla fylgja sér. Géngu þeir þá upp allir til Kristskirkju. Þar kom þá til móts við jarl Magnús konungr við sínu merki ok Jón af Randabergi, Ívarr horti, Sigurðr Nikulásson. Þeir lögðust allir niðr fyrir kirkjunni ok báðust fyrir. Þá snerist jarl frá kirkjunni ok mælti: Standit upp ok takit vápn yðar, vera kann, at sumum sé kostr at liggja hér um hríð. Erlingr jarl hafði rauðan kyrtil af fustani ok silkihúfu, spangabrynju, ok spent eigi til loks at sér fyrir, ok brugðit sverð, ok kastaði upp í hendi sér ok mælti: Enn skulu þér þat segja, at sjá hinn gamli skal kunna at beita sverðinu. Ok bað lúðrsveininn blása, ok er þeir kómu út um stöpul, sá jarl á tvær hendr sér ok mælti: Hvar erum vér nú allir? Sverrir konungr hafði or Gaulardal 3 hundruð manna, var þat lið mart lítt vápnat, þvíat bœndr höfðu gert heiman verkmenn sína, þvíat þeir þorðu eigi at fara

ok hræddust refsingar Erlings. En er þeir fóru utan um Steinbjörg, hljóp fram maðr einn mikill ok sterkr við lurk einn, en ekki vápn annat. Þá mælti Özurr prestr: Hvert viltu, maðr? Hví hleypr þú svá við trélurkinn, hvar eru vápn þín? Annan veg er at berjast við Erling en þriskja korn, þar má hafa þúst til. Hann svaraði: Ek heiti Eyvindr, en vápn, þau er ek ætla at berjast með, munu koma á mót mér or bœnum, ok jarls menn fara enn með þau. Þá mælti Hjarrandi hviða: Mældu drengja heilastr, þú munt vera góðr maðr. Ok fékk honum spjót ok handöxi, ok bað hann þar berjast með.

*Fall Erlings jarls ok margra annarra.*

34 (37). Nú fóru Birkibeinar utan at bœnum ok fundust á Akrinum fyrir ofan stöpul. Mundu þeir Magnús konungr ok Erlingr jarl hafa aukin 5 hundruð manna. Varð þar hin snarpasta orrosta. Þórir spola bar merki Erlings jarls, ok féllu menn af hvárumtveggjum ok meir af Magnúsi konungi. Var þá fast sótt at merki Erlings jarls, ok er Þórir var nauðuliga staddr, skaut hann niðr stönginni í Akrinn, svá at hon stóð. Tók þá at síga aptr fylking jarls, svá at merkit stóð á bak þeim Birkibeinum, er mest sóttu fram. En þeir er síðar géngu, hugðu, at jarl mundi þar fylgja, váru þá margir búnir til at flýja. Ok er þetta fann Sverrir konungr, lét hann höggva niðr merkit. Í þessu fékk Erlingr jarl lag af kesju, á hann miðjan. Þá mælti maðr: Hættligt lag, herra, sagði hann. Jarl svaraði: Fylgi vel merki Magnús konungs, ekki mun mik saka. Litlu síðar gékk nær jarli Özurr prestr ok Helgi Þorfinnsson. Erlingr jarl hjó Özur prest um andlitit þvert, ok var mikit sár ok ljótt mjök. Eptir þat féll Erlingr ok nær öll sú sveitin, er næst honum gékk. Eptir þat flýði liðit. Magnús konungr flýði í bœinn, hann komst á Buðina, er jarl hafði stýrt ok fór með hana út or ánni. Þar féll á Akrinum Sigurðr Nikulásson, Jón

af Randabergi, Ívarr horti, Einarr litli lendr maðr, Bótólfr or Fjörðum ok synir hans tveir. Björn bukkr hljóp út á ána, hann var í brynju, hann sökk niðr. Mart annarra manna hljóp á ána, ok týndust þar margir. Ívarr Sveinsson féll þar ok Guthormr snerill. Þessir váru allir lendir menn Magnús konungs. Þar féll 60 hirðmanna. Sverrir konungr tók þar Ólafssúðina, er Magnús konungr hafði stýrt, ok mörg önnur. Þar tók hann þá ok öll sín skip, er hann hafði látit.

*Tala Sverris konungs yfir grepti Erlings.*

35 (38). Lík Erlings jarls var borit til graptar fyrir sunnan kirkju, en nú er gröptr hans í kirkju. Sverrir konungr talaði yfir grepti hans ok mælti: Eigi hœfir, at þagat sé yfir grepti svá göfugs manns, sem nú stöndum vér. Aldaskipti mikit er orðit, ok er nú einn maðr fyrir þrjá, einn fyrir konung, ok einn fyrir jarl, ok einn fyrir erkibyskup, ok em ek sá. Hér eru nú mörg tíðindi at sjá ok vita, þau er mönnum eru þakkandi, eru hér nú bornir margir líkamir þeira manna, er fylgt hafa Magnúsi konungi. En þat er sem mörgum er kunnigt, at Eysteinn erkibyskup ok margir aðrir lærðir menn hafa sagt optliga, at allir þeir er berðist með Magnúsi konungi ok verði land hans ok létist með því, at sálur þeira manna mundi fyrr í paradísu, en blóðit mundi kalt á jörðunni. Nú megum vér fagna hér margra manna heilagleik. Þat megum vér ok ætla, hversu heilagr vera mun Erlingr jarl, er í fyrstu réð því, er Magnús var til konungs tekinn, ok síðan flutt ok stutt hans ríki alla stund hér til. Mun þat nú at sönnu verða mikil hjálp við guð hans árnaðarorð, ef eigi er þat, at erkibyskup hafi nökkut vinhallr verit í várum málum. Hefir nú svá til skipt, at vér stöndum nú yfir þeim, er lengi hafa œgishjálm yfir oss borit ok mörgum öðrum. Sé ek nú hér þann margan hryggvan standa, er fullkátr mundi,

ef svá stœði yfir mínum grepti, þótt hann væri eigi jafnvirðuliga búinn. Þat mál sýnist mér skamsýnligt ok eigi góðgjarnligt, at því sem opt hefir tjáð verit, til hvers vér ættim hvárir at hyggja. Sýnist mér, sem oss megi mikill fagnaðr á vera, er svá hefir til skipt um líf manna, ef vér mættim lifa til nökkurs bata ok með minna ótta en hér til, þvíat eigi munum vér nú þá óttast, er hér liggja dauðir. Nú íhugít þér fyrirheitit erkibyskups: er nú liðin sú stund, at blóðit mun kalt orðit, ok þó at vér megim eigi jarteinum þeira fagna, þá mun nú þó orðit gott til kyksettra í bœnum í þessarri hríð, munut þér eigi þeira mist hafa, heldr munu þeir yðr nú mikit gott gera, ef þér dýrkit þá sem helga menn, sem þér hafit hugat. En ef svá illa er, sem mér segir hugr um, at um þat muni at leika, at brostit muni hafa þau hin fögru fyrirheitin, sem þeim váru heitin, þá munu þeir yfrit lengi hafa goldit þeirar lygi ok loklausu, ok allir þeir er því trúðu. Nú er þat mitt ráð, at þér skiptið á aðra lund til, biðit heldr fyrir þeim, er fram eru liðnir, ok einkanliga fyrir Erlingi jarli, er hann tók svá mikla dirfð til, einn lendr maðr, at hann lét gefa konungs nafn syni sínum, en drap niðr konungasonu ok allar konungaættir ok braut í því lög Ólafs konungs. Vér skulum ok biðja fyrir allra þeira manna sálum, er látizt hafa í þessu vandræði bæði nú ok fyrr, biðja þess guð, at hann fyrirgefi þeim sakar ok syndir ok bjargi sálum þeira. Fyrirgefa vil ek þeim fyrir guðs sakir alt þat, er þeir hafa við mik misgert. Nú geri hverr, sem sýnist, ok hann ætlar sér bezt gegna ok þeim, er fram eru liðnir, minnist þér ok þeira, er svá skjótt eru við heiminn skildir þjónostulausir ok með minna viðrbúnaði ok grimmara hug, en nú mundu þeir kjósa. Vil ek þat ábyrgjast, at yðr skal at mikilli hjálp verða ok miskunn þat gott, er þér gerit fyrir sál þeira, heldr en þat at þeir þurfi eigi bœna. Konungr sneri nú rœðunni eptir siðvanda, þakkaði fyrst kennimönnum sinn

yfirsöng ok fagran formála, allri alþýðu ölúð ok bœnahald, ok bað hvern mann búa svá vandliga um sinn hugðarmann, sem hann vildi, en hann lézt mundu fá menn til at búa gröpt þeira manna, er eigi yrði aðrir til. Lauk hann svá sínu máli, at öllum varð hugþekk hans rœða, ok gerðu margir at góðan róm at máli hans.

*Frá Magnúsi ok erkibyskupi.*

36 (39). Magnús konungr fór með liði sínu suðr til Björgynjar ok hitti þar Eystein erkibyskup ok Orm konungsbróður ok sagði þeim þessi tíðindi. Litlu síðar átti hann þing almenniligt í bœnum ok sagði mönnum frá skaða sínum ok bað menn fulltings. Þá svaraði erkibyskup máli konungs ok sagði alla dugandi menn mundu vera honum velviljaða eptir öllu megni sínu, hefir sá fundr svá farit, sem margir mundu vilja, at þér erut heilir aptr komnir, er allr lýðr elskar. En þótt Erlingr væri maðr vitr ok ríkr, þá þótti mörgum hann ofsamaðr mikill, ok hart undir at búa. At þessu varð rómr mikill, ok játu allir því, at heldr vildu deyja með Magnúsi konungi en þjóna Sverri. Fór þá Magnús konungr austr til Víkr með liði sínu, ok sat þar um vetrinn með miklu fjölmenni. Váru þá með honum margir lendir menn.

*Frá Sverri konungi ok Birkibeinum.*

37 (40, 41, 42, 43). Eptir fall Erlings óx svá mikit ríki Sverris konungs, at engi maðr var sá þá í Noregi, at eigi kallaði hann þá konung, nema Magnús ok hans menn. Þar til þótti ok háðuligt, hvar sem ríkismenn váru staddir í kaupstöðum, ef Birkibeinn var maðr kallaðr, en þaðan frá þótti þat vera nafnbót, ok þeir mikils verðir, er svá hétu, ok þeir hinir sömu, er verit höfðu verkmenn, en sumir ránsmenn eða ribbungar, þeir báru nú skrúð eða skallat ok hin beztu vápn, er áðr höfðu borit hirðmenn eða lendir menn Magnús konungs. Ok þó at menn kendi

þá at sýn, þá duldust við þó, at þeir mundu vera, er fyrr höfðu fátækir verit, ok varla kendu þeir sik sjálfir. Er þat ok mál manna, at eigi hafi fræknara lið verit í Nóregi, en þá var með Sverri konungi, ok þat váttaði hann sjálfr jafnan síðan ok gat hinna fornu Birkibeina, þá er honum þóttu menn slást í drykk, en gæta eigi varðhalds, eða þola eigi vás eða erviði. Sverrir konungr gaf þá mála hirð sinni ok jók við þá nafnbœtr ok setti sýslumenn um allan Þrándheim.

Þat hafði at borizt í Vík austr, at stafkerling nökkur hafði andazt. Hon átti eptir heklu eina, en þar fannst í silfr mikit. Ok er þess urðu varir menn Magnús konungs, þá tóku þeir hekluna ok brendu, en skiptu silfrinu með sér. En er Birkibeinar spurðu þetta, þá kölluðu þeir þá heklu arfa eða Heklunga.

Sverri konung dreymdi, áðr jarl féll, þann draum, er hann þóttist þaðan af vita, hversu sóknin mundi fara með þeim. Hann þóttist sofa í lopti einu í bœnum, ok vissi hann at nóttin var ljós. Hann sá mann ganga inn í loptit ok mælti við hann: Rís upp, Sverrir, ok gakk með mér. Honum þótti standa af honum ógn mikil, þóttist hann eigi öðru treystast, en fara með honum. Þeir géngu upp or bœnum ok þar at, sem eldr var fyrir þeim ok maðr steiktr á glóðunum. Þá mælti draummaðrinn, at Sverrir skyldi niðr setjast ok matast, ok leggr síðan manninn fyrir hann. Hann þóttist segja, at hann hefði aldri hræsindi etið. Þá svaraði draummaðrinn: Þú vill eta ok þú skalt eta, ok svá vill sá, er öllu ræðr. Hann þóttist þá til taka ok eta holdit alt af beinunum, ok þótti hverr biti tregt niðr ganga, ok svá lengi sem hann hafði at verit, þá þótti honum því minna fyrir, sem ofar var. Ok þá er hann kom at höfðinu, vildi hann þat eta, en sá er hann leiddi þangat, tók höfuðit til sín ok kvað þá hætta skyldu. Ok þótti honum þá eigi minna fyrir frá at hverfa en til at taka fyrir öndverðu,

ok sagði þá hinn ríkri ráð. Géngu síðan aptr í bœinn ok til sama innis. Ok er hann þóttist kominn í hina sömu hvílu, þá så hann leiðtoga sinn út ganga, ok eptir þat vaknaði hann. Hafði hann því svá mjök eggjat, at hann þýddi svá drauminn, at maðr så er á eldinum var, mundi vera Erlingr jarl, er þá tók at eldast, ok þeir mundu þá vera eldir at ráðum ok at þroti komnir, en konungr mundi undan komast, þar sem höfuðit var úetit.

Þá drifu til Sverris konungs margir auðgir menn ok ættstórir, fal hann þá mjök trúnað sinn undir Þrœndi, þvíat þeir höfðu alla æfi verit lítt vingaðir Erlingi jarli. Sverrir konungr kallaði jafnan heimili sitt í Þrándheimi síðan, ok gerði þá sér kærsta af öllu landsfólki, sagði ok svá jafnan, at þeir hefði svá verit Sigurði konungi föður hans eða Hákoni bróður hans, ok höfðu jafnan þjónat undir hinn sama skjöld. Sverrir konungr sat þenna vetr í kaupangi.

*Birkibeinar drápu Heklunga.*

38 (44) Um várit bauð Magnús konungr liði út sunnan or landi, öllum almenningi austan frá Líðandisnesi ok norðr um Agðir, Rogaland, Hörðaland, um Sogn ok Fjörðu, Mœri hvárstveggju ok um Raumsdal. Fór hann um várit með allan herinn norðr til Þrándheims. Þar var þá með honum Eysteinn erkibyskup, Ormr konungsbróðir, Níkulás ok Philippus synir Árna konungsmágs, ok allir lendir menn sunnan or landi. Þá var þetta kveðit:

Fylgðu ræsi  
Rygir ok Hörðar  
Filar ok Sygnir  
sem Firða lið.

Mœrir allir  
menn raumdœlskir  
erkibyskup  
öll Þrœndalög.

Magnús konungr kom liði sínu norðr í Þrándheim ok lagði við bœinn at Steini sunnan at Nesi, ok lá þar nökkurar nætr. Sverrir konungr var þá inn í kaupangi, hann gerði frá sér Þórólf rympil, Þjóstar svarta, Eyjólf Aflason, Hávarð

lax, skyldu þeir gildra til veiða, höfðu þeir mikla sveit manna. Þeir kómu á þann bœ, er heitir Langlóar. Þar varð dalr einn ofan til sjófarins, ok er viði vaxinn, þeir lágu þar. Menn Magnús konungs urðu eigi fyrr varir við, en Birkibeinar kómu at þeim. Magnús konungr hafði gengit á land ok ætlaði til baðstofu á bœinn Stein, ok er hann varð varr við þá, fór hann skyndiliga til skipanna. Birkibeinar drápu þar nær 30 manna, ok fóru síðan aptr til kaupangs. Eptir þat lagði Magnús konungr inn til Hólms ok dvaldist þar um hríð.

*Fra Sverri ok Magnúsi konungi.*

39 (45). Sverrir konungr bjóst við í bœnum. Magnús konungr sendi skip í brott frá sér, því stýrðu þeir Birgir görn ok Þrándr hviða. Hann sendi eptir bónda þeim, er Afli hét, ok lét hann fœra sér. Eyjólfr son hans var með Sverri konungi. Hann sendi ok bréf inn til bœjar með þeim manni, er Heðinn hét, ok setti hann þat á, ef hann vildi frelsa líf föður síns, at hann skyldi koma á fund Magnús konungs. Heðinn ferr í bœinn ok fær Eyjólfi bréfit. Honum þótti þetta vandi mikill ok fœrir Sverri konungi bréfit. Konungr mælti: Fáir fœra mér slíkt. Vit skulum finna hér gott ráð til, ok leið hingat þann, er bréfit bar. Sverrir konungr lét gera bréf annat ok sagði svá: Ef þú gerir, Magnús konungr, Afla mein eða grand, þá skal drepa Eilíf eplastöng, Skrýðu-Eirik ok Eindriða slandra fyrir yðr, þvíat synir þeira eru þar með yðr. Þórir knappr var son Eindriða, Úlfr son Eiríks, Gunnarr son Eilífs. Slíkan dauðdaga skulu þeir hafa, sem þér veitið Afla, þat skal Eyjólfr gera. Heðinn ferr nú með þessu erendi ok fœrir Magnúsi konungi bréfit, ok er hann sá, varð hann reiðr mjök ok hljóp fram or lyptingunni ok mælti: Þat sé ek, at þér ætlit at ráða, hvern drepa skal eða hvern lifa láta, en eigi ek. Nú biðja menn fyrir Afla margir, ok þat fékkst um síðir af konungi. Ferr nú Afli heim til búa sinna.

*Frá Sverri ok Magnúsi konungi.*

40 (46). Menn Magnús konungs róa nú nökkura daga inn at Eyrum til tals. Sverrir konungr gékk ofan á móti ok bauð Magnúsi konungi, at þeir skyldu skipta landi í helminga ok vera báðir konungar. Var um þat mart talat, en þó vildi Magnús konungr ekki á þat líta. Magnús konungr gerði ráð sitt ok hans menn, er þeir lágu við Hólminn, hversu þeir skyldu leggja til bœjarins, ok hugðu, at Sverrir konungr mundi tregr at ganga or tréborginni. Marga ráðagerð höfðu þá menn Magnús konungs, er eigi var freistat. Mánadaginn í gagndögum reri Magnús konungr inn at Eyrum, eggja þá hvárir aðra til orrostu. Magnús konungr bað Sverri ganga út af tréborginni ok berjast við sik á Íluvöllum. Þá svaraði Sverrir konungr: Því munum vér já. Ok þetta festa konungar sín á millum, at um myrgininn skyldu þeir finnast á Íluvöllum ok berjast þar.

*Búizt til bardaga.*

41 (46). Þá lét Magnús konungr blása til brautlögu frá Hólminum, ok lögðu at við Ílu utan undir bergit ok géngu þar upp. Þá hafði Magnús konungr skeiðina miklu, ok var hon lögð út um akkeri, en skútur ok smæri skip reru at landi. Gékk Magnús konungr með öllu liðinu upp í Steinbjörg, ok settust þar ok biðu, at sólin sótti á himininn, svá at eigi ætti þeir at sjá í gegn henni, síðan géngu þeir ofan ok fylktu liðinu. Sverrir konungr sótti þá ok út á völluna náliga undir bergit á mót þeim. Magnús konungr skipar hirð sinni ok sínu merki í þann arminn, er vissi at sjónum, þvíat hann sá merki Sverris konungs, hvar þat var mikit ok fagrt, ok hugði, at þar mundi konungr undir vera. En þat merki hafði Guðlaugr ok með honum bœjarmenn, heraðsmenn ok leiðangrslið. Sverrir lét fara merki sitt hit efra með berginu. Magnús konungr hafði sett til mikit lið at veita Birkibeinum

bakfall, var fyrir því liði Nikulás Árnason bróðir Inga konungs. Sverrir konungr setti þar ok lið á móti, var þar höfðingi fyrir því Úlfr af Laufnesi, ok kómu þeir Nikulás at engu gagni Magnúsi konungi. Sverrir konungr talaði fyrir sínum mönnum, áðr fylkingar gengi saman, ok hóf á þessa leið.

*Sverrir konungr talaði fyrir liðinu.*

42 (47). Hér er nú mikill herr saman kominn ok frítt lið, ok mun nú sýnast, at vér munum eiga at etja við mikit ofrefli, er fylkingar þeira standa um alla völlu með gyltum vápnum ok dýrum klæðum, væri þá vel sýslat, ef þér bærit hvárttveggja til bœjarins í kveld. Sé nú, góðir hálsar, gott er at eiga tvá kosti, sá er annarr at vega sigr, en annarr at deyja með drengskap. Eigi er sem yðr sé vísat í skóg til timbrhöggs, er þér skulut jafna höggum við lenda menn Magnús konungs. Er þat skammlaust at þiggja ok veita stór högg. Kemr at því, sem skáldit kvað:

Era sem kolvið kljúfi
karl sá er vegr at jarli.

Svá sagði ok einn bóndi, er hann fylgði syni sínum til herskipa, bað hann vera hraustan í öllum mannraunum: Lifa orð lengst eptir hvern, sagði hann. Eða hvernin mundir þú hátta, ef þú kœmir í orrostu ok vissir þú, at þú skyldir þar falla? Hann svaraði: Hvat mundi þá við at sparast at höggva á tvær hendr? Karl mælti: Nú kynni þat nökkurr at segja, at þú skyldir lifa. Hann svaraði: Hvat þyrfti þá at hlífast við at höggva á tvær hendr ok ganga fram sem bezt? Karl mælti: Í hverri orrostu er þú ert staddr, þá mun vera annathvárt, at þú munt lifa eða deyja, ok ver þú fyrir því djarfr, at alt er áðr skapat, ekki kemr úfeigum í hel, ok ekki má feigum forða, í flótta er fall verst. Þat megu þér ok vita, Birkibeinar, at ilt mun at leita griða undir þá Heklunga, er nú sá

einn til at ljá þeim enskis framgangs, er yðr gott Birkibeinum at reyna sverðin á mjaðarístrunum þeira Víkverja. Vér höfum frítt lið, en þeir hafa ofrefli, svá at þeir munu ekki öllu í lóg koma, er þat þori af liði þeira, er betr væri fallit til brúðmanna en hermanna, hafa þeir meir vanizt miði en herskap. Hirð mín skal fara í móti merki Magnûs konungs, þvíat af hirð Magnús konungs er oss ván snarpastrar orrostu ok atgöngu, en lendir menn munu meir leita sér fœra, en bœndr munu leita at hlífa sér, þvíat þeim er svá gefit, sem skáldit kvað:

Ætla ek mér hina mæru
munnfagra Jórunni,
hvegi er fundr með frægjum
ferr Magnúsi ok Sverri.

Gangit nú vel fram, góðir hálsar! ok gæti guð til.

Þessi mál öll saman urðu þeim at mikilli frameggjan, ok treystust nú enn mjök á forsjá konungs, ok sagði gott hugr um. Þórólfr rympill ok bróðir hans Karl kjötlær ok þeir 12 völdust til at ganga fyrir framan fylkingar í orrostunni.

*Upphaf orrostu.*

43 (48). Nú sigu saman fylkingar, ok var þegar hin snarpasta hríð, ok enga orrostu höfðu Birkibeinar átt fyrr við jafnmiklu liði, ok var þó miklu meira lið Magnús konungs. Þar er fram fór merki Sverris konungs, fylgði hirð hans ok gestir. Þar lét undan síga fylking Magnús konungs, ok brast þar brátt flótti á, en í öðrum stað þar sem fram fór merki Magnús konungs, þá óku þar undan fylkingar Guðlaugs, ok var þar at komit flótta, ok sumir á rás komnir. Sverrir konungr sat á hesti, ok er hann sér úfarar sinna manna, hleypir hann at þeim ok kallar: Hví flýit þér? sjáit þér eigi, at Heklungar flýja til skipanna? ok dugit nú mannliga, ok rekit flóttann hér sem bezt er rekinn. Snúa Birkibeinar nú þegar á móti. Ok er hirðin Sverris konungs sér flóttann, þá snúa þeir þar til er var merki hans ok koma nú á bak þeim. Verðr

þar nú mikit mannfall. Þá mælti maðr: Flýr nú Magnús konungr. Maðr einn svaraði: Eigi enn, sagði hann, ok hljóp at hinum ok hjó hann banahögg. Ok var þat sjálfr Magnús konungr. Flýr hann nú ok alt liðit til skipanna. Þar féll Philippus Árnason ok Brynjólfr blanda son Eindriða Jónssonar. Ívarr galli varð sárr mjök, ok þá er flóttinn var rekinn, reið Sverrir konungr í valinn, ok kom at Ívari ok laut niðr á hestinum ok spurði, ef hann mundi vera grœðandi, ok bauð honum grið. Ívarr kvað þess meiri ván, at sár mundu grœdd verða, ef læknar tœki. Þar var maðr skamt frá sárr mjök, þar var Brynjólfr son Kálfs sendimanns, hann fœrðist á knéin ok hjó til konungs með sverði ok stefndi á hálsinn. Hann brá við stálhúfubarminum, ok kom þar í blóðrefillinn, en sverðit tók eyrat, ok skeindist konungr á hálsinum. Kastaði hann sér þá annan veg af hestinum, en sverðin ok kesjurnar stóðu svá þykt á Brynjólfi, at hann mátti trautt falla fyrir. Þá var ok drepinn Ívarr galli ok Sigurðr skjómi frændi hans. Þessir féllu lendir menn á Íluvöllum, Nikulás möndull, Jón kúla, Kolbeinn Gíslason, Eiríkr laukr. Nikulás möndull var manna sterkastr ok hafði brynju, þá er svá var sterk, at ekki festi vápn á, hann féll loks af mœði. Fletta Birkibeinar hann þá brynjunni ok drápu hann síðan. Sverrir konungr tók skeiðina miklu ok mörg önnur skip. Birkibeinar hljópu á skip ok sóttu út eptir þeim. Út við Digrmúla náðu þeir skipi Eindriða kálfs, en hann komst undan. Annat skip tóku þeir fyrir innan Rauðabjörg, ok tvá vistabyrðinga. Magnús konungr fór suðr til Björgynjar, en sumir hans menn fóru landveg, ok tóku Björgynjarmenn vel við honum, átti hann þá þing, ok báðu bœjarmenn, at hann dveldist þar, ok létu þó meiri ván, at Sverrir konungr mundi þar koma skjótt. Buðu bœjarmenn at verja bœinn með honum. Þá lét Magnús konungr taka öll skip, er í váru bœnum, ok leggja út fra Hólmi ok yfir til Munka-

bryggju, ok strengði alt millum skipanna ok bryggnanna, svá at ganga mátti um þveran Váginn. Menn konungs mæltu, at úráðligt væri at trúa svá vel Björgynjarmönnum at byrgja sik svá inni í Váginum. Þá fór Magnús konungr suðr til Danmerkr á fund Valdimars konungs frænda síns, ok dvaldist þar um hríð.

*Fall Páls Andressonar.*

44 (49). Sverrir konungr fór um sumarit suðr til Björgynjar ok kom þar at Pétrsvöku. Gaf hann þar grið öllum bœjarmönnum. Tóku þeir við honum sœmiliga, sem vert var. Lagði hann þá land alt undir sik. Þetta sumar drápu Birkibeinar Pál Andresson, hann ok mjök mart manna með honum. Hann var hinn mesti vin Magnús konungs. Þann sama vetr í annarri viku langaföstu um nóttina eptir mánadaginn urðu varðmenn Sverris konungs varir við, at langskip reru á Váginn, ok var þar reist merki á einu skipinu. Þeir heyrðu ok vápnabrak mikit. Varðmenn létu við kveða lúðra, ok gerðist þegar brak mikit af Birkibeinum, ok fór sá kurr, at Magnús konungr mundi kominn vera með her sinn. Margir klæddust þar skyndiliga, sumir vápnaðir, en sumir ekki, en allir flýðu, sumir í kirkjur, sumir í fjallit upp. Sverrir konungr var staddr úti í svölunum, þá er hinn fyrsti kom herblástrinn. Þá mælti hann: Nú gæti guð til ok hinn helgi Ólafr konungr! Hann hljóp inn eptir strætinu ok fann engan mann fyrir sér, fyrr en hann kom upp til nunnusetrs, þá reið bóndi einn á mót honum. Konungr bað bónda fá sér hestinn. Bóndi vill eigi láta. Konungr sagði þá búanda, at hann mundi þenna hest láta sik svá mikit kosta, at hann mundi þenna hest með vápnum sœkja, ef hann féngi eigi ella. Svá mikil nauðsyn var honum þá til at ríða, at hann þreytti með kappi til þess reiðskjóta, er eigi fyrir mikit gull mundi hann ríða vilja þeim hesti nauðsynjalaust, þvíat opt sagði hann síðan, at aldri hafði hann verra hesti riðit. Konungr reið þá

upp til Álreksstaða, ok fann þar nökkura Birkibeina. Kómu þeir þá við neðan or bœnum tveir eða þrír, fim eða sjau. Kom þá sá kvittr, at þetta væri bóndaherr en eigi Magnús konungr, ok svá var ok, at þat váru Vörsar ok Norðrhörðar. Jón kutiza réð fyrir þeim. Þeir höfðu róit at yfir við Jónsbryggju, ok géngu þar upp ok skutu á fylking inn á Jónsvöllum, ok kómu mjök svá inn at Vágsbotni. En ekki varð af tilræði í bœinn. Sumu liðinu lendu þeir at Hólmi, ok géngu upp fyrir utan Krists kirkjugarð ok blésu ok œptu heróp. Hljópu sumir inn í konungsgarð, ok fóru heldr údjarfliga. En fyrir því at myrkt var af nótt, svá at Birkibeinar sá ekki lið þeira; þá flýðu þeir fyrir því, en ef þeir hefði vitað um þetta lið, sem var, þá mundu þeir þessa hafa skjótt af sér rekit, þvíat þetta var miklu minni hluti bóndaliðsins, en þat er yfir var á völlunum. En er Sverrir konungr varð hér víss hins sanna, þá lét hann kalla saman sína menn alla, þá er þar váru komnir, ok bað menn snúa aptr í bœinn, ok sagði þeim þegar dragast mundu lið, er þeir heyrði til lúðrs hans Andvöku, sagði at lið þeira mart mundu hlaupit í kirkjur eða fólgizt hér ok hvar í bœnum. Ok er konungr sótti ofan at bœnum, þá dróst honum mjök liðit. En er konungr kom til Ólafs kirkju, lét hann blása Andvöku ok reisa merkit. Þar hafði verit mart Birkibeina. Konungr fylkti fyrir ofan Allra heilagra kirkju, ok bað Birkibeina ganga nú djarfliga fram, sagði þeim mundu skamma raun þat. Birkibeinar báðu þann aldri þrífast, er bœndr óttaðist, ok œptu þegar heróp ok hljópu or fylkingunni ok út á völluna með ópi ok kalli. Bœndr sá á móti dagsbrúninni merkit gnæfa yfir sér, ok skaut þeim skelk í bringu, ok skaut hverr öðrum fyrir sik fram, ok því næst dundu vápn Birkibeina á þá. Bœndr flýðu þá, en Birkibeinar fylgðu þeim bjargvel ok drápu þá niðr sem búfé. Sumir bœndr flýðu til skipanna, sumir týndust á sundi. Kon-

ungr snýr þá inn á völluna með sumu liðinu. Kom þá mart bónda til hans, ok gaf hann öllum grið, er þess báðu. Gékk konungr þá út um bœinn ok mintist til allra kirkna, var þá ljóst af degi. Jón kutiza hafði eigi upp gengit af skipum, þvíat hann var maðr gamall ok hrumr mjök ok þungfœrr. Bœndr reru þegar út or Váginum, er þeir kómust á skipin, ok þótti, sem var, at aldri varð verri ferð farin en sú við jafnmiklu liði, sem þeir höfðu.

*Frá Sverri konungi.*

45 (50). Sverrir konungr fór litlu síðar suðr með landi við skútnaliði ok inn í Harðangr ok mjök víða um Hörðaland, ok tók af bóndum gjöld stór, þvíat í þenna her, er Jón hafði saman dregit, höfðu margir til samnazt. Tók hann af öllum stórfé, þeim er á hans fund sóttu; en sumir stukku undan austr til Víkr á leit Magnús konungs.

*Frá Magnúsi konungi.*

46 (50). Magnús konungr var þann vetr í Danmörk með Valdimar konungi frænda sínum í góðum fagnaði, ok hafði menn sína í sýslum um Víkina. Optast var Ormr konungsbróðir í Víkinni ok nökkurir aðrir lendir menn, en sumir váru í Danmörk með konungi. Höfðu þeir allir saman mikit fjölmenni, ok er á leið langaföstu, fóru þeir Ormr suðr á mót konungi. Sverrir konungr sat í Björgyn fram um páska, bjóst síðan á braut ok hafði frítt lið ok mikit, stór skip. Þá mælti Sverrir konungr fyrir mönnum sínum, at hann hefði einurð allra lendra manna Magnús í pungi sínum, nema Nikulás kúfungs. En þat var reyndar, at allir lendir menn Magnús konungs höfðu sent Sverri konungi leyndarbréf ok leituðu til hans griða ok vináttu, ok þau bréf hafði konungr í pungi sínum.

*Frá Sverri ok Magnúsi konungi.*

47 (51). Sverrir konungr fór or Björgyn nökkuru eptir páskaviku ok austr með landi, ok gékk alt fólk

undir hann, hvar sem hann fór. Hann fór alt austr til Víkr, ok lá nökkurar nætr í Salteyjarsundi. Þat var einn dag, at Sverrir konungr gékk upp í eyna til varðmanna sinna. Þeir sá segl mörg sigla austan. Konungr sagði, at þat váru hermenn, lét hann þá blása öllu liðinu til landgöngu. Þá mælti Sverrir konungr: Hér ferr Magnús konungr með her sinn at oss, munum vér Birkibeinar eiga enn við ofrefli at skipta. Vil ek nú taka ráð af vitrum mönnum, svá sem er Hávarðr jarlsson eða Úlfr af Laufnesi, ok margir aðrir várir menn, hvárt þér vilit, at vér leggim til orrostu við Heklunga, eða skulum vér undan norðr í land, þangat sem vér munum eiga nökkura vini, en hér eru engir. Tökum nú at guðs vilja gott ráð ok skjótt. Þá svaraði Hávarðr: Skjótt mun ek birta minn vilja. Göngum út á skip, rekum af oss tjöld ok róm út or þaularvági þessum, ok siglum norðr undan, ok berjumst eigi hér við Magnús konung, þvíat þetta landsfólk er oss verra fyrir at hitta, ef vér látum skip vár, en hit versta heiðit fólk, því at hér á engi lífs ván, ef kemr á vald Heklunga eða Víkverja. Þá varð rómr mikill at máli hans, ok líkaði þat öllum vel. Drógu Birkibeinar þá upp segl sín. Þá renna skip Magnús konungs sunnan or sundunum. Eyjólfr Aflason stýrði skútu, er Refan hét, ok gékk á skip Úlfs flýs, ok bundu þar við skútuna. Þar var á skipinu Úlfs Páll flíða son Nikulás kúfungs, hann höfðu þeir litlu áðr tekit, ok fóstra hans með honum. Páll var barn at aldri. Þessi maðr greip sveininn í fang sér ok hljóp ofan í skútuna, hjó þegar festina milli skipanna, rak frá skútuna. Tóku hana menn Magnús konungs, tók þá Nikulás kúfungr við syni sínum. Hvárirtveggju urðu sárir af skotum, ok féllu nökkurir menn. Sverrir konungr var á skútu ok sagði fyrir sínum mönnum, hversu þeir skyldu aka seglunum. Hann bað þá hleypa skipunum í eitt þröngt sund millum eyjanna, ok

svá gerðu þeir. Menn Magnús konungs stefndu í mitt leiðarsundit, ok gáðu eigi, at Birkibeinar hefði út snúit millum eyjanna. Magnús konungr hafði þá Skeggjann, hann var 6 rúm ok 20. Mörg höfðu þeir önnur stórskip. Sverrir konungr siglir nú hafleið norðr um Foldina, ok fóru sem ákafast, þar til er þeir kómu til Björgynjar. Var þat í vikunni fyrir hvítadaga. Dvaldist hann þar um hríð. Magnús konungr fór skyndiliga austan um Víkina. Urðu honum allir menn fegnir. Hann kom til Túnsbergs ok dvaldist þar litla hríð, sneri norðr síðan ok hafði úgrynni liðs, fór dag ok nótt norðr eptir Sverri konungi, lá þat eina í höfnum, er andviðri váru.

*Frá Sverri konungi ok liði hans.*

48 (52). Sunnudag hinn næsta eptir hvítadaga var Sverrir konungr í Björgyn með liði sínu. Skip hans lágu öll við bryggjur búin ok víggyrðluð. Sverrir konungr stóð upp snemma ok gékk upp á Bakka til Ólafs kirkju, ok þá til varðmanna sinna. Þá sá þeir, at reri á Váginn ein skúta, ok lögðu at í Hólmi ok runnu upp þegar. Konungr sneri ofan á mót þeim ok kendi, at þat var njósn hans. Ok þegar er þeir höfðu kvaddan konunginn, kváðust þeir hafa sét segl Magnús konungs, mikit á fjórða tigi, ok sigldu nú sunnan um Harðsæ. Þá svaraði Sverrir konungr: Ok hölzti nær oss. Konungr bað lúðrsveininn blása. Gékk konungr þegar á skip sitt ok bað þá róa út á Váginn. Slíkt sama gerðu allir hans menn, lögðu saman skipunum. Þá mælti Sverrir konungr: Hér mun Magnús konungr koma brátt at vitja vár. Hefir hann nú, sem þér munut spurt hafa, meir en 30 skipa, en vér höfum eigi meir en 16. Nú mun yðr eigi þykkja ván vár líklig at berjast á móti svá miklum her, en at öðrum kosti munum vér verða at flýja norðr í land. Vil ek leita ráðs við yðr, hvárt þér vilið berjast við því liði, er vér höfum, eða flýja undan. Ok þótti mér þá

stund fara verst várr flokkr, er vér höfðum flýit fyrir Hattarhamri, ok þar til er vér vágum sigr við Hirtubrú. Nú flýðu vér fyrir Magnúsi konungi austr í Vík, ok vænti ek, ef vér flýjum enn orrostulaust, at litil ógn þykki af oss standa. Þá svöruðu mjök margir menn, at fúsari væri at flýja undan, en báðu konung ráða, ok gerðist kurr mikill í liðinu. Þá mælti Sverrir konungr hátt: At guðs vilja ok hins helga Ólafs þá búizt þér nú svá við, at nú skulum vér berjast við Magnús konung, ok rekast eigi lengr fyrir land fram, ok þótt vér hafim lið færa, þá höfum vér þó stórskip. Vænti ek, at Heklungum skal enn vera minnisamt, hversu þeir Birkibeinar kunnu at beita sverðunum, áðr vér skilim, ok látum þá hafa hina sömu raun nú sem fyrr, þvíat enn munu þeir úfúsir at ganga undir vápn yðar, ef þér horfit við vel. Nú vænti ek, at vér munim bera sigr af þeim, hefir yðr þat sjaldan rofizt, þá er ek hefi þat sagt yðr. Er nú enn sem fyrr, at várt traust er alt undir guði ok helgum mönnum hans, en eigi undir liðsfjölda, skýt ek nú mínu máli til guðs ok hins helga Ólafs konungs ok hinnar helgu Sunnifu, bið ek, at þessi fundr fari svá okkar á millum Magnús konungs ok mín, sem guð veit, at málaefni okkur eru til. Þá varð rómr mikill at máli hans, ok sögðu svá: Mæl þú allra konunga heilastr! þat hefir oss aldri brugðizt, er þú hefir sigrinum heitið oss, ok verði sá at níðingi, er eigi berst nú, sem hann er í færum um. Þá mælti konungr: Hafit nú mikla þökk fyrir af guði ok af mér fyrir svörin, ok verit nú öruggir á móti úvinum várum. Róm nú á mót þeim, ok leggi svá hverr fram sitt skip, sem hann er drengr til, ok ekki munum vér tengja skip vár. Þeir reru þá út fyrir Norðnes. Magnús konungr kom þá at með sínum skipum. Hlóðu þeir þá seglunum, var þá blásit til samlögu öllum skipunum. Þá talaði Magnús konungr fyrir liðinu ok mælti svá.

*Tala Magnús konungs.*

49 (53, 54). Nú megum vér sjá skip Birkibeina. Munu vér nú ná at berjast, þótt þeir hafi lengi undan rekizt. Verum vér nú minnisamir, ok munim lát frænda várra, er Birkibeinar hafa niðr drepit, eða þær svaðilfarar, er vér höfum fyrir þeim farit. Nú mun þykkja vænt til stefnt, at þeir muni fá af oss slíkt, sem þeir hafa fyrir löngu til stundat. En þó eru vár viðrskipti úmaklig, þvíat vér höfum til móts göfugmenni ok góðmenni, en þeir hafa ekki utan þjófa ok ránsmenn ok önnur illmenni, sem guð steypi þeim. Ok eigi er at heldr hefnt göfugra frænda várra, þó at vér drepim þá alla, en brigzlalaust er oss at gera þat. Verði engi svá djarfr minna manna, at neinum þeira gefi grið. Vér höfum frítt lið ok mikit, gerum þeim þá hina fyrstu hríð, at þeir þurfi eigi aðra. Þeir hafa lið lítið, ok sé þess guð lofaðr, mun nú kominn endadagr lífs þeira, munu þeir brátt blotna fyrir yðr. Þá mælti Ormr konungsbróðir: Þat er mitt ráð, at vér búimst svá til þessar hríðar, at Birkibeinar munu móti horfa ok veita oss harða viðtöku, þótt þeir hafi lið minna, en yfrin er nauðsyn til, at hverr dugi sem má. Væri þat mitt ráð at hrjóða fyrst hin smæri skip þeira, þvíat eigi munu þeir undan oss róa á stórskipunum. Konungr hafði Skeggjann, Ormr Grágásina, Höfðabúzuna höfðu þeir Narfi af Sástöðum ok Steinfinnr frændi hans. Þessi 3 lögðu at Ólafssúðinni. Þar var ok með Magnúsi konungi Ásbjörn Jónsson, Nikulás kúfungr, Páll smáttauga, Jón ok Munan synir Gauts af Ænesi. Þeir höfðu 12 skip ok 20. Þeir greiddu þá atróðrinn. Birkibeinar reru á móti þeim fulldjarfliga. Með Sverri konungi váru þessir lendir menn: Úlfr af Laufnesi, Úlfr flý, Hávarðr jarlsson, Bárðr Guthormsson, Ívarr selki, Guðlaugr vali. Hárknífrinn var 3 rúm ok 20, er gestir höfðu, ok stýrði því Auðbjörn, Fjarðakolluna höfðu húskarlar, ok stýrði því Ásgeirr hamarskalli. Í atróðrinum fór Ólafssúðin utarst,

á útborða henni lögðu at 9 stórskip. Var sú orrosta bæði löng ok hörð, sótti Magnús konungs menn fast at Ólafssúðinni, en fyrir því at þeir stungu stöfnum at, þá kómu þeir ekki höggum við. Var þá svá mikill vápnaburðrinn, at þar er 3 váru í hálfrými menninir á Ólafssúðinni, þá stóð einn upp, en sumstaðar engi. Þá er Magnús konungs menn þraut grjót ok skotvápn, ok þeir ætluðu upp at ganga, þá tóku Birkibeinar til vápna sinna ok eggjuðust til varnar. Reis þá upp margr, sá er áðr var fallinn fyrir grjóti ok skotvápnum, ok dugði þá hverr, sem mátti. Sverrir konungr hljóp upp á viðuna, hann hafði hvítan kufl, ok vel byrt undir, ok rauðan skjöld; hann eggjaði mjök sína menn. Hann leit þá á bakborða Ólafssúðinni, þar lá Guðlaugr stallari, hann hafði eigi lengra fram lagt en til eptra austrúms. Þá kallaði konungr á Guðlaug ok bað hann aldri þrífast, er svá illa legði fram hálfþrítugu skipi. Guðlaugr kvezt eigi ráða mega. Konungr tók einn pálstaf ok stakk við kinnunginum á skipi Guðlaugs, hét á sína menn, at þeir drœgi þá fram með skipinu. Ok þeir gerðu svá, kómu þeir þá til fremra austrúms. Ok litlu síðar var engi sá á skipi Guðlaugs fyrir framan siglu, at eigi blœddi. Auðbjörn gestahöfðingi lagði at gestaskipi Magnús konungs, ok hafa menn gert at ágætum, hversu djarfliga þeir sóttust, þóttist þat engi maðr vita, hvárir þar mundu efri verða.

*Frá Hallvarði gœlu.*

50 (55). Hallvarðr gœla hét maðr víkverskr, ok skaut manna bezt. Hann skaut öru til skips Magnús konungs, ok fló fyrir ofan skipit, annarri skaut hann niðri í borðit, hinni þriðju undir kjölinn. Þá mælti maðr: Beinna skauztu í sumar, þá er fé lá við, ok settir silfr við hvert beinskeyti, ok tókt þú þá upp silfrit ok sýndir atgervi þína. Hallvarðr svaraði: Þykki þér eigi gegnt skotið? Þá svaraði sá: Engi skýtr jafnilla

á váru skipi. Síðan tók Hallvarðr tylft örva ok skaut einni á skip Magnús konungs, ok hœfði þann mann, er hann skaut til, unz allar váru uppi, ok hœfði mann í hvert sinn. Ok er sjá tylft var uppi, þá lagði hann bogann undir fót sér ok braut í sundr. Þá mælti konungr: Hví fórtu nú svá við bogann? hin sama er oss enn liðsþörf sem fyrr. Hallvarðr svaraði: Leyst hefi ek nú hendr mínar með skotum, ok enn skal ek verja rúm mitt sem einnhverr annarra. Tók hann þá skjöld ok sverð ok gékk út á borð ok barðist manna djarfligast.

*Magnús konungr fékk fótarsár.*

51 (56, 57, 58). Magnús konungr var fram á skipi sínu ok barðist í fyrirrúminu. Hann gékk svá nær Birkibeinum, at hann hljóp öðrum fœti út á borðit ok ætlaði at ná með sverði til eins manns. Birkibeinar kendu hann at vápnum ok klæðum ok báru þykt vápn at honum. Einn maðr skaut sverði í gegnum ristina á honum. Konungr brást við hart ok skriðnaði á þiljunum ok féll á bak aptr. Þat sá Birkibeinar ok œptu sigróp. Þá mælti maðr á skipi Orms konungsbróður: Þar féll nú Magnús konungr. Skipt mun þá löndunum, sagði Ormr, ok höggvi tengslin ok rói undan. Ok þá gerði svá hverr at öðrum. Magnús konungr hljóp upp ok bað þá eigi flýja ok kvað sik ekki saka. En þá lét engi, sem heyrði. Birkibeinar hruðu Höfðabúzuna með stöfnum. Steinfinnr stóð einn upp at lyktum, ok féngu þeir eigi fyrr sóttan hann, en þeir tóku ás einn ok lustu hann þar með. Féll hann þá við mikinn orðstír. Ormr konungsbróðir lagði at landi út við Grafdal, fyrir því at hann hafði skip mikit ok þungt undir árum. Hljóp hann þar á land við öllum sínum mönnum. Birkibeinar sóttu eptir þeim. Ormr var þungfœrr, ok leiddu hann 2 menn. En er Birkibeinar drógu eptir, þá spretti Ormr fésjóð digrum ok lét hlaupa niðr silfrit. Gestir nökkurir fóru

honum næstir af Birkibeinum, tóku þeir silfrit ok lásu upp. Dró Ormr þá undan í fjallit, ok skildi þar með þeim. Gaf Sverrir konungr þeim mikit skak fyrir gestunum, er Ormr hafði undan komizt ok kropit þar at nökkurum silfrpenningum. Þeir tóku þar 18 skip af Magnúsi konungi, ok fluttust menn á þeim inn til bœjarins. Sverrir konungr lét þá halda njósnum um ferðir Heklunga. Þat var ávarp manna, at fyrir Norðnesi mundi eigi færa falla en 3 hundruð manna.

Magnús konungr fór við liði sínu suðr í Stafangr. Eiríkr byskup tók vel við Magnúsi konungi ok eggjaði mjök, at konungr sneri aptr til Björgynjar, lézt þess ván, at Birkibeinar mundi nú lítt viðrbúnir. Konunginum líkaði þetta ráð vel. Fékk byskup þeim lið mikit ok fór sjálfr með húskörlum sínum. Konungr fékk mikit lið or heruðum ok fór norðr til Björgynjar fám nóttum síðar, ok sóttu mjök leiðina. Eyjólfr Aflason var á njósn með skútu nökkura, ok fundu eigi fyrr, en herr Magnús konungs var í sundinu fyrir þeim, þá mæltu þeir, at þeir hefði hættliga róit. Eyjólfr bað þá róa fram hit beinsta ok láta, sem þeir væri Heklungar, ok þat hugðu þeir ok, at þeira menn mundu vera, þannin sem fóru. En er þeir Eyjólfr váru mjök komnir at flotanum, kiptu þeir hjá fram ok lustu við fast árunum. Heklungar sá ok þá, at þetta váru Birkibeinar, ok reru eptir sem mest ok féngu eigi tekit þá. Eyjólfr stefndi til hafs ok svá hit ytra til Björgynjar, ok báru Sverri konungi njósn ok sögðu honum þessi tíðindi, er þeir höfðu svá skýrt sét. Sverrir konungr leitaði þá ráðs við menn sína, hversu hátta skyldi. Allir váru nú úfúsir at berjast, vildu heldr norðr undan leita, ok kölluðust illa vera viðrbúnir bæði sárir ok móðir, kölluðust margir, at fyrir Norðnesi væri svá nauðuliga staddir, at þeir vildu gjarna hafa flýit, ef þeir hefði lausari við verit. Rézt þat af, at fara norðr undan sem hvatligast. Skiptu menn þá

liðinu millum skipanna, svá at öll mætti fara með nökkuru móti. Stýrði Eyjólfr Aflason þá Höfðabúzunni. Eyjólfr kom um kveldit í bœinn. Sverrir konungr fór um myrginninn braut or bœnum með flest alt liðit. Höfðu þeir svá lítt skipat, at þeir fluttust á bátum milli skipanna at reisa viðurnar ok draga seglin. Um nónskeið fór Eyjólfr or bœnum, ok er þeir höfðu uppdregit segl sitt, þá fór Magnús konungr sunnan fyrir Hvarfnes. Heklungar sá skip Eyjólfs ok þóttust vita, at þat mundi vera Birkibeinar, ok sigla eptir þeim 5 skipum ok ráku þa alt norðr í Furusund. Þat var Birkibeinum hit mesta vandræði alt fyrir sunnan Stað, hvar sem þeir skyldu njósnum halda, þá stund er deilan stóð millum þeira Magnús ok Sverris, þá var þat at jafnaði, hvar sem þeir hittu bœndr, kaupmenn eða fiskimenn, at þeir mundu aldri satt til Magnús konungs segja eða hans manna, þótt eitt annes eða leiti væri í millum, en allir sögðu satt til Birkibeina, hvar sem þeir váru. Horfði Birkibeinum þetta jafnan til lífitjóns, þvíat þat mæltu allir, at Birkibeinar bæri hölzti djarfliga njósnirnar, ok rekast þá jafnan undan, er engi ván þótti mönnum lífs. Þat var mál manna, at engi orrosta hafi verit snarpari en sú, er var fyrir Norðnesi, ok úsýnna væri, hvernin hníga mundi, áðr en hamingjan skipti sigrinum. Ok eigi sóttu Magnús konungs menn údjarfligar, alt þar til er þeir flýðu, ok þeir þóttust mundu vinna sigrinn í fyrstu, þvíat þeir hugðu, at Birkibeinar mundu ekki vel kunna at berjast á skipum, þvíat eitt sinn er þeir höfðu á skipum barzt, flýðu þeir fyrir Hattarhamri. Sverrir konungr fór norðr leið sína alt til Þrándheims, ok tóku Þrœndir vel við honum. Lét konungr setja upp skip sín ok bjóst um í bœnum. Var þá vel upphaldit tréborginni út við Íluvöllu, er Eysteinn erkibyskup hafði látið gera. Sverrir konungr lét gera kraka utan frá borg hit fremra með sjónum.

*Skírsla Eiríks konungssonar.*

52 (59). Þat sama vár kom til Sverris konungs Eiríkr, sá er kallaðist son Sigurðar konungs Haraldssonar, ok hafði lengi verit utanlands, hann hafði verit út til Jórsala ok farit í ána Jórdan, ok hafði kerti í hendi loganda, ok var þat hans sögn ok manna hans, at áðr hann steig í ána, þá mælti hann, at guð skyldi láta koma loganda kertit upp or ánni, ef ek em, sagði hann, son Sigurðar konúngs, ok þat sögðu þeir, er honum fylgðu, at hann géngi upp með loganda kertit. Eiríkr hafði verit með mörgum tignum mönnum, hann var maðr kurteiss ok margs vel kunnandi, lítill vexti ok ekki fríðr sýnum. Hann beiddist þess, at konungr léti hann ná at fœra fram skírslur, svá at hann fœrði sik í ætt. Sverrir konungr bar þetta mál fyrir sína menn, var þetta talat á hirðstefnum, féngust þar þau svör af Birkibeinum, at þeir vildu engum manni þjóna nema Sverri konungi, en þó var þat ráð manna, at unna Eiríki sanns um faðerni sitt. Þá mælti Sverrir konungr til Eiríks: Með ráði vina minna vil' ek gefa þér orlof til þess, at þú flytir skírslur, til þess at guð sanni faðerni þitt, en þó at svá berist til, at þú verðir sannr bróðir minn, þá hefir mik svá mikit kostat ríki þetta með konungsnafni, at eigi þér ok engum annarra vil ek uppgefa konungsnafn eða þetta ríki, er ek hefi. Nú máttu taka þenna kost með sætt ok orlofi mínu af mér, en at öðrum kosti skaltu fara braut héðan í griðum, svá sem þú komt higat. Eiríkr þakkaði konungi með fögrum orðum þat, er konungr lofaði honum skírslur, lézt þann kost gjarna vilja, en eiga þaðan í frá alt í guðs valdi ok konungs. Eptir þat fastaði Eiríkr til járns ok þá er hann skyldi bera járnit, skildi konungr fyrir eiðstafnum ok mælti svá: Til þess leggr þú hönd á bók ok helga dóma ok því skýtr þú til guðs, at svá láti hann hönd þína heila koma undan járninu, sem þú ert son Sigurðar konungs Har-

aldssonar ok bróðir minn. Eiríkr mælti: Svá láti guð mik heila hönd bera frá járni þessu, at ek em son Sigurðar konungs, en eigi vil ek þetta járn bera fleirum mönnum til faðernis en mér. Ok eptir þessum eiðstaf bar hann járn, ok varð vel skírr. Sverrir konungr tók þá vel við frændsemi Eiríks ok setti hann höfðingja innan hirðar. Var Eiríkr vinsæll maðr ok hélt manna bezt sveit sína.

*Frá Magnúsi konungi ok Sverri, sætta umleitan.*

53 (60). Magnús konungr kom til Björgynjar ok dvaldist þar nökkura hríð. Um sumarit fór hann norðr til Þrándheims ok kom til kaupangs með liði sínu at Ólafsmessu hinni síðari. Sverrir konungr var fyrir í bœnum. Magnús konungr lá mjök lengi út við Hólm, þvíat honum þótti bœrinn torsóttligr við mannfjölda þann, sem í bœnum var, ok vildi bíða þess, er bœndr fœri heim ok lokit væri gildistíð. Ok í þeiri biðstund töluðust konungar við nökkura stund á hverjum degi. Bauð Sverrir konungr enn at skipta landi í helminga við Magnús konung, en því var hvárki játað né neitað af Magnúsi konungi. Varð at þessu mikill rómr í bœnum, urðu því margir fegnir, ef friðr yrði innan lands, en konungar sættist. Magnús konungr reri þá inn at Eyrum til tals á einni skútu, en Sverrir konungr sat uppi á einum þeeti á Eyrum, ok var með honum fjöldi manna, er forvitni var á, hvat konungar talaði. Nikulás Árnason talaði þar fyrst af hendi Magnús konungs, ok horfði sú rœða líkliga til sátta. Menn Magnús konungs höfðu róit nökkurum skútum upp í ána, en Birkibeinar géngu ofan á móti ok létu bera ofan or bœnum mungát, ok settust allir saman á Bröttueyri ok drukku ok töluðust við, ok þótt þeir væri í tvennum flokkum, þá váru þar frændr eða mágar, eða höfðu fyrrum verit vinir.

*Sverrir bauð sætt.*

54 (60). Þá mælti Sverrir konungr, at hann væri fúss, at þeir sættist en landit friðaðist, bauð hann þá enn,

at þeir skipti landi at jafnaði ok væri báðir konungar, svá sem verit höfðu synir Magnús konungs berbeins, ok sagði þat, síz Magnús konungr góði hafði miðlat Haraldi föðurbróður sínum hálfan Noreg, hefði jafnan verit fleiri konungar en einn. Bœndr gerðu góðan róm at máli Sverris konungs ok kölluðu þat vel mælt.

*Tala Magnús.*

55 (60, 61). Þá mælti Magnús konungr ok tók fyrst stilliliga til orða ok sagði svá: Þat er mér sagt um Noregs konunga, þar er þér takit til dœma, at tveir hafi senn konungar verit, þá hefir sú miðlan ger verit með blíðu millum brœðra eða annarra náfrænda, ok hefir þó jafnan skilit með fjándskap eða aldrtila, ok berr þat næst nú hingat váru minni, er mín vandræði ok úgipta hefir nú orðit svá mikil í láti frænda minna ok vina; þá veit ek þat, þótt ek ganga at nökkurum nauðasættum, at ekki mun okkr, Sverrir, hirðirnar hœgjar þessar at hafa í einum kaupstað eða í einni málagjöf at þvílíkum sökum, sem hér eru manna á millum. Mun þat skammr friðr, þótt þess sé freistað. Þá svaraði Sverrir konungr: Þat er satt er þér segit, Magnús konungr, at vera kann of friðinn, þótt vit haldim, at þó rjúfi aðrir. Nú heldr en okkur úgipta verði sva margra manna mein, þá vil ek fara braut or landi með mínum mönnum, ef þér vilit binda þat svardögum, at ek skal hafa hálft land ok setja þar yfir mína menn í friði ok frelsi, ok mun ek braut vera 3 vetr, en er ek kem aptr, þá skulu þér ok yðrir menn rýma land fyrir oss aðra 3 vetr með þvílíkum kosti, sem vér gerum áðr. Þá mælti Magnús konungr: Þann kost vil ek, at þú, Sverrir, ok þér, Birkibeinar, farit braut or landi ok komit aldri aptr. Ek var vígðr ok kórónaðr af legata af Rómaborg ok at ráði alls landsfólks, ek svarða þess í vígslu minni, at ek skylda halda landslög ok verja með sverði því, er ek tók í vígslu minni, land þetta fyrir úfriði vándra manna, ek hét ok því at láta heldr lífi mínu en

ganga á þenna eið, nú ráði guð fyrir, hversu langt mitt líf skal vera. Ek hefi nú látið fyrir þér, Sverrir, hundrað tiginna hirðmanna ok 17 lenda menn, ok þann hinn átjánda, er mér er meiri sakni at en þessa alla aðra, er var Erlingr jarl faðir minn. Ok enn er mér þat úgeranda at miðla þér ríkit, Sverrir, þeim manni er ek hygg, at enga ætt eigi til þess at vera konungr hvárki hér né í öðrum stöðum, skal ok vera annathvárt, at ek skal vinna aptr allan Noreg eða láta hann allan, ok þar lífit með. Þá mælti Sverrir konungr: Þess eina minnist þú nú, Magnús, hverr yðarr skaði er vorðinn í várum skiptum, en þér lítið eigi á, hvat ek hefi látið fyrir yðrum frændum, er meira er at telja ok stœrra, en þat er þér hafit nú talit. Þat fyrst er faðir minn Sigurðr konungr var feldr suðr í Björgyn, því næst Eysteinn föðurbróðir minn í Vík austr. En eptir fall Inga var Hákon til konungs tekinn bróðir minn um land alt, þá reisti Erlingr skakki flokk á mót honum ok feldi hann suðr á Mœri, ok með honum marga lenda menn. Harald bróður minn lét Erlingr hengja suðr á Hvarfnesi sem einn krákuunga; Sigurðr bróðir minn var höggvinn í Björgyn, Eystein brœðrung minn feldu þeir á Ré. Nú ætla ek þat at mæla, sem þér mæltut við mik, at ek mætta eigi konungr vera í Noregi, ef ek skipta yðr af minni föðurleifð, fyrir því at þat varð enn aldri fyrr í Noregi, at sá maðr væri konungr kallaðr, er eigi var konungs son. En vera skal enn hit sama boð sem fyrr, gakk þú upp með liði þínu á Íluvöllu ok fylk þar, en vér Birkibeinar munum koma þar á mót yðr, ok munut þér fara þar slíkar farar, sem þér fórut þar fyrr, eða verri. Magnús konungr svaraði: Eigi munum vér nú optar ganga upp á blótvöll þinn, Sverrir, gakk heldr á skip þín, ok leggjum út or ánni ok berjumst þá. Konungr mælti: Skip vár eru nú uppsett ok búin ekki til bardaga, en þó má ek fá 3 skip, en þú skipa önnur 3, ok leggim þau saman. Magnús konungr mælti: Ek ætla

hitt nu munu bezt fallit at týna eigi fleirum mönnum í þessi þrætu, fyrir því at þat er satt, er þér segit, Sverrir, at ek hefi jafnan vorðit skyndiliga at fara fyrir yðrum mönnum, en þú, Sverrir, liggr þá í fylsknum eða hreysum, hvert sinn er bardagar skulu vera. Nú ef þú þorir, þá gakk einn saman með våpnum þínum, en ek mun koma einn á móti þér, ok skiptumst þá við höggum, ok hafi þá sá land ok konungdóm, er sigr fær. Þá svaraði Sverrir konungr: Hölzti auðsæ er okkur úgipta öðrum mönnum, þótt eigi berimst vit sjálfir, eru til þess settir menn okkrir at berjast fyrir okkr í okkrum orrostum, er þat ok úkonungligt at berjast í einvígjum sem kenpur. En með því, Magnús konungr, ef þú vill heldr berjast við mik einn saman, en fleiri menn sé við staddir, fá þér hest, en ek mun annan, ok ríðum í turnreið, fyrir því at þat er ríkismanna siðr. En svá sem á leið tal þeira, þá reigðust því meir við menn þeira, þeir er samdrykkjuna höfðu. Géngu nú allir Heklungar á skip ok reru út or ánni.

Sverrir konungr lét draga skútur út yfir Eyrar á sjáinn, ok hljópu þar í menn ok lögðu út at þeim Heklungum, ok skutust þeir á um hríð. Þar fékk banasár Karl kjötlær, en hvárirtveggju urðu sárir. Fám nóttum síðar fór Magnús konungr braut or Þrándheimi ok suðr til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn. Magnús konungr hafði þá allar tekjur suðr frá Þrándheimsmynni, en Sverrir konungr hafði þá ekki annat sínu liði til framflutningar, en þat sem hann fékk í Þrándheimi.

*Frá Sverri konungi.*

56 (61). Nú er Sverrir konungr spyrr, at Magnús konungr er kominn suðr um Stað, þá byrjar hann ferð sína hit efra til Upplanda, en setr eptir í Þrándheimi Eirík bróður sinn ok annan Kol Ísaksson ok mart lið með þeim. Sverrir konungr fór nú til Upplanda ok gerði

menn í bygðina at gildra til veiða, ef í hendr bæri af Heklungum eða fé þeira. Þar drápu þeir Özur Jónsson ok Eyvind dýra ok mjök mart annarra manna. Sverrir konungr fór ofan til Oslóar ok setti menn í allar sýslur um Víkina, en Heklungar flýðu undan, sumir austr, en sumir norðr til móts við Magnús konung, ok sögðu honum um farar Sverris konungs.

*Úsigr Birkibeina ok dráp margra.*

57 (62, 63). Magnús konungr skipti nú liði sínu ok sendi mestan hlut austr til Víkr með Ormi konungsbróður, en Magnús konungr fór sjálfr með 7 skipum, ok skútu hit átta, kom hann til Þrándheims litlu fyrir Marteinsmessu. En er þeir Eiríkr ok Kolr Ísaksson sá, at skipin sigldu utan fyrir Digrmúla, þá var þegar blásit öllu liði á mót ok settar fylkingar, önnur út á Eyrum, en önnur uppi við Skipakrók, ok var þar fyrir Eiríkr konungsson, en hinni stýrði Kolr Ísaksson, ok var sumt bœjarfólkit með honum. Magnús konungr lagði saman öllum skipum sínum inn frá Hólmi, ok lágu þar mjök langa hríð dags, fyrir því at Magnús konungr hafði þá ráðagerð við sína menn. Hagbarðr muntari gékk þá at brullaupi sínu í bœnum, hann kallaði á Magnús konung ok lézt vildu bjóða honum til brullaups síns ok öllu liði hans. Var þat gert við spott. Um nónskeið leystu þeir konungr flota sinn ok greiða atróðrinn, róa 4 skip inn til árinnar, en önnur 4 at Eyrum. Konungr reri í ána ok lagði at, þar er fyrir var merki Eiríks konungssonar, ok var þar hörð viðrtaka ok skömm, þvíat bœjarmenn flýðu í bœinn. Létu Birkibeinar þá sígast, þvíat þá váru Heklungar miklu fleiri. Magnús konungs menn fylgja þá bjargvel. Féll þá mart af Birkibeinum, en nær allir urðu sárir. En þeir er út leggja at Eyrum, hlaupa þegar fyrir borð, svá at sjórinn tók undir hendr þeim, ok ganga upp, en Birkibeinar á móti. Tókst þar harðr bardagi.

Þá mælti maðr: Upp eru Heklungar nú komnir í ánni. Þá mælti Kolr: Flýja munu vér þá verða. Mun nú eigi of seinat? sagði Heklungr einn. Kolr snaraðist á mót ok mælti: Þar eru þeir nú komnir djöflarnir. Ok hjó hvárr til annars. Heklungar sumir snerust nú út á Eyrar, þá er Eiríkr flýði, ok kómu þeim Kol í opna skjöldu, lauk þar svá, at Kolr féll, ok mart manna með honum, en alt flýði, þat er því kom við. Eiríkr flýði út til Gaularáss við mikla sveit manna, sumt flýði upp um brú, sumt í kirkju, ok váru þeir flestir drepnir, fyrir því at þá hélt engi kirkja mönnum, ok þá var þat gert, er aldri var fyrr, at menn váru dregnir ok drepnir or Kristskirkju. Eyvindr skrápr hét forn Birkibeinn mikill ok sterkr, hann tóku þeir í kórinum í Kristskirkju, ok drógu þeir hann út ok lögðu hann á kjálka, ok drógu hann út á Eyrar ok drápu hann þar. Guðlaug vala tóku þeir í kirkju ok píndu til sagna, hvar Sverrir konungr hefði hirt lausafé sitt eða hvar vera mundi Lávarðr son Sverris konungs, er Guðlaugr hafði fóstrat. Hann sagði til hvárskis, ok var honum þat vel borit. Var Guðlaugr drepinn. Magnús konungr tók þar Ólafssúðina ok allan skipastól Sverris konungs, 13 skip ok 20, lét fram setja öll þau ok búa, er þeir máttu með komast, en brenna öll önnur. Magnús konungr bjóst skyndiliga or bœnum, ok er þeir fóru út eptir firðinum, sendi hann til menn at taka upp bú fyrir Afla á Ástum ok fyrir Tosta á Ystum, þriðja fyrir Helga á Ryðási. Eindriði torvi var eptir einskipa í Orknarósi. Þann dag kom Bárðr Guthormsson með 30 manna or Hefni sunnan ok á hlíðina fyrir ofan Tungu. Þá sá hann langskip, hvar lá, ok þóttist vita, at Heklungar mundu vera ok treystist eigi til at ráða, váru þar um nóttina. Hann sendi menn til bœjarins til Ceciliu konungsdóttur at spyrja tíðinda. Hon sagði þeim mart á laun. Menn Bárðar vildu ráða til Heklunga, en Bárðr vildi þat eigi. Fóru Heklungar braut um daginn eptir,

en Bárðr fór inn til kaupangs ok dvaldist þar um hríð. Þar kómu þá Birkibeinar nökkurir til móts við Bárð, Helgi Þorfinnsson, Óttarr knerra, Eyjólfr Aflason. Eiríkr fór austr til Víkr á fund Sverris konungs ok sagði honum sínar úfarar. Magnús konungr fór suðr til Björgynjar. Þá var með honum Hallr Snorrason, hann kvað þá vísu:

Glymvöllu rístr gulli,
góð er stillis för, róða
Ólafssúð und auði,
auðgrimms, búin rauðu.
Nú er œgr or för frægri,
fellr húfr í svig dúfu
sveldr, með sœmð ok mildi
siklingr kominn hingat.

Berr fyrir Hólm, þar er harri,
hlýrs fagrgota, stýrir,
stál bruna rauð á reyðar
rymvöll und gram snjöllum.
Frægr er með fremð ok sigri,
fólkbráðr konungr háði
darra þing við drengi,
döglingr kominn hingat.

*Gesta hark.*

58 (64). Magnús konungr lét búa til jólaveizlu sér í Björgyn, hann veitti hirðmönnum sínum í hirðstofunni miklu, en gestum í Sunnifustofu. Gestum líkaði illa, er þeir drukku mungát, en handgengnir menn mjöð. Hit átta kveld jóla, er gestir váru mjök druknir, hljópu þeir til vápna ok géngu at konungsstofunni ok vildu upp höggva. Var þá sagt konungi. Hann hljóp skyndiliga út til dyranna ok vildi stöðva þá. Bárðr skjöldr þræll hans hljóp fyrir hann út í forstofuna, var hann þegar drepinn. Konungr sneri þá inn aptr. Þá hljópu þeir fyrir stofudyrin, er haldit höfðu fylgð um daginn, þvíat þeir einir höfðu vápn inni, sumir börðu út ofngrjóti í forstofuna. Ok er bœjarmenn urðu varir við ok húskarlar konungs, ganga þeir at stofunni, hrökkva gestir þá frá. Urðu þar margir menn sárir. Eptir um myrgininn lét konungr taka gestina, þá er mest höfðu fyrir verit, lét hann suma fóthöggva, en suma handhöggva, en fáir váru drepnir.

*Orðsending Þrænda til konungs.*

59 (65). Þá er Eiríkr kom á fund Sverris konungs með sínum mönnum, bað hann konunginn fara norðr til

Þrándheims, sagði Þrœndi hafa honum til þess orð sent, at hann mundi vera hlífskjöldr þeira, fyrir því at Magnús konungr hafði því þeim heitið, at hann skyldi gjalda þeim dróttinssvik, þegar hann ætti tóm til, ok vélræði þau, sem honum þóttu Þrœndir hafa haft við sik ok við Erling jarl föður hans. Konungr kveðst ekki fara mundu at kalli þeira, talði þeim úvitrligt hafa til tekizt, ok veitti þeim harðar átölur, sem ilt var til mótmæla. Lézt hann ekki þaðan fara mundu, fyrr en á bak jólum, ok svá gerði hann.

*Frá Magnúsi konungi.*

60 (67, 68). Magnús konungr bjóst eptir jólin norðr til Þrándheims. Fór hann or bœnum eptir kyndilmessu. Hann hafði hirð sína ok vildarlið, var skorat á skipin 8 hundruð manna. Hann fór skyndiliga, ok kómu þeir til Þrándheims á úvart ok róa inn til bœjarins. Þat var laugardaginn í annarri viku langaföstu. Þeir skipuðu svá atróðrinum, at sum skipin lögðu at út við borg, sum at Eyrum, sum reru upp í ána, ok hljópu þar upp í bœinn. Birkibeinar váru margir í baðstofum, en allir úbúnir við úfriðinum. Bárðr Guthormsson hljóp upp um brú, ok allir hans menn. Óttarr knerra ok Helgi Þorfinnsson hljópu til skútu, er flaut fyrir konungsgarði. Eyjólfr Aflason hafði gengit til baðs á Grjóti, hann heyrði barn eitt mæla: Hér fara Heklungar. Eyjólfr tók þá klæðin öll í fang sér ok hljóp upp hjá Krosskirkju, síðan hljóp hann ofan til skútu á bryggjurnar, ok þeir fleiri saman, ok létu frá bryggjunum. Sumir sveipuðu buklörum, sumir sverðum, ok kómust yfir ána. Ok er þeir kómu fyrir ofan Erlendshaug, þá gékk hvergi skipit, hugðu þat sumir, at kominn væri á þá herfjöturr, ok þeir mundu allir feigir. Hitt var raunar, at akkeri hékk fyrir borðit, ok höfðu þeir eigi gáð at draga upp í skipit, ok hélt þeim þat, er gryntist yfir at landinu. Hjoggu þeir þá strenginn,

ok sveif þá þegar at landi, ok hljópu á land. Þeir fóru báðir samt Óttarr ok Eyjólfr. Snjór var fallinn mikill. Heklungar koma nú á móti þeim, þeir er við Bakka höfðu lent. Heklungar váru þrír, en þeir Óttarr tveir, ok réðu hvárigir á aðra. Sneru þeir þá upp um Kleppabú ok svá upp um Sóknadal ok stefndu svá til fjalls, ok er þeir kómu í Hjarðkinn, þá kom þar á móti þeim Sverrir konungr. Ok er þeir hittu konunginn, sögðu þeir honum frá sínum úförum. Birkibeinar, þeir er með konunginum váru austan komnir, létu hæðiliga yfir þeira ferð, riðu þeir allir, er með konunginum váru austan komnir, ok vildi engi þeira miðla sinn hest við þá, er norðan váru komnir. Gékk Bárðr Guthormsson ok allir hans menn. Þar var þá með honum Bjarni Kálfsson, hann kvað vísu:

Fant sé ek hvern á hesti,
hér er nú siðr hinn versti,
leið eigum vér langa,
en lendir menn ganga.
Hirðmenn skulu hlaupa,
hér era gott til kaupa,
munka ek mörgu kvíða,
en matsveinar ríða.

Sverrir konungr fór ofan til Orkadals, ok á þeim bœ, er Grjótar heita, váru sýslumenn Magnús konungs Sigurðr ok Hákon. Birkibeinar tóku hús á þeim ok drápu þá ok alla sveitunga þeira. Einn maðr komst undan, er hét Óttarr gási, þeir hleyptu eptir honum hestum, ok dró hann þó undan, svá at þeir náðu honum eigi at sinni.

*Frá Magnúsi konungi ok hans mönnum.*

61 (69). Nú er at segja frá Magnúsi konungi ok hans mönnum, at þeir sveima um bœinn ok drepa mart af Birkibeinum, ok eru þar um helgina. Konungr sendi orð út í Orkadal, at hann mundi þar koma miðvikudaginn ok eiga þing við Orkdœli. Hann sendi ok orð Gauldœlum, at þeir skyldu koma til bœjarins frjádaginn. Magnús konungr fór út til Orkadals með öllu liði sínu. Ok er þing var stefnt, stóð konungr upp ok mælti: Langt

mun yðr þykkja á at minnast, at vér áttum næst samþinga, hafa nú svá liðit þrír vetr, at þér hafit engar skyldir mér gervar, skulut þér nú greiða allan almenning, þann er þér hafit átt at gjalda á þessum tólf mánuðum, ok þar með tvenna aðra, ok hér með skulu þér greiða landskyldir ok sakeyri, er þér hafit nú áðr greitt fjándmönnum várum, ok hafit fyrir þat guðs reiði ok mína. Ok þaðan af varð hann svá reiðr, at hann bannaðist um. Hugðu bœndr um skeið, at konungr mundi veita þeim atgöngu. Hrói hét maðr á Kjarrastöðum, er svaraði konungi nökkurum orðum ok beiddi bóndum fresta um gjaldit. Konungr lagði þeim hálfs mánaðar stefnu, at þá skyldi komit inn til bœjar alt gjaldit. Var þá dœmdr konungi leiðangr. Fór konungr þá inn til bœjar.

*Hersaga Óttars.*

62 (70, 71). Frjádaginn, er lokit var formessum í bœnum, þá kom ekki bónda til þingsins. Sá þeir þá fara nökkura menn utan um Steinbjörg með viðarhlöss nökkur. Magnús konungr var at herbergi í garði Eiríks Árnasonar. Í því bili kom til bœjarins Óttarr gási, er fyrr var nefndr, stefndi hann í garðinn Eiríks. Hirðmenn nökkurir váru í garðinum ok spurðu, ef hann vissi nökkut til Birkibeina, er hann hljóp svá mikinn. Hann svaraði: Ekki segi ek yðr til þess, eða hvar er Magnús konungr? Þeir svara: Uppi í Kristskirkju á stefnu. Óttarr fór þá þannig. Litlu síðar hljóp konungr í garðinn ok bað menn taka vápn sín sem skjótast, hér fara Birkibeinar at oss. Því næst var blásit, hljópu menn þá mjök af skyndingu til skipanna ok lögðu út til Hólms. Ok er á leið daginn, kómu ekki Birkibeinar, ok ekki Gauldœlir til þingsins. Þat þótti mönnum nú líkast, at engu mundi gegna um ferðir Birkibeina, en hann hélt á sinni sögn, var hann á konungsskipinu. Margir báðu konung orlofs at fara inn til bœjar, kölluðust þar hafa átt eptir vápn

ok klæði, sumir áttu konur í bœnum. Konungr latti alla at fara ok lofaði nær engum, en margir fóru eigi at síðr. Birkibeinar lágu uppi í ásinum, ok sá öll tíðindi í bœinn. Laugardaginn vildu Birkibeinar í bœinn, en konungr vildi, at þeir biði þar til, er menn væri í baðstofum, en liðsmenn váru heldr veiðibráðir ok fóru snemma í bœinn, ok var á mikit regn. Þar varð eigi fyrr vart við, en þeir kómu í bœinn, varð þar engi viðrtaka, drápu menn þar mart manna. Þar féll Einarr skipstjórnarmaðr Magnús konungs, sumir kómust undan á bátum. Þegar fór Magnús konungr braut, er hann vissi, at Sverrir konungr var kominn í bœinn, fór hann alla leið suðr til Björgynjar. Þat var mál manna, at þá þótti mjök sýna, hversu Magnús konungr ok hans menn váru úfúsir at ganga í fylkta orrostu móti Sverri konungi ok hans liði, er þeir flýðu orrostulaust or bœnum við átta hundruð manna, en Sverrir konungr hafði hálft fjórða hundrað manna, ok þat þó at auk, at betra var at verja bœinn við hálfu minna lið en til at sœkja. Í þann tíma hafði Magnús konungr einn allan skipastólinn, hafði hann fyrir því alt landit fyrir sunnan Þrándheimsmynni at sköttum ok skyldum, nema þat eina er Birkibeinar skutust suðr á Mœri. Birkibeinar höfðu jafnan sveitir sínar í Vík austr eða um Upplönd. Heklungar veittu þeim opt árásir, ok höfðu ymsir betr, væri þar mart frá at segja, en þó munum vér heldr rita þá atburði, er sjálfir konungar hafa við verit. Sverrir konungr lét setja valslöngu út á Bröttueyri ok gera kastala uppi við brú.

*Frá Magnúsi konungi ok Sverri.*

63 (72). Magnús konungr bjóst um várit or Björgyn, ok dróst honum þá enn mikill herr. Fóru þeir norðr til Þrándheims, lagði konungrinn herinum inn um Hólm ok lá þar nökkurar nætr. Sverrir konungr sat í bœnum.

Þá fór Magnús konungr inn í Þrándheim ok tók þar alla leiðangra, fór síðan út til bœjarins. Hann lá hina fyrstu nótt fyrir innan Depil, en um myrgininn var svá mikill sælægr mjörkvi, at ekki mátti sjá meir en stafna á millum á skipunum. Magnús konungr réri þá inn til Hólms. Ok er Sverrir konungr heyrði róðrinn, þá hugði hann, at þeir mundu at leggja, ok lét blása öllu liðinu út á Eyrar. Magnús konungr lá um nóttina við Hólm. Um myrgininn lögðu þeir inn at Íluvöllum ok géngu þar upp með mestum hluta hersins. Birkibeinar sóttu út á mót þeim, ok skutust þeir á um hríð. Magnús konungr hugðist mundu banna þeim allar tilflutningar til bœjarins bæði á sjó ok landi, þeir brendu brúna á Nið. Sverrir konungr sótti út til borgar með sínu liði ok lét þar gera tvær stofur ok setti við borgina, ok sátu nú svá hvárirtveggju um hríð. Heklungar skiptust við sveitum at vaka út við borg um nætr, ok höfðu þar jafnan fjölment. Höfðu þeir elda stóra um nætr út á völlunum. Þat sá Birkibeinar. Þat var á einni nótt, at Birkibeinar vápnast ok ganga út af borginni ok veita Heklungum árás, finna þeir eigi fyrr, en örvarnar hvína hjá þeim öllum megin. Var þá eigi langt at bíða, at spjótunum var skotið. Síðan neyttu Birkibeinar höggvápna sinna ok drápu um nóttina mikit lið, en alt flýði, þat er því kom við. En þegar þeir verða varir við þetta, er á skipunum váru, hlaupa þeir á land ok vilja duga sínum mönnum, en fyrir því at myrkt var, finna þeir eigi fyrr, en flóttamenninir hlaupa upp á þá, ok þar næst mœttu þeir sverðshöggum Birkibeina. Flýðu þeir nú sem mest til skipanna, er áðr höfðu óðast eggjat uppgöngunnar. Þar féll mart manna, en sumt hljóp á kaf ok náði svá skipunum. Sverrir konungr fór aptr til landtjalda sinna, höfðu þeir fengit mikit hlutskipti í vápnum ok klæðum, gulli ok silfri. Ok er lýsti um myrgininn, þá sá Birkibeinar út á völluna, at Heklungar lágu þar þykt ok bleiktu þar við síðurnar.

Þeir Magnús konungr reru út til Hólms, ok fám nóttum síðar fóru þeir suðr til Björgynjar. Var þeim þat mikil skaðaferð. Magnús konungr sat um vetrinn eptir í Björgyn, en Sverrir sat við sínum mönnum í Þrándheimi.

*Frá Sverri konungi.*

64 (73). Þann vetr lét Sverrir konungr efna til borgargerðar út á Steinbjörgum, ok váru konungs herbergi búin í öndverða langaföstu. Fór konungr þá út í borgina, ok var þar jafnan um várit með sumu liðinu. Þann vetr lét hann reisa skip í Þrándheimi í bœnum, var þat miklu meira en þau skip önnur, er þá váru í landi, þvíat þat var 2 rúm ok þrítugt ok mikit í sér at því, þat var kallat Maríusúðin. Þat var á öndverðum vetri, er Sverrir konungr hafði þing einn dag í bœnum. Konungr talaði þá ok mælti svá: Mikit vandræði höfum vér nú haft um hríð, vér ok bœjarmenn, ok slíkt sama bœndr í heraði, er hér nú sultr ok seyra, sem ván er, höfum nú hér setið 2 vetr, síz vér mistum skipa várra, er oss hafa öll þyngsl af staðit. Eru hér nú innan fjarðar fá skip, þau er herfœr eru, ok ef vér Birkibeinar féngim nú nökkurn skipakost, þá mundim vér Heklungar enn ymsir at róast. Nú með því at mínum mönnum leiðist beltadráttrinn þessi, þá munum vér snúast til Upplanda ok þaðan austr á Vermaland. Eptir um myrgininn váru skúaðir 20 hestar, ok búizt dag frá degi. Þetta spurðist af kaupmönnum, þeim er norðan kómu ok fóru suðr til Björgynjar. Magnús konungr lét þá fara menn í sýslur sínar, er hann spurði þetta, þvíat áðr hafði hann ætlat at fara norðr at Birkibeinum. Sverrir konungr dvaldist í kaupangi fram um jólin, en eptir jól fór hann suðr með skútur nökkurar á Mœri ok fékk þá andviðri, sneri hann aptr norðr til Þrándheims, þvíat hann þóttist þá vita, at njósn mundi komin fyrir hann suðr til Björgynjar. Hvarf hann þá aptr norðr til Þrándheims ok sat þar um vetrinn ok um várit.

*Dráp Þorgils sýslumanns.*

65 (74, 75). Þorgils hét sýslumaðr Sverris konungs, hann hafði sýslu norðr á Hálogalandi í nörðstu þinghá, hann hafði ok finnferð. Þá bjó í Bjarkey Viðkunnr Erlingsson, manna mestr ok fríðastr, hann var þá 18 vetra ok hafði nýtekit við föðurleifð sinni. Magnús konungr sendi Viðkunni orð, at hann skyldi koma á hans fund ok sœkja þangat lends manns nafn. Viðkunnr átti tvær systr fríðar, þá var ok úgipt systir Magnús konungs Ragnhildr. Viðkunnr fór um vetrinn inn í fjörðu ok njósnaði til Birkibeina. Ok þá er Þorgils var kominn af fjalli ok hafði fengit allmikit fé, þá sat Viðkunnr fyrir honum inn í Œgisfirði ok drap þar Þorgils við tólfta mann, ok tók alt féit ok hafði heim með sér í Bjarkey. Um várit fór Viðkunnr norðan ok hafði tvítugsessu, þat skip var kallat Gullbringan, hann hafði ok vistabyrðing annat skip. Þar váru með honum systr hans báðar ok Jón drumbi móðurbróðir hans. Þeir Viðkunnr ugðu ekki at sér, höfðu skjöldu við stafna en brynjur í kistum. Sverrir konungr spurði, hvat Viðkunnr hafðist at, ok sendi á mót honum Bárð Guthormsson ok Ívar selka með 7 skútum. Þeir fundust norðr við Steigarberg, lögðu Birkibeinar at á bæði borð ok veittu harða atsókn. Sneri brátt mannfallinu á þá Viðkunn, þar féll Viðkunnr ok nær öll sveit hans. Tóku Birkibeinar Gullbringuna ok alt þat er á var, ok höfðu suðr til Þrándheims ok fœrðu Sverri konungi, ok lofaði hann mjök þeira ferð.

*Frá Birkibeinum ok Heklungum.*

66 (76). Um várit eptir páska átti Sverrir konungr opt þing við menn sína ok gerði fyrir þeim ymsa ætlan, ok varð ekki staðfast um, ok þar kom, at engi þóttist vita, hvat konungr barst fyrir. Stundum mælti hann þat, at þeir mundu fara austr til Víkr, stundum þat, at þeir mundu sigla vestr um haf. Magnús konungr sat í Björgyn

ok spurði öll þessi tíðindi, ok dróst þar þá enn saman herr mikill. Þat ráð tók Sverrir konungr, at hann sté á skútur ok hafði 20, ok sagði þat liðinu, at hann vildi snúa norðr á Hálogaland. En er hann kom út or Þrándheimsmynni, þá var á hvast veðr norðan, lét hann þá blása liðinu til landgöngu. Konungr mælti: Þann kurr sem ek hefi á gert um ferð vára, at vér mundim fara norðr á Hálogaland, þat hefi ek ekki mælt með alhuga, eru vér þar komnir í botnholu fyrir þeim Heklungum. Nú sé ek„ at inndælla mun vera at láta skúturnar svífa suðr með landi um eyjasundin, ok er svá sem mælt er, at sá hefir, er hættir. Megu vér, ef þér vilit, snúa útleið ok svá til Víkr austr. Sigldu þeir þá í einni suðr um Stað, Konungr lét þá saman leggja skipunum ok átti tal við sína menn ok mælti: Nú sýnist mér vel hafa ráðizt til um vára ferð hér til, ok mun nú ráðligast at snúa útleið austr til Víkr, þá er til sá kostr at snúa til Björgynjar, ok er þat ekki mjök ráðligt, en heita má þat Birkibeinum hvöt, en eigi vil ek þess einkum fýsa. Allir kuru at fara til Björgynjar. Þá gerði konungr skútur nökkurar inn í Úlfasund, en hann sjálfr sigldi hit ytra. Birkibeinar tóku inn í Úlfasundi tvær skútur af Heklungum, er verit höfðu á njósn, ok drápu þá flesta, en gáfu nökkurum mönnum grið ok höfðu tíðindi af. Þeir sögðu, at þrjár skútur lágu í Áleyjarsundi á njósn, en viti var suðr á Háeynni, en annarr á Fenhring, ok sér frá þeim inn til bœjarins. Þeir sögðu, at herrinn allr svaf í bœnum, ok svá í hverjum garði ríkismenn sváfu, skip þeira flutu öll tjölduð fyrir bryggjum. Kómu þeir nú með þessum tíðindum til Sverris konungs. Konungr sendi nú lið fyrir með þessum skútum, er Heklungar höfðu átt, fóru þær skútur fyrir suðr. En er þeir sigldu suðr frá Drifeyjum, þá sá Heklungar skúturnar ok kendu, ok svá skjölduna, ok hugðu sína menn vera mundu, ok er skúturnar kómu at þeim, þá létu Birkibeinar ganga

skotin, en Heklungar hljópu á land, en sumir váru drepnir. Birkibeinar tóku nú skúturnar. ok alt þat er á var, ok biðu þar konungs. Eptir þat fara þeir suðr leið sína. Konungr gerði enn suðr fyrir skúturnar, þær er Heklungar höfðu átt, ok biðr þá taka vitann á Háeynni. En Birkibeinar váru veiðibráðir ok reru skjótara eptir en konungr vildi, ok varð vitakarl varr við ok skaut eldi í vitann, en þó varð ekki vart við til hins syðra vitans, þvíat Birkibeinar kómu skjótt ok tóku vitakarlinn ok brutu niðr vitann. Róa þeir suðr með landinu, þvíat þar bar skugga af fjöllunum. Áðr þeir kómu at Holdhellu, mælti konungr: Engu höfum vér enn í spilt um várt mál, megum vér enn láta fljóta suðr um bœinn ok hlaupa svá um horn þeim. En allir létust fúsari til bœjarins. Konungr kvezt þess ekki vildu letja, þvíat ek ætla þeim munu um felmt verða, ef vér komum þeim dyn fyrir dyrr. Vér skulum svá hátta atlögunni, at Eiríkr bróðir minn skal róa undir bergit ok 10 skútur, ok ganga þar upp, ok láta fara hans merki utan um Kristskirkjugarð ok svá fram í konungsgarð, en ek mun róa inn fyrir bryggjur ok leita til skipanna, munum vér þegar upp ganga. Úlfr af Laufnesi skal róa inn í Vágsbotn ok gegna þeim, er þangat hlaupa, ok láta þar lúðra ganga.

### *Fall Heklunga.*

67 (77). Sverrir konungr greiðir nú atróðrinn, ok svá hverir, sem ætlat er, ok þegar þeir koma fyrir bryggjurnar, höggva þeir strengina ok hrinda út skipunum. Birkibeinar hlaupa upp á bryggjurnar ok œpa heróp, stefna í garðana, þar er þeir vissu ván Heklunga fyrir. Féll þá mart af þeim. Sverrir konungr kom upp til Maríukirkju, var þar fyrir Jón Hallkelsson ok bað griða, ok gaf konungr honum grið ok sonum hans tveim Rögnvaldi ok Hallkeli. Konungr sneri nú út eptir strætinu, en sum sveitin inn eptir bryggjum, ok hjoggu út

skipin bæði smá ok stór, var Vágrinn allr fullr af skipum. Þeir Úlfr sóttu innan um strætit ok féngu enga viðrtöku. Þeir Eiríkr konungsson fara utan um Kristskirkjugarð með ópi ok lúðragangi. Magnús konungr svaf í höllinni ok öll sveit hans. Konungr hafði verit í svölunum, er hit fyrsta kom herópit inn í bœnum, hljóp hann þá fram eptir svölunum til Postolakirkju ok ofan í kirkjugarðinn, ok er þat furðuliga hátt hlaup. Konungr stefndi upp um byskupsgarð ok svá inn fyrir ofan Nikuláskirkju, kómu þar þá til hans mart Heklunga. Birkibeinar höfðu ekki rannsakat bœinn. Þá er merki Sverris konungs fór innan í konungsgarð, þá óð annat merki utan eptir garðinum, skutu hvárir at öðrum, ok var við sjálft, at þeir mundu berjast, áðr þeir kendust; fór Eiríkr þar. Sneru þeir þá allir samt ofan at höllinni ok sóttu at fast, en menn Magnús konungs vörðust. Var þat löng hríð, féll þar mart góðra drengja. En er þeir vissu, at eigi var konungrinn þar, þá lét Sverrir konungr gefa þar mörgum mönnum grið. Eysteinn erkibyskup var við Jónsbryggjur með skipi sínu; hljópu upp hans menn með vápnum ok fara inn á Jónsvöllu ok ætluðu til liðs við Magnús konung, en Birkibeinar mœttu þeim ok drápu af þeim 30 manna, en ráku aptr alla aðra, váru þeir margir sárir, er undan kómust. Féllu þar frændr erkibyskups Ólafr langi ok Guðbrandr Þorbergsson. Í höllinni féllu þeir Hallvarðr marardráp ok Páll Eiríksson or Uppdal.

Þá er Magnús konungr var kominn upp um Nunnusetr, þá mœtti konungr þar mörgu liði sínu. Hann spurði, ef mönnum þœtti ráð at snúa aptr í bœinn ok berjast, kvezt hyggja, at Birkibeinar hefði ekki mikit lið. Allir svöruðu því, at þat væri ekki ráð, þar sem margir váru nær vápnlausir, þeir höfðu ok engan lúðr ok ekki merki, ok af öllu þessu þóttust þeir ekki fœrir til bardaga, ok snerust þá til Strindarfjarðar ok þaðan í Harðangr,

ok féngu sér þar skip, skútur ok ferjur margar, fóru síðan suðr með landi bæði dag ok nótt, ok kom mart lið hans eptir honum, en sumt, þat er seinna varð or bœnum, hafði snúit upp um Álreksstaði ok léttu eigi fyrr, en þeir kómu austr í Vík.

*Sverrir var í Björgyn.*

68 (78). Sverrir konungr tók í Björgyn allan skipastól Magnús konungs. Þar tók hann alla hina ágætustu gripi hans, þar tók hann kórónuna ok gullvöndinn, er Magnús konungr var vígðr með, ok alt vígsluskrúð hans. Þar féngu ok menn mikit hlutskipti. Eysteinn erkibyskup hafði þat sama sumar komit vestan snemma ok hafði verit þrjá vetr á Englandi frá stóli sínum, ok þá sættist erkibyskup við Sverri konung, ok fór hann um sumarit til stóls síns. Sverrir konungr bauð Jóni Hallkelssyni ok sonum hans at fara til móts við Magnús konung. En Jón vildi heldr vera með Sverri konungi. Konungr kvezt þess vera úfúss, sagði, at hann hafði honum tysvar eiða svarit ok haldit hváriga, en eigi at síðr svörðu þeir honum enn eiða hit þriðja sinn, ok litlu síðar fóru þeir austr til Magnús konungs.

*Frá sýslumönnum Sverris konungs.*

69 (79). Magnús fór um sumarit suðr til Danmerkr á fund Valdimars Danakonungs, ok flýði þá landit annat sinn fyrir Sverri konungi. Sverrir konungr skipaði þá sýslumönnum alt um Rogaland ok Hörðaland. Inn í Sogn sendi hann Ívar dápa í sýslu. Um haustit fór konungr norðr til Þrándheims við öllu liðinu, ok var þar um vetrinn. Þá er Sverrir konungr var norðr farinn, líkaði Sygnum ekki við sýslumennina. Þat var litlu fyrir jól, at sýslumenn kröfðu útgerða til jólaveizlu sér, ok ætluðu at sitja í Lúsakaupangi. Kaupangsmenn vildu þat fyrir engan mun. Sókndœlir fara til kaupangs jólaaptan,

snúast þá til með þeim kaupangsmenn ok veita þeim atgöngu sýslumönnunum. Mest var fyrir þessu ráði Arnþórr af Hváli ok Ísak Þorgilsson, ok þeir synir Álgeirs prests Gautr ok Karlshöfuð. Ívarr dápi bað griða ok bauð at fara á braut með alla menn sína. Bœndr vildu þat eigi, ok drápu sýslumennina ok nær alla sveit þeira, en af hlaupi kómust undan þeir er lífit þágu. Fóru þeir hit efra norðr til Sverris konungs ok sögðu honum þessi tíðindi, ok þat at Sygnir kölluðust hafa drepit þjófa ok illmenni, ok töldu þá úbótamenn.

*Ger Maríusúðin.*

70 (80). Þat sama sumar sem Sverrir konungr hafði tekin skipin í Björgyn, var Maríusúðin alger, ok um haustit lét konungr fram setja skipit. Þat var gert fyrir ofan bœinn, ok var þat mál manna, at eigi mundi mega fram setja, nema garðar væri brotnir til, ok töldu, at konungr lýsti í skipgerð þessi ágirnd ok ofsa, mæltu margir illa fyrir skipinu. En at hinu reyndist, þá er fram var sett, at konungr hafði svá fyrir sét, at skipit gékk fram, ok þurfti hvárki at brjóta hús né garða til. En er skipit hljóp af stokkunum ok fram á ána, þá bilaði í skarar nökkurar. Þat hafði at borizt um vetrinn, þá er Sverrir konungr hafði farit suðr á Mœri, þá var meðan reist skipit í kaupangi, ok komnar við níu sýjur hvárum megin, þá er konungr kom aptr. En er konungr sá smíðit, mælti hann: Þetta skip er miklu minna efnat, en svá sem ek vil, at sé, skal nú höggva í sundr skipit ok leggja í 12 álna kjöl langan. Smiðrinn mælti á mót, en þó réð konungr, ok varð þat at skipinu, at samskarat varð mjök um botninn, ok hafði þar bilat at skörunum, þá er fram var sett. Sverrir konungr stóð upp í skipinu, þá er á vatn var komit, ok mælti: Guð sé þess lofaðr ok hin helga mær María ok hinn helgi Ólafr konungr, at þetta skip kom með heilu á vatn ok engum manni at

meini, sem margir gátu, ok rœddu þar um úvingjarnligum orðum til vár, ok guð fyrirgefi þeim þat. Nú þykki mér þat vænt, at fáir menn muni sét hafa langskip meira, er þetta mikil landvörn fyrir úvinum várum, ef til þessa skips vill auðna falla. Vil ek þetta skip gefa á traust ok trúnað hinnar helgu Maríu ok kalla þetta skip Maríusúðina, ok þar með þess biðja, at hin helga mær María sé vörn ok gæzla fyrir þessu skipi, ok hér til jartegna vil ek gefa Maríu þá gripi, er meir skal hafa til guðs þjónostu, en þat eru messuklæði, þau er erkibyskup er sœmiliga búinn um hátíðir, þótt hann beri, ok vætta þar á mót, at hon muni til líta þessarra gjafa allra saman ok veita sinn styrk ok gæfu bæði skipinu ok öllum þeim, er á því fara.

Sverrir konungr lét grafa í ennispánuna fram ok aptr helga dóma, hann skipti ok messuklæðunum, lét fara hökulinn til Maríukirkju, kantarakápu til Helgisetrs, en öll önnur til Nunnusetrs á Bakka. Maríusúðin var ekki fagrt skip, alt minna til skutanna en um mitt, ok voldi þat því, er aukit hafði verit. Sverrir konungr lét gera um vetrinn nökkur langskip. Þá var ger Hjálpin, er Þórólfr rympill hafði, ok var 6 rúm ok 20, þá var ok ger Viðsjáin, er Úlfr hafði af Laufnesi, ok enn því nær mikil.

### *Sigling Sverris konungs or kaupangi.*

71 (81). Um várit eptir páska bjóst Sverrir konungr norðan or kaupangi ok hafði 3 skip ok 20. Þar var þá með honum Eiríkr bróðir hans, Úlfr af Laufnesi, Úlfr flý, Bárðr Guthormsson, Ívarr selki, Hávarðr Jarlsson, ok höfðu mikit lið ok frítt. Konungrinn hafði Maríusúðna, ok váru á henni 2 hundruð manna ok 80. Konungr lét bera út á skipit kistur 4, ok báru 4 menn hverja, ok þóttust menn eigi vita, hvat í mundi vera. Eiríkr konungsson hafði Óskmeyna, ok var þat nær hálfþrítugt.

Sverrir konungr fór með liði sínu suðr með landi, ok höfðu mikit lið ok frítt. Konungr bað nú sína menn vera spaka ok friðsama, frétta vandliga, hvat væri í hverju um hvers manns rœður, hvárt sem væri meiri eða minni, ok kunna honum at segja allar nýlundur, þótt þeim þœtti lítils um vert. Þeir féngu hvast veðr fyrir Staði, varð Maríusúðin klökk mjök fyrir stálinu ok skaut mjök lykkjunum. Konungr sneri inn til Úlfasunda, ok er hann lá þar, urðu menn varir við, hvat í þeim hinum miklum kistum var, þar var or tekinn skipsaumr ok fœrðr í skipit. Konungr fékk ok reksaum í hvert hálfrými. Konungr segir þá liðinu, at hann vill fara inn í Sogn ok heimta gjöld eptir menn sína. Þá beiddust menn at fara til Björgynjar, þeir er þannin áttu erendi. Konungr lofaði mönnum þat, þvíat hann vissi eigi þá vánir úfriðar svá bráðendis, ok fóru suðr 3 skip. Réð fyrir því liði Svínapétr, skiptust menn þá millum skipanna.

*Hernaðr Sverris konungs í Noregi.*

72 (82). Sverrir konungr sneri nú inn í Sogn við 20 skipum, lá fyrst í Ruslum ok sendi boð inn í Sóknadal, at bœndr kœmi til hans í Hvamsey, ef þeir vildi sættast við hann. Fór þá konungr inn þannin, kómu þá bœndr ok festu konungi gjald. Konungr dœmdi á hendr þeim 15 merkr gulls, skyldu þeir koma með gjaldit innan 3 nátta. Fóru bœndr heim ok unà illa við, gera nú ráð sitt at flytja fé sitt á merkr ok fjöll ok eyða alla bygðina. En er konungr fann, at þeir rufu stefnuna, þá siglir konungr inn þar sem firðirnir skiljast, gerir hann þá frá sér Úlf af Laufnesi ok Þórólf rympil með 6 skipum inn til Lúsakaupangs, ok bað þá elda þar baðstofur bónda. Ok er þeir kómu inn í Lúsakaupang, rændu þeir þar fé öllu, en brendu kaupstaðinn, ekki féngu þeir af mönnum. Sverrir konungr sneri inn í Nórafjörð 14 skipum, ok lagðist inn við Sóknadal; þat var óðinsdaginn at aptni.

Þórsdags myrgininn bað konungr menn upp ganga, tvá menn, þar er einn væri eptir, or hverju hálfrými af öllum skipunum. Hann bað menn ræna fé, en eigi drepa menn, utan bœndr sæti áhlaupum við yðr, en ef bœndr forðast fund várn ok vilja eigi sættast við oss, þá skulu vér svá héðan fara, at bœndr skulu eiga þar smíðarkol, er nú eru bœir þeira; látið þér aldri kot eptir standa, gætið þér til um kirkjur, þar er svá má vera. Farit nú hermannliga, er yðr er lofat. Þá lét konungr setja upp merki sitt ok sneri á leið liðinu, þá þeystist allr múgrinn. Sá konungrinn, at fátt eitt var manna eptir at skipunum, kallaði hann þá, at menn skyldu eigi eyða skipin, en engi lét sem heyrði. Sneri konungr þá sjálfr aptr til skipanna ok lét heimta skipin út undir strengi. En er Birkibeinar géngu upp, urðu þeir ekki við menn varir, ok við engan búsmala, ok auð váru öll hús. Géngu þeir um daginn ok um nóttina ok fundu einn mann, þann er þeim sagði, at alt fólk var flýit á fjöll ok merkr. Frjádaginn viku þeir Birkibeinar ofan ferð sinni eptir dalnum, ok er þeir koma til efsta bœjar, þá skutu þeir þar eldi í ok brenna, ok létu svá ganga ofan eptir bygðinni. Vindr var á lítill, brann náliga öll senn bygðin. Síðarst brendu þeir á Steðju, ok dvöldust þeir þar mjök lengi, þvíat eldinn vildi leggja at kirkjunni, en þeir báru fyrir segl vátt. Tíutigu bœja brendu þeir þar, ok var þat áðr allfögr bygð. Lét konungr þá braut leggja skipunum ok yfir til Hugastrandar, ok lögðu þar at, er heitir Fimreiti.

*Frá Magnúsi konungi.*

73 (83). Frá Magnúsi konungi er þat at segja, at hann var um vetrinn í Danmörk, fór hann snemma um várit til Víkrinnar. Fjórða dag páska kom Ásbjörn Jónsson af mönnum Magnús konungs til Konungahellu. Var þá móts kvatt. Ásbjörn sagði þá mönnum, at ván var til bœjarins Magnús konungs, bað menn taka vel við

honum, kvað öllum nauðsyn á at vingast við hann, sagði konung góðs vænta af öllum mönnum austr í land. Talaði langt ok snjalt, ok gerðu menn góðan róm at máli hans. Dróttinsdaginn eptir páskaviku kom Magnús konungr til bœjarins, hann hafði 4 skip ok 20, ok var ger processía á mót honum, ok með miklum fagnaði var við honum tekit. Drakk konungr í garði konu þeirar er Ragnhildr hét. Þar váru þá með honum margir mikils háttar menn, Ormr konungsbróðir, Munan Gautsson, Hallkell Jónsson, Ásbjörn Jónsson, Haraldr son Inga konungs, ok margir aðrir ágætir menn. Magnús konungr dvaldist í bœnum 3 vikur ok fór þaðan til Túnsbergs. Af Konungahellu hafði hann 2 skip, hét annat Keip, en annat Vallabuza.

### *Enn frá Magnúsi konungi.*

74 (84, 85, 86). Magnús konungr fékk góðar viðtökur í Túnsbergi. Kom þar mart manna til hans, átti hann þar húsþing ok mælti svá: Kunnigt mun yðr vera, hversu mikit válk ok vandræði vér höfum þolat í ríkinu. Nú vil ek beiðast af yðr nökkurs styrks, til þess at ek mætta ná ríki mínu; en því vil ek yðr heita á móti, at þessa skyldu skal eigi opt héðan ífrá þurfa á yðr at leggja. Er þat eigi undarligt, þótt mörgum leiðist at róa leiðangrinn með oss, því at mörgum verðr hann skaðsamr; en fyrir því at ek var smurðr ok kórónaðr til lands þessa, þá þori ek eigi fyrir guði at rjúfa svá eiða mína, er þar fylgðu, ok vil ek heldr sœkja til lands þessa með oddi ok eggju, meðan mér vinnst líf til. En sé ek þat ráð fyrir mér, at meira væri hóglífi ok minni mannhætta, at taka lén af Valdimar konungi frænda mínum. Menn gerðu mikinn róm at máli hans, ok mæltu allir sem eins munni, at honum vildu þjóna, ok betra þætti at deyja með honum en þjóna Sverri. Túnsbergsmenn féngu honum langskip alskipat. Konungrinn dvaldist

þar hálfan mánað. Fóru þaðan norðr, ok byrjaði vel ok seint, lágu þeir 2 nætr eða 3 í hinni sömu höfn. Þeir váru jafnan kátir mjök, váru jafnan í leikum, þar er þeir dvöldust. Konungr var optast fálátr. Í Karmsundi fengu þeir sönn tíðindi af ferðum Sverris konungs. Þá sendi Magnús fyrir norðr til Björgynjar Eilíf orra son Klemets af Grafdal. Hann fór þriðju nótt viku ok kom aptr til konungs miðvikudaginn ok sagði, at Birkibeinar váru þar í bœnum 3 skipum, ok væri Svínapétr fyrir þeim.

*Frá siglingum Magnús konungs.*

75 (86). Magnús konungr bað menn reka af sér tjöldin, sagði, at Birkibeinar félagar þeira væri í Björgyn, ok mundu vilja hafa göngudrykkju við þá, ok mun þeim þykkja, sem nú ættið þér at skenkja. Þessu urðu Heklungar fegnir ok sneru út skipunum. Veðr var vátt ok þvert. Magnús konungr hafði Skeggjann, Ormr konungsbróðir Skjaldmeyna, Nikulás kúfungr Erkisúðna, Munan Hreininn, gestir höfðu Fleyit mikla, þat var austrfararskip. Á skipi Munans brotnaði tréit, ok varð fyrir maðr ok dó þegar, tók þá veðrit at vaxa. Þóraldi þrymr hét maðr, er var á skipi Magnús konungs, hann mælti: Vátt gerir nú á þiljunum frammi, ok drífr um söxin, þœtti frambyggjum betra at sigla minna. Konungr svaraði: Ek vissa eigi, at eld skyldi taka fram á þiljunum, ok bað eigi svipta, bað heldr bera at hvert reip sem harðast mátti. Þórsdaginn um miðmundaskeið sigldi konungr á Váginn, lögðu þegar at bryggjum ok hljópu upp. Birkibeinum váru þeir hinir mestu vágestir, fyrir því at þeir höfðu ekki spurt til Heklunga, hljópu allir upp or bœnum, þeir er lífit þágu. Svá var at sjá í fjallit upp sem logaði, er roðaði af skjöldunum. Þar féllu nær 30 manna. Heklungar flettu þá fullskjótt af klæðunum. Magnús konungr bað engan mann vera svá djarfan, at lík þeira grœfi, fyrr en hann kœmi aptr til

bœjarins, lét hitt þó vera bezt fallit, at þeir biði þar hunds ok hrafns. Konungr lét blása til þings ok talaði sjálfr ok mælti: Hér væntum vér oss styrks ok fulltings í þeima bœ af býjarmönnum, hafi þér svá jafnan gert við mik ok föður minn, var hér ok jafnan heimili várt, meðan vér áttum um kyrt at sitja, eru hér flestir frændr mínir ok fóstbrœðr. Nú mun ek leita fyrst, ef fundi vára Sverris mætti saman bera, en eptir skilnað várn ætla ek mér hingat til bœjarins ok koma þá með friði ok fagnaði öllum oss. Þá varð mikill rómr at máli hans, ok mæltu allir: Guð láti yðr heila aptr koma, herra, ok þat alt fá í þessi ferð, sem þér vilit sjálfir. Konungr sneri þá til skipanna ok lét blása til brautlögu. En þat segja menn, at svá margar krákur væri á konungsskipinu, at hvert reip var þakit, ok eigi höfðu menn fyrr sét slík undr. Magnús konungr fór or bœnum um kveldit með öllu liðinu.

*Frá Magnúsi konungi.*

76 (87). Magnús konungr sigldi norðr um sundin ok veik inn um Sognsæ, ok höfðu lítinn byr. En er Sygnir kendu ferð hans, þá reru margir menn á bátum til þeira ok géngu upp á skipin ok slógust í ferð með þeim, ok sögðu slík tíðindi, sem váru, um athæfi Birkibeina ok illvirki. Þessum tíðindum urðu menn fegnir ok sögðu, at nú mundi þat í kaupast, at þeim væri steypt, er svá mart ilt hefði gert í Noregi. Ívarr elda hét maðr, er bjó á Sýrströnd, hann sat yfir matborði, þá er sén var sigling Magnús konungs, hann stóð þegar upp ok rœr út til flotans, ok gékk upp á konungsskipit. Konungr fagnaði honum vel. Magnús konungr sigldi inn eptir firðinum, þar til er firðirnir skiljast, veik hann þá inn í Nórafjörð ok hafði 6 skip ok 20, ok yfrit stór ok allvel skipuð af mönnum ok vápnum.

*Frá Sverri konungi.*

77 (88). Nú er at segja frá Sverri konungi, at frjádaginn eptir, er þeir höfðu brent í Sóknadal, lá hann við Hugaströnd ok mataðist at nóni, ok hafði þar 12 skip, en 2 lágu eptir inn í Sóknadal. En er menn höfðu matazt um hríð, þá heyrði konungr, at varðmenninir mæltu, þeir er gegnt váru konungsskipinu við sjónarvörðinn, at þeir sá mörg skip sigla utan eptir Sognsæ, váru stundum at sjá 6 eða 7, en þá er meir bar í sundr, sá þeir 10 eða 12. Varðmenn mæltu sín á millum, hvat skipum vera mundi, ætluðu helzt, at vera mundi ferjur, ok hafa samflot sunnan or Björgyn, sumum þótti vera líkara langskipa seglum. Konungr stóð þá upp frá borðinu ok fór til lands ok til varðmanna. Drifu þá menninir utan af skipunum, ok gat síns hverr til, hvat skipum vera mundi. Konungrinn stóð upp um hríð ok horfði á ok mælti: Ekki þurfum vér at dyljast við, þat eru víst langskipa segl. Lét konungr þá blása öllu liðinu til landgöngu. Tók konungr þá til orða ok mælti svá: Enn kann vera um oss Birkibeina, at verði sem fyrr, at vér eigim starf fyrir höndum, þvíat nú mun brátt koma Magnús konungr at vitja vár. Ok er yðr þat nú öllum kunnigt, at lið várt er farit á braut mikit, sumt suðr til Björgynjar, ok ráði guð fyrir, hvert þeira erendi er vorðit, mikit lið höfum mér sent inn til kaupangs at brenna þar; kemr oss þat lið nú ekki at haldi. Nú væntir mik, ef vér bíðum hér Magnús konungs, þó at oss hafi optliga þótt, þá er várir fundir hafa at borizt, sem vér hafim við mikinn liðsmun átt fyrir fjölmennis sökum, þá þykki mér þat líkara, at vér munim þó aldri átt hafa við jafnmikinn liðsmun sem nú. Nú vil ek, at vér gerim ráð várt, hvárt vér skulum veita viðrtöku með því liði, sem nú höfum vér, eða sýnist yðr at leifa skipin ok ganga á land; munum vér nú ekki vel hafa vingazt við þá, er hér búa fyrir í Sogni, mun þá Magnús kon-

ungr ok hans menn fara eptir oss, ok þar með allr landsmúgrinn, hvar sem vér komum. Nú er yðr ok þat at segja, at með svá miklu válki ok vandræði sem ek þolda, áðr ek fékk þessi skip, ok með því at nú láta ek þau, þá mun ek eigi ráða optar til skipa í Noregi, ok mun þá verða hverr fyrir sér at sjá. Nú vil ek eigi með einræði mínu leiða yðr í svá mikinn háska, ef allir þykkjast sjá, at eigi mun hlýða, ek vil ok eigi æðrast at veita viðrtöku, ef liðsmönnum várum þykkir þat ráðligra. Ok er hann lauk málinu, þóttust menn finna, hvat hann vildi, þótti öllum einsætt at rœma svá, sem hans vili stóð til, en eigi þótti þeim vænt stefnt. Þá svöruðu allir náliga senn, kváðust heldr vildu víst berjast en flýja, sögðu, at ekki mundi til saka, létust opt hafa barizt við mikinn liðsmun ok unnit þó sigr. Þá svaraði konungr: Nú hafit þér þat kerit, sem mér var skapfeldra, ok nú kann ek yðr þat at segja, ok verðit við at betr ok drengiligar, at nú munu þér konunginn í hel setja. Þat orð fékk mörgum áhyggju, hvárr sá konungr mundi vera. Konungr bað menn búast um á skipunum ok róa inn eptir liði váru í Sóknadal ok biðja þá koma til móts við oss.

Var þá svá gert. Festu Birkibeinar þá svarðlykkjur innan í borðunum. Menn fluttu nú út grjót á smábátum, váru nú allir í miklum starfa. Var þat auðsét á Birkibeinum, at þeir váru vanir þessum starfa. Víggyrðluðu þeir nú skipin. En þeir er konungr hafði inn sent eptir liði sínu, mœttu hinum, er þeir fóru innan, ok sögðu þeim þenna pata. En þeir á langskipunum bregðast við, ljósta í árum ok róa sem mest, ok er þeir sœkja á mót liðinu, þá keppast þeir svá mjök um róðrinn ok róast svá nær, at þeir brjótast árarnar fyrir. Þá mælti konungr: Önnur efni eru nú í váru máli, en þér lemizt róðrinn fyrir, bað þá snúa at landi, sagði þá þar skyldu bíða Magnús konungs. Var þá grjótit út flutt, sem þeir vildu, ok svá

víggyrðluð skipin. Konungr bað upp bera skutfestar á öllum skipum ok leggja árar til róðrar. Lá konungsskipit utarst við ströndina. Vápnuðust menn þá ok skipuðust í rúmin. Sverrir konungr gékk á land ok þar er var einn bekkr, lét hann þá gefa sér handlaug ok lét strýkva klæði sín, svá sem hann skyldi ganga til veizlu nökkurrar. Hann hafði öll brúnuð klæði. Eptir þat gékk hann ofan á bergit, þar sem skip hans lá undir niðri, ok mælti þá enn nökkurum orðum ok tók um skipstafninn. Menn tóku af hendr hans, þvíat bráð var eigi þurt á brandinum. Þá mælti konungr: Eigi munum vér tengja saman skip vár, þess munum vér njóta, ef hlýða skal, at vér höfum borð há ok kœnt lið. Vér eigum einn útveginn, þann er vér megim lífinu halda, þann einn at stíga yfir fjándmenn vára, þvíat hvárki dugir oss at flýja né friðar at biðja. Gætið vápna yðarra ok berit eigi fyrir borð at únýtu, hlífit yðr fyrst, gæti hverr annars, en guð allra vár. Váru þá sett upp merkin. Lítið kleppurnes gékk fyrir utan hjá skipunum þeira, ok sá þeir nær ekki út á fjörðinn. Þá lét konungr róa út á fjörðinn skútu eina at sjá til Heklunga, ok er þeir höfðu fá vörru róit, þá reru þeir aptr hálfu ákafligar ok sögðu, at þar fór þá flotinn. Var þá blásit. Reru Birkibeinar þá út öllum skipunum á móti ok œptu þegar heróp. Þórðr Finngeirs bróðir stýrði Maríusúðinni.

*Tala Magnús konungs.*

78 (89). Magnús konungr sótti nú inn í fjörðinn eptir Birkibeinum, ok þá er þeir vissu, at skamt var í millum þeira, hlóðu þeir seglunum ok létu renna skipin at viðum. Váru Heklungar þá ok herklæddir. Þá mælti Magnús konungr: Kaupskip þessi hin stóru, er vér höfum, þau skal tengja í millum skipa okkarra Orms, skulu vér flytjast at hinu mikla skipinu ok festa þau saman; munda ek þat vilja, at þau væri eigi í sundr leyst, fyrr en önnur

hvár sé hroðin. Veit ek, at þat mun margra manna mál ok skaplyndi, at sá orskurðr þœtti góðr, ef féngist, at vit Sverrir rerim eigi báðir fleiri leiðangra, ok nær er þat mínu hugboði. Ek var 5 vetra gamall, er landshöfðingjar gáfu mér konungsnafn, en 7 vetra, þá er legatus af Róma ok Eysteinn erkibyskup vígðu mik til konungs, ok með þeim allir lýðbyskupar. Var ek þá svá bernskr, at ek kunna hvárki at ráða fyrir orði né eiði, ok betra þótti mér þá at vera í leik með öðrum sveinum en sitja millum höfðingja. Eigi keptumst ek til konungdómsins, ok lítið hóglífi hefi ek haft innan lands. Nú hefi ek vetr 8 ok 20, ok á þessum 8, er nú hafa næstir verit, hefir bæði orðit ríkit minn skaði ok annarra, en guð launi vinum mínum ástsamliga fylgð, er mér hafa veitt í mörgum mannraunum. Er nú nauðsyn, at hverr dugi sem mannligast, eru nú yfrin efni til, þvíat lið skortir oss ekki, ok sê guð þess lofaðr, þvíat hvar sem vér höfum við land komit, hefir lið til vár komit; en Sverrir hefir dreift sínu liði hingat ok þingat, ok hefir nú fátt eptir, eru hér nú ok luktir inni í firðinum, sem sauðir í kví. Láti guð svá lúka þessum fundi, at vér megim síðan hafa frið ok frelsi fyrir úvinum várum, hvárt sem vér erum þá lífs eða liðnir. Þá varð mikill rómr at máli hans, ok mæltu allir: Mæl þú allra konunga heilastr, ok láti guð þik steypa úvinum þínum! Þá mælti Ormr konungsbróðir: Þat væri mitt ráð, herra, at vér legðim at hinum smærum skipunum fyrst, ok mun þar verða lítil viðrtaka, en hit mikla skipit ætla ek verða torunnit, meðan þeir hafa gnógan skipkost ok svá lið hit sama af öðrum skipunum at fulltingja sér. Konungr svaraði: Mér þykkir sem öll skip þeira sé unnin, ef hit mikla er unnit. Var svá gert, sem konungr mælti, váru samantengð þau 4 skip, fór konungsskipit næst suðrlandinu.

*Tala Ásbjarnar Jónssonar.*

79 (90). Ásbjörn Jónsson lagði fram sitt skip hjá Orms skipi ok mælti: Nú er sá dagr kominn, er vér höfum langat til, at Sverrir ok þeir Birkibeinar eru nú hér fyrir oss teknir sem sauðir í kví, er nú lokit brögðum hans ok slœgðum, þvíat nú mun sá bregðast honum, er hann hefir öll ráð af tekit, en þat er fjándinn, er hann trúir á, er hann svá vanr við sína vini at fá þeim framgang um hríð en bregðast á endadögum lífs þeira. Sverrir er nú ráðlauss; hann sendi frá sér Svínapétr suðr til Björgynjar, höfðu þeir þangat skapnaðar erendi. Inn í Sogn sendi hann þá, er verstir eru af þeim, fjándalimir gestirnir, ok sá er flest ilt hefir gert, Úlfr af Laufnesi þorparasonrinn. Sverrir hefir nú enn aukit illgerðir sínar, er hann hefir eytt með eldi kristit land, ok þat eina ilt hefir hann áðr úgert, svá sem nú skal hann þess gjalda. Sœkjum nú at Birkibeinum, tveir eða þrír at einum, ef þat þykkir léttara, höggum stórt þat sem at oss horfir, hirðum eigi um, hvar á kemr, úvant er at brjóta mat fyrir hund ok hrafn, vísi Sókndœlir sálum þeira. Mikill rómr varð at máli hans, ok mæltu menn, at þat væri vel mælt. Þá tengðu þeir saman skipin. Magnús konungr hafði hálfskiptan kyrtil af skarlati, hálfr hvítr en hálfr rauðr. Með sama hætti ok lit hafði Magnús mangi son Eiríks stagbrells. Konungr hafði þat sverð, er Fiskhryggr hét, ok var sverða bezt.

*Upphaf orrostu í Sogni.*

80 (91). Nú er at segja nökkura atburði, þá er gerðust í fundi þeira tveggja konunga. Er þar til at taka, at Birkibeinar reru út á mót Heklungum, ok þegar sá þeir, at flotinn rendi at þeim. Fyrir þessum flota var at sjá á sjónum sem stórt regn í logni. Þessi skúr leið skjótt yfir, ok var þat örvadrífa, þurfti þá skjöldu við. Maríusúðin reist krók langan, er þeir skyldu snúa henni,

ok áðr en henni væri fullsnúit, þá renna saman skipin. Koma skip Magnús konungs framan á hlýrit ok sló Maríusúðinni flatri við; stafnar Magnús konungs skipa horfðu at, ok lá Skegginn at fremra austrúmi, en þá hvert at öðru fram ífrá, sem rúm höfðu. Varð þar mikil orrosta, váru Heklungar allákafir, en Birkibeinar hlífðust meir við, ok sveif öllum saman flotanum inn með ströndinni. Úgreitt tókst Birkibeinum atlagan í fyrstunni, varð Maríusúðin milli landsins ok skipanna Magnús konungs. Sverrir konungr hljóp þá á einn bát við annan mann ok reri til skips Eiríks konungssonar, kallaði konungr á þá ok sagði þá fara illa ok údjarfliga, bað þá róa út um hit mikla skipit ok leggja þar til, sem hin smæri væri skipin Heklunga, ok freista, hvat þeir féngi þar at gert. Konungr reri millum skipanna ok eggjaði sína menn, sagði, hvar þeir skyldu at leggja. Birkibeinar urðu vel við orðum konungs ok lögðu fram djarfliga, ok alt slíkt þágu þeir af öðrum. Konungrinn reri þá aptr til skipa sinna, ok var lostit öru í bátstafninn yfir höfði honum, ok þegar annarri í borðit fyrir knjám honum. Konungr sat ok brást ekki við, en sá mælti, er honum fylgði: Hættligt skot, herra! Konungr svaraði: Þá kemr nær, er guð vill. Ok er konungr kom aptr til skips síns, þá var svá mikill vápnaburðr yfir Maríusúðinni, at hann komsta upp í skipit, sneri hann þá til lands. Munan Gautsson lagði sitt skip at landi, ok báru út stórt grjót, ok báru svá á Maríusúðina alt um fyrirrúmit. Féngu þeir allharða hríð, er þar bjoggu. Frambyggvar urðu mest fyrir atsókn Heklunga ok vápnaburðinum, ok mæltu þeir sín á millum, at fyrirrúmsmenn skyldu nú launa konungi mjöðinn eða kyrtilsklæðin. Þá hétu skutbyggjar á stjórnbyrðinga, at þeir skyldu fram róa. Gerðu þeir svá, drógu fram skipit, svá at Skegginn lá þá við eptra austrúm; höfðu þá allir bakbyrðingar yfrit at vinna, þvíat þá lágu 14 skip á annat borð Maríusúðinni. Heklungar létu ganga skot ok kesjur ok

harðsteinagrjót, er þeir höfðu flutt austan or Skíðunni. Var þat hinn mesti mannsváði, eigi bar svá nær, at þeir mætti höggum við koma. Birkibeinar hlífðu sér ok máttu ekki öðru við koma, féllu þó margir, en náliga allir sárir. Svá váru þeir Birkibeinar móðir ok barðir, at þeir váru sumir, er annattveggja váru lítt sárir eða ekki, ok váru þó dauðir af erviði. En fyrir þá sök dvaldist uppgangan Heklunga, at þeim var úhœgt við at komast, er þeir áttu um stafninn at sœkja, en ef þeir hefði síbyrt við, þá mundu miklu fyrr aðrirhvárir hafa upp gengit.

*Orrosta ok sókn Eiríks konungssonar.*

81 (92). Nú mun svá þykkja þeim, er til hlýða, sem eigi sé líkligt, ef frá lyktum orrostu er sagt, en þó skal nú þat inna, hvat mest bar til með auðnunni, er svá snerist sigrinn, sem úlíkara mundi þykkja. Eiríkr konungsson með þau 13 skip, er laus fóru, reru út um hit mikla skip ok lögðu at þeim Heklungum, er yztir váru, lagði þar borð við borð, ok var þar hin snarpasta orrosta. Höfðu Birkibeinar stœrri skip ok lið fleira, sóttu at hart ok vígmannliga. Heklungar tóku ok á mót röskliga, þóttust menn þat eigi vita, hvárt fyrr mundi um skipta með þeim eða mundi hit mikla skipit vera hroðit. Margir bátar váru þar, er Sygnir áttu, ok lágu þeir í skotmáli við Birkibeina ok skutu á þá. En er þeir Eiríkr höfðu haft höggorrostu um hríð, urðu Heklungar ofrliði bornir, féllu sumir, en sumir eyddu hálfrýmin. Snerust Birkibeinar þá til uppgöngu. Benedikt hét sá maðr, er bar merki Eiríks konungssonar, hann gékk upp fyrst ok þeir stafnbúar. En er Heklungar sá þetta, snerust þeir á móti ok drápu Benedikt ok þá alla, er upp höfðu gengit. Eiríkr eggjar nú Birkibeina, at þeir gangi upp í annat sinn, ok veita þeir nú harða atgöngu í annat sinn ok ná nú merkinu, veita nú svá harða atsókn, at Heklungar

hrökkva nú undan, hlaupa þeir nú á þat skip, er næst þeim var. Birkibeinar sœkja nú eptir fast. Var þá sem jafnan, þegar er flótti kemr á menn, at þeir verða sjaldan góðir aptrhvarfs, þótt vaskir sé þess á milli. Varð hér nú minni viðrtaka en á hinu fyrra skipi, ok hljópu nú allir af því skipi, ok svá hvert at öðru, en Birkibeinar eptir þeim með ópi ok kalli, ok drápu alt þat er fyrir varð. En þá er múgrinn flóttans geystist inn á stórskipin, þá hljópu þeir á kaf menn af konungsskipinu, þvíat þat lá næst landinu; en önnur fjögur, þau er stœrst váru, sukku niðr undir mannfarminum, þat var Orms skip ok Ásbjarnar ok gestafleyit.

*Rœður Sverris konungs.*

82 (93). Sverrir konungr var á landi, ok er hann sá þessi tíðindi, gékk hann ofan til bátsins, ok með honum Pétr son Hróa byskups. Þá reri at utan skúta ein, ok ætluðu til landgöngu. Konungr kallaði á þá: Snúit þér aptr, sé þér nú, at þeir flýja. En þeir á skútunni gerðu ok svá, sneru út aptr ok sá þá hin sömu tíðindi sem fyrr, lustu í árum ok sneru út eptir firði. Pétr mælti til konungs: Kendu þér þá, herra, eða fyrir hví mæltu þér svá? Konungr svaraði: Mundi eigi þat eina til at mæla svá, hvárir sem væri? Konungr fór þá út til skipsins ok gékk aptr í lyptingina ok hóf kirial ok fagnaði sigri sínum, ok sungu allir með honum.

*Fall Magnús konungs.*

83 (93). Magnús konungr hljóp fyrir borð af skipi sínu, ok alt þat lið er á var því skipi, ok týndist þar allr fjöldi. Birkibeinar hljópu upp á land ok tóku við þeim í fjörunni, er til landsins leituðu, kom því engi fjöldi hersins á land. Nökkurar skútur reru út eptir firðinum ok kómust svá undan. Birkibeinar reru út sínum skútum ok drápu Heklunga á sundi, en sumum

gáfu þeir grið. Allir féngu þeir grið, er á konungs fund kómust; lendir menn ok aðrir skipstjórnarmenn gáfu grið frændum sínum ok vinum.

*Sagt frá mannfalli.*

84 (93). Þar féllu með Magnúsi konungi þessir höfðingjar: Haraldr son Inga konungs, Magnús son Eiríks stagbrells ok var dótturson Rögnvalds jarls, Ormr konungsbróðir, Ásbjörn Jónsson, Rögnvaldr Jónsson, Páll smáttauga, Loðinn af Manvíkum, Ólafr Gunnvaldsson, Eindriði torvi son Jóns kutizu, Ívarr elda, Vilhjálmr af Torgum, Andres son Eiríks sonar Guðbrands kúlu, Ívarr steig son Orms konungsbróður, Hallsteinn sinkr frændi Magnús konungs, Ketill Lafranzson, Sigurðr hít, Ketill fluga. Þar féll at flestra manna ætlan eigi færa en 18 hundruð manna. Þat var Vítusmessu at apni, er orrostan var, þat var um sólarfallskeið, er meginflóttinn brast, en þat var um miðnætti, er lokit var öllum manndrápum, ok Birkibeinar höfðu flutt skip sín til lægis, ok þeir höfðu umbúizt.

*Tala Sverris konungs.*

85 (94). Um myrgininn eptir árdegis lét konungr blása til húsþings, stóð þá konungr upp ok talaði á þá leið: Guð sjálfan skulum vér lofa fyrir sigr várn, er hann hefir nú miklu berara en fyrr veitt oss sinn styrk ok krapt í þessi orrostu, ok fyrir því at vér megum eigi kenna oss sigrinn annan veg, en þetta hafi farit eptir guðs vilja ok tilskipan. Ok veitum honum hér í mót makliga þökk ok þægilig laun, ok er þat fyrst at halda vel grið vár við þá menn, er til griða eru gengnir við oss. Veitum ok hjálp sárum mönnum, veitum ok gæzlu líkum þeim, er vér megum ná, eptir siðvanda kristinna manna. Nú vil ek þat bjóða at skyldu mínum mönnum, at þeir leiti líka fyrir ströndinni, hverr með slíkum brögðum eða efnum, sem til hefir, er þat bæði

þeim, er gera, þægiligt til guðs ok þó afli til fjár, fyrir því at allir munu nökkut fé hafa haft á sér, en sumir mikit. Nú vænir mik, at vald lands þessa mun komit undir oss, hvárt sem vér viljum því stjórna vel eða illa, ok mun guði þökk á því vera, at vér sém friðsamir ok réttir, ok þess munu ok margir þykkjast þurfa. Nú er þat at mæla til yðar minna manna, at guð launi yðr ástsamliga fylgð, er þér hafit mér veitt, skal ek ok launa yðr með góðu ok eptir hinum beztum föngum, er ek hefi nú til. Gott er nú at vita þat, at þér eigit ok alt þat fé, er þessir hafa átt gullhálsarnir, er hér liggja fyrir ströndinni, þat skulu þér hafa ok þar með hin beztu kvánföng, er til eru í landinu, ok þvílíkar nafnbœtr sem yðr líkar. Þér hafit fleira aflat í þessi snertu, ok er þat sumt, er vér höfum áðr œrit, þat eru öfundarmenn mínir, ok skulum vér þar gæta vár fyrir, en guð gæti allra vár! At þessu máli varð mikill rómr, ok þökkuðu menn konungi vel sín orð.

Konungr lét þá róa öllum skipunum inn með ströndinni ok lagði þar við land, er eigi mátti kenna af valnum hrævadaun. Þá kómu til konungs Sókndœlir ok kaupangsmenn, ok sættust þá við konung, mælti þá engi maðr á móti því, sem konungr vildi at væri. Kom þat þar fram, er mælt er, at margr kyssir á þá hönd, er hann vildi gjarna, at af væri. Konungr skyldi þá bœndr til at flytja líkin til graptar ok bað hvern um búa vel, sem hann vildi um sinn hugðarmann. Fóru þá menn hvern dag á bátum at leita líkanna fyrir ströndinni. Einn dag fannst lík Orms konungsbróður, ok tóku við því Víkverjar ok fluttu austr til Oslóar, var hann lagðr í steinvegginn í Hallvarðskirkju hjá Inga konungi bróður sínum ok Sigurði konungi Jórsalafara.

*Gert ráð fyrir líkum.*

86 (95). Sunnudaginn annan eptir, er á leið kveldit, fóru margir menn at leita líkanna, konungrinn kom ok

til þeira á litilli skútu. Ljótr hét maðr ok var Haralds son, hann reri á báti ok tveir menn með honum, Árni Guðmundarson ok Jón kollr. Konungrinn mælti til þeira: Siti þér hér á fiskinni fast, eða hversu veiðist? Ok í því bili drógu þeir upp lík. Þá mælti konungr: Dýran drógu þér þar at borði, ok er yðr gipta í þessu. Ljótr svaraði: Á hefir þá bitið mjök vel, herra, ef þetta er lík konungsins. Hann svaraði: Þetta er lík Magnús konungs. Var þá hafit í skútuna, þá er konungr var á, ok reru til lands með. Var líkit borit upp. Géngu þá margir til at kenna, ok var ekki brugðit yfirbragðinu, ok roði í kinnum ok ekki stirðnat. Mánadaginn var kista búin, ok áðr lík konungs væri sveipat, þá lét konungr ganga til þá menn, er áðr höfðu verit menn Magnús konungs, ok bað þá kenna lík ok bera síðan vitni um, ef nökkurir menn slœgi því upp, at Magnús konungr lifði, ok efldi með því nökkurn illgerðaflokk. Þeir géngu til ok máttu nær engir vatni halda, sumir kystu líkit ok géngu frá síðan. Síðan var líkit sveipat ok lagt í kistu, lét konungr flytja suðr til Björgynjar. Mart var áðr fundit líka stórmennis. Síðan bjóst konungr á braut, guldu Sókndœlir honum þá 15 merkr gulls. Fór Sverrir konungr þá suðr til Björgynjar. Váru þá komin þessi tíðindi áðr þar.

### *Tala Pétrs í Björgyn.*

87 (96). Þat var laugardaginn, er á leið, hinn næsta eptir orrostu, at skip mikit kom til bœjarins, ok var þegar blásit til móts ok sagt, at Svínapétr vildi þing hafa, ok kemr þar allr bœjarlýðr. Stendr Pétr upp ok mælti: Hér kemr at því, sem mælt er, opt hit sama svín í akri. Ek heiti ok Svínapétr, en skamt er á at minnast, at vér várum héðan keyrðir hæðiliga or þessum bœ, ok erum nú enn aptr komnir. Tíðindi höfum vér mikil at segja, fall Magnús konungs ok Haralds Ingasonar ok

margra annarra höfðingja, en hingat er ván til bœjarins Sverris konungs, ok bað þess, at þér skyldit vel við honum taka, sem tign hans byrjar ok hœfir, at sé. En hverju gegnir þetta, er allir menn drepa niðr höfði eða beri klæði fyrir andlit sér, ok þat veit guð, at aldri fyrr sá ek menn svá at undri verða, en þat kann ek at segja yðr með sönnu, at aldri látið þér nú svá illa eða snöktit ok syrgit, at eigi sé nú dauðr Magnús konungr ok allr herr hans, ok mun þeim sú eptirgerð væmi vera, at þér látið hringja eða syngja yfir sál þeira eða gefa fé fátœkjum mönnum eða klerkum til bœnahalds. Ekki týr yðr nú tauta eða tutla hann Sverri af konungdóminum, beygt hefir hann nú Sverrir konungr hálsa á stœrrum bukkum, en þér erut bœndr eða kaupmenn, hann kvíðir sér, hann kvíðir fé sínu. Takit nú við Sverri konungi, er guð hefir sent yðr, þá hafi þér höfðingja réttan, vitran ok málsnjallan, mildan ok réttlátan, friðsaman ok griðsaman, ok ágætan sigrvegara, öruggan til landvarnar ok landsgæzlu. Brautu er sá Sverrir, er með hernaði fór til kaupstaðanna, ok Birkibeinar þeir eru brautu, er hér sveimuðu um bœinn ok sópuðu hirðslur bónda. Hér mun nú koma með konungi várum hirð spök ok hógvær, er vera skal láss ok lykill fyrir frelsi ok friði þessa kaupstaðar ok annarra. Látið þér á braut fara falsara ok dróttinssvika, en gerizt nú hollir ok trúir konungi yðrum. Fari þeir ok allir braut, er sannir eru at svikræðum við konunginn ok hans menn, alla gæti þeir sín við umrenningum konungs, þeir sjá ekki lengi í augu mönnum, ok vápn þeira eru ekki sættfróð. Konungrinn býðr öllum mönnum grið ok frið, þeim er til hans koma ok þess leita, ok fyrir því mun guð honum feginn ok hann í frið leiða ok hans helgir menn.

*Frá Sverri konungi.*

88 (97). Sverrir konungr sigldi fagran byr suðr til Björgynjar, ok áðr þeir sigldu fyrir bœinn, mælti kon-

ungrinn, at þeir skyldi svá haga ferðinni, at bœjarmönnum þœtti sem mest lið þeira at sjá. Ok svá gerðu þeir. En er konungr kom til bœjarins, var hringt móti honum um allan bœinn ok gengit með processíu á mót honum, ok tóku menn vel við konungi, ok dvaldist hann þar um hríð.

*Um gröpt Magnús konungs.*

89 (97). Lík Magnús konungs var þá búit til graptar. Hann var jarðaðr í Kristskirkju utar frá kórnum fyrir framan steinvegginn hinum syðra megin. Stóð yfir grepti hans Sverrir konungr, Páll byskup ok öll alþýða manna, er í var bœnum. Ok áðr lík konungs væri lagit í steinþróna, þá kallaði konungr menn til at sjá likit, at eigi segði þeir, at sjá Magnús berðist síðan á mót honum. Géngu þá margir til at sjá, ok einn af gestum Magnús konungs gékk til ok kysti líkit ok klökk við. Konungr leit eptir honum ok mælti: Seint mun slíkum trúa mega. Þar váru töluð mörg fögr erendi yfir grepti hans. Nikkulás sultan móðurbróðir Sverris konungs talaði langt erendi ok var allra manna snjallastr. Konungr talaði ok mörgum fögrum orðum. Sverrir konungr lét búa um leg Magnús konungs vandliga, gera grind um utan um legsteininn, lét síðan breiða kögur yfir legsteininn. Magnús konungr hvílir í þeiri sömu kirkju, sem hann var vígðr í.

*Hversu Magnúsi konungi var farit.*

90 (98). Magnús konungr var vinsæll ok ástsæll við landsfólkit, hafði hann mest traust af Víkverjum. Var þat mark um vinsæld hans, at svá skaðasamt sem varð at fylgja honum, at hann skorti þó aldri liðit til fylgðarinnar, meðan hann lifði, ok þat hélzt lengi síðan, at þeim varð gott til liðs, er af hans ætt kölluðust vera; naut þess mest at af öllu landsfólki, er hann var frá Sigurði konungi Jórsalafara kominn, en allir hötuðust við

afkvæmi Haralds gilla. Magnús konungr var maðr lítillátr ok glaðr, var mjök í sið ungra manna, drykkjumaðr mikill ok mikill kvennamaðr. Hann var umfram flesta menn at fimleik ok heldr sterkr maðr, örr ok stórgjöfull, snjallr í máli, manna vápndjarfastr, skartsmaðr mikill ok sundrgerðamaðr mikill at klæðum, heldr hár maðr á vöxt ok vel vaxinn, limaðr vel ok fagrliga, hann var vel andlits sköpum, nema hann var munnljótr nökkut.

*Tala Sverris konungs.*

91 (99). Sverrir konungr lét blása öllu bœjarfólki út í Kristkirkjugarð ok hafði þar þing. Talaði Hávarðr jarlsson fyrst ok hlynti fyrir konunginum, svá sem vandi er til, talaði hann langt ok snjalt, ok er hann hætti, þá stóð upp sjálfr Sverrir konungr ok litaðist um ok tók seint til orða ok hóf á þá leið: Til þeira orða munu vér taka, er skáldit mælti: Miserere mei, deus, quoniam conculcavit me homo, tota die expugnans tribulavit me, þat segir svá, miskunnaðu mér, guð, þvíat maðrinn trað mik undir fótum ok barðist allan daginn í gegn mér ok kvaldi mik. Sú spásaga er nú framkomin á várum dögum, er spáð var fyrir mörgum mannsöldrum, er Magnús konungr frændi minn barðist mér á móti ok vildi tapa mínu lífi, en guð leysti mik nú sem fyrr. Guði hefir ekki jafnleitt verit sem ofmetnaðarmenn, ok þat harðast refsat. Fyrst er hann rak frá sér engilinn, er honum vildi jafnast ok varð at hinum versta djöfli, enda síðan Adam, er hann gerði á mót guði, hinn fyrsti maðr, var hann rekinn hingat í heim í þessa ánauð, en er ríkin hófust ok Pharao þröngði guðs lögum, þá kómu undr yfir landit, er slík hafa aldregi orðit í veröldinni, svá ok er Saul konungr grimmaðist guðs lýð, þá flakkaði hann síðan með úhreinan anda. Hefir svá verit jafnan í heiminum, kann vera, at yðr þykki enn nær borði vár rœða hefjast. Svá hefir ok hér farit í landi, at þeir

menn hafa upphafizt, er ekki váru konunga ættar, sem var Erlingr son Kyrpingaorms, lét gefa sér jarls nafn en syni sínum konungs nafn, ok drápu niðr allar konungaættir, en tóku undir sik alt ríki konunga þeira, er ættbornir váru til, alt þar til er guð sendi utan af útskerjum einn lítinn mann ok lágan at steypa þeira ofdrambi, en sá var ek. Eigi tókum vér þat af oss sjálfum: guð sýndi, hversu lítit honum var fyrir at steypa þeira drambi. Eigi var oss sakleysi við Magnús konung eða Erling jarl, sem margir mæla, ok eigi erum vér svá skamminnigir, at eigi munim vér, hvat af var gert við oss. Fyrst er Björgynjarmenn drápu Sigurð konung föður minn, síðan feldu þeir frá landi Hákon bróður minn, síðan tók Erlingr jarl tvá brœðr mína ok festi annan upp sem krákuunga, en lét höggva annan. Þetta má oss seint or hug ganga, ok jafnan hefir sú nauð á oss legit, at miklu værim vér fúsari at skiljast frá, ef eigi sæim vér eymd á fólki váru, eða þeir dróttnaði, er eigi váru til bornir. Hér í staðinn látið þér koma fáheyrðan fjándskap. Þetta mæla sumir: sigrsæll er Sverrir, vitr er Sverrir. Þá er svarat: hvat er þat kynligt, mikit hefir hann til unnit, gefizt hefir hann fjándanum. Sumir segja, at ek sjá sjálfr djöfullinn kominn af helvíti, ok sé hann lauss orðinn. Hyggit at sjálfum yðr, hverir þér erut þá; hvat megit þér vera nema djöfuls þrælar, ef þér þjónit honum, ok því vesælli en alt fólk annat í veröldinni, at þér skulut honum þjóna nú, en brenna með honum í öðrum heimi. Eru eigi slíkir hlutir fólsligir at mæla við hvern sem einn ok allra helzt við konung sinn? Fól væri Sverrir þá, ef hann ynni þat til þessa vesæla ríkis, er á engarri stundu er í frelsi, er þó væri enskis vert, at með friði stœði, ok týna þar í mót sálu sinni ok allri hjálpinni. Svá lízt mér, sem hér vaði saman kálfar ok úlfar, kann vera, at yðr þykki rúmborat sáld mitt. Margr lýtr sá nú hendinni, er hann vildi gjarna

at af væri, sá kallar nú frændann, er skömmu kallaði fjándann. Þat hygg ek, ef nú mætti sjá hvers manns hug, er hér er kominn, ok stœði hverjum horn or enni, er mér hyggr illa, at hér mundi margr knýflóttr fram ganga. Þat mælir barnit, er þat gengr út ok hefir stein í hendi ok drepr á grjótit: hér skyldi höfuð Sverris undir. Slíkt kennit þér yðrum börnum. Slíkt mælir griðkonan, er hon gengr út ok hefir vífl í hendi ok lýstr á helluna: hér skyldi höfuð Sverris undir, segir hon. En vera má, at Sverrir verði sóttdauðr eigi at síðr. Viti þat nú ok Magnús konungs menn, þeir sem verit hafa á þessum fundi, at þeir verði brautu or bœnum fyrir þriðju sól héðan ífrá. Hafi allir þökk várir vinir, þeir er hér hafa komit.

*Frá Sverri konungi.*

92 (100). Eptir fall Magnús konungs fór Sverrir konungr austr í Vík ok alt til landsenda, lagði hann þá land alt undir sik ok skipaði sýslumönnum, mælti þá mangi á mót honum. Þá váru liðnir 7 vetr frá því, er honum var konungsnafn gefit, 5 síðan Erlingr jarl féll. Sverrir konungr gaf þá mönnum sínum nafnbœtr, sumum sýslur eða veizlur, mörgum fékk hann góð kvánföng, gerði hann þá marga at ríkum mönnum, er engar áttu ættir til þess ok honum höfðu fylgt til lands. Sverrir konungr gipti Ceciliu systur sína Bárði Guthormsyni á Reini, Ívari selka gipti hann Skjaldvöru dóttur Andres Skjaldvararsonar, Pétr rangi fékk Ingibjargar, er átt hafði Ívarr elda. Mörg önnur kvánföng fékk hann sínum mönnum ok hóf þá at mörgu, ok váru þeir þá gervir gjaflendingar, er svá váru tilkomnir.

*Upphaf Kuflunga.*

93 (100, 101). Einum vetri eptir fall Magnús konungs kvángaðist Sverrir konungr ok fékk Margrétar dóttur Eiríks Svíakonungs Jatvarðarsonar hins helga. Eiríkr

konungr hvílir í skríni í Svíþjóðu at Uppsölum. Margrét var systir Knúts Svíakonungs. Sverrir konungr átti áðr tvá sonu, hét hinn ellri Sigurðr, er kallaðr var lávarðr, en annarr Hákon. Dœtr hans váru þær Cecilia ok Ingibjörg. Þenna sama vetr hófst flokkr í Vík austr, ok var sá höfðingi fyrir, er kallaðr var Jón son Inga konungs Haraldssonar. At því úráði hurfu margir höfðingjar, Símun son Ölnukára, Nikulás son Bjarnar bukks, Andres brasaðr, Jón kutiza, Bárðr sála. Þeir kómu ofan í Túnsberg ok stefndu Haugaþing, ok var Jón til konungs tekinn ok svarit honum land alt. Jón hafði áðr verit munkr í Höfuðey. Birkibeinar kölluðu hann kuflung ok gáfu honum þat fyrir konungsnafn. Lið mikit dreif til þeira, ok fóru norðr með landi, fyrir því at Birkibeinar sömnuðust saman í Víkinni, ok stukku Kuflungar því undan, lögðu þeir víða land undir sik, þar sem þeir fóru, þvíat þeir höfðu styrk mikinn. Þeir kómu ofan í Túnsbergi ok drápu þar Símun skerflu, er þá hafði sýslu í Túnsbergi. Þar féll með honum sveit hans, nær 30 manna.

*Frá Kuflungum.*

94 (102). Þá byrjuðu Kuflungar ferð sína norðr með landi. Gékk þá fólk undir þá, hvar sem þeir kómu. Þeir kómu til Björgynjar ok lögðu at bryggjum. Kuflungar tóku bœinn, ok gékk undir þá alt fólk, þeir drápu þar nökkura Birkibeina. Kuflungar sátu þar um vetrinn. Sverrir konungr hafði látið setja upp Maríusúðna út í Hólmi, þá er hann fór innan or Sogni, ok lét gera yfir ráf, ok kom aldri á vatn síðan. Kuflungar vildu fram setja skipit, ok var blásit til öllum bœjarlýð, ok gékk eigi or stað, en svá var skipit reist ok hrist, at sundr brotnuðu brandarnir, þá lögðu þeir í eld ok brendu upp. Kuflungar kómu þann tíma á Björgynjarvág, er sungnar váru hámessur í bœnum. Áskell ruza hafði þá bœjarsýslu, hann var at messu í Steinkirkju, hann varð eigi fyrr

varr við, en Kuflungar kómu í kirkjuna með alvæpni. Áskell hljóp upp í stöpulinn. Kuflungar hljópu eptir honum. Þá féll steinn einn mikill ofan or stöplinum í höfuð einum þeira, ok fékk sá þegar bana. Þá sveittist róðan helga, svá at draup á altarit ofan. Þeir Áskell ráku aptr stöpulinn ok héldu sik þar, til þess er bœjarmenn leystu þá út með fé. Kuflungar fóru austr til Víkr, þá er af leið hávetrit. Sverrir konungr hafði sett til landsgæzlu í Víkinni Úlf af Laufnesi ok Úlf flý, Hávarð jarlsson, Þórólf rympil, ok enn fleiri sveitarhöfðingja. Veittu hvárir öðrum árásir, en svá óx Kuflungum lið, at Birkibeinar stukku or Víkinni allir.

### *Frá Sverri konungi ok her hans.*

95 (103, 104). Um várit eptir fór Sverrir konungr norðan or Þrándheimi með allmikinn her ok kom til Björgynjar um vaknaskeið. Var þar þá kominn múgr skipa til bœjarins nær af öllum löndum. Suðrmenn höfðu þangat flutt vín mest, svá at þá var eigi dýrra vín í Björgyn en mungát. Þat var eitt sinn, er menn sátu í víndrykkju nökkurir, at þeir vildu láta taka meira vínit, en sveinn Suðrmanna vildi eigi taka, ok skilr þá eigi meira á en um einn vínpott, ok þrættu til þess, er Norðmenn vildu brjóta upp búðina. En Suðrmenn váru fyrir innan ok lögðu út sverðum, ok urðu hvárirtveggju sárir. Ok því næst hljópu til vápna hvárirtveggju þýðverskir menn ok Norðmenn. Þýðverskir menn hljópu á skipin ok lögðu saman kuggunum, bœjarmenn bjoggust til atsóknar, ok um síðir varð griðum á komit. Mörg önnur úspekt var þar ger um sumarit fyrir drykkju sakir. Einn Birkibeinn var svá vitlauss af víndrykkju, at hann hljóp or höllinni á millum ok konungsstofu, ok þóttist hlaupa á sund, ok fékk bana; annarr hljóp af bryggju í konungsgarði ok druknaði. En er Sverrir konungr var kominn í bœinn, varð sá atburðr brátt, at tveir menn deildu

druknir, annarr gestr konungs en annarr húskarl, ok því næst vildi hvárr veita öðrum tilræði, ok í því kom at Þórólfr rympill gestahöfðingi, hann laust húskarlinn með stálhúfu, en hann laust Þórólf á mót með handöxi. Eptir þat hélt maðr á manni, ok létu ganga þat er til höfðu í vígvölum, ok váru allir ölóðir. Þórólfr sleizt or þrönginni ok fór til liðs síns ok lét blása gestalúðrinum. Ok er gestir kómu saman, þá bað Þórólfr þá vápna sik. Húskarlar váru samankomnir ok váru komnir á skip sitt, Ásgeirr hamarskalli réð fyrir þeim. En er gestir kómu ofan á bryggjur, þá fleygði Þórólfr sverðinu út á skipit, ok hljóp þar þegar eptir ok gat náð sverðinu ok barðist þegar. Gestir fylgðu honum, ok varð þar orrosta mikil, ok létta þeir Þórólfr eigi fyrr en hroðit var skipit. Féll mart af húskörlum, en flest hljóp á kaf. En er konungr varð varr við, kom hann á griðum ok sætti þá.

Nökkuru síðar hafði konungr þing í bœnum ok talaði ok mælti: Þakka viljum vér hingatkvámu enskum mönnum, er hingat flytja hveiti ok hunang, flúr eða klæði, svá viljum vér ok þakka þeim mönnum, er hingat hafa flutt lérept eða lín, vax eða katla. Þá viljum vér ok til nefna, er komnir eru af Orkneyjum, Færeyjum eða Íslandi, ok öllum þeim, er hingat hafa flutt þá hluti, er eigi má missa ok land þetta bœtist við. En um þýðverska menn, er hingat eru komnir mikill fjöldi með mörgum skipum ok ætla héðan at flytja smjör ok skreið, er mikil landseyra er at þeira brautflutningu, en hér er komit vín, er menn hafa til lagzt at kaupa hvárirtveggju mínir menn ok bœjarmenn eða kaupmenn, hefir af því kaupi staðit mart ilt, en ekki gott; hér hafa týnt margir menn lífinu, sumir limunum, sumir bera annarskonar örkumbl allan sinn aldr, sumir svívirðing, verit særðir eða barðir, ok veldr þessu ofdrykkja. Kann ek þeim Suðrmönnum fyrir sína ferð mikla úþökk; ok með því at þeir vili halda lífinu ok fénu, verði þeir í brautu

héðan sem fyrst, ok hefir þeira erendi vorðit oss úþarft ok ríki váru. Þér megit á minnast, hvat efni ofdrykkjan er, eða hvers hon aflar, eða hverju hon týnir. Þat er hit fyrsta, er minnst er, at sá er þýðist ofdrykkjuna, þá fyrirlætr hann fjáraflann, þvíat ofdrykkjan týnir fénu ok glatar, þar til er sá maðr, er fullsæll var at fé, verðr vesæll ok válaðr. Sá er annarr hlutr ofdrykkju, at hann týnir minninu, ok öllu því gleymir hann, sem honum væri skylt at muna. Þat er hit þriðja, at þá girnist hann alla hina röngu hlutina, ok hræðist eigi at taka fé með röngu ok svá konur. Sá er hinn fjórði hlutr ofdrykkju, at hon eggjar hann at þola engan hlut, hvárki orð né verk, gjalda á móti hálfu meira ilt, en til sé gert, ok enn umfram eggjar hon þess at leita lastmæla á þá, er úvaldir eru. Þá er sá einn hlutr, at hann þreytir líkamann til at þola vandræði, mœðast af vökunum, týna blóðinu í öllum liðunum, ok spilla blóðinu til vanheilendis, ok þar með týna allri heilsunni. Ok þá er farit er eigunni, heilsunni ok vitinu, þá eggjar hon þá at fyrirfara því, er úlógat er, en þat er sálan, eggjar þá at úrœkjast alla rétta siðsemi, girnast syndirnar en afhugast guði ok öllu hinu rétta, minnast á engan hlut þann, er hann hefir gert. Lítið þér nú á, ofdrykkjumenninir, þá er þér skilizt frá öllu í senn drykkjunni ok lífinu, hvat líkast er, hverr þá mun grípa við sálunni. Minnizt á, hversu úlíkt þetta athæfi er því, er vera skyldi, þvíat öllum hlutum skal stilling fylgja; hermenn skyldu vera hógværir í friði sem lömb, en í úfriði ágjarnir sem leó; kaupmenn ok bœndr skyldu ok vera hógværir ok fara með sínu eðli, afla fjárins með réttu ok þó með erfiði, gæta með vizku, en veita með mildi; en hinir, er minni eru, vera þakklátir ok þjóna sínum yfirmanni með góðum vilja, hverr eptir sínum efnum.

Konungr lauk svá málinu, bað sína menn vera siðsama ok friðsama við bœjarmenn, bœndr eða kaupmenn.

Var þetta mál vel rómat af vitrum mönnum. Sverrir konungr fór norðr til kaupangs um haustit ok sat þar um vetrinn, ok váru þar með honum flestir allir höfðingjar hans. Kuflungar váru í Víkinni.

*Frá Kuflungum.*

96 (105). Þat sama haust fóru Kuflungar ok ætluðu norðr at Sverri konungi. Ok er þeir kómu norðr til Agðaness, þá kvað Nefari:

Týnum Birkibeinum,
beri Sverrir hlut verra,
látum randhœing reyndan
ríða hart ok tíðum;
hœlumk minnst í máli,
metumk heldr at val feldan,
látum skipta guð giptu,
gerum hríð, þá er þeim svíði.

Þeir kómu öndverða nótt inn til bœjar, ok kom engi njósn fyrir þeim. Sverrir konungr sat uppi í borg á Steinbjörgum ok fátt lið með honum, en mestr hluti hirðarinnar var í bœnum. Kuflungar tóku bœinn ok drápu mjök mart af Birkibeinum. Þar féll Brynjólfr Rögnvaldsson, Óttarr knerra, Sigurðr dotafiðr, Andres krista, Andres bjúgi. Jón kuflungr gaf grið öllum Birkibeinum þeim, er handteknir váru, ok sagði, at þeir skyldu vera hans menn. Kuflungr gaf þeim upp eiðana, ok sagði þá mundu vera svá góða drengi, at þeir mundu eigi verr halda orð sín en eiða. Þegar um kveldit géngu Birkibeinar með vápn sín tveir eða þrír saman, stundum fim eða sex eða enn nökkuru fleiri, upp til borgar á fund Sverris konungs, ok at morni váru þeir allir brautu frá Kuflungum, ok sögðu konungi, hversu orðit var. Konungr sagði hann ekki mundu kunna at vera höfðingja, lét þat sýnt hafa í þessu. Kuflungar tóku þar öll skip Sverris konungs, ok höfðu sum braut með sér, en sum brendu þeir. Á einni nótt fóru þeir braut or bœnum, er myrkt var orðit. Konungr sat þessa stund alla í borginni ok þóttist eigi hafa lið til at berjast við þá. Kuflungar fóru þá suðr til Björgynjar, en Sverrir konungr sat eptir.

*Frá Kuflungum ok Birkibeinum.*

97 (106). Um várit fóru Kuflungar norðr til kaupangs ok lágu þeir við Hólm nökkurar nætr, fóru síðan aptr til Björgynjar. Þat sama sumar fór enn norðr Jón kuflungr með mörgum skútum ok ætlaði at koma á úvart Sverri konungi, en konungr fór norðan á mót með miklu liði. Þá kvað Blakkr:

Reisum vé fyrir vísa,
verum þungir Kuflungum,
látum brýndan hjör bíta,
bolum tafn und kló hrafni;
stökkum fjánda flokki,
friðum land jöfurs brandi,
rjóðum dörr í dreyra,
drepum meira hlut þeira.

Skútur Kuflunga skildust um nótt fyrir Staði í ofviðri. Kuflungar kómu fim skútum norðr í Angr. Þá kom Sverrir konungr at þeim með mörgum stórum skipum ok drap af þeim nökkura menn, en Kuflungar kómust af hlaupi undan. Litlu síðar kómu Kuflungar enn til Jóns ok fóru suðr til Björgynjar ok dvöldust þar litla hríð, ok fóru austr undan Sverri konungi, en hann fór suðr til Björgynjar. Hann sendi austr á njósn Úlf af Laufnesi ok Híða bróður sinn með 6 skipum. Þeir kómu um nótt suðr í Hrott, þar lágu Kuflungar fyrir 20 skútum, þeir Úlfr reru at þeim ok œptu þegar heróp. Kuflungar ætluðu þar kominn konung, ok tóku þegar undan. Þeir Úlfr tóku af þeim tvær skútur ok drápu af hvert mannsbarn. Þar stýrðu þeir Erlendr Guðbrandsson ok Páll várskinn. En lið Kuflunga fór sér hvat. Kuflungr fór einskipa langa hríð, áðr liðit kom til hans. Þá kvað Blakkr vísu:

Öld man hitt at hœldusk,
hvatir guldut þess skatnar
fyrr or flokki þeira,
foraðstungur Kuflunga.
Nú kná bergs í björgum,
búk reiðir lá sjúkan,
mettr var hrafn í Hrotti,
hóts annan veg þjóta.

*Um vanmátt erkibyskups ok sætt þeira konunga.*

98 (107). Eptir um vetrinn urðu mikil tíðindi í Þrándheimi. Eysteinn erkibyskup fékk mikil vanheilendi

þegar um haustit ok lá um vetrinn, til þess er leið jól. Ok þá er at leið mætti erkibyskups, þá gerði hann orð Sverri konungi, at hann kœmi til hans, ok svá gerði hann, ok rœddu þeir sín á milli marga hluti, er fyrr höfðu verit í þeira skiptum, ok at skilnaði bað erkibyskup, at konungr skyldi fyrirgefa honum alt, þat sem hann hefði oftekit við konung, ok sættust þeir með öllu, ok fyrirgaf hvárr öðrum alla þá hluti, er þeira höfðu millum verit. Erkibyskup andaðist um nóttina næstu eptir Pálsmessu, ok var búinn gröptr hans í skrúðhúsinu í Kristskirkju. Nökkuru síðar talaði Sverrir konungr á kór uppi ok sagði, hversu farit hafði tal þeira erkibyskups hit síðarsta sinn, ok svá þat, at hann hefði því jáð, at hann hefði meira af tekit um mótgang við Sverri, en svá at hann vissi, at þat væri guðréttligt, ok eigi hefði síðr aðrir hlutir til þess borit, er hann þœttist eigi mega frá skiljast liðveizlu við Magnús konung. Kuflungar sátu þann vetr í Víkinni.

*Frá Birkibeinum ok Kuflungum.*

99 (108). Eptir um várit fór Sverrir konungr suðr til Björgynjar við öllu liði sínu, ok dvaldist þar lengi um sumarit. Var þar þá byskupa fundr ok annarra höfðingja. Var þar þá rœtt um erkibyskups kosning, ok var mest til nefndr Eiríkr byskup af Stafangri, fyrir því at Eysteinn erkibyskup hafði helzt hann til nefnt. Sverrir konungr mælti heldr á móti ok fann til þess nökkura hluti, en þat varð um síðir, at Eiríkr var kosinn, ok fór hann hit sama sumar or landi. Sverrir konungr fór með liðinu austr til Víkr, hann lét eitt skip í ferð þeiri, sigldu upp á Ögðum á sker, ok braut þar. Konungr lét brenna skipit, þat kölluðu þeir Hreininn. Fóru þeir síðan leið sína. Kuflungar váru í Túnsbergi ok höfðu mikinn her. Kuflungar lágu skipum sínum við Hrafnabjörg ok höfðu 16 skip. Sverrir konungr lagði sínum skipum út við

eyna við Smjörberg. Hann lét fara 5 skip inn til bœjarins, ok lágu þeir við bryggjur. Konungr hafði alls á fjórða tigi skipa. Þeir lágu svá þrjár nætr. Vildi konungr fyrir því eigi at leggja, at Kuflungar höfðu her mikinn uppi á berginu, ok þótti honum þat úráðligt at leggja skip sín undir stórt grjót, ef þeir bæri á þá. Eigi treystust Kuflungar ok at honum leggja. Á hinni fjórðu nótt lögðu Kuflungar inn at bryggjunum hljóðliga, þar sem Birkibeinar lágu fyrir fim skipum, en svá var myrkt, at eigi sá hvárir aðra, fyrr en skipin rendu at þeim ok á þá, er fyrir lágu, tókst þar þegar bardagi mikill. Ok er Sverrir konungr varð varr við, at þeir börðust, ætlaði hann, at menn hans mundu vera illa staddir, lögðu til sem harðast. En Kuflungar vildu eigi þeira bíða ok géngu á land upp; lágu þar menn eptir af hvárumtveggjum. Kuflungar fóru þá landveg norðr til kaupangs ok kómu þar litlu fyrir Mikjálsmessu. Þar var fyrir í bœnum Ívarr Klemetsson með skipsögn sína nær 80 manna. Var þar blásit fyrir öllu liðinu í bœnum liðsmönnum ok bœjarmönnum út til borgar. Kuflungar höfðu átta hundruð manna ok sóttu borgina, en bœjarmenn vörðu. Kuflungar hjoggu upp borgina, ok er þeir kómu inn, flýðu bœjarmenn. Þar féll Ívarr Klemetsson ok nær öll sveit hans, en Kuflungar tóku bœinn. Eptir þat var þing átt út á Eyrum, ok gaf Björn Erlingsson Jóni konungsnafn.

*Frá Þorsteini kúgað.*

100 (108, 109). Þorsteinn kúgaðr gætti borgarinnar, ok féngu Kuflungar þar ekki at gert. Þá tóku þeir í Kristskirkju Nikulás sultan móðurbróður Sverris konungs ok fluttu hann upp til borgar, ok reistu þar gálga ok sögðust þar skyldu hann hengja, en þessu veldr þú, Þorsteinn, sögðu þeir, en Nikulás skal hafa grið, ef þú gefr upp borgina, ok allir þér; en ef þér haldit borgina, þá er þat bani Nikulás, ok fyrir þat sama mun Sverrir láta

yðr alla hanga, ok er þat vel, skulut þér ok þess eiga ván af oss, þegar vér megum við komast. Þorsteinn óttaðist nú ok hugði, at þeir mundi satt segja, at hann mundi illa kominn, hvára sem hann hitti, ef Nikulás væri drepinn. Réð hann þat af at gefa upp borgina. Kuflungar gáfu nú Þorsteini grið ok öllu fé hans, lífs grið höfðu allir borgarmenn. Kuflungar tóku fé alt ok brendu borgina ok brutu. Kuflungar tóku þar margar gersimar Sverris konungs, var þar mikit hlutskipti. Kuflungar lögðu gjald mikit á bœinn, sögðust ella skyldu brenna upp allan ok launa svá bœjarmönnum samnað ok mótstöðu. Bœjarmenn greiddu heldr gjaldit. Kuflungar dvöldust þar litla hríð ok réðu sér þar til skipa, en bœjarmenn báðu þá vel fara, en vildu þó heldr, at þeim fœrist illa. Kuflungar bjoggu nú skjótt skúturnar, þvíat kom á þá nökkurr kurr, at lið mikit fœri utan um Gaularás. Réru Kuflungar þá drífanda út or ánni, báðu bœjarmenn þá aldri aptr koma. Kuflungar fóru út eptir firði ok heldr úspakliga, ræntu byrðinga, hvar sem þeir fundu. Þeir tóku kaupskip eitt Íslandsfar, þat var kallat Stangarfolinn, þeir ræntu þat hverjum peningi. Þá fóru þeir suðr til Björgynjar, ok kómu þar litlu fyrir jól.

Kuflungar höfðu þing í bœnum ok kröfðu bœjarmenn jólaveizlu. En þeir töldust undan, en Kuflungar hétu afarkostum á mót, ok stóð við þann gnerr nökkura daga. Litlu fyrir jól var þat einn myrgin í lýsing, at 14 langskip ok heldr stór sigldu sunnan frá Hvarfnesi til bœjarins. Kuflungar urðu varir við þetta ok hljópu til vápna sinna, ok nær allir upp or bœnum eða inn um Ólafskirkju. Jón kuflungr lét blása liðinu til skipanna, hljóp hann á sitt skip með sína sveit, sneru þeir þá yfir til Munkabryggju ok róa þar upp á sker, ok festi þar skipit á. Í því bili renna skip Birkibeina at þeim, hlaupa Kuflungar fyrir borð ok svima til lands, en sumir týnast. Jón kuflungr féll á skipi sínu ok einn maðr með honum.

Flettu Birkibeinar lík þeira. En er Sverrir konungr varð varr við þessi tíðindi, lét hann flytja líkin yfir til bœjarins ok lét bera upp til Maríukirkju ok leggja niðr undir suðrvegginn, lét breiða yfir vaðmál. Kuflungar fylktu inn við Ólafskirkju ok œptu á Birkibeina ok eggjuðu þá at berjast. Konungrinn bað sína menn ekki hirða um, hvat þeir segði, ok kvezt eigi vildu berjast við höfuðlausa menn, segit at höfðingi þeira liggi hér undir Maríukirkju, ok skildust þeir illa við hann, var ok eigi góðs höfðingja at gæta. Kuflungar fóru þá á braut at sinni. Sá maðr var þar í bœnum, er Pétr hét, er Birkibeinar kölluðu föður þess manns, er Ormr hét, en Ástríði steig móður hans, ok þann sama Orm sögðu Birkibeinar at Kuflungar hefði kallat konung sinn Jón Ingason, ok sá sami Ormr lægi þar nú undir kirkjuveggnum. Báðu menn þá Pétr til ganga ok kenna, ok segja áðr nökkur mörk á, en hann sæi líkit. Pétr sagði þat til marka, ef hann væri hans son, at sveinninn hljóp á ljá ok skeindist mjök undir ilinni á hœgra fœti, nú er þat víst, ef þat finnst eigi hér á, þá er hann eigi minn son, en ef þat hittist, þá mun ek eigi við dyljast. Þá var dregin af hosa líkinu, ok lézt Pétr þar kenna þat mark, er á hans syni hafði verit. Sverrir lýsti því fyrir bœjarmönnum ok svá sínum mönnum, at Pétr kendi þar lík sonar síns, ok mun yðr bœjarmönnum vera þat kunnigt, sagði hann, hvárt Pétr ok þau Ástríðr eigu nökkura ætt til þess, at son þeira væri konungr yfir Noregi. Var þá jarðat lík Kuflungs at Maríukirkju. Þá varð þat fyrsta sinni, at Sverrir konungr kom svá til Björgynjar, at allr lýðr varð feginn, ok var nú Sverrir einn konungr yfir Noregi.

*Frá Sigurði brenni.*

101 (110). Austr á Mörkum var flokkr, sá er hlaupit hafði ofan í Víkina ok gert þar mart ilt, drepit menn en rænt suma. Þar var sá maðr fyrir, er nefndr er

Sigurðr brennir son Inga konungs Haraldssonar. Sigurðr brennir hafði fundit Jón kuflung ok hafði hann tekit við frændsemi hans ok bauð honum til sín. En Sigurði þótti þat lítilræði, ok vildi heldr fara við sínum mönnum, hafði hann þrjú hundruð manna. Um sumarit eptir fall Jóns kuflungs fóru bœndr at Sigurði brenni ok tóku hús á honum ok sóttu hann í stofu nökkurri. Þeir vörðust karlmannliga, ok þá er menninir váru nær allir fallnir, þá kallaði Sigurðr brennir ok bað þá bœndr hlýða sér. En er hann fékk hljóð, mælti hann: Nú mun erendi yðart verða slíkt hingat, sem þér vilit, munut þér segja Sverri konungi, at þér hafit feldan Sigurð brenni son Inga konungs. En þetta er miklu minni frásagnar vert, en þér hyggit, því at ek heiti Heðinn, ok em ek son Þorgríms hrossaprests, íslenzkr maðr at allri ætt. Sóttu þeir þá at honum ok feldu hann, ok kalla menn, at maðrinn væri allhraustr.

*Frá Eiríki erkibyskupi,*

102 (111). Um sumarit eptir fall Kuflungs kom Eiríkr erkibyskup í land, fór hann norðr í Niðarós til stólsins. Þat sumar andaðist Hávarðr jarlsson. Þat var kosning allra manna at velja til byskups í Stafangri Nikulás Árnason á Stoðreimi konungsbróður. Konungr mælti á móti, en þá er Nikulás varð þessa varr, þá sendir hann bréf Margrétu dróttningu, ok var þar mart talat fagrliga ok vingjarnliga til konungs ok svá til hennar, ok talit frændsemi við hana. Dróttningin flytr þetta mál fyrir konungi, at hann leggi lof til, at Nikulás væri vígðr til byskups. Konungr kvezt þess vera úfúss at gera hann at meira manni, en þá var hann, lézt þess ván þykkja, ef hann féngi nökkut ríki í Noregi, at hann mundi hafa hinn sama hug til hans, ok ekki mundi trúleikr hans vaxa við hann, þótt hann féngi nafn hæra, en þá hafði hann. Dróttningin sagði, hversu mikit Nik-

ulás hafði látit fyrir þeim Birkibeinum, ok sagði honum nú svá mega mest bœta, at gera hann tiginn mann innan lands, sagði hann engan útrúleika mundu gera, ef hann legði vápn sín ok gerðist kennimaðr. Konungr kvezt mundu veita henni þetta; en þess væni ek, at eigi muni héðan langt líða, áðr bæði vit munum þessa iðrast ok margir aðrir. Eptir þat féngust bréf konungs, at Nikulás væri vígðr til byskups, ok var svá gert. Í þann tíma andaðist byskupinn í Osló, fór þá Nikulás þangat til stóls, en þá var vígðr Njáll byskup til Stafangrs.

*Frá Eiríki erkibyskupi.*

103 (112). Þá er Eiríkr kom til stóls í Niðarós, tóku kórsbrœðr vel við honum. En hann talaði á kór, þá er hann predikaði, ok mælti hörðum orðum til Birkibeina, lagðist þegar úmjúkt með þeim. Urðu þegar margar greinir millum konungs ok erkibyskups, þvíat Magnús konungr hafði standa látit, meðan hann réð ríkinu, þat alt, er Eysteinn erkibyskup hafði á komit við bœndr um sakeyri, sem fyrr var ritat. Sverrir konungr beiddist, at standa skyldi allr hinn forni lagaréttr millum konungs ok erkibyskups, en sagði Erling skakka ekki mann til at brjóta lög hins helga Ólafs konungs, til þess at son hans væri vígðr til konungs, er eigi var at réttu tilkominn, fyrir því at aldri fyrr hafði verit í Noregi, at sá væri konungr, er eigi var konungsson. Var þat kaup þeira, sagði konungr, Eysteins erkibyskups ok Erlings, at erkibyskup skyldi vígja son hans til konungs, enda skyldi hann þá fara fram þeim úlögum við bœndr, sem honum líkaði, ok lízt mér, sem hvárki muni þat gert at guðs lögum né lands lögum hér í landi. En ef þér, byskup, vilit miklu auka yðarn rétt, þá viljum vér auka jafnmiklu konungsréttinn, ok ábyrgizt þér þá við guð ok allan landslýðinn, hversu réttliga þá ferr stjórnin í landinu. Erkibyskup neitaði því ok sagði, at guðs réttr

ætti jafnan at vaxa en aldri at þverra, en þér, herra, sagði hann, hafit þau lög, sem þér hafit svarit til, ok ábyrgizt þér þat sjálfir, hvárt þér haldit þat eða eigi, fyrir því at aldri hefir aukizt auralag á konungsrétti.

*Frá Eiríki konungsbróður.*

104 (113). Eptir fall Magnús konungs leitaði Eiríkr konungsson við Sverri konung bróður sinn, ef hann vildi veita honum nafnbót meiri eða veita honum nökkut af ríki. Konungr bað hann vera innan hirðar ok hafa nafnbót sem lendir menn ok vera þó mest metinn af þeim. Eiríki hugnaði þat lítt, ok stóð þá svá við um hríð. En með því at Eiríkr hélt sveit mikla en hafði veizlur litlar, varð honum féfátt. Ok vetri síðar bjóst hann or landi, hann hafði fim skip. Til þeirar ferðar rézt mart liðsmanna með honum, stýrði skipi Özurr prestr, öðru Þjóðólfr pík, Hermundr kváða hinu þriðja. Þeir héldu um sumarit í Austrveg ok herjuðu um Eistland þar sem í Víkum heitir, féngu þar fé mikit, ok sneru síðan undir Gotland, urðu þar missáttir við Saxa ok unnu af þeim kugga tvá, ok tóku þar úgrynni fjár, fóru síðan til Svíþjóðar ok hittu þar Knút konung, gaf konungr Eiríki langskip at skilnaði. Fóru þeir aptr heldr úspakliga bæði um Danmörk ok um Svíþjóð, kómu aptr um haustit ok höfðu þá 11 skip. Þat sama haust hófust Kuflungar.

*Eiríki gefit lén ok jarlsnafn.*

105 (113). Hrafnabjarga haust, þá er Sverrir konungr var í Víkinni, skipti hann landi við Eirík bróður sinn ok gaf honum land austan frá Svínasundi ok norðr til Rygjarbits, ok þar með öll Upplönd, hann gaf honum ok jarls nafn. Eptir þat fékk Eiríkr sér hirð ok gerðist mikill höfðingi ok góðr. Ása hét kona hans.

*Upphaf Varbelgja.*

106 (114). Símun Kárason ok Ölvir af Goðranni ok þeir sveitarhöfðingjar, er verit höfðu með Kuflungum, höfðu farit suðr til Danmarkar, en sumir austr á Markir, ok dvöldust þar austr eptir um sumarit. En þann vetr eptir, er á leið, sóttu þeir í Danmörk ok hittu þar Símun Kárason. Hann hafði þar með sér son Magnús konungs Erlingssonar. Hófu þeir þar flokk ok féngu fjölment, fóru um várit norðr í Víkina ok höfðu 16 skip, fóru úspakliga, ræntu bœndr ok kaupmenn, fóru austan um Víkina. Þá sigldu þeir út yfir Foldina ok norðr á Agðir ok ræntu þar, sóttu svá inn til Túnsbergs. Eiríkr jarl var uppi á landi, ok ekki var í Víkinni mart Birkibeina. Túnsbergsmenn samnast saman ok ætla at verja bœinn, höfðu þeir skip fyrir bryggjum, bæði langskip ok byrðinga, ok skipta þar liði á millum skipanna. Þenna flokk kölluðu menn Varbelgi. Þeir Símun treystast þar eigi at at leggja ok snúa aptr yfir Foldina. Túnsbergsmenn snúa nú eptir þeim Símuni, ok réðu þeir þar fyrir liði Þorlákr Úlfgestsson, Úlfr svarti ok Ásleifr bóndi. Þeir Símun fara austr undan, en Túnsbergsmenn fara eptir at leita þeira ok hitta þá suðr við Bristein, lögðu at þeim, ok varð þar mikill bardagi, höfðu bœndr skip stœrri ok borðmeiri. Snýr nú á hendr þeim Varbelgjum mannfallinu, ok lauk með því, at Símun Kárason féll ok Ölvir af Goðranni ok flest alt lið þeira, svá at fátt eitt komst undan. Á skipi Símunar fundu þeir undir þiljum niðri (Víkar) konung Varbelgja fára vetra gamlan ok drápu hann þegar. Féngu Túnsbergsmenn í þessi ferð hinn mesta orðstír ok mikit fé, ok fóru aptr við svá búit.

*Andlát Eiríks jarls ok Ásu konu hans.*

107 (115). Á því sama ári, er Varbelgir féllu, fékk Eiríkr jarl sótt ok andaðist, þá var hann í Túnsbergi. Ok er sóttin dró at honum, þá gaf hann sik til munk-

lífis ok tók munkaklæði, áðr hann andaðist. Þann sama dag andaðist Ása kona hans, ok enn tveim nóttum síðar andaðist son þeira, er Magnús hét, ok var þar allmargrœtt um þau tíðindi. Var þat margra manna mál, at vándir menn mundi hafa gert þeim svik ok líflát. Tók Sverrir konungr þá enn ríki alt. Því nær andaðist Ívarr selki.

*Um Breiðskeggja.*

108 (116). Þat sama sumar, er Eiríkr jarl andaðist, hófst flokkr á Mörkum austr ok sá höfðingi, er kallaðr var Þorleifr breiðskeggr, ok væri son Eysteins Haraldssonar, ok þat til jartegna, at á milli herða honum var örr gróit í kross. Þeir kómu í Víkina ok fóru spakliga, keyptu sér mat. Þorleifr hafði verit munkr. Var þessi flokkr með litlum styrk. Þeim varð brátt féfátt, váru þeir þá sumir í flokkinum, er stálu. Þat þóttust spyrja margir menn, at Þorleifr væri maðr svá vitr, at honum kœmi ekki á úvart, svá þat at líf hans væri líkara munkum en hermönnum, svá ok at hann væri svá snjallr í máli, at engi maðr mætti honum reiðr vera, sá er heyrði. Þetta alt var þó hinn mesti hégómi, at því sem síðan reyndist. Þessi flokkr var uppi á Mörkum um vetrinn. Annat sumar eptir fóru bœndr at þeim, þar sem þeir lágu í skógi nökkurum um nótt. Reyndist þá, at hvárki var um Breiðskegg, at hann vissi fyrir um atferðina, ok ekki mælti hann þat, at lífi hans væri at borgnara. Var hann þar drepinn ok nær öll sveit hans. Eptir fall Breiðskeggs var því upplostit, at hann væri heilagr, en Blakkr skáld mælti því á mót ok kvað þetta:

Björt kveða brenna kerti
Breiðskeggs yfir leiði;
ljóss veit ek at mun missa
meir höfðingi þeira.

Vitum at vánir betri,
vér hugðumk því, brugðusk
— — — — — —

Blakkr orti ok erfidrápu um Breiðskegg, var þat stef í:

Hafði hér meðan lifði
hvártveggja Breiðskeggi,
nú er friðspillir fallinn,
fæst gott ok dul hæsta.

*Um greinir með konungi ok erkibyskupi.*

109 (117). Nú í þenna tíma urðu margar greinir millum erkibyskups ok Sverris konungs. Skaut konungrinn jafnan sínu máli til landslaga, þeira er sett hafði hinn helgi Ólafr konungr, ok til lögbókar þeirar, er kölluð er Grágás, er rita hafði látit Magnús konungr Ólafsson. Erkibyskup bauð fram þá lögbók, er Gullfjöðr hét, er rita lét Eysteinn erkibyskup, ok þar með lög rúmversk. Sú var ein grein millum þeira, at þat váru forn lög ok vani, at konungr ok bœndr skyldu láta gera kirkju á bœjum sínum ok með sínum kostnaði, ef þeir vildi, ok skyldu þeir sjálfir ráða fyrir þeim kirkjum ok ráða presta til; en erkibyskup lagði sín forræði á hverja kirkju, þegar vígð var, ok á öllum þeim er hann lofaði söng at. Konungr beiddist þar laga af, en erkibyskup neitaði. Þá lét konungr lesa upp lögbók á þingi, ok stóð þat á bókinni, at erkibyskup skyldi hafa við sér, er hann fœri í sýslu, 30 manna ok 12 skjöldu hvíta, sagði erkibyskup ekki þurfa hirð at hafa eða hermenn eða alskjaldat skip, ok hefir erkibyskup hér eigi minna yfirburð en svá, at hann ferr með snekkju alskipaða ok á tíutigu manna eða meir, ok alt skjaldat; munum vér Birkibeinar reka minni til, at oss þótti erkibyskups skip œrit harðskipat, er hann lét leggja at oss undir Hattarhamri. Svá var ok í Björgyn, þá er vér sóttum skipin, þá var erkibyskups sveit skjótari á móti oss með vápnum heldr en konungssveitin. Væri erkibyskupi betra at hafa enga hirð, hafa heldr menn í grjótflutningu eða steintálgu ok veita upphald musterinu, svá sem áðr er til stofnat. Erkibyskup svaraði: Pávinn í Róma setti mik forráðsmann yfir staðinn, er þat guðs fé ok

heilagra manna. En satt er þat, herra, at fleiri dugandi mönnum mun betra þykkja at vera með mér í friði en með yðr í illgerðum, þvíat fáir ná nú kyrrsætinu. En þó at mínir menn hafi vápn góð, þá er þat þeira eign ok engum peningi rænt til. Nú mun þat þykkja fáheyriligt, at erkibyskup skyli eigi vera sjálfráða, hverjum hann gefr mat sinn, en sýslumenn yðrir, þeir er þér hafit tekit af stafkörlum, skulu hafa svá stórar sveitir, sem þeir vilja, ok fara á hendr bóndum ok taka aflága slíkt, er hann vill, ok skal þó sá, er á, því feginn, at hann þiggi lífit.

Sverrir konungr krafði þá laga ok þess, at bœndr dœmdi, hversu marga húskarla erkibyskup skyldi hafa. Eptir þat lagði konungr fimtarstefnu þeim mönnum, er fleiri væri með erkibyskupi en skráin skýrði, at eptir fim daga skyldu þeir fara útlaga ok hafa fyrirgert fé ok friði. En er erkibyskup spurði þetta, bjóst hann braut or bœnum mjök af skyndingu ok hafði við sér alla sína menn. Fór þá erkibyskup suðr til Danmerkr á fund Absalons erkibyskups, ok tók hann vel við honum. Dvaldist hann þar lęngi í góðum fagnaði. Eiríkr erkibyskup fékk þau vanheilendi, at hann misti sýnar sinnar ok varð blindr.

*Frá Hallkeli.*

110 (118, 119). Hallkell son Jóns Hallkelssonar átti Ragnhildi, dóttur Erlings jarls ok Kristínar konungsdóttur. Hallkell hafði ráð með höndum, þat er fleiri menn váru samvitandi með honum. Hallkell hafði tekit af Sverri lends manns rétt litlu áðr. Sigurðr hét son Erlings jarls, hann var frilluson, hann hafði þá verit með Sverri konungi lengi í góðu yfirlæti, hann vissi þetta ráð með Hallkeli. Ólafr mágr Haralds jarls var enn í þessu ráði með þeim. Sigurðr er nefndr son Magnús konungs Erlingssonar ok son Gyríðar Dagsdóttur; Sigurðr var

þá með Hallkeli. Þat var ráðagerð þeira, at þau féngu Sigurð í hendr Ólafi jarlsmág, hafði Ólafr hann um haustit með sér vestr um haf. Þá váru liðnir 8 vetr frá falli Magnús konungs. Haraldr jarl tók vel við Sigurði konungssyni.

Þat sama vár fór Hallkell vestr um haf á fund Haralds jarls. Báru þeir þá upp fyrir jarl, ef hann vildi nökkurn styrk veita syni Magnús konungs, er þar var kominn. Jarl stóð vel undir hans mál ok gaf honum langskip gott, þvíat Magnús konungr hafði verit hinn mesti vin jarls. Haraldr jarl lofaði ok hverjum manni, er vildi fara með þeim af öllu ríki sínu.

*Upphaf Eyskeggja.*

111 (119). Hallkell ok Ólafr gáfu þá konungsnafn Sigurði. Gerðust þá honum handgengnir margir menn ok svörðu honum trúnaðareiða. Dreif til hans múgr manns, Orkneyingar ok Hjaltar. Réðu þeir sér til skipa ok bjoggust vestan um sumarit. En er þeir koma við Noreg, sigla þeir austr með landi til Víkrinnar ok kómu á úvart til Túnsbergs. Þar var fyrir Jón systrungr Sverris konungs. Þeir drápu þar Jón ok Helga bring, er fyrr hafði borit merki Sverris konungs. Þar féll mart Birkibeina. Eptir þat áttu þeir þing, var þá Sigurðr til konungs tekinn. Þessi flokkr var kallaðr Eyskeggjar. Þeir fóru inn til Oslóar, ok gékk undir þá alt landsfólk nær um alla Víkina. Þeir fóru spakliga ok létu hvern sínu ráða. En með því at þeir höfðu lið mikit, þá fóru þeir með öllu liðinu suðr til Danmerkr ok kómu alt til Trafnar, ok unnu þar kaupskip ok tóku þar úgrynni fjár, ok sneru síðan aptr til Noregs, er haustaði.

*Frá Birkibeinum.*

112 (119). En er Sverrir konungr spyrr þetta, var hann í Þrándheimi. Hann sendi þá lið hit efra til Víkr-

innar, en sumir höfðingjar váru þar áðr fyrir. En er þeir spurðu, at Eyskeggjar sóttu sunnan í Víkina, þá sömnuðust Birkibeinar saman í Borg. Váru þeir fyrir, Sigurðr lávarðr, Philippus son Birgis jarls, Hakon galinn systurson Sverris konungs, Pétr steypir, Hjarrandi hviða, þeir höfðu á hinu þriðja hundraði manna. Eyskeggjar spyrja þetta ok halda upp eptir Elfinni, ganga á land ok fylkja liði sínu. Birkibeinar þykkjast eigi lið hafa til viðtöku ok flýja. Féngu Eyskeggjar enga viðtöku í Víkinni ok fóru um haustit norðr til Björgynjar, ok váru þar um vetrinn. Þeir vildu láta kalla sik Gullbeina.

*Frá borgargerð.*

113 (120). Sverrir konungr hafði látit gera borg í Björgyn á berginu upp frá byskupsgarði, höfðu Birkibeinar þar í sveitir miklar um vetrinn, ok réð fyrir Sigurðr borgarklettr. Veittu Eyskeggjar opt borgarmönnum atsókn, ok féngu þeir jafnan hinn lægra hlut. Mart dreif manna um vetrinn til Eyskeggja ok gerðust handgengnir. Sigurðr jarlsson hafði hlaupit um haustit frá Birkibeinum til þeira, ok var hann þá sveitarhöfðingi ok var vitr maðr. Þat varð um várit á langaföstu einn helgan dag, at Ólafr jarlsmágr stóð úti hjá Ólafskirkju á Bökkum ok hafði lagt höndina upp á kirkjustoðna, ok einn maðr í borginni dró at lásboga ok setti í höndina, svá at broddrinn stóð fastr í stoðinni. Eyskeggjar sendu frá sér lið sitt í ymsa staði í sýslur. Sverrir konungr sat um vetrinn í Þrándheimi ok hafði nefndir or heruðum, bjóst æ svá við, sem Eyskeggjar mundu sunnan koma. Hann fór norðan um várit um langaföstu ok hafði engi skip stœrri en tvítugsessur, ok þaðan af smæri. Hann fór mjök af skyndingu suðr til Björgynjar, ok féngu Eyskeggjar enga njósn, áðr Sverrir konungr kom nær bœnum laugardaginn næsta fyrir pálmadag. Höfðu Eyskeggjar þing í bœnum, ok mælti Ólafr jarlsmágr fyrir

liðinu: Nú höfum vér spurt um ferðir Sverris konungs at hann mun skjótt koma á fund várn; skulum vér nú gera ráð várt, hvárt vér skulum bíða hér ok berjast við því liði, sem nú höfum mér, eða vili þér, at vér takim annat ráð. Er nú Sigurðr jarlsson suðr í Stafangri með sex skipum, Eysteinn korpr við þrim skipum í Sogni, mun oss nú þat lið koma lítt at haldi. Þá svaraði Hallkell Jónsson: Þess eigum vér ván, sagði hann, at oss skorti ekki lið þetta sinn við Sverri, ef oss verðr eigi meir ráðfátt, eða vili eigi meir úauðna til falla með oss um vár skipti, en til sé stefnt, ráðin sýnast mér flestum bilat hafa við Sverri, ok þess varir mik, at vér sigrimst á honum, nema vér rasim fyrir ráð fram, ok er þat at varast, fyrir því at vér erum til þess eigi úvænni en þeir, er þat hefir hent. Géngu þeir þá til skipanna ok bjoggust um, ok lögðu út um kveldit í Flóruvága ok lágu þar um nóttina. Sverrir konungr kom þann sama aptan nær bœnum í Björgyn ok reri inn til bœjarins á einni skútu, en annat lið hans reri suðr til Grafdals hit ytra. Konungr fékk þá sanna njósn af Eyskeggjum. Konungr gékk upp til Kristskirkju, ok var þat þar tíðinda, at Páll byskup hafði andazt um kveldit, ok stóð þá uppi líkit þar í kirkjunni. Sverrir konungr fór upp til borgar ok sagði borgarmönnum, at þeir skyldu fá honum lið til orrostu. Konungr dvaldist litla hríð í bœnum ok reri til liðs síns. Þá lögðu þeir liðinu suðr til Hvarfness, þá fór Sverrir konungr á báti út til Flóruvága at skynja vörð Eyskeggja, ok heyrði hann þar viðrœður manna ok ætlan þeira Hallkels, at þeir skyldu berjast, ok þegar um myrgininn er þat mitt ráð, sagði Hallkell, at tengja saman skip vár, mun þá lið várt bezt fylgjast, gerum þeim fyrst grjóthríð, en því næst látum ganga skotvápn, ok dugi þá hverr sem mannligast, ok gæti þá guð til. Sverrir konungr fór þá aptr til liðs síns ok sagði þeim fyrirætlan Eyskeggja, munum

vér, sagði konungr, brátt leggja at þeim, ok yrði þeir vanbúnir við oss. Skulum vér nú, sagði hann, marka skip vár öll, knýta líndregla um fremra stafn, ef vér leggjum svá at þeim, at eigi sé ljóst. Svá skulu vér ok vara oss í atlögunni, sem vér munim eiga við borðamun at deila, höfum laus við skipin vár fyrst, meðan þeir eru óðastir; gætit yðar ok hlífit yðr fyrst, látit þá bera vápn sín fyrir borð; gæti menn ára sinna, þeira munu vér þurfa, hvárir sem sigrast. Sverrir konungr hafði 20 skip ok heldr smá, en Eyskeggjar höfðu 14 skip ok flest stór.

*Frá Eyskeggjum.*

114 (120). Um myrgininn í dagan lágu Eyskeggjar tjaldlausir, ok því næst slógu þeir landfestum ok reru út or Váginum. Þeir lögðu strengi millum skipa sinna bæði fram ok aptr, reru öllum jafnfram ok ætluðu at leita þá Sverris konungs, en fyrir því at myrkt var, þá sá þeir eigi fyrr en skip Sverris konungs rendu at þeim, ok lustu þegar upp hvárirtveggju herópi. Þá gripu Eyskeggjar til strengjanna ok drógu saman skipin, en skipin rendu at viðum, ok rendi hvert á árarnar annars ok braut í sundr. Þeir drógu skipin öll í tengsl, rendu þá at skip Birkibeina. Tókst þá þegar orrosta, sóttu Eyskeggjar í ákafa, en Birkibeinar skutu skjöldum yfir sik svá þykt, at hvergi sá þá bera. Þeir létu vakka við skipin ok höfðu í glett svá, var þat auðsýnt, at þeir váru vanir þessu starfi, svá fóru þeir kœnliga.

*Frameggjan konungs við Birkibeina.*

115 (120). En er Eyskeggjar tóku at mœðast, ok rénaði hin snarpasta hríðin, þá eggjaði konungr Birkibeina ok mælti: Standit upp ok sannit nöfn yður ok verit nú Birkibeinar, ok látit sjá, hversu yðr bíta vápnin. Þá rísa þeir upp undir skjöldunum ok gerðu aðra hríð,

sumir grýttu, en sumir skutu, ok at lögðu þeir skipin sín svá fast, at sumir lögðu en sumir hjoggu. Eyskeggjar tóku við þeim hreystimannliga, nutu þeir þá borðamunar. Þeir kómu stafnljám á konungsskipit ok drápu stafnbúana, en tóku merkit, ok alt hruðu þeir skipit mjök svá framan til siglu. En er þeir tóku uppgönguna at greiða, þá eggjaði konungr sína menn. Sóttu þá Birkibeinar fram at þeim svá frœknliga, at þá hrukku Eyskeggjar undan, sumir váru drepnir, en sumir kómust aptr á skip sín. Féngu þá Birkibeinar leyst skip sín frá, ok höfðu eina ferð allir þeir, er svá nær höfðu lagt stórskipunum ok Eyskeggjar féngu við festz, at þeir hruðu sum skip Birkibeina, ok var sjá hríð allmannskœð, ok féll miklu fleira af konungi. Þá lögðu Birkibeinar frá skipin. Þá mælti konungr: Hafizt vel við, góðir hálsar, fár munu þeir slíkar hríðir gera oss, þvíat þeir munu eigi síðr tannsárir en vér. En er Eyskeggjar sá þat, at Birkibeinar lögðu frá, þá hugðu þeir þá mundu vilja flýja. Þá mælti Ólafr jarlsmágr: Dugum vér nú vel, þvíat nú bleyðast þeir, ok sé ek svá fara flesta, ef í ofreflit koma; fylgjum nú sigrinum, ok höggvi tengslin, ok rekum þá karlmannliga. Allir váru þess fúsir, ok svá var nú gert. En er skipin losnuðu í sundr, ok þeir skyldu greiða atróðrinn, þá mistu þeir áranna, rak þá skipin fyrir straumi. Birkibeinar reru þá at ok lögðu tvau skip eða þrjú at einu. Í því bili kómu þeir innan or bœnum borgarmenn, ok höfðu þeir langskip, ok váru á 10 tigir manna, ok höfðu allir hringabrynjur. Kom þat lið þá vel í þarfar, hruðust þá skipin Eyskeggja, ok hvert sem hroðit var, þá géngu Birkibeinar af smáskútunum ok á þau hin stœrri skipin. Eyskeggjar höfðu sett upp merki Sverris konungs Sigrfluguna í stafninn á höfðingjaskipi sínu, ok sá Birkibeinar fullgerla, hvar eptir henni var at leita. Sóttu Birkibeinar þá þar til, er þeir náðu merkinu, ok því næst hruðu þeir skipit með stöfnum.

*Lát margra manna.*

116 (120). Sigurðr konungsson hljóp fyrir borð ok var drepinn á sundi. Þá reru á braut á tveim skipum Loðinn son Páls smáttauga ok Hallvarðr bratti. Ólafr jarlsmágr hljóp fyrir borð ok svam til lands. Birkibeinar óðu út á mót honum ok drápu hann. Hallkell féll á skipi sínu ok nær öll sveit hans. Þá féll mestr hluti liðs Eyskeggja, nema þeir er grið váru gefin. Konungr hafði mælt, at eigi skyldi syngja fyrr hámessur í bœnum, en hann kœmi frá orrostunni. Reri konungr nú inn til bœjarins ok lét flytja inn öll skipin með sér. Var þá ok messumál, er konungr kom frá bardaganum, ok váru þá þegar sungnar messur. Litlu eptir orrostuna andaðist Bárðr Guthormsson ok Benedikt litli ok enn fleiri liðsmenn. En er líkin fundust Sigurðar ok Ólafs, þá lét Sverrir konungr sýna lík Sigurðar í fjölmenni, at þat var lík höfðingja þess, er þessi flokkr hafði haft fyrir sér. Var líkit jarðat fyrir sunnan sönghúsit í Maríukirkjugarð. Lík Hallkels var jarðat í Kristskirkjugarði. Í Maríukirkjugarði var ger gröf mikil, váru þar mörg lík Eyskeggja í lögð, ok efst lík Ólafs jarlsmágs. Þat er mál manna, at eigi hafi sú orrosta verit, at menn hafi sigrazt við jafnmikinn borðamun, sem var í Flóruvágum. Gerði þar mikinn kœnleiks mun með þeim um atlöguna, en djarfir váru Eyskeggjar við vápn en heldr úgætnir at hlífa sér. En er Sigurðr jarlsson spyrr þessi tíðindi, þá siglir hann suðr til Danmarkar, fylgði honum sumt liðit, en sumt dreifðist ymsa vega, sumt gékk til griða. Eysteinn korpr sigldi vestr um haf.

*Stórmæli páva við Sverri.*

117 (121). Eiríkr erkibyskup ok Absalon erkibyskup sendu menn með bréfum suðr til Róms á fund páva. Var þar ritat alt frá Sverri konungi eptir vitnisburð Eiríks erkibyskups ok hans manna um öll þeira mál, áðr erk-

ibyskup stökk frá stólinum. Féngust þau andsvör af páva, sem erkibyskupar höfðu orð til sent, at pávinn lýsti stórmælum yfir konunginum, ef hann léti erkibyskup eigi ná því öllu, sem hann beiddist ok hann kallaði til. Þessi bréf lét erkibyskup upp lesa í Danmörk, ok lýsti hvern sunnudag á kór uppi banni yfir Sverri konungi. En er konungrinn spurði þetta, þá talaði hann opt á þingum um þetta mál ok sagði, at þat var upplost Dana en eigi páva orð, ok kvezt ætla, at Eiríkr blindi mundi ekki fyrirljúga konungdómi hans, ok þat bann ok blótan, sagði konungr, sem hann nefnir mik til, hefir nú drifit í augu honum, ok er nú fyrir því blindr; munu þeir í banni, er bannsverk gera, en ek em konungsson ok réttkominn til lands þessa, ok haft áðr marga nauð fyrir, en ek næða. Fari Eiríkr til stóls síns, þótt hann sé blindr, ef hann vill halda landslög hér í landi; en þótt hann hefði þar bæði augu heil, er nú er hann báðum blindr ok svá hugskotinu, at sjá hit rétta, þá mun ek eigi brjóta lög hins helga Ólafs konungs fyrir hans sakir, þó at hann bannist um eða blótist.

### *Frá legata páva ok Sverri konungi.*

118 (122). Þegar eptir páska fór Sverrir konungr austr með landi, hann fór alt austr í Konungahellu. Þá kom þar pávans sendimaðr legatus ok hans förunautar. Hafði konungr þá nökkura daga í boði sínu, ok rœddu þeir konungr marga hluti sín á milli. Konungr leitaði þess við legatann, at hann mundi gefa konungi vígslu ok vígja hann undir kórónu. Legati tók því líkliga. En er aðrir kennimenn urðu þessa varir, þá sögðu þeir legatanum, at konungr var í missætti við erkibyskup, ok hann var frá stólinum, þeir sögðu ok Sverri hafa verit vígðan fyrrum til prests, ok hann hefði tekit eiginkonu ok átt áðr aðra lögfengna, ok lifðu þá báðar. Marga hluti aðra féngu þeir til rógs við konung. En er

Sverrir konungr kom næst á þetta tal við legatann, þá synjaði hann konungi vígslunnar, bað hann sættast við erkibyskup, ok sagði hann eiga at vígja hann. Þá svaraði konungr: Sé ek, hvert þitt erendi mun vera hingat í land; þat sama sem margir falsarar gera aðrir, þeir er hlaupa utan af löndum, vilja fá sér fé, en gera várt ríki at spotti ok háði, þá er þeir koma braut. Nú vil ek, at þú farir braut héðan leiðar þinnar, vil ek eigi, at þú falsir fé af mínum mönnum hér í mínu landi. Eptir þat fór legatinn á braut.

*Frá Sverri konungi ok Nikulási byskupi.*

119 (123). Sverrir konungr sneri nú aptr norðr í Víkina. Hann sendi menn eptir Nikulási byskupi. En er byskup kom á konungs fund, þá heimti konungr byskup á eintal ok sagði, at hann var þess víss orðinn, at öll þau svikræði, er þeir Hallkell höfðu haft við konunginn, þá höfðu fyrst komit undan tungurótum byskupi, ok bar þat á hendr honum með jarteinum. Byskup synjaði ok mælti á móti. Konungr kvað þat ekki mundu tjóa, ok lézt áðr alt vita hit sanna. Hét konungr byskupi hörðum afarkostum ok kallaði hann landráðamann. Byskup bað konunginn vægðar á sínu máli ok lézt bœta vildu með öllu því, sem konungr vildi. Var byskup þá hinn mjúkasti. Sverrir konungr hafði Nikulás byskup með sér til Björgynjar. Konungr sendi orð Þóri byskupi af Hamarkaupangi, at hann skyldi koma til Björgynjar, ok svá gerði hann. Þar kom ok Njáll byskup af Stafangri. Þar var þá talat um kosning, hvern kjósa skyldi í stað Páls byskups í Björgyn. Þar var til kosinn sá maðr, er Marteinn hét ok var hirðprestr Sverris konungs, hann var enskr at öllu kyni ok klerkr góðr, þeir vígðu hann til byskups at ráði Sverris konungs. Nikulás byskup var þá í miklum kærleikum við Sverri konung, ok var formaðr með konunginum at öllum ráðum, þeim er kon-

ungr vildi láta fram fara. Þá var ok ger veizla mikil í konungsgarði, ok var þat ráðit, at þessir byskupar mundu vígja Sverri konung ok kóróna hann. Fór þat fram, at þeir vígðu hann á degi postola Pétrs ok Páls, tók hann kórónu, ok var Nikulás byskup höfuðsmaðr at vígslunni. Konungr gaf þeim öllum góðar gjafir, ok skildust þeir með kærleikum.

*Vígðr Páll byskup til Skálaholts.*

120 (124). Um vetrinn áðr hafði andazt Þorlákr byskup hinn helgi, ok þat sama sumar kom utan af Íslandi Páll son Jóns Loptssonar. Var hann um vetrinn í Þrándheimi, en fór um várit suðr til Danmerkr ok tók byskupsvígslu af Absalon erkibyskupi, ok fór aptr um sumarit til Noregs ok svá norðr til Björgynjar.

*Frá Sverri konungi.*

121 (124). Sverrir konungr fór um várit norðr til Björgynjar, var þar lögð stefna, at byskupar allir skyldu þar koma, þeir er váru í Noregi, til umráða með konunginum, fyrir því at Eiríkr erkibyskup hafði þá sent bréf sín norðr í Noreg ok stefnt öllum byskupum á sinn fund. Kómu byskupar allir til Björgynjar. Kom þar þá Páll byskup. Hit fyrra sumarit hafði konungr þat mjök í ætlan at senda lið vestr í Orkneyjar ok gjalda Orkneyingum svikræði.

*Frá jarli ok byskupi.*

122 (124). En er þetta spurðist vestr, þá býst jarl at fara vestan, ok með honum Bjarni byskup ok allir hinir beztu menn af Orkneyjum, kómu þeir at þessum byskupa fundi til Noregs. Áttu þá höfðingjar stefnur sín í milli, ok var þat afráðit, at senda menn með bréfum á páva fund; var fyrir þessi bréf sett innsigli Sverris konungs ok allra byskupa þeira, er þar váru. Rézt til

þeirar ferðar Þórir byskup ok með honum Rikarðr svartameistari. Fóru þeir með þessum erendum á fund Celestinus páva.

*Tala Haralds jarls.*

123 (125). Þá kærðu þeir konungr ok jarl sitt mál, var þá þing út í Kristskirkjugarði, stóð hirðin um konungssætit, en sumt sat frammi fyrir; þá stóð enn mart utan at, var þar jarlinn. Hann tók til orða ok mælti: Hér er nú mikill fjöldi góðra manna, þyrfta ek at mínu máli góðan róm alþýðu. Ek em nú svá gamall sem á grönum má sjá, hefi ek komit mörgum konungum fyrir kné, stundum með kærleik, en opt með vandamálum. Nú er nýr vandi til handa kominn, reiði míns herra Sverris konungs; em ek þó minna af valdr því máli, en mér er kent, eigi réð ek uppreist flokksins, en þat var satt, at eigi börðumst ek á mót þeim, eigi mátta ek hatast við allan lýð þar í landi, ok eigi láta Orkneyingar alt at mér, margir hlaupa ok herja á Írland eða Skotland, eða ræna kaupmenn, ok allir at úvilja mínum, en er þó þat mælt, at ek sjá refsingasamr. En ekki er hér um langt at tala, svá gert, sem nú er, ok svá mælt, legg ek á guðs vald ok yðart, herra. Gékk hann þá fram millum mannanna ok féll til fóta konunginum. Konungrinn litaðist um ok tók seint til orða ok mælti: Mikit herhlaup gerðu þér í Noreg, er svá styrkan flokk efldut higat í land, sem Eyskeggjar váru, ok þótti mér ok mínum mönnum þat mjök móti skapi. En nú er jarl hér kominn, sem þér megut sjá, ok iðrast nú þess, sem hann hefir af gert, ok biðr nú miskunnar, ok hana vil ek veita honum, mun ek þess þurfa af guði, at hann miskunni mér framar en ek hefi til gert, ok statt upp, herra jarl, ok ver í guðs griðum ok mínum, en ek mun segja upp sætt okkra í meira tómi.

*Um sætt Sverris konungs ok Haralds jarls.*

124 (125, 126). Sverrir konungr lét rita alla sætt, þá er hann gerði við Harald jarl, ok lét skrá eignir þær allar ok jarðir í Orkneyjum ok Hjaltlandi, er fallit höfðu í konungsgarð, ok þeir menn höfðu átt, er fallit höfðu í Flóruvágum. Hann lagði á þriggja vetra lausn, at frændr hinna dauðu skyldu leyst hafa, með lausafé; en ef eigi væri leyst innan þriggja vetra, þá féll alt at aldareðli í konungsgarð. Konungr tók undir sik Hjaltland alt með öllum skyldum, hann setti Harald jarl yfir Orkneyjar með þeim skildaga, at konungr skal hafa hálfan allan sakeyri, ok setti þar sýslumenn yfir. Svarði þá jarlinn konunginum eiða at skilnaði þeira. Sverrir konungr gékk á tal við byskupana, áðr þeir skildust, þá mælti konungrinn: Þat er mitt ráð, góðir höfðingjar, at þér gætið með vizku ríkis þess, er guð hefir yðr til sett, látið yðr þat í hug koma, at þat er ekki föðurleifð yður; svá ok ef Eiríkr blindi flæmir yðr af ríkinu, at hann mun lítit gott fá yðr í staðinn, er hann má eigi fá sjálfum sér, hann hefir nú 10 sveina við sér, ok þó alla á annars kostnaði, en ef þér haldit fast samband við mik, þá skal ek vera forstjóri fyrir allra vár máli. Þeir hétu góðu um at skiljast eigi við konungsins mál.

*Frá Hreiðari sendimanni.*

125 (127). Hreiðarr hét maðr víkverskr, er þá hafði lengi verit af landi braut ok víða farit. Hann kom þetta sama sumar með bréfum ok innsigli því, er kallat var Gullbóluskrá; þat innsigli hafði sent Kirialax Grikkja konungr Sverri konungi, en þat stóð á bréfum, at Sverrir konungr skyldi senda Grikkja konungi 10 hundruð góðra hermanna. Sent hafði hann ok til Danmarkar Knúti konungi þann mann, er Pétr hét, ok var kallaðr illska, ok með þvílíkum orðsendingum ok hinn þriðja mann til Svíakonungs. Var Hreiðarr með konunginum um vetrinn.

Þat haust andaðist Knútr konungr í Svíþjóð, ok tók þar konungdóm Sörkvir Karlsson. Þat sama haust fór Nikulás byskup suðr til Danmarkar á fund erkibyskupa Absalons ok Eiríks ok sættist við þá.

*Sverrir konungr leystr af páva.*

126 (128). Vetr þann kómu sunnan frá Rómi til Danmarkar Þórir byskup ok Rikarðr meistari, ok með þeim kardinali af Róma. Allir féngu þeir þar bráðasótt ok önduðust, ok kómu engi vísendi bráðliga til Noregs um þeira erendi, hvert orðit var. Nökkuru síðar kómu danskir menn til Sverris konungs ok fluttu honum bréf ok innsigli pávans. Lét Sverrir konungr bréf þessi upp lesa á kór ok sýna þar pávans innsigli. Stóð þat á bréfum, at þegar pávinn vissi hit sanna, at konungrinn mælti réttara en erkibyskup, þá leysti pávinn hann ok alt hans ríki frá öllum stórmælum. Konungr kvezt ok spurt hafa með sannendum, at kardinali ok Þórir byskup hefði verit, ok allir þeir, í boði með presti nökkurum, ok um kveldit var kastat eitri í drykk þeira, ok dó þeir allir.

*Um erendi Hreiðars.*

127 (129). Um várit eptir leitaði Hreiðarr við konung, hvert hans erendi skyldi vera. Konungr svaraði svá: Ekki lízt mér friðvænligt hér í landi. Spyr ek þat frá, at Danir munu enn ala oss úlfa, sitja þeir ok sumir innan lands, at ek trúi eigi vel; mun ek ekki senda mína menn frá mér at svá búnu. Þá spurði Hreiðarr, ef konungr gæfi orlof til bóndasonum eða kaupmönnum at fara, ef þeir vildi. Konungr lézt þat gera mundu. Fékk Hreiðarr sér sveitar ok fór or landi um sumarit suðr til Danmarkar á Halaeyri, þá er þar var markaðr. Þar kom Nikulás byskup ok fjöldi Víkverja. Þeir Nikulás byskup höfðu þar með sér svein einn, er þeir kölluðu son Magnús

konungs Erlingssonar; þann kölluðu Birkibeinar danskan ok heita Þorgils þúfuskít. Þar á Eyrinni reisa þeir flokk, rézt þar til mikit fjölmenni. Til þeirar ferðar réð Eiríkr erkibyskup, þar var ok kominn Sigurðr jarlsson ok margir aðrir, þeir váru kallaðir Baglar.

*Frá Sverri konungi ok Böglum.*

128 (130). Sverrir konungr var þá í Vík austr, ok er Baglar kómu í Salteyjarsund, þá varð Sverrir konungr varr við. Konungr sjálfr fór á njósn ok Nikulás af Vestnesi, ok sýndist konungi afli þeira mikill. Fór konungr þá aptr til sinna manna. Baglar váru nú á landi, þar heita nú Múgavellir. Þeir höfðu þar dregit upp skip sín hjá sér, þeir höfðu 5 langskip ok hundrað smáskipa. Sverrir konungr hafði 30 skipa ok flest smá, en er konungr sá, at þeir höfðu múg manna, þá lagði konungr sínum skipum undir eyna, ok lá þar um hríð. Hann lét reisa valslöngu á bergi nökkuru gegnt skipum þeira Bagla, ok um kveldit, er valslöngvan var búin, þá slöngðu Birkibeinar um hríð ok brutu skipin fyrir Böglum. En um kveldit er dimma tók, lét konungrinn gæta valslöngunnar Lávarð son sinn ok Eilíf rauða ok 80 manna með þeim. Konungr bað þá svá við varast, at Baglar mundu koma þar um nóttina. Gékk konungr þá til skipanna. Veðr var geysi kalt, ok niðamyrkr á sem mest. Rif gékk milli lands ok eyjarinnar. Þeir Sigurðr lávarðr lögðust í kös undir valslöngunni. Baglar géngu um nóttina at fjöru út eptir rifinu, hundrað manna. Fundu Birkibeinar eigi fyrr, þeir er undir valslöngunni váru, en spjótin stóðu á þeim. Hljópu þeir þá upp. Þá mælti Eilífr rauði: Rekum þá af oss, þeir hafa ekki um hönd fulla manna. Snerist hann þá við, ok fáir menn með honum, ok féllu þeir flestir. Lávarðr konungsson steyptist ofan fyrir kleif nökkura, ok svá fóru þeir fleiri, stefndu þeir til skipanna. Þar létust af Birkibeinnm á þriðja tigi

manna. Baglar brutu í sundr alla valslönguna. Konungr veitti hörð orð Lávarði syni sínum, ok sagði þat sem satt var: Annan veg hélt ek vörðinn, þá er ek gékk til lands mót Magnúsi konungi, ok vei verði þeim konungssyni, er svá gætir sinnar sveitar, sem þú hefir gætt.

*Frá konungi ok Nikulási byskupi.*

129 (131). Þat var einn dag, þá er konungr lá í Seimsfirði, at hann reri á skútu inn undir landit. Baglar géngu fram á berg nökkut ok kölluðu á þá. Sigurðr jarlsson mælti: Hvárt er Sverrir matgjafi minn á skútunni? Þá svaraði Ljótr Haraldsson: Hér er Sverrir konungr á skipinu, ok mun hann eigi hafa verra manni mat gefit en þér, muntu nú þat sýna. Þá mælti Nikulás byskup: Fyrir hví gengr þú eigi á land, Sverrir? Viltu nú eigi berjast, guðníðingrinn? Þér þykkir ekki jafngott lífi, sem ræna ok herja. Sé hér nú handlín mitt - hann hélt upp skildinum - nú hefi ek mítr ok staf þann, er ek skal bera at pávans boði, þat er stálhúfa ok sverð, þar til er þú ert drepinn eða rekinn or landi. Birkibeinar skutu æ orðum í ok mæltu: Eigi þœtti oss vandi um landgönguna, ef slíkir einir væri fyrir, sem þú níðingrinn. Sumir mæltu svá: Illa muntu bera þín vápn, svá hefir þú fyrr borit. Byskup mælti: Opt frýit þér mér hugar, Birkibeinar! Nú gakktu, Sverrir, einn á land, en ek mun einn ganga á móti þér, ok skal þá reyna, hvárt meira má veita mér Pétr postoli ok hinn helgi Hallvarðr, eða hon kyflan gauzka mun veita þér, er þú trúir á. Þá svaraði konungr, svá at hans menn heyrðu: Þat mundi mælt, ef vit Nikulás byskup berðimst, at þar væri greyja mót, er í hvárigum er hugrinn. Fór þá konungr braut ok til sinna manna.

*Um húsþing.*

130 (132). Um myrgininn eptir hafði konungr húsþing, ok spurði menn ráðs. hvat til skyldi taka. Þá

svaraði Nikulás af Vestnesi: Ilt þykkir oss at liggja hér við matleysi, viljum vér nú leggja at ok berjast, sigrast eða falla, en at öðrum kosti viljum vér á braut þangat, sem vér fám oss mat. Konungr svaraði: Hér segir þú nú mjök vilja allra liðsmanna; en svá ilt sem yðr þykkir hér at liggja, þá þykkir þeim engum mun betra, er hér liggja fyrir innan hjá oss. Konungr lét þá flytja lík manna sinna til kirkju í Salteyjarsundi. Eptir þat fór hann norðr til Björgynjar með öllu liðinu, ok gaf þá mörgum heimleyfi. Konungr fór norðr um haustit til Þrándheims ok sat þar um vetrinn.

*Frá Beglingum.*

131 (132, 133). Baglar sóttu norðr í Víkina, létu þeir þá stefna Borgarþing. Var þar Ingi til konungs tekinn. Lögðu þeir þá undir sik alla Víkina ok um Upplönd. Nikulás byskup var um vetrinn í Osló at stóli sínum, en stundum suðr í Danmörk. Þá var vígðr til byskups í Hamarkaupang Ívarr skjálgi. Þá kom til Bagla Hallvarðr af Sástöðum, Kolbeinn stránefr ok margir aðrir. Þann vetr tóku þeir Nikulás byskup ok Sigurðr jarlsson mikit fé or Maríukirkju vegg, er Sverrir konungr átti, í Höfuðey, ok höfðu með sér. Um várit eptir fóru þeir Nikulás byskup ok Sigurðr upp á Heiðmörk. Þá gerðu þeir lið um fjall norðr, ok kom þat ofan í firði þeim er heitir Áldi inn frá Rugsundi. Þar drápu þeir sýslumenn Sverris konungs Þóri dara ok Einar lygru ok sveit við þeim. Fóru Baglar aptr síðan til Upplanda ok þóttust hafa vel gengit.

*Útboð Sverris konungs.*

132 (133, 134). Um vetrinn eptir jól átti konungr þing við bœndr ok bauð út leiðangri um allan Þrándheim, Hálogaland ok Mœri hváratveggju. Hann stefndi snemma saman öllu liðinu. At Hallvarðsmessu var hann kominn

við öllu liðinu suðr til Björgynjar, hafði hann þá nær 30 hundraða. Hann sat um sumarit í Björgyn fram til Margrétarmessu, dreif þá til hans lið mikit, mundi hann þá hafa á fimta tigi hundraða. Sigldi hann þá liðinu suðr í Grœningasund, ok þótti mörgum kynligt, er hann fór eigi leið sína. Konungr hafði jafnan þing við lið sitt. Hann hafði fjölda leiðangrsfólks, var þat lið úspakt ok lítt stilt. Konungr talaði fyrir fólkinu á einu þingi ok mælti svá: Úfallit er þat góðum bóndasonum at fara til þess or Þrándheimi eða Hálogalandi, eða þótt skemra sé at komnir, at berjast við búgögn bónda, keröld eða bús búhluti, er yðr þat engi snild. en hinum mein, er eigu; ræð ek yðr þat at gera þetta eigi lengr. Nú má ek eigi heita stjórnari lands þessa, nema ek taka af þessa úsiðu eða aðra; bið ek yðr til vinsamligum orðum, at þér látið af þessum úspektum, fyrir því at mér þykkir mikit fyrir at refsa yðr, en þat verðr þó at gera, ef eigi batnar við þetta. Svá þykkjumst ek ok fullkominn til vera ríkisstjórnar lands þessa, þó at Nikulás byskup segi þat eigi. En þat þykkjumst ek eigi vita, hvat Nikulás byskup finnr mér, er hann segir þat, at ek mega eigi konungr vera yfir Noregi. Þeir hafa margir borit konunga nöfn, er verit hafa ambáttar synir, en ek em sannr son Sigurðar konungs ok Gunnhildar. Er þat nökkurum mönnum kunnigt, hver ætt hennar er, en ek má þat þó gera enn kunnara alþýðunni. Þá taldi konungr allar kynkvíslir hennar öllum þingmönnum áheyranda, ok könnuðust þá margir menn við sína frændr, þeir er eigi vissu áðr skil á. Lauk hann svá sínu máli, at engan kvezt hann vita betr til fallinn þá í Noregi, hvárki fyrir guði né mönnum, at bera konungsnafn en sik, en þó at Nikulás byskup vili heldr annan hafa en mik, þá munu vér Birkibeinar lítt at því fara nú heldr en fyrr. Konungr þarf at vera harðr ok ráðvandr, en oss sýnist Nikulás, þótt hann sé tungumjúkr maðr, hafa hera hjarta en trygð sem refrinn, ok þótt vér

telim upp allan afspring Ingiríðar, þá mun fár vera tryggr; eigi var Magnús trúr eða Buriz, sem merki hafa á orðit. Nú látum þat vera kyrt, þvíat alt mun reynast um síðir, hverr hvergi er, munum vér nú fyrst sœkja á fund Bagla, ok mun þá vita, hversu hvatr hvergi er, eða hversu fast skaufhali stendr þá fyrir oss Birkibeinum. Eptir þat var slitit þinginu, var þá ok skamt at bíða þess, er byrr rann á. Tóku þeir þá til segls ok léttu eigi fyrr, en þeir kómu austr til Oslóar, ok var þar fyrir Bagla herr mikill í bœnum.

*Sverrir konungr skipaði atlögu.*

133 (134). Jakobsmessu aptan lagði Sverrir konungr við Höfuðey. Gékk hann upp um myrgininn ok hlýddi tíðum. Eptir messu átti konungr húsþing ok mælti: Baglar eru í bœnum með allmikit lið ok ætla at taka við oss; hugsit þér nú um vandliga, hvernin ek skipa til. Hákon son minn með allar sínar skútur skal róa út á leiruna fyrir innan Nunnusetr, ganga þar upp ok svá í bœinn, veita þeim bakslettu, er á bryggjunum eru; en lendir menn mínir, Gregorius Jónsson, Sigurðr af Móðastöðum, Eysteinn Rögnvaldsson ok með þeim Mœrirnir, skulu leggja út at eyrunum við Maríukirkjugarð ok ganga þar upp um Maríukirkjugarð hjá syðra stræti; en alt annat lið skal fara með mínu merki utan at bryggjum, þar mun vera meginlið þeira fyrir. Var þá blásit þegar liðinu til brautlögu, greindust þá skipin hver, þannin sem konungrinn hafði fyrir mælt.

*Tala Nikulás byskups fyrir Böglum.*

134 (135). Nikulás byskup talaði fyrir her þeira Bagla ok mælti svá: Sigurðr jarlsson með sína sveit ok Hallvarðr af Sástöðum með Upplendinga skulu hafa eina fylking fyrir innan Nunnusetr ok gæta, at þeir komist eigi þar í bœinn, en þeir synir Önundar hlyns ok Kolbeinn

stránefr skulu gæta til brúarinnar, at þeir komist eigi þar í bœinn, en konungsmerkit ok mitt lið ok bœjarmenn skulum verja bryggjurnar. Hefir Sverrir miklu minna her en þér hyggit, er víða einn maðr í hverju hálfrými, hafa þeir sett upp húðföt sín víða í rúmunum, eru Birkibeinar svá bannsettir, at sverð þeira bíta eigi, ok eigi munu þeir þora at leggja. Verðit nú við vel, feigr mun hann Sverrir, ef hann leggr at, kann vera, at hér fari hann sem í Seimsfirði. Byskup var á hesti ok klerkar nökkurir með honum, ok var hann uppi á strætinu fyrir garði sínum, þá er atlagan tókst. Œptu þá hvárirtveggju heróp.

*Um atlögu.*

135. Sverrir konungr lagði at svá fast, at byrðingar, þeir er fyrir lágu, brotnuðu. Baglar höfðu sökt nökkurum skipum fyrir bryggjum, máttu Birkibeinar því eigi vel ná atlögunni, skutu þá hvárirtveggju. Birkibeinar sóttu þá yfir byrðingana. Bengeirr langi ok Bótólfr kómu fyrstir upp á bryggjurnar. Einn enskr maðr hjó þegar til Bengeirs ok mælti, at eigi skyldu þeir þar upp ganga. Bengeirr skelfði sverðit, hann kunni manna bezt við sverð ok buklara, hann sló undir skjöldinn ok kom á fyrir neðan nefit, ok tók þat í sundr andlitit. Birkibeinar sóttu þá margir upp á bryggjurnar, en Baglar tóku vel á móti, var þá hörð svipan. Einn maðr mælti til byskups: Herra, ríðit nú fram hart, þvíat nú þurfu várir menn, at þér treystit þá, þvíat svá lízt mér nú, sem Birkibeinum bíti sverðin. Þá mælti byskup: Ríðum undan, lauss er nú orðinn djöfullinn. Hleyptu þeir upp or bœnum ok námu eigi fyrr stað, en þeir kómu upp á Gjöllurásinn, ok biðu þar liðsins. Þeir Gregorius lögðu út við árósinn, ok var þar útgrunt, en er skipin kendu niðr, hljópu þeir fyrir borð ok óðu til lands ok géngu upp allhraustliga. Baglar váru uppi við Geitabrú, ok veita þeir svá harða árás Birkibeinum, at þeir snúa undan

til skipanna, féllu sumir, en sumir hljópu á kaf. En er þeir koma á skipin, þá leggja þeir út til Þrælabergs, ganga þar á land ok sœkja inn eptir völlunum. En er Baglar sá þat, sœkja þeir á móti, ok varð þar orrosta hörð með þeim í annat sinn.

*Frá Hákoni konungi unga.*

136 (135). Hákon konungsson lagði at inn á leirunni svá fast, at skúturnar allar rendu upp á þurt land, hljópu þeir þegar á fylking Bagla. Þeir höfðu sik skamma stund við ok flýðu upp fyrir norðan bœinn. Birkibeinar fylgðu ok drápu af þeim slíkt, er þeir máttu; sumir sneru í bœinn ok veittu þeim bakslettu, er á bryggjunum váru. Var þá ok uppkomin á bryggjurnar Sigrflugan merki Sverris konungs, ok í því flýðu Baglar ok bœjarmenn, sumir upp or bœnum, sumir í garðana. Sverrir konungr gékk upp eptir langstræti, ok er hann kom upp í göturnar, sá hann, hvar þeir börðust út á völlunum. Sneri hann þá út þannig, féngu Baglar þá hart slag, féllu þeir nær allir. Birkibeinar rannsökuðu þá bœinn ok brutu hús til Bagla, ok drápu þá enn mart manna, en þó drógust undan þessu sinni flestir höfðingjar Bagla, en fjöldi féll.

*Frá Sverri konungi.*

137 (136). Eptir þat lét Sverrir konungr blása öllu liðinu upp á Mörtustokka, ok átti þar tal við þá ok mælti svá: Guð sé þess lofaðr, er hann hefir eigi gert horfinheilla við oss Birkibeina um sigrinn nú heldr en fyrr; er mér þess ván, at varla muni Nikulás skaufhali með úhræddu hjarta nú hafa undan sótt. En ek vil þó þat segja yðr öllum saman, at skipum skal leggja öllum til Höfuðeyjar. Vil ek, at vér fáim enga flögu af þeim eða skræmihlaupum þeira, þvíat eigi er úvænna, at nökkurir víki aptr til bœjarins, er náttar, ann ek þeim ekki þess, at þeir komist þegar á veðr mínu liði. Þá fóru

menn til skipa ok gerðu sem konungr mælti. Upp var tekit í bœnum fé alt, áðr þeir fœri braut, fyrir því at bœndr ok kaupmenn höfðu barzt móti konunginum. Langskip, þau er til váru, tóku þeir ok brendu flest, en höfðu með sér Bókaskreppuna, er Nikulás byskup hafði haft. Tók Híði þá við Bókaskreppunni en brendi Viðsjána, er áðr hafði hann. Ok er konungr lá við Höfuðey, lét hann menn bera upp hlutskipti á völl sunnan á eyna, síðan lét hann skipta í fjóra staði herfanginu. Eptir þat var blásit til húsþings, ok átti hann tal við lið sitt ok lét menn ganga undir stöng, ok var liðit skorat, ok váru þá á fimta tigi hundraða. Þá kom maðr með bréfi frá Nikulási byskupi til konungs, ok var þat á, at byskup vildi sættast við konung. Hann kvað hafa hann þat gert fyrr, ok efnt þó lítit af, en engi kvezt konungi þykkja fremd í at láta drepa Nikulás, ok unna mun ek Nikulási griða, ef hann sjálfr kemr á minn fund, en hann kemr, ef honum sýnist. Þá beiddi konungr liðsmenn ok leiðangrslið, at hann vill hafa skip ok skipreiða allan saman, er fenginn var, at kaupi fyrir 15 merkr gulls. En mönnum sýndist svá, sem þetta mundi eigi vera þriðjungr til verðs þess, sem til mundi koma. Géngu þeir þá til Sigvaldi karl ok Sigurðr af Móðastöðum, Eysteinn Rögnvaldsson ok margir aðrir, ok drógu í sundr reiðann ok seglin sem annat fé. Ok er konungr vissi þat, hljóp hann til með sviga ok lét ganga. Flestir köstuðu niðr því, er á héldu, ok stukku undan, þvíat þeir sá, at konungr var reiðr. Sigvaldi beið ok gékk eigi undan. Konungr laust tvau högg um herðar honum. Sigvaldi vildi eigi á mót taka. Konungr hætti ok sagði þá illa gera, er þeir brutu ráð hans, sagði, at hann vill hafa landvarnir, ok svá var. Var þá skipt síðan fénu með mönnum, sem tala rennr til, var þat eigi minna fé, er hverr maðr hlaut þar, en til tveggja marka veginna. Lá konungr þar lítit skort hálfan mánuð.

*Frá Böglum.*

138 (137). Nú er at segja frá Böglum, er þeir hafa flýit, at þeir fara hit efra um Upplönd ok svá norðr til Þrándheims ok svá í Niðarós. Ok er þeir kómu til borgarinnar á Steinbjörg, settu þeir lið sitt umhverfum borgina. Þar var fyrir í borginni Þorsteinn kúgaðr ok Bjálfi skinnstakkr ok Ásgautr, ok höfðu vel 80 manna. Baglar lögðu vistagjald á bœinn ok kröfðu bœndr leiðangra í heraði. Þeir létu menn ok sverja sér trúnaðareiða ok konungi sínum, at menn skyldu eigi vera mótstöðumenn þeira, þeir gerðu ok jafnan harða skothríð borgarmönnum. Einn dag kallaði Nikulás byskup á Þorstein í borgina ok mælti: Úráðligt er þér, Þorsteinn, at halda borgina ok vera í banni, ok láta muntu meira í öðrum stað. Vér munum gera lið til búa þinna ok ræna þar hvívetna en brenna bœina. Þorsteinn kallaði Bjálfa til sín ok sagði, at úráðligt mundi at halda borgina lengr, ef þeir sæti þráliga um. Lauk svá þeira viðrtali, at þeir urðu á þat sáttir, at upp skyldi gefa borgina. Ekki vissu aðrir borgarmenn til þessa. Laundyrr váru á borginni, þar gékk Þorsteinn til, svá at hann mátti tala við Bagla. Guðbrandr ungi gékk til móts við hann, ok gerðu þeir ráð millum sín, bað Þorsteinn þá ganga inn um nóttina þær sömu dyrr, en Guðbrandr hét á mót borgarmönnum öllum lífsgriðum, vápna ok klæða. Um nóttina géngu Baglar í borgina um þær sömu dyrr, sem Þorsteinn hafði þeim heitit, at opnar skyldu vera. Fundu borgarmenn eigi fyrr, en Baglar höfðu fylt borgina af mönnum. Féngu menn þar lífsgrið ok höfðu ígangsklæði sín, fáir einir vápn, en engir fé. Sneri Ásgautr ok Bjálfi út til heraðs, en Kúgaðr gerðist handgenginn þeim Böglum ok fór með þeim. Baglar tóku fé þat alt, er í borginni var, síðan brendu þeir hvert hús, er þar var. Þeir tóku einn dauðan mann, er þar var, ok steyptu í brunninn, báru síðan í grjót, þar til er fult var. Þeir stefndu til borgarmönnum

at brjóta alla steinveggina, áðr þeir skildist við; þeir brendu ok öll langskip konungs, áðr þeir fœri á braut. Snerust þá síðan til Upplanda ok þóttust hafa unnit vel til fjár.

*Frá Sverri konungi.*

139 (138, 139). Þat er at segja frá Sverri konungi, at hann sneri til Goðmars ok lagðist við suðrlandit, þar sem heitir Fyrileif, ok stefndi þar þing við bœndr. Bar konungr þat at þeim, at þeir hefði verit móti honum í Seimsfirði ok hefði tekit konung annan í höfuð honum. Helgi hét maðr, er svaraði rœðu konungs ok mælti svá: Fáir menn í várum heruðum váru í þeim flokki, ok þó með litlu ráði þeir er váru; erum vér ok svá gamlir ok runnir bitar upp, at fyrr kunnum vér við at sjá, en vér komum í úfœruna; eru oss ok svá kunnig lög í Noregi ok ríkra manna réttr, at vér vitum, hvar lögkonung á at taka. Nú megut þér þat sjá, herra, at vér mundum eigi svá heimskir vera, at fylla með álitaleysi þann flokk, er eigi var réttligar til kominn ok þó gagnstaðligr yðr, herra. Fór hann svá orðum um, at konungi hugnaði vel.

Konungr fór þaðan alt austr til Elfar, ok lá þar allr landsmúgr úti á skógum. Konungr sendi bóndum orð, at þeir kœmi til hans í griðum, ok stefndi við þá þing. En er þeir vissu sik sakafulla við konung, þá frestuðu þeir stefnulaginu ok dvöldu langa hríð. Konungsmönnum þótti ill dvöl þessi ok réðu um at rjúfa leiðangrinn. Ólafr beitstokkr hét maðr, er þetta talaði mest fyrir liðinu, ok þegar er konungr varð þessa varr, lét hann drepa Ólaf. Konungr stefndi enn þing bóndum, en ef þeir kœmi eigi, lézt hann mundu brenna bygðir þeira. Kómu bœndr þá ofan ok áttu þing við konung, festu þeir þá gjald í konungs vald, ok annan dag eptir kom ofan leiðangr ok liðagjald ok sakeyrir; váru þat mörg hundruð nauta ok mikit fé annat.

Fór konungr þá til Oslóar, þvíat honum var sagt, at Baglar ætlaði þannin, en þeir höfðu snúit norðr aptr til Þrándheims, þegar þeir spurðu, at konungr var í bœnum. Konungr fór þá út til Túnsbergs. Konungr sendi upp í Mjörs Philippus jarl son Birgis brosu, skyldi hann þar sitja fyrir Böglum. Híði bróðir hans skyldi ok þangat fara, ok var hann eigi búinn. Konungr fór or Túnsbergi ok ætlaði til Björgynjar, góðan byr hafði hann, er hann sigldi frá bœnum, en Híði var eptir með sína sveit. Konungr sigldi norðr í Helgasund, þá spurði hann, at Sigurðr jarlsson hafði norðan siglt, þótti honum Híði þá vera kominn háskasamliga. Lét konungr blása til húsþings um myrgininn ok sagði, at honum þótti horfa úvænt um þeira menn, mun Híða bróður mínum þykkja njósn sjá trú, er ek fer með allan her minn, ok munu þeir nú ekki varast. Tók þá konungrinn öll léttiskip, ok sté þar á sjálfr ok ætlaði at leita Sigurðar.

*Slagit í bœnum.*

140. Sigurðr hafði haft ráð fyrir sér ok lagt út af leið. Fór Sigurðr um nóttina inn til bœjarins, ok kómu alt á úvart þeim Híða. Baglar hljópu þegar í bœinn ok urðu-varir við, hvar Birkibeinar váru; þeir váru í Ásleifsgarði ok drukku þar í einni stofu, hljópu þeir út flestir vápnlausir. Híði hljóp suðr or stofunni ok upp undir skúrfjalarnar millum húsanna. Baglar vöktu um nóttina ok gættu bœjarins, en um myrgininn rannsökuðu þeir bœinn ok drápu Birkibeina, hvar sem fundu. Hvítingr hét einn umrenningr Bagla, hann fann Híða, ok bað Híði hann leyna sér ok gaf honum til gullhring. Sveinninn hét góðu, en sagði þó þegar Böglum. Var þá Híði tekinn ok drepinn. Sigurðr fór þegar braut þann sama dag or bœnum. Þar féll með Híða 50 manna, ok váru mart hirðmenn.

*Frá Sverri konungi.*

141. Sverrir konungr kom fyrst til Túnsbergs, ok varð þá sannfróðr at þeim tíðindum, sem þar höfðu gerzt. Hann segir þá liðinu, at hann vill leita á fund Sigurðar. Heldr konungr þegar austr yfir Foldina, spyrr konungr þá, at Sigurðr ferr austr undan. Verðr Sigurðr þá ok varr við ferðir konungs, lagði Sigurðr þá upp í Befju. Konungr kom þar litlu síðar. Þeir Sigurðr hljópu á land upp ok yfir brú, er var á ánni, ok hljópu þar saman. Birkibeinar hljópu þegar af skipunum, ok gerðu hvárirtveggju skothríð. Birkibeinar brutu af brúna. Hljópu þeir Sigurðr þá á land upp, þar féllu nökkurir menn af Bõglum. Birkibeinar tóku skipin ok alt þat er á var, höfðu þeir sum með sér, en sum brendu þeir. Sneri þá konungrinn norðr til Björgynjar ok sat þar um vetrinn.

*Frá mönnum Sverris konungs.*

142. Um haustit þá er konungr hafði skilit við lið sitt í Helgasundi, þá fóru þeir með stórskipunum norðr hit beinsta til Þrándheims. Þeir kómu fyrstir norðr á þrim skipum, Eiríkr af Há, Eyjólfr Aflason ok Arni skaðareðr. Þeir spurðu, at Baglar váru í bœnum ok höfðu gert mörgum mönnum skaða. Birkibeinar kómu til Hólms um lýsingar skeið. Reru þeir Eiríkr í ána tveim skipum, en Eyjólfr lagði at sandinum fyrir innan borg, ok stefndu þeir fyrir utan bœinn upp til brúar. Baglar urðu ekki varir við Birkibeina, fyrr en þeir kómu í bœinn, ok lúðrarnir géngu. Hljópu þá Baglar sumir í kirkjur, sumir til brúar upp. Váru þeir nær allir drepnir, sumir féngu grið. Þetta var tveim nóttum fyrir Andresmessu. Birkibeinar létu upp setja skipin út á Eyrum, höfðu þeir þá bœinn til varðveizlu ok svá sýslur í heraði.

*Dráp Jóns magra.*

143 (142). Um vetrinn eptir jól drápu Baglar Jón magra með þeim hætti, at þeir veittu honum heimsókn,

gékk sá maðr til dyra, er Sölvi hét, hann krafði dyra ok bað Jón út ganga, ok kvezt hafa tíðindi at segja honum. Góð skyldu þau vera, sagði Jón, ok spretti lokunni frá ok lauk upp hurðunni. Sölvi lagði þegar sverðinu í gegnum hann, svá at yddi út um bakit. Í því greip Jón um hálsinn Sölva ok greyfði honum undir sik, rann þá úmegin á Jón, ok dó hann þegar.

Hallvarðr af Sástöðum var þá á Upplöndum, hafði hann þá at varðveita konungsefni þeira Bagla, fóru norðr um fjall eptir jól. Þeir fóru ofan um Rennabú ok drápu þar Ívar ármann ok Þorleif styrju. Þá fóru þeir í Orkadal ok drápu þar Einar skitinbeina ok Skeggja á Eggju, fóru síðan til bœjarins. Gunnarr galinn ok Eindriði rakki báru njósn til bœjarins. Gunnarr for út á Eyrar ok lagði eld í langskipin, ok vildi heldr brenna upp, en Baglar nyti. Ok er hann var þar at, kómu Baglar at honum ok drápu hann. Baglar tóku þá bœinn, ok varð engi viðrtaka, höfðu Birkibeinar farit braut, þegar þeir spurðu til Bagla. Sátu þeir þar um vetrinn. Þeir buðu út leiðangri um allan Þrándheim ok hrundu skipum á vatn ok bjoggust til varnar. Birkibeinar lágu úti á mörkum ok skógum opt í illum búðum, sem ván mun á þykkja, væntu æ, at Sverrir konungr mundi koma ok frelsa sína menn or ánauð. Þá var Inga gefit þar konungsnafn. Bárðr hét sá maðr, er þat gerði. Baglar höfðu þá her mikinn ok allvel búinn. Um váritJögðu þeir liðinu út til Rauðabjarga nökkuru fyrir Hallvarðsmessu.

*Dráp Bagla.*

144 (143). Sverrir konungr fór or Björgyn með skútur ok léttiskip, ok fór skyndiliga ok ætlaði at koma á úvart Böglum, sem hann hafði jafnan fyrr gert. Ok er hann kom inn um Agðanes, þá mœtti hann þar einu skipi Bagla, ok drápu þeir þar af mjök mart manna, en sumir kómust á land undan. Inn hjá Hornbora mœttu

þeir Baglaskútu einni; sneru Baglar at landi ok hljópu upp, en sumir váru drepnir. Inn fyrir Reinsvík fundu þeir Bagla með mikit langskip, ok drápu þeir þar af nær hvert mannsbarn. Vildu liðsmenn hafa skipit, en konungi þótti þat ekki samfœrt í róðri við skúturnar, ok létu þeir eptir skipit ok iðruðust litlu síðar.

*Upphaf orrostu.*

145 (143). En er Baglar sá róðr Birkibeina, ráku þeir af sér tjöldin ok lögðu saman skipin ok tengðu. Þeir höfðu sjau skip ok öll stór. Þeir lágu við Þórsbjörg. Landnyrðingr var á léttr sá innan or firðinum, rendu skip Bagla at viðum fyrir vindi. Birkibeinar reru at, ok skutu hvárirtveggju, reru Birkibeinar um hit ytra ok máttu vera, hvar sem þeir vildu. Birkibeinum þótti vera borðamunr mikill. Var þessi skothríð allhörð ok löng, féllu menn af hvárumtveggjum, ok mart var sárt. En er konungr sá, at þeir sýsluðu ekki til frama, þá bað hann Birkibeina frá leggja. Gerðu þeir svá, lögðu saman skipunum. Þá mælti konungr: Eigi eru Birkibeinar sem fyrrum, ekki lögðu þeir svá at sem þér með dragkyrtlana, höfðu þeir kyrtla styttri ok snæfrari ok hjörtu betri. En hvat er nú hér at liggja? róm inn til bœjar, en at öðrum kosti verit drengir ok menn nökkurir, ok róit svá at, at þeir viti, hvárum sverðin bíti betr. Birkibeinar œptu þá, ok eggjaði hverr annan, reru svá at í fyrstunni, at langskipin tóku við skútunum. Veittu Birkibeinar þá svá harða atsókn með spjótalögum ok sverðshöggum, at Baglar hrökkva undan, svá at Sölmundr systrungr ok þeir 5 saman váru komnir upp á skip Guðbrands unga. Þá hét Guðbrandr á sína menn, at þeir skyldi reka þá ofan. Gerðu Baglar þá atgöngu svá harða, at Birkibeinar hrukku ofan, en sumir féllu. Neyttu Baglar þá borðamunarins ok létu ganga á þá vápn ok grjót svá stórt, at ekki hélzt við, féll þá mart af Birk-

ibeinum. Baglar fœrðu stafnljá á skip Birkibeina ok héldu þeim. Birkibeinar tóku þá allir eitt ráð, ok þurfti engi at öðrum at nema, at þeir ráku forka við stórskipunum ok leystust frá braut, þeir kómu af stafnljánum af skipum sínum. Þar féll Sölmundr systrungr ok nær alt af skútu hans; hroðin var önnur skúta af Birkibeinum, ok náðu þeir hvárutveggja skipinu. Nikulás af Vestnesi varð sárr, ok var skotinn framan í stálhúfuna, ok gékk í gegnum, ok þótti þat lítit sár at sjá.

*Konungr stöðvaði orrostu.*

146 (144). Þá mælti konungr: Eigi skulum vér nú berjast við þá lengr at sinni, skulum vér nú leggja inn til bœjar. Sá maðr hafði verit sýslumaðr Bagla, er Ögmundr hét vágapungr, ættaðr af Upplöndum, hann hafði þá sýslu út í Orkadal, hann stýrði þá skipi því, er Eyjólfr hafði þangat haft um haustit. Hann hafði lagt út við Ingardal undir bergit, ok sá þaðan, er þeir áttust við Birkibeinar ok Baglar. Sló þar í þrætu með þeim, vildu sumir til ok duga sínum mönnum, en sumir vildu heldr á land upp. Kom þat skip Böglum at engu gagni.

Sverrir konungr stýrði inn eptir firði, ok fyrir innan Þinarós elti hann Bagla upp af tveim skipum, en síðan sneri hann inn til bœjarins. Baglar sneru inn þannin, ok hugðu sér lítit mundu fyrir at veiða Sverri konung í bœnum, þar sem hann hafði lið lítit ok sárt nær alt, hafði ok mart fallit af hans mönnum fyrir Þórsbjörgum. Baglar lágu út við Hólm, þvíat þeim hugðist svá at, at leiðangrslið þat sem þeir höfðu haft or Þrœndalögum, at þat fólk mundi þeim ekki stöðugt, þegar þeir kœmi á land, ok varð af því ekki af atlögunni þeira. Sverrir konungr var út á Eyrum, búinn viðrtöku, ef þeir legði at.

*Ráðagerð Bagla.*

147 (144). Baglar gera nú ráð sitt, sýnist þeim þat nú líkast at fara suðr til Björgynjar ok leggja nú

land alt undir sik, þykkir þeim sik engu skipta, hvar Sverrir konungr ferr með skútur sínar. Nikulás af Vestnesi lét ekki varðveita sár sitt, þótti lítils um vert, fór í bað, þá laust verk í höfuðit, ok lá hann litla hríð, áðr hann andaðist, ok var þat mikill mannskaði. Baglar fóru þá suðr með landi öllu liðinu ok héldu vel saman, var æ ótti at Sverri, ok meiri at ráðum hans en skipafjölda, ok hugðu, at þeir mundu fá af honum nökkut ilt. Baglar lágu nökkura hríð í Angri. Sverrir konungr fór or kaupangi suðr eptir þeim. Baglar sá þat ok létu, sem þeir mundu róa fyrir hann, en þat varð ekki. Konungr gaf þeim engan gaum ok fór leiðar sinnar, en þeir muni síðar.

*Frá Sigurði Jarlssyni.*

148 (145). Sigurðr jarlsson hafði farit austan or Víkinni ok spurði, at Sverrir konungr hafði farit norðr or Björgyn. Hélt hann þá til Björgynjar, ok varð þar engi viðrtaka; þar brendi hann skip Sverris konungs Sygnabrandinn ok öll þau, er hann fékk. Hann tók í bœnum hús nökkur ok fœrði upp til borgar, ok gerði bál mikit áviðris borginni. Ok er borgarmenn sá þetta, segja þeir dróttningunni Margrétu. Hon var þar í borginni, ok með henni til forráða Aurapáll. Henni var mikill ótti at þessu ok mörgum öðrum konum, er í váru borginni. Aurapáll fékk þat ráð, at þeir tóku tunnu eina ok báru í spánu ok næfrar, ok lögðu í eld ok slöngðu í bálit fyrir þeim Böglum, fyrr en þeir hefði algert. En þar varð svá mikill logi af, at þeir féngu eigi fyrr slökt, en þat var alt uppbrunnit, er þeir höfðu áðr til ætlat. Var þat mikil dvöl. En þó réðu þeir til í annat sinn ok báru enn saman. Dróttningin bað þá heldr fyrir guðs sakir gefa upp borgina, ok næði menn út at ganga heldr, en þar léki yfir eldr, kvað verra at láta alt saman, menn ok fé. Þá gerði Páll þat ráð, at konur allar skyldu

ganga út í hús þat, er var yfir borgarhliðinu ok fyrr-hafði verit myrkvastofa, ok sagði þeim mundu skamt til þá at ganga or borginni. Þær géngu þangat ok urðu fegnar, ef þess væri ván, ok er þær kómu í húsit, lét hann aptr skella hurðunni, setti fjötur fyrir utan. Ekki skorti þar til atvinnu þeim.

Ásgautr féhirðir fékk einn smörhlaup tóman, ok skar allan utan gluggum, bar í næfrar ok strý ok brennustein, ok lagði þar í eld ok slöngði í bálit. Bálit var svá gert, at holt var innan, ok þá er eldrinn kom þar í, laust í loga svá miklum, at eigi varð slöktr, ok brann upp þegar alt at köldum kolum. Þá fóru þeir í bœ ofan. En Páll gékk til dróttningar ok spurði, hvat hon mundi vilja gefa honum til, at þeir Baglar hyrfi frá borginni. Hon kvezt þar mundu mikit til vinna í fémunum. Páll bað hana fá sér innsigli sitt, ok svá gerði hon. Síðan gerði hann bréf ok setti þar fyrir innsigli dróttningar. Þat var ritat til Auta prests ok Jórdanar skinnpeitu, þat mælti svá: Þess væntum vér, at þér munit þat virða mest, er til konungsins tekr, þótt þér sét nú vinhallir til Bagla. En vér höfum leyndarmál yðr at segja, ok þó mikil tíðindi, er konungrinn hefir oss vita látit, at hann hefir fundit úvini sína norðr í Þrándheimi, ok er því betr, at nú hefir farit sem fyrr, at konungrinn hefir sigrazt, en þó hefir hann látit góða menn, Nikulás af Vestnesi, Sölmund systrung ok marga aðra. Nú biðr konungr yðr í trúnaði, at þér mundit dvelja ferð Bagla hér í bœnum, en hann sjálfr mun koma á myrgin annathvárt snemma eða síð. Þar var sveinn einn víkverskr í borginni ok kunningi Bagla, Páll réð hann til at koma bréfunum í hendr prestunum. Honum var fylgt or borginni, ok skildust þeir við hann undir steini einum. Þat sá Baglar, þeir er vörð héldu, ok stiltu at sveininum ok tóku hann höndum, en fyrir því at þeir kendu hann, þá gáfu þeir honum grið ok spurðu, hvert hann ætlaði

at fara. Hann svaraði: Ek fer með bréf til Auta ok Jórdanar prestanna, ok veit ek eigi, hvat á er. Baglar tóku bréfit ok færðu Sígurði jarlssyni, létu hann lesa upp bréfit, ok er hann sá, hvat á var, þá vætti hann skjótt úfriðar, lét hann um myrgininn í lýsing blása til brautlögu. Tóku þeir fé mikit af prestunum, ok þótti sem þeir hefði útryggvir verit. Eptir þat fóru Baglar á braut. Þá sagði Páll dróttningunni, at Baglar reru út or váginum. Dróttningin gékk út at sjá ok þakkaði vel Páli sína tiltekju.

*Frá Sverri konungi.*

149 (146). Sverrir konungr kom til bœjarins um myrgininn ok gékk þegar upp til borgar, ok hitti þar þá, er fyrir réðu, Sigurð borgarklett ok Aurapál, ok sagði þeim frá sínum ferðum. Konungr kvezt þar ekki mundu dveljast at sinni, en bað Sigurð krefja liðs af bœjarmönnum, ok tak til þín þat er þú fær, þvíat vera kann, at vér þurfim næst, er vér komum til bœjarins. Konungr hélt þegar suðr til Siggjarvágs. Þann sama dag kómu Baglar með stórskipin til bœjarins, lögðu þegar braut or bœnum at leita Sverris. Baglar sigldu um þá suðr, ok gáðu þeir eigi, hvar Birkibeinar váru. Konungr snýr þá aptr norðr sem skjótast til Björgynjar ok upp til borgar, ok spyrr hve liðdrjúgr Sigurðr hafi orðit. Sigurðr kvað bœndr engan gaum vildu gefa at sínum orðum. Var þá stefnt þing í bœnum, ok talaði konungr þá reiðr mjök ok mælti svá: Enn geri þér bœjarmenn sem fyrr úvingan til mín, ok er hér upphaf alls úfriðar við mik, ok hefir svá jafnan verit, síz ek hóf ríkit, þá hafi þér verit í öllum fjándskap til vár. Var þat nökkur várkunn, meðan þeir lifðu Magnús ok Erlingr, en nú er ekki annat en fullr fjándskapr ok sannr illvili at efla víkinga móti réttum konungi. Ok mun enn fara sem fyrr, at yðarr hlutr mun því verri, sem þér gerit vára

svívirðing meiri. Vitið ok allir vísa ván, at þér skulut láta féit ok svá limarnar, ok líkara at þar fylgi lífit með, nema þér jáð mér öllu því, sem ek vil at sé. Þá svaraði Finnr forræði konunginum, ok kom í sama stað niðr, at undandráttr var í máli hans, en þó lauk svá, at þeir féngu honum hundrað manna, váru þat bœndr ok kaupmenn.

*Frá Sverri konungi.*

150 (146). Sverrir konùngr hafði or bœnum 30 skútna, ok er hann kom suðr í Salbirni, þá kómu Baglar þar mót þeim. Konungr lagði áviðris þeim. Varð þar bardagi nökkurr af skotum ok grjóti. Konungr átti nú sem fyrr við mikinn borðamun. Lagði konungr frá at sinni ok fór norðr til Björgynjar, ok settu Birkibeinar skip sín upp undir borgina norðan. Þann sama dag kómu Baglar í bœinn um miðs dags skeið. Þeir leituðu uppgöngu ok kómust eigi, þvíat Birkibeinar vörðu. Konungr setti lið umhverfum borgina. Baglar lágu nökkurar nætr við Norðnes, síðan fóru þeir inn í Sogn ok drógu at sér vistir. Þeir tóku Jón trín sýslumann Sverris konungs ok gáfu honum grið, ok gerðist hann þeira maðr, ok enn fleiri Birkibeinar fóru til Bagla. Baglar fóru aptr til Björgynjar, ok lögðu sunnan at Norðnesi ok géngu þar upp, ok óttuðust ekki Birkibeina, ok þóttust hafa ráð þeira í hendi ok glettust við þá, ok skutu hvárir at öðrum, svá sem við kómust. Birkibeinar váru jafnan í bœnum, ok urðu mörg erendi þeira þannin. Baglar þorðu ekki at vera í bœnum, en jafnan géngu þeir upp á Jónsvöllu ok fylktu þar, ok sýndu Birkibeinum lið sitt ok frýðu þeim hugar; ok er þeir slitu fylkingina, þá géngu margir í leika ok sýndu, at þeim þótti lítils vert um Birkibeina. Höfðu Baglar þá allmikinn her ok vel búinn at vápnum.

*Um húsþing.*

151 (147). Sverrir konungr hafði húsþing á Bökkunum upp frá Nikuláskirkju, þá er Baglar váru á Jónsvöllum í leikunum. Konungrinn talaði ok mælti svá: Þannin vill vera um oss Birkibeina, at nökkurr ótti er yfir oss, ok verðr skamt í milli. Væntum vér enn af yðr sem fyrr góðrar fylgðar ok drengiligrar, sem ek veit fá dœmi munu til finnast, at menn hafi betr fylgt sínum konungi. Er yðr Birkibeinum við þat bezt at una, at þér erut yfir öðrum mönnum at hvatleik. Þeir Baglar þykkjast nú hafa ráð yðart alt í hendi, en mik væntir, at öðruvís mun gefast, ok eigi trúi ek, at vér hafim þeira minni völd skamms bragðs. Nú ætla ek eigi lengr at þola þeim spott ok háð, ef þér vilit sem ek, en hyggjum þó at allir saman, hvat ráðligast er. Kostr er at berjast við Bagla, þegar er vill; segi nú hverr sinn vilja! En allir þögðu. Þá mælti konungr: Eigi geri þér mér nú rétt, er þér þegit við, þá þjónostu eigit þér at veita konungi yðrum, at svara rœðum hans ok segja honum hverr sinn vilja. Þá báðu allir konung fyrir ráða. Hann svaraði: Þetta var vel mælt, sem mér var ván. Ok enn mælti hann: Sá er kostr várr at setjast í borgina, ok er þat örugt vígi, meðan oss vinnst vist; en er þat þrýtr, þá mun ilt til viðrfanga. Annarr er sá at flýja á fjöll upp, ok munu Baglar reka oss ok henda af slíkt, er þeir vilja, ok fá þeir menn aldri orðstír, er í flótta falla. Er ok sá til, er fyrr var tíðr Birkibeinum: veita þeim árás ok láta skipta odd ok egg, ok lízt mér enn várr kostr eigi úvænni, þegar vér stöndum allir jafnhátt. Þeir svöruðu allir, at heldr vildu berjast en flýja. Þá mælti konungr: Baglar munu sjá málstefnu vára, en vita eigi, hvat vér berumst fyrir. Skulum vér nú fyrst ganga upp til borgar, þá skulu ganga í bœinn niðr tveir ok tveir, stundum fjórir eða fim, sjau eða átta, ok finnast allir inn við

Ólafskirkju. Þeir gera nú svá. Ekki hugsuðu Baglar til þessa, þvíat Birkibeinar fóru jafnan þannin.

*Um orrostu Birkibeina ok Bagla.*

152 (147, 148). Þá er liðit var saman komit inn við Ólafskirkju, lét konungrinn setja upp merki sitt ok mælti: Ekki munum vér fylkja, rennum á þá sem harðast, ok hafi nú engi annan fyrir sér, ok dugi hverr sem bezt, ok mun litla hríð þurfa, þvíat Baglar munu nú sem fyrr eigi fast standa, þegar þeir sjá mannfallit hjá sér; ok eru þeir í málum mestir sem refr í halanum. Illa munu þeir kunna hnögginum, er heiman eru hlaupnir frá kirnuaskinum, ok sét aldri fyrr, hve Birkibeinum bíta sverðin, þá er þeir berjast. Hlaupit nú fram, góðir hálsar, ok gæti guð til! Birkibeinar hlaupa þá út á völluna; ok brá leiðangrsmönnum vá fyrir grön, er þeir sá Birkibeina; sá þeir at sverðin glituðu á lopti, flugu ok þegar kesjurnar, er ván þótti, at taka mundu til þeira. Baglar þyrptust ok saman ok skutu á fylking, var Sigurðr jarlsson þar undir merkjum. Gafst þat lið, sem konungrinn gat til, at Baglar flýðu brátt, þeir er fremstir stóðu, ok eigi síðr hinir, er sá til. Féll þar mart manna, sem þeir kómu saman. Birkibeinar fylgðu þá fullvel út um völluna. En er Baglar váru þar komnir, þá snerust þeir við ok horfðu þá við um hríð. En er Birkibeinar beittu sverðunum, snerust Baglar undan, ok varð þeim þessi viðrtaka at miklu mannspelli. Birkibeinar ráku þá alt út til skipanna ok feldu þá mikinn fjölda. Baglar hljópu þá á kaf, en flestir náðu þá skipunum. Narfi son Hallvarðar af Sástöðum stýrði einu miklu skipi, á þat skip hljóp svá mikill mannfjöldi, at skipit sé niðr á grunn ok festi. Ok kómu þar at Birkibeinar, ok héldu sumir skipinu, en sumir veittu þeim atsókn, ok svá lauk, at Birkibeinar hruðu skipit. Féll þar Narfi ok fjöldi manns með honum, en sumt hljóp á kaf.

*Frá Sverri konungi ok Beglingi.*

153 (148). Sverrir konungr reið hjá liðinu, þá er flóttinn var rekinn, ok var kesja hans blóðug öll upp á skaptit, svá at blóðit rann upp á hendr honum. Fyrir innan Jónskirkju snerist Beglingr einn á mót honum, ok reið sá með tvær kesjur ok skaut báðum senn at konunginum. Konungr lét síga skjöldinn niðr fyrir hestinn, kom önnur kesjan í skjöldinn, en önnur fló undir kvið hestinum. En með því at hann sá, at eigi tók konunginn, þá fleygði hann sverðinu eptir því spjótinu, er undir kviðinn flaug, hann kastaði sér ok niðr ok greip spjótit or vellinum. Konungr lagði til hans í öxlina, ok skar kesjan upp or þat er tekit hafði. Konungr reið á hann fram, svá at hann féll fyrir, hélt konungr hestinum ok ætlar at troða hann undir fótum, en hann laust upp liggjandi spjótskaptinu ok nam þat konunginn, en hestrinn œddist. Maðrinn hljóp upp ok stefndi at kirkjugarðinum. Konungr rendi eptir honum hestinum ok lagði í gegnum hann kesjunni, féll hann þar. Birkibeinar sóttu þá aptr í bœinn ok fóru til borgar upp, en Baglar höfðust miðr á landi síðan, váru þeim útíðari leikarnir. Nikulás byskup lagði sínu liði út við Töluhólm ok lét ryðja hólminn, ok setti þar landtjald ok söng þar messu, hann sagði þar skyldu reisa höfuðstað ok gera kirkju. Sumt lið þeira lá við Norðnes, en sumt sunnar meir.

*Frá Birkibeinum.*

154 (148). Birkibeinar váru nú löngum í bœnum ok fóru á land upp at föngum, þótti þá Sunnhörðum ok Harðengrum Birkibeinar sópa um tún ekki hagliga, er þeir fóru sér at matföngum; en bœndr höfðu áðr gert lið ok leiðangr Böglum. Bœndr sendu nú orð Böglum, at þeir skyldu vera vernd fyrir eigum þeira ok búm. Baglar báðu þá reka búin til sín, ok sögðust þá mundu gæta. Ráku bœndr fjölda nauta þangat, ok höfðu í

Laxavági. A einni nótt stefndi Sverrir konungr at sér liði sínu, ok gékk or borginni hit efra fyrir ofan fjall, ok kringir svá inn til Álrekstaða ok út aptr með Álrekstaðavági til Laxavágs, sem Baglaherrinn var; þeir héldu á sér vörðu. Sverrir konungr vissi, hvar vörðrinn var, hann sendi fyrir 6 menn, skyldu þeir vita, ef þeir næði verðinum. Þeir fundu tvá menn á verði, svaf annarr, en annarr vakti, ok kvað sá við í því, er kesjan stóð á honum ok í gegnum hann, drápu þeir hvárntveggja. Baglar heyrðu viðkveð mannsins ok spurðu, hvat verðinum væri, er hann lét svá. Einn Birkibeinn svaraði ok kvað vera leik þeira. Þeir fóru þá aptr ok sögðu konungi, at vörðrinn var dauðr. Konungr sagði þá vera vel sýslat. Síðan fór konungr með liðinu at þeim, ok svá hljóðliga, at þeir vöknuðu eigi fyrr, en Birkibeinar drógu upp skipin undir þeim ok drápu þar mart manna af Böglum. En þessa rostu ok vápnabrak heyrðu Baglar, þeir er firr lágu, ok grunaði, at úfriðrinn mundi vera, þá hljópu þeir á land ok ætluðu til atgöngu. En Birkibeinar biðu þeira ekki or stað, ok runnu á mót þeim ok veittu þeim þá hríð, at Baglar tóku undan til skipanna, ok lágu þó margir eptir áðr; margir hljópu á kaf. Baglar leystu öll skip sín or landfestum. Birkibeinar keyrðu búit alt á braut ok inn til Álrekstaða.

### *Frá Böglum.*

155 (148). Baglar könnuðu skaða sinn ok fundu, at þeir höfðu látit mikit, ok þótti þetta vera skömm mikil, ok eggjuðust á at hefnast. Þeir vissu þat, at konungrinn hafði riðul einn manna, taka þeir þá róðr ok stefna inn í fjörðinn ok upp í Álrekstaðavág, ok leggja at í vágsbotninum, hlaupa þar upp ok fylkja liði sínu. Var þá ljóss dagr.

*Frá Birkibeinum.*

156 (148, 149). Sverrir konungr sá her Bagla ok fann, at þeir váru enn eigi afhorfnir at veita honum atsókn. Konungr mælti þá: Enn vænti ek, at verði fundr várr Bagla, göngum nú upp í brekkuna, ok hlaupum þaðan á þá, ok mun enn sem fyrr, at þeir munu vikna fyrir oss Birkibeinum; gerum enn at vanda, rennum á djarfliga. Eindriði ljoxa hét sá maðr, er bar merki þeira Bagla, hann var þrœnzkr at ætt, mikill ok sterkr. Hann bar merkit vel fram, svá at á móti honum kom Bergsveinn langi með merki Sverris konungs, géngust þeir svá nær, at þeir skiptust höggum við, ok lauk svá, at Bergsveinn varð sárr, en Eindriði féll. Baglar flýðu þá, en Birkibeinar fylgðu. Þá í þeiri svipan féll mart af Böglum, ok þó flest af leiðangrsmönnum. Sverrir konungr fór þá til borgar sinnar með búit ok þakkaði guði sigr. Var nú ráðit vel til búðarvarðar. skorti eigi vist, ok var drengiliga eptir sótt. Baglar firðust nú borgina ok bœinn, ok þótti eigi svá laust fyrir, sem þeir hugðu. Opt var þat, at þeir géngu á land Baglar 50 manna eða fleiri, ok sæi þeir Birkibeina 10 eða 20, ok væri konungr sjálfr í liðinu, þá flýðu þeir til skipanna. Þat var ok stundum, at þeir Birkibeinar kómu at þeim úvörum, ok féngu Baglar þá ilt af ok fóru þá hrapalliga til skipa sinna með lítilli virðingu eða orðstír af mönnum.

*Frá brögðum Birkibeina.*

157 (149). Jónsvöku nótt fór Sverrir konungr með hundrað manna ofan í bœinn. Þeir tóku kórkápur or kirkjum ok fóru í, ok géngu saman 5 eða 6 eða færi, ok heimtust svá saman yfir til munklífis, ok fóru í hlöðu nökkura ok heldr leyniliga, þvíat konungr vætti, at Nikulás byskup mundi ganga á land ok aðrir höfðingjar til messu um daginn. Nökkurir menn, þeir er á njósn váru, tóku munkakápur, ok höfðust þeir við úti í kirkjugarð-

inum. Sveinar Bagla fóru til lands á bátum ok géngu upp at taka sér eldivið. Birkibeinar tóku hvern, er upp kom, drápu suma, en suma hömluðu þeir. Prestr einn gékk upp, en Birkibeinar spentu hann, þeir spurðu, hvárt byskup mundi nökkut upp til messu. Prestrinn sagði hann fara, þá er hann væri búinn. Litlu síðar gékk upp maðr vel búinn. Þeir réðust á mót honum. Þessum manni þótti undarligt, er munkar höfðu lága skúa ok rauðar hosur, ok þveraðist við. Munkar spurðu, hve brátt byskup mundi ganga til messu. Beglingr svaraði: Hann gengr, þegar hann er búinn, eða hví hafa munkar spézkúa? Þeir svöruðu: Ýmist tíðist nú. Þeir hlaupa at honum ok grípa hann ok fletta hann af kyrtli góðum, ok vildu eigi spilla honum í blóði, en er ermarnar skruppu af höndunum fram, brást hann við sem harðast ok skaut fótum undir sik, ok hljóp svá til skipa, sem hann væri œrr. Sagði hann byskupi þá sögu, at hann var af tíðaferðinni. Hafði þessi maðr þat til jartegna, at hann hafði broddskot í fœti, ok sagði, at honum þótti þat líkara sending Birkibeina en munka. Byskup var þá búinn til landgöngu ok margir aðrir. Sverrir konungr fór aptr til borgar, þegar hann fann, at Böglum var komin njósnin. Baglar váru nú enn varari um sik héðan frá. Margar árásir höfðu þar hvárir á öðrum, en þó fær þat eigi alt ritat á einni bók. Fjöldi manna hljóp til Bagla or heruðum, þeira sem áðr höfðu verit með Birkibeinum, sumir at vilja sínum, en sumir váru teknir nauðgir. Þat kölluðu þeir Björgynjar sumar.

### *Baglar brendu kaupstaðinn í Björgyn.*

158 (150). Lafranzvöku nótt varð þat ráð at framkvæmd, er áðr höfðu Baglar heitazt. Þeir kölluðu Björgynjarmenn vera stoð ok styrk til þess, at Sverrir mætti haldast í borginni. Var þat ráð kent at upphafi Nikulási byskupi, kom þat ásamt með þeim, at eyða skyldi kaupstaðinn í Björgyn ok setja nökkur annars staðar á

Hörðalandi, ok sjá þá, fyrir hvat Sverri kœmi borgin. Byskup kallaði Birkibeina hafa saurgat kirkjur, svá at þær væri eigi helgari en porthús önnur. Baglar reru um nóttina inn fyrir bryggjur með tvær skútur hlaðnar af viði. Þeir lögðu eld í hús í einum stað inn við Krosskirkju, í öðrum stað gegnt fiskabryggjum, í þriðja stað við Maríukirkju. Engi varð vörn af bœjarmönnum. Birkibeinar urðu eigi fyrr varir við, en bœrinn tók at loga, sá þeir þá, at ekki mátti at gera at hjálpa bœnum. Hræddust þeir þá um borgina, at hon mundi brenna, ok báru út segl ok vættu á mót eldinum. Bœrinn brann alt innan frá Krosskirkju ok til Sandbrúar út alt fyrir neðan stræti, en fyrir ofan stræti utan frá Sandbrú ok inn til Nikuláskirkju. Þá var róðan helga borin á mót eldinum frá Steinkirkju, ok staðnaði þá eldrinn. Sunnifu skrín var borit utan til Sandbrúar ok sett þar, ok gékk eldrinn eigi lengra, ok var þat allbjört jartein. Baglar lágu með skúturnar á váginum út, ok skutu upp í eldinn at þeim mönnum, ef nökkurir vildi bjarga húsunum eða slökkva eldinn. Bœjarmenn höfðu margir áðr braut flutt fé sín öll í ymsa staði, þá er þeir heyrðu áðr Bagla berast þetta úráð fyrir, sem nú kom fram.

*Frá viðskiptum Birkibeina ok Bagla.*

159 (150, 151). Nikulás byskup var á skútunni þeiri, er með eldinn fór til bœjarins, ok sagði fyrir, hvar eldinum skyldi í skjóta. Varð hann af þessu verki allmjök úþokkaðr, ok var þess ván, gékk sá margr snauðr á braut, er áðr var fullríkr. Mintust Björgynjarmenn þessa jafnan við Nikulás byskup. Þar brann Maríukirkja ok 5 aðrar. Litlu síðar fór Sverrir konungr or bœnum með hundrað manna, þangat sem hann frá, at hans menn höfðu samnat saman stórflokkum nauta. Ok er Baglar spurðu þat, at konungr var á brautu, þá géngu þeir á land með liði sínu, ok kómu ofan at Ólafskirkju á Bökkum.

Birkibeinar hljópu á móti þeim or borginni, nema 30 manna váru út í Hólmi, at engir legði þar at. Baglar fylktu liði sínu. Birkibeinar runnu á riðlum, sem þeir váru vanir; hljópu þeir svá fast á annan fylkingararminn í fyrstu, at Baglar viku undan; veik þá annarr fylkingararmrinn Bagla eptir, ok urðu Birkibeinar þá innan í hringnum. Var nú allmikill liðsmunr. Birkibeinar sá nú eigi föng sín til varnar lengr at sinni ok leita undan til borgarinnar, en Baglar sœkja eptir þeim hart. Þar féllu margir góðir drengir, Sigurðr borgarklettr, Finnr færeyski, Þórðr loki ok Ritakári, Einarr Bjarnason, Bengeirr langi, Eindriði peini son Hallkels af Lói, merkismaðr Philippus jarls. Hann réð fyrir liði jarlsins ok var svá mikill hreystimaðr, at þá er hann var svá sárr orðinn, at hann vænti sér engrar brautkvámu, þá stakk hann niðr merkinu í jörðina, en hann spenti sverðit báðum höndum ok hjó á tvær hendr, ok féll þar, með hreysti mikilli. Baglar fylgðu þeim alt undir borgina, ok einn mann féngu Baglar at fótum, er inn vildi í borgina, en Birkibeinar tóku í hendrnar ok vildu hjálpa honum, ok toguðust um. Þenna mann tvískiptu Baglar í sundr í miðju. Þat var Maríumessu aptan. Baglar höfðu at lagt skúturnar út í Hólmi, ok feldu þá Birkibeina alla, er þar váru. Eptir þat lögðu Baglar eld í skipin, þau sem þar váru undir borginni, fóru síðan aptr til skipa sinna, þóttust nú hafa vel árnat. Þá kváðu þeir vísu þessa:

Mánadag kvaddi mildingr sína,
menn drifu hart til vápna sennu
Inga, hirð, en upp réð ganga
ár morgin til Sverris borgar.

Ýtar reistu merki á móti
margar stengr, en börðusk lengi.
Baglar stóðu í brodda hagli,
brunnu skip, þá er kappar runnu.

En Birkibeinar kváðu þessa:

Mánadag kvaddi níðingr sína,
menn drifu hart til vápna sennu,
þúfuskítr þrífisk eigi,
þann morgin til Sverris borgar.

Ýtar reistu merki á móti
margar stengr ok börðusk lengi.
Baglar standa í banni allir,
brunnu skip, þá er kappar runnu.

En er konungr kom aptr, þótti honum þetta orðit allmikit forsjáleysi.

*Konungr fór norðr um Rauðafjall.*

160 (152). Litlu síðar fór konungr upp á Vörs, en setti eptir lið mikit í borginni. Konungr gékk þá annat sinn norðr um Rauðafjall ok enn með miklu erviði, ok kom ofan í Sogn ok svá í kaupang. Spurði hann þar þau tíðindi, er litlu áðr höfðu gerzt, at Baglar höfðu þar komit með þrim skútum, Kinnaðr Eldríðarson, Þorsteinn kúgaðr, Eiríkr þrœnzki. Þar hafði áðr verit í bœnum Karl Sörkvisson, er þá átti Jngibjörgu dóttur Sverris konungs. Herra Karl hafði fengit af nökkurn spraka af Böglum, ok fór um kveldit or bœnum upp um brú ok var á bœ þeim um nóttina, er Berg heitir. Baglar kómu um nóttina í bœinn ok féngu njósn af ferðum herra Karls, koma þeir þar um nóttina ok drepa Karl ok alla hans menn. Eptir þat höfðu þeir þing út á Eyrum, talaði Þorsteinn kúgaðr ok mælti svá: Þat skulut þér vita, bœjarmenn, at Sverrir konungr mun yðr nú verða seinn til landvarnar hér í Þrándheimi, sagði hann eigi eiga svá mikit í skipum, at hann ætti einn bát, höfum vér nú skipin ok mart annat, þat er Birkibeinar hafa um hríð með farit. Þeir hafa nú ok svá látit um hríð, at eigi væri úgildari einn Birkibeinn en sex Baglar. Þat skulu þér nú ok vita, at nú hefir svá umskipt í sumar, at litlu höfum vér nú fæeri Birkibeina fengit, en þeir hafa sjálfir eptir, ok munu þeir nú eigi veita yðr hjálp, eru þeir nú engum mun verr staddir, þvíat nú þykkjast þeir sjá, með hverju falsi Sverrir prestr hefir farit um hríð. Baglar váru braut or firðinum, áðr konungr kom.

*Frá Sverri konungi.*

161 (153). Sverrir konungr spurði vandliga allar þessar rœður. *Honum þótti mikill skaði at um Karl mág

sinn. Baglar fóru nú sunnan með allan herinn. Þeir lágu nú við Fólskn um hríð. Þeim varð ilt til matkaupa, fyrir því at þeir höfðu lið mikit, dreifðu þeir þá flokkinum í bygðir, fór sumt liðit á Mœri suðr. En er þeir sigldu fyrir Hefnarmynni, þá sigldi Þorsteinn kúgaðr skipi sínu á sker eitt fyrir annkost ok vildi brjóta, sem var. Fluttust þar inn til lands, hljóp hann á brot frá Böglum við þriðja mann um nótt ok yfir fjallit ok kom fram í Orkadal. Margir menn hljópu frá Böglum, þeir er heima áttu í Þrándheimi ok eigi vildu vera með þeim.

*Frá Þorsteini kúgað.*

162 (153). Þorsteinn kúgaðr var nú heima á laun at búi sínu. Hann gerði mann inn til bœjar til Gunnars grjónbaks, at hann skyldi leita honum griða við konung. Gunnarr talaði eitthvert sinn til konungs ok mælti: Herra, allsnjallan mann höfum vér látit, þar er Þorsteinn kúgaðr er með Böglum, ok gjarna vildim vér hann lokka til vár. Konungr svaraði: Ekki ætla ek Þorstein þess minna, at hann hafi oss þjónat, mun oss þat ok vera lítill skaði. Gunnarr mælti: Veit ek, at Þorsteinn mun grið fá af yðr, ef vér nám honum. Þá mælti konungr ok hló við: Hvat er nú, Gunnarr? er Þorsteinn nú á varnaði þínum? Grið mun hann hafa af mér, en eigi veit ek, ef Birkibeinar mœta honum á strætum úti, hvernug þá ferr hans mál. Gunnarr lætr nú segja Þorsteini, hvar komit var hans máli. Þorsteinn kom til bœjarins ok þó mjök af launungu. Eptir um daginn géngu þeir Gunnarr ok Þorsteinn til konungs, er hann var á stefnu. Þorsteinn hafði djúpan hatt á höfði, ok kendu menn hann ekki, fyrr en hann kom fyrir konunginn. Hann féll fram fyrir konunginum ok greip um fót honum ok kysti á ok mælti: Sæll em ek, herra minn, er ek em svá nær yðr kominn, at ek má taka á yðr, ok þess annars, er ek em kominn or höndum þeim djöfulsmönnum Böglum, er

bannsettir eru, þvíat þeir eru bæði ránsmenn ok illgerðamenn, hatast þeir ok við þann manninn, er beztr er, sem þér erut, herra! kórónaðr konungr, er allir ætti til at lúta, ef rétt gerði. Tak við mér, herra minn, ok lát mik aldri við yðr skiljast; ok ek veit eigi, hví sá villubyskup hefir mik svá blindat, at ek skylda eigi sjá, með hverju falsi þeir fóru. Hví mundu þeir mér góðir, er níddust á konungi sínum? Birkibeinar kölluðu engan meira níðing en hann, sumir vildu, at hann fœri út á Eyrar ok væri þegar hengdr. Þá mælti konungr: Statt upp, Þorsteinn, þú skalt grið hafa ok segja oss frá siðum þeira Bagla. Þá mælti Þorsteinn: Sæll var ek þess, herra minn, er ek sá augun yður, ok skal ek aldri skjoplast í einurð við yðr; en frá Böglum má mart úfagrt segja, ok þó yfrit satt. Váru þá Þorsteini grið gefin. Lét konungr hann jafnan tala á hirðstefnum ok segja frá háttum ok siðum Bagla, ok svá talaði hann jafnan á þingum.

*Frá Böglum.*

163 (154). Baglar tóku leiðangra ok allar útvinnur um Mœri hváratveggju ok um Raumsdal, en rændu í stöðum. Þá rákust þeir alt norðr á Hálogaland, fóru þar í hvern fjörð ok gerðu marga úspekt, rændu þar úgrynni fjár ok höfðu í flokk með sér alla hina beztu menn, þá er til váru, Þóri knapp, Guthorm í Mjólu, Brynjólf bróður hans, Bjarna Marðarson, Halldór í Hjörleifsvík ok sonu hans, Ívar nef, Gregorius kík, Erling í Þjóttu, Guzalín prest, ok fjölda annarra manna. Þat haust féll Rikarðr Englakonungr; þá tók konungdóm á Englandi bróðir hans Jón, er kallaðr var sine terra, en Sverrir konungr sat í kaupangi.

*Konungr beiddi bœndr skipagerðar.*

164 (154). Þat var eitt sinn, er konungr hafði þing við bœndr eptir jól, hann beiddi þá þess, at þeir mundu

gera honum skip nökkur, ok mætti hann frelsa nökkut land sitt af hernaði Bagla, er mér þess vís ván, sagði konungr, þegar várast, at þeir munu stefna hingat í fjörðinn. munu þeir gera yðr illar refjur, en vér Birkibeinar erum nú skiplausir ok ekki vel viðrlátnir at verja fé yðart ok fjör, megum vér ekki svá skjótt renna um landit hit efra, sem þeir sigla hit ytra; nú þótt yðr þykki þetta nökkurr kostnaðr, þá mun þat þó meira ilt, er Baglar gera yðr. Bœndr svöruðu hér vel um ok spurðu konung, hversu mörg skip eða stór hann vildi at yrði. Konungr svaraði: Þat vilda ek, at bœndr í Þrœndalögum í hverju fylki gegndi búnaði til eins skips, en bœjarmenn ok vér Birkibeinar gerum at hér umfram slikt, er vér megum; engi skulu skip smæri en hálfþrítug ok þaðan af stœrri; leiddist mér fyrir Þórsbjörgum, er brandarnir á skipum Bagla stóðu í augum mér; mætti nú verða svá, at vér ættim nú þvílíkan borðamun við þá. Um myrgininn höfðu bœndr stefnu sín í milli í Ólafskirkju ok hugsuðu um kostnað sinn, ok leizt þeim svá á, at ekki mikit mundi koma á hvers hlut, taka þat ráð at já konungi með blíðu at láta gera skipin. Lét konungr þá til ráða. Eptir páska váru reist sex skip út á Eyrum, ok öll stór; þá var ok reist skip í konungsgarði, þat var 30 rúmum, þat kölluðu þeir Ógnarbrandinn. Öll váru þessi skip borðmikil, at því sem þau váru róin til. Konungr lét ok taka byrðinga nökkura ok höggva í sundr ok auka at kili ok róa at endlöngum borðum; búin váru þá öll skip í bœnum, þau er herfœr þóttu vera, ok mjök af skyndingu.

### *Frá Böglum ok Þrœndum.*

165 (155, 156, 157). Um várit bjoggust Baglar norðan af Hálogalandi með öllu liði sínu, ok sóttu suðr til Þrándheimsmynnis ok viku inn í fjörðinn. Þat var á hvítadögum. Þeir sigldu inn undir Hólm, ok leizt þar ekki

auðsóttligt, fóru síðan inn í Þrándheim ok herjuðu, fóru allan fjörðinn innan ok fengu sér fjár. Bœndr lágu fyrir í samnaði ok hendu af Böglum slíkt, er þeir fengu. Nikulás byskup talaði jafnan fyrir liðinu ok mælti svá: Sverrir hefir nú eigi meira af Noregi en nes eitt, ok væri þat hófliga mikit, ef hann réði því af Eyrunum, er fyrir utan er krakana, ok væri hann þar hengdr á gálganum. En allítt ætla ek, at vér Baglar hirðim um, hvar hann ferr með hafhrúta sína, er hann lætr saman reka í bœnum; væntir mik, at Þrœndir hafi fyrr kol allra húsa sinna, en þeim komi þat at gagni; munum vér sveima um fjörðinn, sem oss sýnist, af þessum sökum ok hræðast lítt, þvíat engan hafa þeir liðkost við oss. Baglar snerust nú innan með herinn or firðinum, þeir lögðu at fyrir innan Hlaðhamra við Depil. Þeir gera þá ráð fyrir sér, at lið, þat er á stórskipum var, skal ganga upp hit efra til brúar ok leita þar til bœjarins, en skútnaherrinn skal hit ytra til árinnar ok leita svá þar til uppgöngu.

En Sverrir konungr hafði viðrbúnað í bœnum. Valslöngva var á Eyrum, en um var búizt á húsum uppi með endilöngum bœnum. Konungr var sjálfr á Eyrum út ok hafði þar ekki mikit lið, en uppi við brúna var mestr hluti hirðarinnar. Var fyrir því liði Hákon galinn ok Petr steypir. Skútur Bagla lögðu at uppi við Skellingarhellu, ok réðu eigi til landgöngunnar, þvíat þeim þótti úhreint í höfninni, er þeir sá merkit Sigrfluguna á lopti. Þeir skutu á bœjarmenn, en máttu hvergi nær koma fyrir grjóthríð þeiri, er ger var af húsunum. Baglar sóttu nú hit efra til brúarinnar, váru þeir þar höfðingjar fyrir Ingi konungsefni, Nikulás byskup, Hallvarðr af Sástöðum; þeir veittu atgöngu þegar á brúna. Birkibeinar réðu þegar á mót þeim, ok mœttust á brúnni; varð þar hörð svipan, féllu menn af hvárumtveggjum; óku Birkibeinar undan af brúnni, en Baglar sóttu eptir

fast. Nökkurir Birkibeinar váru í kastalanum yfir brúarsporðinum, þeir báru ofan stórt grjót á Bagla, ok þá völdust enn fram Birkibeinar. Baglar vildu þá eigi bíða, varð þá þröng mikil á brúnni, svá at út géngu af handriðin, féllu Baglar þá margir á brúnni, en sumir stukku af út. Baglar réðu eigi optar á brúna. Eptir þat géngu Baglar or skotmáli. Byskup bað þá leggja eld í brúna ok brenna hana, ok svá var gert þá, sagði hann, er Magnús konungr sat um bœinn, er þeim þá engi utvegr annarr or bœnum nema út um borgina, ok skulum vér því skjótt fyrir setjast, skulu þeir þá svelta í bœnum, en at öðrum kosti ganga út undir vápn vár. Svá var gert, at þeir brendu brúna, en Birkibeinar vörðu eldinum ok féngu slökt, ok hélzt eitt lag við hit syðra landit. Síðan fóru þeir byskup til Helgisetrs ok neyddu til príor ok aðra kanoka at berjast með sér, eða hann mundi ella brenna staðinn. Þeir fara síðan á braut með honum ok váru á hans skipi. Skútnamenninir kómust ekki við orrostu, ok varð þeim bœrinn torsóttr, létu þeir svífa skúturnar ofan fyrir Bakka. Sverrir konungr gékk upp af Eyrum til Smiðjubúða ok gaf Böglum kost á at ganga upp á Bröttueyri, en Baglar æðruðust ok réðu eigi til. En er konungr fann þat, þá þeysti hann lið sitt sem harðast fram, ok skutu á þá bæði örum ok spjótum. Baglar brugðu þá hart við ok sneru undan, ok varð fast eitt skip þeira á grunni, ok var við sjálft, at þeir mundu eigi af koma. Féll þar mart af Böglum. Reru þeir þá út til stórskipanna; váru þeir þá ok þar komnir, er til brúarinnar höfðu farit, ok lágu þar um nóttina.

Eptir um myrgininn reru Baglar skútunum fram um Hlaðhamra ok lögðust þaðan við, sem at veit bœnum. Byskup reri yfir á Íluvík; þá hafði hann Rauðsíðuna, er allra skipa var skjótast. Hann hugði at, hvar honum þótti bezt at at leggja, ef upp skyldi ganga. Sverrir konungr kendi ferð hans ok tekr karfa einn, er Önundr átti,

lætr draga út um Eyrarnar þvers. Gékk mannfólkit svá þykt umhverfum, at ekki mátti sjá til skipsins; ok þegar þat kom at sjánum, sá Nikulás byskup skipit ok bað sína menn róa undan sem mest, ek gef yðr kyrtilsklæðin grœn ok rauð, ef þér róit vel. En ekki rói þér, sé þér eigi, at fjándrnir hlaupa galnir eptir oss, ok er sem skútan vár standi kyrr hjá. Þá fleygði hann sér or lyptingunni ok fram eptir skipinu, fauk þá kveifin af höfði honum utan borðs. Hann hét enn á þá: dugit nu! sagði hann, minn fund vilja þeir hafa. I fyrstu er Baglar sneru Rauðsíðunni, dró saman með þeim, en eigi þurfti byskup svá mjök at eggja sína menn róðrarins, þvíat öllum var þeim œrinn hugr á at róa undan. En er Baglar sá þetta af öðrum skipunum, reru þeir til öðrum skútum ok vildu koma millum lands ok Önundar. Önundr sá nú, at eigi mundi honum hlýða svá búit, sneru þeir nú aptr ok féngu ekki fleira af byskupi en kveif hans, ok höfðu þat til jartegna.

Eptir þat kom á landnyrðingr hvass, ok lágu skipin Bagla þau hin stóru áviðris. Sverrir konungr þóttist þat vita, at þeim mundi þar eigi gott við at haldast, ok lét flytja yfir ána átta hesta. Þangat fór hann sjálfr, hann reið inn fyrir ofan Hlaðir. Hann kom svá þar, at þeir höfðu gert báta sína til lands at slá festum sínum, en þeir höfðu akkeri út fyrir skipunum ok heimtu sik út undir strengina. Þeir konungr riðu at ok drápu þar níu menn, suma ráku þeir á kaf, sumir kómust út aptr til skipanna. Baglar hjoggu landfestarnar ok sigldu út undir Rauðabjörg ok lágu þar tvær nætr.

*Um skipabúnað.*

166 (157). Sverrir konungr gerði menn frá sér út í Orkadal, Eyjólf Aflason, Bjálfa skinnstakk ok sveit með þeim. Baglar sigla á einum degi út til Orkadals ok lögðu at við Róaberg, ok jafnskjótt sem þeir kómu á

land, hljópu þeir í mörkina ok leituðu sér at mat ok fé bæði til sætra ok í bygðina. Birkibeinar gerðu sát fyrir þeim við bœinn Holtar. Váru þar Baglar drepnir í túninu ok á leið til árinnar Orknar. Margir géngu þar á kaf, svámu sumir yfir ána, sumir druknuðu; héldu Baglar aptr til skipanna. Baglar höfðu þá frétt af, hvar fyrir váru bú Birkibeina, ok gerðu til þrjú hundruð manna, fóru eptir búinu ok ráku til strandar ok hjoggu á skip sín hverja klauf. Þeir tóku einn Birkibein höndum við bœinn Roðar; hann duldist fyrir þeim ok lézt vera leiðangrsmaðr. Þeir hjoggu af honum fót. Þar lágu þeir viku ok veittu ekki upprásir fleiri, þeir fóru þaðan inn til Hólms. Eptir þat gerðu þeir ráð sitt at fara enn inn í herað at féföngum heldr en leita til bœjarins. Fóru þeir þá inn í Ásfjörð í Hundeyjar, þar lágu þeir nætr nökkurar. Þá leið mjök at skipabúnaðinum Sverris konungs, váru þá öll skip borin borði, en eigi váru innan búin. Menn eggjuðu, at þegar skyldi flota, er ván þœtti, at þau þyldi mannfarminum. Var þá at öllu flýtt sem mátti um skipabúnaðinn ok þegar flotat, er svá þótti vera mega, var þá ok búit lið konungs, slíkt sem til var.

*Frá Böglum.*

167 (158). Þat var á frjádegi næsta fyrir Bótólfsvöku snemma um myrgininn, at Sverrir konungr fór út or ánni með her sinn, ok er alt kom liðit saman, þá stóð konungr upp á viðuna ok bað menn gefa gaum vandliga, hvat hann sagði. Konungr mælti svá: Hér er mikill herr saman kominn, ok er þess ván, ef svá ferr, sem vér ætlum, at fund várn Bagla beri saman, at eigi munu þessir menn allir með lífi aptr koma, ok er þat nú öllum jafnnær, ok vari hverr sjálfan sik. Þat er bœn mín ok vili, at menn gangi til skripta, allir þeir er eigi hafa þat áðr nýliga gert; þat er ok mitt ráð, at

menn snæði nökkut ok drekki sér kyrningshjarta; megu menn vel skiptast við um róðr. En ef vér finnum Bagla, ok vili þeir undan oss, þóat þeir hafi eigi þat látit, þá förum dreift með skip vár, látum milli ördrag eða lengra, ok látum skútur várar fylgja vel langskipunum. Þetta mundi vera um dagmála skeið, ok var sólskin veðrs ok lítit vindgol utan á fjörðinn, svá at hóf merkit frá stönginni. Róa Birkibeinar þá inn á fjörðinn. Var þat annan veg, en Baglar hugðu, þvíat skip þeira váru stórum árfljót, váru þau spánósa ok nýbrædd, en ekki á nema menn. Sverrir konungr steig á skútu ok hleypti inn ok vildi njósna til Bagla. Þeir sá mann einn uppi á landit, þeir lögðu at ok spurðu bónda, ef hann vissi nökkut til Bagla. Hann svaraði: Sé þér inn til Horna, þar liggr herr þeira allr við. Ok síðan bað hann konunginn vel fara. Fór konungr aptr til liðs síns ok sagði, hversu stefna skyldi. Ok er þeir höfðu nær hálfróit, þá fóru Baglar innan undan Horna ok út til Tautru ok stefndu fyrir norðan eyna á fjörðinn. En er Baglar sá skip Birkibeina, þá var þat ráð ok vili Nikulás byskups ok Sigurðar jarls ok Hreiðars at róa út eptir firði ok eiga ekki við Sverri, sögðu hann ekki mundu róa eptir þeim með stórskipin. En Hallvarðr af Sástöðum ok Philippus af Veigini vildu bíða Sverris konungs, en byskup réð, at út var róit. Þá skiptust menn við stýrihömlurnar, steig byskup á Rauðsíðuna. Nú sá Birkibeinar, hvar Baglar reru, ok stefna fyrir þá fyrir vestan Tautru á fjörðinn, ok sækir þá saman með þeim, ok var þat fyrir innan Ömburnes. Þá er stund var til þeira, meir en örskot, skutu Baglar upp árum sínum, ok æptu Baglar upp heróp ok sneru svá skipum sínum, sem þeir vildi berjast, en Birkibeinar váru ekki herklæddir, en þó skutu þeir upp árum sínum ok hljópu í herklæði sín, ok hugðu at Baglar mundu vilja berjast, en þeir vildu eigi berjast ok viku undan. Þá mælti konungr: Þat óttumst ek nú, at þeir vili í

bœinn, ok munu þeir gera illan bakeld bœjarmönnum, áðr vér komum, ef þeir taka þat ráð. Þá spentu þeir árar hvárirtveggju, fjórir á konungsskipinu hverja, ok flaug svá fram sem fugl, ok hver ár var svá dregin, sem menn hugðu at hlýða mundi, en skip Bagla váru þung mjök, er legit höfðu á sjó allan vetrinn.

*Frá Birkibeinum.*

168 (159). Hallvarðr af Sástöðum sá nú, at Birkibeinar mundu ná öllum hinum stœrstum skipum Bagla, ok bað víkja aptr öll skipin hjá Birkibeinum ok taka þau fyrst, er síðast fœri. En því stýrði Hákon konungsson, er síðast fór, hafði hann alllítt skipat. Viku þeir þá aptr á smáskipunum öllum, en hin stóru skipin Bagla urðu ekki mjúkræs hjá þeim, er Birkibeinar höfðu. Þá mælti konungr við Þórð Finngeirsbróður, hann stýrði þá konungsskipinu: Sér þú skip Hallvarðs? Hví mun ek eigi sjá, herra? sagði hann. Konungsskipit fór fyrst, ok eigi skemra frá öðrum en ördrag. Þar skal nú, sagði konungr, þrifnaðrinn þinn við liggja, at þú hœfir skip Hallvarðs, þar skulum vér við leggja í dag, þat er várt fœri. Hann svaraði: Eigi er vandi á, herra, svá svífr, sem vill. Þetta skip, er konungr var á, kallaði hann Hugró, Hallvarðr hafði Skálpinn, Pétr steypir ok Eyvindr prestsmágr höfðu Ógnarbrandinn, Hákon konungsson Viðsjána.

*Frá orrostu Birkibeina ok Bagla.*

169 (159). Síðan sveif saman konungsskipinu ok Hallvarðs, lá konungsskipit á bakborða, en skúta Eiríks af Hæ hafði rent aptr milli skipanna ok lá því eigi alla leið síbyrðis við. Skip Philippus jarls fór nökkuru síðar ok gat varla vikit svá skjótt, at hann gæti á stefnt á skipit Hallvarðs, ok krœktu stafnbúar jarls til ljá, ok kom á höfuðit, ok gékk þat af skipi Hallvarðs, ok þótti

skipit hrakligt eptir verða. Þá gátu þeir vikit á jarlsskipinu, ok lögðu at á stjórnborða aptan til austrúms, lagði þá hvert at, sem eptir kom. Ok urðu þá sex stórskipin Bagla kringð innan í, en Birkibeinar lögðu utan um. Öll hin smæri skip Bagla lögðu litt at skipum Birkibeina, þvíat þeir vildu eigi verða inni kringðir. Ógnarbrandrinn, er þeir Pétr steypir stýrðu, varð eigi við í öndverðum bardaganum, þvíat þeir gátu honum eigi svá brátt vikit, þóat allir reri á annat borð, en allir hamlaði á annat, ok reist svá rúman krókinn, at þeir féngu eigi at vikit. En skútur Bagla firðust æ Ógnarbrandinn.

Þessi orrosta var bæði hörð ok löng, hófst at miðjum degi, en vannst til miðs aptans. Sverrir konungr hafði sagt sínum mönnum fyrir orrostuna: Ef svá ferr, sem mik væntir, at vér sigrimst, þá minnizt nú þess, er Baglar sveltu yðr í fyrra sumar í borginni, ok gefit engum manni grið nema þeim, er á minn fund kemr, þvíat með engu fá vér nú eytt fjándmönnum várum en oddi ok eggju. Margan munut þér finna í dag með Böglum eiðrofann ok konungsníðinginn, ok skulu þeir nú þess gjalda. Skip byskups hafði eigi at lagt, hafði straumr dregit sundr skipin, ok reru þeir at landi, ok hljópu á land allir menn, þeir er fœrir váru. Sverrir konungr skaut um daginn af lásboga af skipi sínu, ok svá Philippus jarl, ok var jarl skotinn undir brynstúkuna í arminn, ok kipti eigi or örinni fyrr en um kveldit. Rauðsíðan, er byskup var á ok konungsefnit, lá eigi nærr bardaganum en svá, at þeir máttu sjá, hvárir sigraðist, ok þegar þeir sá, at Birkibeinum horfði vænna, þá reru þeir út eptir firði, sem mest máttu þeir.

En er liðit tók at falla á skipi Hallvarðs, þá géngu Birkibeinar upp af konungsskipinu ok af jarlsskipi, var þat fyrst hroðit. Hallvardr féll á skipi sínu fyrir aptan siglu. Sá maðr var aptr á skipi Hallvarðs fríðr sýnum, er hafði stálhúfu ok panzara, ok hvártveggja á

gauzku, hann hafði fengit slag af flettiskeptu snemma orrostu, svá at nefit var lamit, þessi maðr var kominn upp á viðuna hjá siglu. Sá hirðmaðr gerist til, er Áskell hét, sterkr maðr ok í spangabrynju, hann fór upp at honum, ok sóttust þeir. Sá hafði ekki vápn, er fyrir var, nema skjöld ok stein, Áskell hafði sverð ok skjöld. Eitt tjald stóð millum þeira, ok munduðust þeir at um stund. Áskell hjó hart, ok kom í tjaldstuðilinn sverðit, svá at fast stóð i. Hinn neytti þess, ok sló hann með steininum, er hann hélt á. Rauk Áskell af viðunni ofan. Mæltu margir, at sá mundi vel verja rúm sitt, ef hann væri með þeim. Konungr lét, sem hann heyrði eigi. Því næst var hann lostinn með pálstaf af konungsskipinu, hrapaði hann þá ofan. Áskell var þá uppstaðinn ok hafði þá öxi eina. Réðust þeir þá til, ok lauk svá, at Áskell varð sárr, en Beglingrinn féll. Hallvarðs skip var fyrst hroðit, en síðan var hvert hroðit at öðru þeira fim, er þar lágu. Baglar tóku þá undan öllum herinum, hleyptu sumir at landi ok hljópu þar upp, en flest öll léttiskipin tóku út eptir firði. Birkibeinar tóku öll þau skip, er til lands leituðu. Þar féll fjöldi af Böglum. Reru Birkibeinar þá aptr til bœjarins, ok í ána at flóði um nóttina.

En er liðit kom í bœinn, þá reyndist þat, at sveitarhöfðingjar höfðu grið gefit Böglum, frændum sínum ok vinum. Sumir Birkibeinar mintust, hvat konungrinn hafði mælt, ok drápu Bagla marga í stofu einni, en frændr þeira, er grið höfðu gefit, géngu til konungs ok kærðu fyrir honum. Konungr lézt sjá til gott ráð, ef þessir menn, er drepit höfðu frændr þeira, hefði grið gefit nökkurum sínum frændum, ok bað þá þar hefna. Eptir þat géngu sveitirnar um bœinn, ok hendu þá hvárir annarra frændr, þar til er allir váru drepnir. Annan dag eptir hafði konungr þing út á Eyrum ok sagði þá sínum mönnum, hvernin menn skyldu fjárskipti hátta: alt

skyldi bera í postolakirkjugarð, lézt hann þar mundu fá gæzlumenn til. Þá sendi hann menn sína norðr á Hálogaland eptir þeim, er þangat höfðu snúit. Birkibeinar tóku Bjarna Marðarson ok Brynjólf í Mjólu ok marga aðra góða drengi, ok runsuðu búm þeira fast ok féhirðslum.

*Frá Erlendi prest ok jarli.*

170 (160). Erlendr hét maðr, hánn var prestr ok söng at Krosskirkju, hann var maðr vitugr ok snjallr ok var ráðamaðr mikill í bœnum. Prestrinn átti konu unga ok fagra, þá konu glapti Philíppus jarl. En er konungrinn varð varr við, bað hann jarlinn fögrum orðum, at hann skyldi af því láta. Jarlinn svarar um vel, en alt var samt. En er Erlendr varð þessa varr, þá fyldist hann upp reiði mikillar bæði við konung ok jarl, ok bjó um svikræði við þá alla Birkibeina. Þeir Sverrir konungr ok Erlendr prestr höfðu opt fyrr fast á benzt um mál Eiríks erkibyskups ok konungs.

*Konungr elti Bagla.*

171 (160). Þegar eptir bardagann fór konungr við liði sínu eptir Böglum, en þeir rákust æ undan, unz þeir kómu austr í Vík, ok þaðan héldu Baglar suðr til Danmerkr. Konungr hafðist við í Víkinni um sumarit ok heimti gjöld af bóndum fyrir landráð, tók leiðangra ok settist um haustit í Osló ok bjó þar til vetrsetu. Um haustit kom norðan frilla jarlsins prestskonan, ok tók jarl þegar við henni. Konungr bannaði þat. Jarl lét hana þá fara skamt á braut á þann bœ, er Akr heitir, fór hann þangat jafnan leyniliga um nætr ok svaf þar. Konungr rœddi opt fyrir jarli, at hann fœri úvarliga: uggi ek, frændi! sagði hann, at þat muni oss draga til mikils skaða.

*Fall jarls.*

172 (160). Baglar sigldu sunnan or Danmörk á öndverðum jólum með skútnaher, ok týndu þeir í siglingu

einni skútunni, ok stýrði þeiri Auðun býleistr, ok komst þar ekki mannsbarn af. En er þeir kómu fyrir Oslóarfjörð, viku þeir inn í fjörðinn 15 skútum, réð þar fyrir Hreiðarr ok konungsefni, en er þeir kómu undir Höfuðey, þá mælti Hreiðarr: Þat veit ek, at Birkibeinar hafa nú enga frétt af oss, en sœgr mikill er í bœnum ok lið alt ölótt. Nú er þat snjallræði at veita þeim áhlaup, mundi Sverrir svá gera, ef hann ætti várn hlut. Nú skulum vér róa hljóðliga inn at bryggjum; veit ek ok ván til veiðar nökkurrar, Philippus jarl sefr yfir á Akri við fá menn. Allir létust þess fúsir vera. Reru þá þannin 5 skútur, en aðrir reru inn at bryggjum, ok hlýddust um, ok var alt hljótt í bœnum, ok þó þorðu þeir eigi upp at ganga, ok reru frá. En þeir er lent höfðu í Akrshaganum, géngu upp til bœjarins. Varð jarl eigi fyrr varr við, en húsin váru tekin á honum. Hann komst út um laundyrr einar, hann var berfœttr ok í línklæðum einum. Þeyr var ok snælaust á jörðunni ok svað á þelanum. Jarl var manna fóthvatastr. Baglar þeir er upp váru á húsunum, sá í myrkrinu, at maðrinn hljóp út. Hljópu þeir þá eptir honum, ok í því skruppu honum fœtr, ok féll hann. Þá var hann skotinn spjóti, var þat hans banasár. Hann féll í gerðum nökkurum skamt frá bœnum, féllu þar ok tveir menn aðrir. Sveinn hans er nefndr Eiríkr svagi, hann komst undan ok bar boð til bœjarins, hann kom í konungsgarð ok var svá móðr, at hann fékk ekki mælt annat, en œpti á þá ok bað þá upp standa. Konungrinn varð skjótastr í klæðin ok út í garðinn. Hann spurði, hvat tíðinda væri. Sveinninn sagði jarl fallinn, ok hafa Baglar drepit hann. Ofnær oss, sagði konungrinn, hann hugði jarlinn mundu hafa sofit í bœnum. Konungr bað lúðrsveininn blása. Hleypr þá upp hverr í sínu rúmi, ok væpnast. Þá var konunginum sagt, at jarl hefði fallit yfir á Akri. Vakti þá liðit alt með vápnum til dags. Þetta var um nóttina fyrir ellifta dag í jólum.

*Baglar fóru norðr í Þrándheim.*

173 (161). Baglar sóttu út eptir firði ok fóru alla leið norðr til Þrándheims. Í kaupangi var fyrir Hallvarðr skygna með sveit sína, hann var bróðir Guthorms erkibyskups. Þeir váru drepnir nær allir sveitungar. Baglar settust í bœinn ok höfðu hálft sétta hundrað manna. Þá váru frost mikil ok íslög. Þá gerðu sýslumenn Sverris konungs ok bœndr í heraði þat ráð at fara at Böglum. Var fyrir Gauldœlum Dýri af Gimsum, en fyrir Orkdœlum Eyjólfr Aflason. Þeir höfðu 15 hundruð manna. Baglar urðu eigi fyrr varir við, en þeir váru mjök komnir at bœnum, ok héldu út til borgar á móti ok vörðu borgina. Annan daginn áðr höfðu Baglar látit höggva ísinn alt frá borginni ok ofan um brú. Þeir skutust á um daginn, ok urðu margir menn sárir af hvárumtveggjum. Philippus af Veigini var lostinn með öru. Fóru bœndr heim við svá búit ok féngu ekki at gert. Fám nóttum síðar fóru bœndr aðra för inn til bœjar; þá vildu Baglar eigi bíða ok héldu á braut. Baglar fóru þá suðr á Mœri til Borgundar, en sumir til Þingvallar, höfðust þar við um várit fram til páska.

*Um álögur Sverris konungs.*

174 (162). Sverrir konungr lagði á bœndr um vetrinn leiðangr, at or hverjum liða skyldi gera mann, ok umfram pund ok naut. Konungr gaf þá heimleyfi Þrœndum, en hann tók lið þar or heruðum. Gerðist af þessum leiðangri kurr mikill í Víkinni. Þeir gerðu svikræði við konunginn, fór þat svá undarliga leynt, at allir váru í einu úráði austan frá Svínasundi ok allir Vestrfyldir ok um alt Raumaríki. Hófust þeir allir upp með múginn at ákveðinni stundu ok höfðu uppi þegn ok þræl, þeir drápu alla syslumennina, hverja þar sem staddir váru. Þeir váru fyrir bóndum, Símun lögmaðr á Þufn, Ámundi burst, Þorviðr blindi, Þórðr Úlfgestsson, Þorlákr drafli,

Jón kúla, Grímr or Grettisvík, Hallkell or Angri. Þeir hófu ráðagerð þessa í Osló, ok áttu stefnu í Hallvarðskirkju ok bundu þar ráð sín saman fyrir álögur þær, er konungr hafði við þá.

*Um dráp margra Birkibeina.*

175 (162). Miðvikudag í imbrudögum í langaföstu drápu þeir Benedikt sýslumann í Túnsbergi ok alla hans sveit, Óláf smjörkoll ok alla hans menn, Pétr Lucasbróður í Aumorð ok þá níu saman, ok þar hverja, sem staddir váru. Þeir settu varðmenn á vegu alla, þá er lágu til bœjarins. Frjádaginn kom kurr nökkurr á konunginn, at bœndr mundi hafa samnað. Konungr lét þá rannsaka leiðangrsliðit, þat er með honum skyldi vera, ok var nær alt á brautu. Konungr lét gera orð eptir þeim, ok kómu engir á laugardaginn né sunnudaginn. Dróttinskveldit kom til konungs einn bóndi ok sagði honum, at herr samnaðist á hendr honum ok mundi skjótt koma, annathvárt, herra! í nótt eða snemma á myrgin. Konungr lét þá blása saman öllu liði sínu, bœjarfólki ok kaupmönnum. Hann sagði þá þessi tíðindi alþýðu, bað bœjarmenn ok kaupmenn liðsinnis, kvað þá mundu eiga at verja fé sitt ok frelsi. Gerðu menn at góðan róm at máli hans. Var þá skipt í sveitir öllu liði hans, bað konungr menn þá snæða at náttverði, en síðan kvezt hann mundu blása saman öllu liðinu. Ok svá var gert. Þá fluttu bœjarmenn ok kaupmenn fé sitt alt í kirkjur. Konungr gerði hestvörð frá sér alla vega. Um kveldit lét konungr blása öllu liðinu út á ísinn, er lá fyrir bœnum, ok alt út um Höfuðey lá íssinn. Stefndi konungr liðinu yfir í Akrshagann, ok lágu þar um nóttina. Konungr reið við nökkura menn til Sólangrs ok lét standa hestana á brekkunni, en hann gékk ofan til vatnsins. Á vatnsísinum lá mikill bóndaherr, ok réðu ráðum sínum. Konungr hlýddi til, hvat þeir sögðu, ok gékk á brott síðan ok til

hesta sinna ok ríðr ofan á ísinn ok fyrir utan hagann ok inn til skipa sinna; dvaldist þar um hríð, ok fór þá enn aptr til liðsins, var þá ok komit at degi. Lét hann þá blása liðinu ofan á ísinn milli Snældu ok meginlands. Konungr kvaddi hljóðs ok mælti svá: Hér er nú mikit lið saman komit, ok þurfum vér skyldliga, at guð gæti vár. Flokkr hefir samnazt á hendr oss, Þilir ok Markamenn, ok vænir mik nú, at þeir hafi aptr snúit; eða hvárt eru þetta alt várir menn, eða eru nökkurir viðkomnir af bóndum? Honum var sagt, at þetta var þeira lið. Þá skulum vér, sagði konungr, gæta skipa várra, skal skipta til liði at höggva út ísinn fyrir skipunum. Ok í því kom maðr ok sagði, at lið var komit austan af Langamosa ok þá fram á Ryginaberg, váru þar Skeynir ok Eynir, Foldungar ok Heggnir. Þá svaraði konungr: Þá mun vera önnur vár ráðagerð. Hann var á hesti ok reið þannin, sem var lið bœjarmanna, ok mælti, svá at hvárirtveggju heyrðu: Tvenn eru ráð fyrir höndum, annathvárt at flýja fyrir bóndum eða taka á móti, ilt mun bœndr griða at biðja, munu þeir smæri fá móthöggin en bakslögin. Þeir báðu hann ráða, sögðu nú sem fyrr þat mundu bezt gegna enn sem fyrr. Þá spurði hann bœjarmenn, hvárt þeir vildi honum nökkut lið veita, eða vildi þeir, at hvárir véldi um sína kosti. Svá segjum vér Birkibeinar nú til yðar, sem fornt orðtak er, at í þörf skal vinar neyta. Bœndr ok bœjarmenn svöruðu, at þeir vilja vinna konungi til liðs slíkt, er þeir megu, ok svá gerðu þeir.

*Bardagi á berginu.*

176 (163). Sverrir konungr talar nú fyrir liðinu ok mælti svá: Þat er mitt ráð, at áðr en bóndamúgrinn gangi at oss öllum megin, þá leitum á fund þessa liðs, er hér liggr hjá oss uppi á Ryginabergi; göngum upp fyrir norðan Nunnusetr, ok komi engi maðr í bœinn.

Þá mælti konungr enn: Páll belti ok yðar sveit Upplendinga, takit skíð ok skíðfœri ok stígit á ok farit upp á bergit fyrir ofan þá, ok sét, hversu mikit lið þeir hafa. Þeir gerðu svá, fóru upp á bergit fyrir austan hjá þeim bóndum. Snjór var fallinn mikill, ok var gott skreiðfœri, en svá ilt at ganga, at nær var kafhlaup, þegar út fór af veginum. Þeir Páll sá þau tíðindi, er þeir kómu upp á bergit, at alt at sjá ofan frá Gjöllurási ok alt hit nyrðra með Frysju ok svá alt út til Akrshaga flaut land alt af mönnum. Fóru þeir Páll aptr sem skyndiligast ok sögðu konungi þessi tíðindi. Konungr var þá kominn upp á Mörtustokka ok gaf staðar ok hlýddi til frásagnar þeira. En merki hans ok ferðarbroddrinn sótti þá upp yfir dalinn ok þá næst upp í bergit; sóttu sumir upp eptir akbrautinni, en sumir klifu upp svá bratta brekku, at hœgt var at standa öðrum fœti á kné, þá er annarr var réttr. Bœndr lustu upp herópi ok hljópu fram á bergit, létu þá ganga skotvápn; var þeim hœgt at bera vápn undir fœtr sér niðr, ok þeir er stóðu vestr á bergit á hœgri hlið Birkibeinum, skutu í opna skjöldu þeim. Vegrinn var eigi breiðari en fim máttu ganga jafnfram. Birkibeinar urðu mjök sárir, en sumir féllu, greiddist þeim eigi uppgangan, ok féll þá sá, er merkit bar, ok varð þá hörð svipan í, áðr Birkibeinar næði merkinu. Þá sá Birkibeinar, at þeir höfðu eigi viðstöðu ok flýðu; þá runnu þeir, er fremstir stóðu, ofan á þá er neðar stóðu, ok fóru svá ofan á jöfnu, at hverr féll á annan; en bœndr sóttu ekki eptir þeim, því at þeir sá, at meginherrinn Birkibeina sótti þá upp at berginu. Sverrir konungr kom þá at ok mælti: Sví verði yðr æ svá rennandi! liggr hverr yðarr um þveran annan. Sé þér eigi, at engi maðr ferr eptir yðr? Þá lét hann blása liðinu aptr á Mörtustokka. Í Ryginabergi féllu 17 menn af Birkibeinum, ok alt hirðmenn einir, margir urðu sárir. Þá mælti konungr: Hafizt nú vel við, góðir hálsar, þó at vér

hafim fengit slag nökkut, opt verðr slíkt á sæ, kvað seir, var skotinn í auga. Fengit hafa bœndr sigr á oss, þann sem þeir munu. Hér kom fram draumr, sá er mér birtist, at ek ætta bók, ok var laus öll ok mikil, svá at hon tók mikit af landinu, ok var stolit or einu kverinu, þar hafa bœndr tekit menn vára. Hræðizt því eigi her bónda, þvíat þeir fara því verrum förum, sem þeir eru fleiri.

*Tala Sverris konungs.*

177 (163). Sverrir konungr mælti þá enn: Snúim vér hér upp eptir vegnum ok þar á bergit, sem lægra er, fyrir austan þá. Ok var svá gert. En er þeir kómu skamt upp, þá sá þeir yfir her bónda, ok var alt norðan ok út at sjá sem í skóg sæi. Þá mælti konungr: Þú Lávarðr ok Hákon son minn ok ykrar sveitir, setit upp merki ok verit hér á Mörtustokkum ok gegnit þeim, er uppi eru á berginu, at þeir veiti oss eigi bakslettu, en ek mun snúa norðr á mót því liðinu, er þaðan ferr. Þá viku þeir konungr norðr til Frysjubrúar, var þar fyrir bónda herr. Þeir skutust á yfir brúna ok máttu ekki nærr gangast, ok urðu þar sárir menn nökkurir. Þá sneri konungr út til íssins, þvíat þá váru Vestrfyldir þar komnir, ok Þilir ok Raumar. Drógust þeir þá saman, er áðr höfðu verit við brúna, ok var þar samankominn allr meginherrinn, ok var furðuliga mikill, svá at úfœrt mundi þykkja á mót at ganga þeim, er eigi væri fullir hreystimenn. Áli hét maðr, hann var Hallvarðs son ok var lendr maðr konungs, hann mælti svá: Skulum vér eigi fylkja, herra? Konungr svaraði: Þann sið höfum vér Birkibeinar upptekit, at fylkja ekki, þá er vér berjumst á landi, ok rennum at riðlum saman, ok gerum dyninn sem mestan, þá má hverr vera svá frammi, sem vill; gerum harða árásina, ok munu bœndr bogna við, hefir oss nú farit, sem mælt er, at fall er farar heill. Þá bað hann blása ok mælti: Nú fram allir Kristsmenn, krossmenn ok hins helga Ólafs konungs menn, ok förum dreift!

*Frá Birkibeinum.*

178 (163). Konungr sat á brúnum hesti, hann hafði góða brynju ok styrkan panzara um utan, ok yztan rauðan hjúp, víða stálhúfu, svá sem Suðrmenn hafa, ok brynkollu ok panzarahúfu, sverð á hlið ok kesju í hendi; hann reið í öndverðu liðinu, ok svá at hestrinn tók brjósti við skjöldum bónda. Birkibeinar þustu fram á tvær hliðar honum með brugðnum sverðum ok veittu bóndum svá harða atsókn, at þeir er fremstir stóðu, vildu nú gjarna vera firr Birkibeinum, ok leituðu aptr millum mannanna. Birkibeinar neyttu þess, er þeir sá beran vápnastað á bóndum, ok því næst kom hlaup í allan herinn, ok stefndu inn í Akrshaga. Birkibeinar slógu þeim úþarfliga herðadrengi ok fylgðu þeim at landi inn; féll þar mart af bóndum. Túnsbergsmenn ok allir sjábyggvar fóru á skipum inn þangat ok lendu utan við ísbrúnina ok géngu þar upp, ok var þat allmikill herr ok vel búinn, váru þat bœndr or Túnsbergi ok kaupmenn. Þeir sœkja inn eptir ísinum, ok er Birkibeinar sá lið þeira, þá snúa þeir þangat á móti. Þá mælti konungr: Enn mun oss fást nýtt starf, ok verðr nú skamt á milli, munu þessir fara slíkum förum sem hinir eða verrum. Bað konungr lúðrsveininn blása. Tók þá herrinn út eptir ísinum. Túnsbergsmenn þyrptust saman, er þeir sá, hvar Birkibeinar fóru, urðu þar skjótir atburðir, runnu Birkibeinar at þeim ok gáfu höggin, svá sem þeir váru vanir. Lágu Túnsbergsmenn, þar sem þeir fundust, svá þykt sem unnvörp væri, en þeir tóku á rás, er eptir lifðu; var þessi skömm viðrtaka. Birkibeinar ráku flóttann út eptir ísinum, féll þá fjöldi, þvíat Birkibeinar váru á skóbroddum, en flóttamenn váru á berum sólum. Konungr reið nær þeim, ok váru þat hans handaverk, at hann veitti eitt spjótlag hverjum, en Birkibeinar veittu þeim þá embætti eptir til dauða. Þar féllu margir góðir drengir, Sigurðr tálgi ok margir aðrir. Þeir flýðu til

skipa sinna, en sumir upp í hagann, dróst þar enn saman múgr manns.

*Frá konungi.*

179 (163). Konungr hafði í fyrstu hálfan þriðja tug hundraða, en þá er hann kom til móts við bœndr, þótti þat sem böllr einn væri. Riðlaðist þá mjök liðit hvárratveggju, ok géngust at sveitum. Váru þar víða miklir bardagar, svá at mikillar frásagnar mundi vert þykkja, en því látum vér þat líða, at eigi verðr alt ritat, ok er mest frá því sagt, hvat þar varð til tíðinda, er konungsmerkit fór ok hann sjálfr varð við staddr.

*Frá konungssonum ok bóndum.*

180 (164). Nú er at segja frá konungssonum ok bóndum, þeim er lágu á Ryginabergi. Þeir sá, at Sverrir konungr átti eltur miklar á ísinum, ráðast þeir ofan af berginu ok ætla til móts við sína menn. Sigurðr lávarðr snýr nú á mót þeim við sína sveit. Var fyrst á milli þeira dalverpi nökkut, ok fundust þar í dalnum. Varð þar hörð orrosta, Birkibeinar höfðu fjögur hundruð manna, en bœndr nær 20 hundruð. Verða Birkibeinar bornir ofrliði, ok flýja þeir ofan í göturnar. Lávarðr hleypti til þess, er hann kom inn í Hallvarðskirkju. Mart manna fór þannin með honum, en Hákon ok Svínapétr ok sumt liðit stefndi fyrir ofan Nunnusetr ok svá á ísinn til móts við konunginn. Bóndum fór ekki fimt at reka flóttann, géngu þeir ofan í bœinn með fylktu ok dreifðust þegar ok skipuðu til skytninga, hvar hverir skyldu drekka um kveldit. Þeir géngu ok ofan til skipa konungs, þar sem upp váru sett, vildu sumir brenna, en sumir mæltu á mót ok kváðust eigi vildu spilla gersimum sínum, sneru síðan upp um Nunnusetr ok slógu fylking.

*Bardagi á Valkabergi.*

181 (164). Sverrir konungr sá fylking bónda, hét hann þá enn á sína menn ok bað þá enn vel við hafast,

þvíat alt mun spyrjast, sagði hann, hverir hraustastir eru. Mér lízt, sem bœndr, þeir er vér fundum í myrgin, vili enn finna oss; er þat ok vel, at vér minnimst við þá þeira svaðilfara, er þeir veittu oss, munu vér nú standa allir jafnhátt ok þurfa eigi at klífa í berg upp at þeim. Sneri þá konungrinn at þeim við sínu liði, tókst þar hörð orrosta, ok valt til vanda, svá at þeir flýðu upp fyrir norðan bœinn. Hákon konungsson fylgði þeim ok drap af þeim mart manna. Sverrir konungr sneri suðr um geilarnar hjá sútarabúðum ok svá fram til Hallvarðskirkju; þá hlaupa þeir Lávarðr út or kirkjunni. Konungr mælti til hans: Þínar verða flestar jafnastar, litla ván eiga Birkibeinar þar góðs höfðingja, er þú ert, ok er sem kveðit var:

Úlfkr ertu þeim er framráðir
yðrum niðjum, fyrri váru.

Ok enn mælti hann til þeira Birkibeina, er í kirkjunni váru: Úlíkir eru þér þeim Birkibeinum, er géngu til lands með mér móti Magnúsi konungi; þeim þótta ek eigi nýtr til at vera í orrostum með þeim, ok sögðu þeir þó, at varygð géngi til, en allir aðrir sögðu mér bleyði til ganga, en

Fár er hvatr
er hrörask tekr,
ef hann er í bernsku til blauðr.

En nú í hvert sinn, er vér berjumst, þá em ek fyrstr, ok þykkja þeir nú snillingar, er jafnfram fara mér, ok vel vil ek þeim þakka sína fylgð, en þér erut þeim úlíkir, sigrazt hafa þeir í dag, en þér hafit eltir verit; farit nú eptir bóndum ok gjaldit þeim bakslettu, ok hafa betri drengir, en þér erut, rekit þá á flóttann. Sneri konungr þá upp or kirkjugarðinum, en margir menn mintust til kirknanna. Þá mælti konungr: Miklu eru þér nú Birkibeinar trúrœknari en fyrr, þér látit nú, sem þér skulit hverri kirkju sleikja, er þér komit til, en þat er lengstum,

at þér rœkit lítt kirkjurnar. Reið konungr þá upp um göturnar, ok fylgði honum mikit lið, hendu þeir drjúgt af bóndum. Þá sá þeir norðr á Valkaberg, at þar riðu vápn á lopti. Sneri þa konungr þann veg, varð þar brátt mikit mannfall. Bœndr snúa þá enn undan ok renna, sem mest megu þeir, sumir eptir vegunum, sumir annan veg. Var svá optast um daginn, at þegar bœndr tóku undan með hrakhlaupinu, þá drógu þeir optast í braut, var þat mestr þori múgsins, er undan setti, en þó féll svá mart, at þat var tortalt, þvíat mart fannst líkanna eigi fyrr en um várit.

*Enn um bardaga.*

182 (165). Sverrir konungr lét blása öllu liðinu ofan á Mörtustokka, ok er hann kom þar, mælti hann: Setist menn nú niðr ok hvíli sik, ok þjónostusveinar fari ofan í bœinn ok taki mönnum snáð ok drykk. Ok svá var gert. Bundu þá margir menn sár sín, var þat um nónskeið. Þá sá þeir yfir í Akrshagann, at þar dróst saman lið mikit ok kom hvaðanæfa til. Var þat enn bóndaherrinn. Bœndr flyktust saman á austanverðum Akrshaga við ísinn ok höfðu þar ráðagerðir sínar, vildu sumir heim snúast, en þeir er þrástir váru á sitt mál, vildu enn berjast, sögðu Birkibeina nú mundu vera svá sára ok vígmóða en marga fallna, at nú mundi engi dugr í þeim vera, eða hví varð engum þat fyrir at drepa konunginn, er hann reið í hendr oss? Þat veit guð, ef hann ferr svá optar, at hann skal aldri braut komast, þvíat eigi munum vér komast í betra fœri en nú; verðum við vel, ok gæti hverr annars. Sveitarhöfðingjar bónda taka nú allir samband ok handfestu með sér, at engi skal renna frá öðrum. Standa nú upp ok fylkja liðinu, skipa alt til, hverir hlífa skulu eða hverir höggva skulu eða leggja, skipa ok saman bogmönnum sínum ok þykkjast nú öruggir.

*Bardagi á ísinum.*

183 (165). Þetta alt sér Sverrir konungr, ok stendr nú upp ok mælti: Þat mun hér sannast um bœndr þessa, at seint þrýtr þann, er verr hefir. Mér lízt svá, sem þeir muni enn vera búnir til bardaga, skulu vér þá láta enn engan bilbug finna á oss, ok gerum þeim nú þá hríð, at þá fýsi heimleiðis. Er þat ráð at kasta klíningunum ok svá könnunni, látum nú sem vér sém spánýir. Lét hann þá blása herblástrinn ok snýr ofan með liðinu til íssins. Birkibeinar gera þá harða árás. Bóndum varð þar þá mikill bardagi. Konungr sjálfr var jafnan fremstr sinna manna. Bœndr kendu hann fullgerla, ok mælti hverr til annars: Drepi hann, höggvi hann, leggi hann, drepi hestinn undir honum. Þetta var mælt en eigi gert. En er orrostan hafði staðit um hríð, þá raufst fylking bónda, lugu þá lindiskildirnir at þeim ok dugðu eigi fyrir kesjum Birkibeina. Bœndr höfðu troðit gadd, þar er þeir höfðu fylkt, en er Birkibeinar kómu upp á gaddit hjá þeim, þá endist bóndum eigi sambandit, þat er þeir mundi aldri skiljast, þvíat þá flýði sinn veg hverr, ok er allr bóndamúgrinn flýði, þá endust þeim eigi vegirnir, ok dreifðist liðit alla vega á braut. Birkibeinar sóttu þá ok fast eptir. Var fram í hagann kjarrskógr nökkurr. Áli Hallvarðsson hafði allan búnað með sama móti ok konungrinn, hann reið fram í kjörrin við fátt manna, bœndr koma at honum svífandi ok drepa hann, fékk hann slag utan undir húfuna á hálsinn, var þat hans banasár. Þá fletta þeir af honum vápnin, slá upp ópi miklu ok segja konunginn fallinn. Birkibeinum varð nú þegar úbráðara um eptirförna. Fór nú þessi kurr um allan herinn, drógust þá saman sveitir hvárratveggju. Ok er konungr heyrði þetta, reið hann fram ok lét blása. Fundu þá bœndr, at þeir mundu smæra steikt hafa en haft konunginn á teininum. Sóttu Birkibeinar þá hart fram við berg nökkut, fundu þeir

mikinn samnað bónda, varð þar allmikit mannfall, leiddist bóndum þar staðan þá, ok runnu þá á sína sundrung, hverr sem mest mátti. Birkibeinar fylgðu þeim alt til nætr ok drápu fjölda af þeim. Sverrir konungr gaf grið um daginn hverjum, er beiddi. Þar var tekinn Þorviðr blindi, ok gaf konungr honum grið. Einn bóndi var sá, er þrim sinnum var tekinn um daginn, ok gaf konungr honum grið hvert sinn, en hann hljóp til bónda hvert sinn, ok hit fjórða sinn var hann tekinn ok drepinn. Konungr fór um kveldit aptr í bœinn, hann setti vörðu um nóttina alla vega. Um myrgininn eptir hafði konungr þing ok þakkaði bœjarmönnum liðveizlu sína ok sínum mönnum fylgð ok föruneyti, talaði þar um mörgum fagrligum orðum ok tók þeim góð dœmi: En þat er vili minn, sagði konungr, at íss sé höggvinn, svá at skipum várum megi flota; skulu fjórir menn höggva faðm á langann ok fjórir á breiðann, ok fægja vökina eptir sér; svá skal höggva dag eptir dag, þar til er út kemr. Lét konungr bera taum á ísinn, en skora liðit. Váru at þessu verki bæði liðsmenn ok kaupmenn ok bœjarmenn. Var þetta gert á fám dögum. Lét konungr flota skipunum, þegar er mátti, ok hélt á braut or firðinum, þegar hann var búinn. Hann kom páskaaptan til Björgynjar. Þá var þat annat sinni, er allir Björgynjarmenn urðu konunginum fegnir ok mest fyrir þá skyld, at þeim var sagt, at Baglar mundi koma at finna þá.

### *Birkibeinar eltu Bagla.*

184 (166). Páskadaginn þá er sól var skamt farin, sá varðmenn skútur Bagla, er reru norðan fyrir Hegranes ok stefndu til bœjarins. Varðmenn blésu ok vöktu herinn, ráku Birkibeinar þegar af sér tjöldin. Konungr bað þá eigi vera of veiðibráða ok láta Bagla róa inn á Váginn. Eigi váru viðurnar lagðar á konungs skipum, ok hugðu Baglar, at kaupskip væri. En er þeir reru á Váginn,

þá brá þeim öðru fyrir grön, þvíat þá þeystu Birkibeinar sem fastast út at þeim öll skipin; kendu Baglar þá ok merkit ok svá lúðrinn Andvöku. Tóku þá allir eitt ráð, létu rísta árar á annat borð ok reru á annat, ok sneru svá undan suðr. En áðr Baglar féngi snúit öllum skipum sínum, þá reru Birkibeinar á tvær skútur, svá at þegar vissi kjölrinn upp á báðum. Reru þá hvárirtveggju sem mest. Baglar hleyptu at, sumir í Grafdal, sumir í Gygisvík. Birkibeinar feldu af þeim mart manna, en höfðingjar þeira drógust undan. Fór konungr aptr til bœjarins, en Baglar heimtust enn saman ok rákust austr í Vík. Tóku bœndr vel við þeim, ok bundu þeir saman enn sín vandræði.

*Baglar váru á berginu.*

185 (167). Sverrir konungr dvaldist um hríð í bœnum ok stefndi at sér or heruðum mörgu liði, hann hafði ok mörg skip ok stór; þá hafði konungr Höfðabuzuna. Hann fór þá suðr með landi ok svá austr til Víkr; en er hann kom til Túnsbergs, þá váru þar Baglar fyrir, þar var Hreiðarr sendimaðr með mikla sveit. Þeir höfðu sezt upp á Túnsberg ok gert þar til varna tvá kastala, annan norðr á bergit, en annan suðr yfir götunni, er upp liggr frá Lafranzkirkju. Sverrir konungr mælti, er þeir reru or bœnum: Svá gott sem yðr Böglum þykkir bergit, svá ilt skal yðr þat þykkja eitthvert sinn. Fór þá konungr austr í Víkina. Bœndr höfðu alt samnað fyrir, var þar kominn þegn ok þræll, mátti konungr hvergi komast á meginland. Þar var þá með bóndum Sigurðr jarlsson, Hallvarðr bratti, Loðinn Pálsson, Ámundi burst, ok margir aðrir sveitarhöfðingjar. Sverrir konungr fór austr til Konungahellu, stefndi hann þar þing við bœndr; ok með því at konungr var fjölmennr, en bœndr þeir engir þar, er til Oslóar hefði farit, þá kómu bœndr til þings ok géngu undir öll álög konungs. Veik þá

konungr aptr ok hafði þing í Orðost við bœndr ok krafði þar alls hins sama, ok enn mælti hann: Ek vil biðja yðr bœndr láns um hesta þá alla, er hér eru í eynni, en þér fáit menn til, ef þér vilit, at hafa aptr. Nú skulut þér hafa þökk fyrir, ef þér gerit þetta með góðum greiðskap, en hvárt sem er, þá verðum vér at hafa. Bœndr létu til hestana, ok svá or Þjórn ok öðrum eyjum, ok Birkibeinar fluttu æ eptir sér norðr í Víkina, en bóndasamnaðrinn fór æ gegnt þeim á landi.

*Frá Sverri konungi.*

186 (167). Þá er Sverrir konungr kom norðr til Sótaness, veik hann inn af leið. Þar var fyrir samnaðr Bagla. Baglar sóttu upp á land til móts við bóndasamnað, höfðu þeir þing uppi við Fors kirkju ok réðu þar ráðum sínum. Eggjuðu bœndr at fara á mót konungi ok berjast við hann, sögðu hann mundu brenna ella bygðir, ok tóku þat ráð með sér. Snúast þeir þá allir samt til ferðar, reisti Sigurðr þar merki upp.

*Bœndr flýðu fyrir Birkibeinum.*

187 (168). Sverrir konungr gékk á land af skipum sínum ok sagði þá liðinu, at hann mundi leita á fund Bagla eða bónda, hvárir sem fyrir yrði, lézt þá yfrit lengi hafa rekit fyrir land fram ok fengit ekki af bóndum, þat er hann ætti; eptir lét hann sumt liðit at gæta skipanna. Váru þá hafðir hestar, þeir sem til váru, en þorinn gékk, fóru um daginn, ok höfðu bœndr eytt bygðina alla. Þat var um nónskeið, at konungr var kominn á berg nökkut, ok þá mælti hann: Nú munu vér snúa ofan aptr, skal nú brenna bygðina. Ok í þessu kom maðr til hans ok sagði, at bœndr fœri ofan fyrir norðan bergit. Konungr mælti: Þá munum vér fyrst snúa til móts við þá. Ok bað lúðrsveininn blása. Sótti þá liðit undir merkit; sneri hann þá norðr í dalinn, fór hans sveit

fyrst. En er bœndr sá þetta, köstuðu þeir kössunum ok tóku til vápna sinna, fórust á mót, fundust þar, er til annarrar handar var skógr nökkurr, en á aðra leirubekkr lítill. Konungr réð þegar á, er hann kom at. Váru þar fyrir sveitungar Sigurðar jarlssonar ok höfðu þar merki hans, en hann var þar hvergi í nánd. Varð þar hörð svipan, féll þar nær öll sveit Sigurðar, var þá ok merkit niðr höggvit. Váru bœndr þá ok allir fullráða at firrast Birkibeina. Slóst þá á flótta allr herr bónda, en Birkibeinar fylgðu þeim ok drápu af þeim mikinn múg, sneru aptr til skipanna um kveldit. Bardaginn var við bœinn á Skarfstöðum. Eptir um daginn kómu bœndr ofan ok leituðu sér griða. Konungr gaf öllum grið, þeim er þess beiddust. Kómu bœndr þá margir ofan ok fluttu stórgjöld konungi.

*Frá Sverri konungi ok mönnum hans.*

188 (169, 170). Konungr snýr þá norðr í Víkina ok upp í fjörð þann, er heitir Hornesfjörðr, ok gerði bóndum boð, at þeir kœmi at sættast við hann. Kómu sumir, en sumir eigi; váru þeir miklu fleiri, er eigi kómu. En er konungr hafði þar legit nökkurar nætr, þá gékk hann upp í bygðina á norðrlandit, ok var þar alt fólk flýit or húsunum. Ok er þeir höfðu farit langa hríð ok á leið daginn, þá bað konungr þá snúa aptr, skal Hákon son minn fara ofan öðrum megin með bygðinni með sumu liðinu, en vér hér stefna ofan, ok skulu hvárirtveggju brenna bygðina. Var þá skotit eldi í hús ok brent, hvar sem þeir fóru. Brunnu þar margir stórbœir, þeir brendu þar Dalinn mikla, er Hávarðr bóndi átti. Um kveldit hljóp sveinn einn or skóginum til konungs ok mælti: Herra, fyrir guðs sakir lát eigi brenna bœ föður míns hér fram. Konungr svaraði: Skal brenna víst eigi, fyrir því er þú biðr, ok engi mundi brendr hafa verit, ef bœndr hefði heima verit ok beizt griða, ok seg þeim svá,

at nú skal engan brenna. Héðan af fór þá konungr til skipa sinna. Um myrgininn kómu bœndr ofan ok festu gjald konungi. Gékk þar þá undir hann alt fólk. Eptir þat siglir konungr norðr yfir Foldina ok lá í Hafsteinssundum ok þaðan inn í Grindhólmasund. Um kveldit spyrr konungr, at Baglar eru komnir út í Hafsteinssund ok ráðit sér til skipa í Túnsbergi. Konungr reri þá at leita þeira fyrir norðan Tunnu, ok tók þá at myrkva. Lá konungr um nóttina í Hrafnsvági, en Baglar litlu sunnar við ströndina. Þegar í dagan reri konungr at leita með skútum. Baglar sigldu fyrir dag á haf út, en konungr eptir, þegar þeir sá þá. En er Baglar sá, at meira géngu skip Birkibeina, sneru þeir til lands. Þá fór karfi einn utan at Tunnuskögum, er stýrði Sæbjörn limr. Birkibeinar reru eptir þeim, Sæbjörn komst undan við annan mann. Birkibeinar tóku karfann ok alt, þat er á var. Baglar sneru inn sjau skútum fyrir norðan Yxneyna ok inn í Sandafjörð ok á norðrlandit, þar sem heitir Hellisvíkr, lögðu þar at ok hljópu upp. Sverrir konungr lagði at þeim ok drápu af þeim mjök mart, en tóku skipin ok alt, þat er á var. Baglar flýðu á land upp, en konungr sneri aptr til Túnsbergs.

Síðan fór hann leið sína norðr, en er hann kom norðr í Portyrju, þá sneri hann inn aptr í Víkina með skútur nökkurar ok ætlaði at taka af Böglum enn nökkut, ef hann féngi; fór nótt ok dag, ok er hann kom til Túnsbergs, drápu þeir þar sjau menn af Böglum. Þá fór hann inn til Oslóar ok drap þar enn nökkura menn. Fór þá enn aptr til liðsins ok hittu þá með stórskipin í Askeyjarsundi norðr á Limgarðssíðu, urðu Birkibeinar honum allfegnir.

*Um leiðangr Sverris konungs.*

189 (170, 171). Sverrir konungr ferr nú norðr til Björgynjar með öllu liðinu, sat konungr þar um vetrinn.

Baglar sátu í Víkinni ok höfðu þar skatta ok skyldir. Eptir um várit hafði Sverrir konungr úti leiðangr alt norðan or landi, ok fór með mikit lið austr til Víkr. Hreiðarr sat á berginu í Túnsbergi ok hafði tvau hundruð manna. Þar var Hallvarðr bratti ok mjök margir sveitarhöfðingjar, en konungsefni ok Sigurðr váru á landi uppi við sumu liðinu. Konungr sigldi austr yfir Foldina, ok var þar um sumarit ok tók gjöld af bóndum. Gékk þar alt fólk undir hann nema Skeynir. Þá fór konungr upp til Borgar ok lét draga skútur upp um forsinn Sarp, reru síðan upp eptir ánni, géngu þá upp á Skaun ok brendu þar alla bygðina. Géngu þá bœndr til sætta ok guldu gjöld. Fór þá konungr aptr til skipa sinna ok siglir til Túnsbergs. Þat var um Maríumessu síðari. Sverrir konungr settist um bergit ok bannaði Böglum af at ganga; hann setti fyrir austan tjaldbúðir sínar bergit millum bœjarins ok norðrsjóvarins. Hann lét skera díki fyrir utan herbúðirnar alt norðan frá váginum ok suðr til Skeljasteinssunds, settu þar kraka alt fyrir innan díkit. Konungr lét upp setja skip sín ok um búa; hann skipti liðinu í umsátir, váru gestir norðr við götuna, er ofan liggr or Fróðási, var Pétr steypir fyrir þeim. Tóku þeir hús í bœnum ok fluttu upp þannug, ok er þat síðan kallat Gestabakki. Konungr svaf optast í bœnum, ok þar mart hans manna með honum.

*Sverrir konungr sat um bergit.*

190 (172). Sverrir konungr skipar nú sínum mönnum til atsóknar at berginu. Ferr konungsmerkit upp sunnan í kleifina, en gestir sóttu at hinum nyrðra kastalanum. En er Birkibeinar sóttu upp at berginu, þá báru Baglar á þá bæði skot ok grjót svá stórt, at ekki hélzt við, meiddust fyrir bæði skildir ok stálhúfur. Hrukku Birkibeinar ofan í kleifina sárir ok barðir. Sá þá konungrinn, at þar var svá mikill vígismunr, at þar mundi ekki þannin

mega vinna bergit. Baglar váru kátir ok stórorðir. Konungr sendi sína menn alt í heruð at flytja til sín leiðangra ok vistir, ok greiddist þat alt vel, meðan Birkibeinum var hœgt at fara á skipum fyrir ísum.

*Ráðagerð Sverris konungs.*

191 (172). Þat þótti konungi mein mikit, er hann vissi eigi umbúnað þeira á berginu. Hann gerði þat ráð, at teknir váru allir kirkjustigar í bœnum, ok bundinn hverr við annan ok settir sunnan við stöpulinn í Lafranzkirkju; fór maðr þar upp eptir ok á ráfit, þat er frá vissi berginu, ok spenti höndunum um knappinn, ok sá hann þá öll tíðindi á bergit. Baglar sá hann, ok þá skaut Hreiðarr at honum, ok hina fyrsta ör setti hann í knappinn, ok þegar aðra milli handa honum, í því er hann lét laust, en ráfit hlífði honum við fleirum örum. Fór hann þá ofan ok sagði konungi þat, sem hann hafði sét. Baglar höfðu dregit skútur nökkurar upp á bergit; skamt niðr frá hinum nyrðra kastalanum var brunnr þeira, ok höfðu þeir hvelft yfir skútu nökkurri, svá at þeir máttu ganga til af berginu. Kastalarnir váru svá gervir, at stafir fjórir stóðu upp ok syllr uppi á milli, ok þar arinn á, en niðri hurðir milli stafanna.

Þat var á einni nótt, at konungr gerði mann einn upp á bergit um haustit, ok var á niðamyrkr. Sá hét Sveinn munki, hann hafði með sér einn kaðal ok tvau spjót; ok er hann kom á bergit, bar hann kaðalinn um einn kastalastafinn, en öðrum enda kaðalsins fylgðu meir en hundrað manna. Sveinn laust á kaðalinn ok bendi þeim, at þá var annarr endir fastr. Hljópu þeir þá á kaðalinn ok drógu fast. Tók þá kastalinn at ríða; en Baglar, þeir er í váru, urðu mjök óttafullir. Í því brast kaðallinn í sundr. Sveinn munki fann austr á berginu tvá varðmenn, ok sváfu báðir, setti hann spjótit í gegnum annan, en annarr hljóp upp, lagði Sveinn þann standanda ok drap báða, fór síðan aptr til sinna manna.

*Frá Sverri.*

192 (172). Sverrir konungr lét gera flaka af viðum ok undir digra stafi, ok lét þat bera undir bergit. Var því úhœgt við at koma, varð þeim þat ok at engu ráði. Jafnan géngu Birkibeinar í skotmál við Bagla, ok skutust þeir á jafnan, ok veitti Böglum jafnan betr.

*Frá Inga ok Böglum.*

193 (173). Ingi höfðingi Bagla ok Sigurðr jarlsson, Árni byskupsfrændi ok margir aðrir sveitarhöfðingjar váru á Upplöndum ok stundum í Víkinni. Höfðu þeir Hreiðarr þat við mælzt, at hvárir skyldi öðrum at liði koma. En við umsátir þær sem Birkibeinar höfðu, þá þótti Hreiðari sein liðveizla af sínum mönnum, en þóttist sitja í miklum háska, ok gerði þat ráð at senda menn til þeira Inga, ok með þessu tilstilli, at á einni nótt tóku þeir skútu eina litla, er átta menn reru á borð, ok drógu vestr á bergit, lögðu í árar ok báru festar á, höfðu til vægr ok vágu fram af berginu, ok géngu þar á menn tíu, Þorðr dokka var fyrir þeim, létu síga í reipum skútuna ofan á sjó. Var þat þó hætting mikil, þvíat Birkibeinar lágu á skipum fyrir berginu ok héldu þar vörð hverja nótt. Baglar ljósta í árum ok róa inn drífanda um sundin hjá þeim, hljópu á land fyrir innan Smjörberg. Birkibeinar reru eptir þeim ok féngu skútuna tóma. Baglar fóru til þess, er þeir fundu Inga ok Sigurð ok sögðu þeim orðsending Hreiðars. Baglar þóttust þat eina spyrja til Sverris konungs, at þá langaði ekki til móts við Birkibeina, sögðu hann mundu frá hverfa, þegar er snjófa tœki ok frysta.

*Frá ribböldum.*

194 (173, 174). Sverrir konungr varð þessa víss um myrgininn eptir, sem Baglar höfðu hlaupit af berginu. Hann mælti: Svá leitt sem yðr er nú orðit at sitja um bergit, þá er hinum þó miklu leiðara þar at vera.

Jón Englakonungr hafði áðr um sumarit sent Sverri konungi tvau hundruð hermanna, þeira er ribbaldar váru kallaðir, þeir váru skjótir á fœti sem dýr ok váru bogmenn miklir ok spörðu eigi ilt at gera. Konungr gerði þá á Upplönd ok setti þann mann til höfðingja, er Híði hét ok var bróðir Sigurðar skjálga. Ribbaldar kómu ofan í Haddingjadal ok fóru hit efra um Sóknadal ok ofan á Þelamörk, en hvar sem þeir kómu, drápu þeir menn alla, unga ok gamla, konur sem karla, ok búfé alt; þeir drápu ok hunda ok köttu ok alt, þat er kvikt var fyrir þeim; þeir brendu ok bygðir allar, þar sem þeir fóru. En ef menn fóru at þeim, þá hljópu þeir á fjöll eða eyðimerkr, enda kómu þá þar fram, sem sízt varði. Þeir kómu til Sverris konungs, þá er hann sat um bergit, ok géngu opt djarfliga til móts við Bagla, ok skutu hvárir at öðrum. Einn dag lustu Baglar einn ribbalda með öru, svá at hann fékk bana af. Ribbaldar skræktu hátt, er þeir sá þetta, hljópu stundum til, stundum frá, ok skutu at Böglum, ok litlu síðar skaut einn þeira Víking nefju í hóstinn til bana, hann hafði verit hinn mesti hermaðr.

*Ráðagerð Sverris konungs.*

195 (175). Böglum þykkir nú seinkast liðveizlan þeira Inga ok Sigurðar, ok er Sverrir konungr verðr þess varr, þá mælti konungr við sína menn: Nú skulum vér gera einn prett við þá í nótt; nú skulu várir menn fara í nótt upp um Fróðaás með miklu liði ok gæta, at hvárigir verði varir við Baglar né bœjarmenn; en þeir Birkibeinar sem eptir væri, skyldu hlýða til, er konungr léti blása, ok hlaupa til vápna; síðan skulu hvárirtveggju fylkja liðinu ok láta, sem þeir berist, ok þyrmit þó raunar, sem skylt er; en þeir er or bœnum koma at, skulu falla fyrir hinum, er til sœkja, ok gerit mikinn ysinn, ok at lyktum snúizt þér allir á flótta. Þá munda ek eigi vita, nema Baglar géngi af berginu. En ef þat væri, þá skulu vér leyna

liði váru sumu sem næst berginu, ok mætti þeir koma milli húss ok bónda. Þessi ráðagerð fór fram.

*Frá þeim á berginu.*

196 (175). Um myrgininn er ljóst var orðit, sá varðmenn Bagla, at lið mikit fór ofan frá Fróðaási. Þeir sögðu þegar Hreiðari, at þar mundu fara þeira menn. Stóð Hreiðarr upp ok bað menn væpnast, ok géngu norðr til kastala. Þá sá þeir merki í hvárutveggja liðinu, því er ofan fór or Fróðaási, ok svá því, er or bœnum kom, ok svá heyrðu þeir lúðra ganga, ok því næst féllu Birkibeinar, en sumir flýðu. Þá vildu Baglar af berginu ok veita sínum mönnum, ok láta Birkibeina eigi komast inn aptr yfir díkit. Hreiðarr mælti: Sjám vér fyrst, hvernin þeir skiptast við; ef Birkibeinar rekast fram at díkinu, þá mun þeim seint verða at klífa upp á krakana, ok munu þá várir menn drepa af þeim slíkt, er þeir vilja. En undarliga ferr flótti þessi, mér sýnist, sem þetta sé leikr nökkurr; sé þér, at þeir leita sér fallstaða, þar sem þurt er undir, ella ofan á skjöldu sína, eða sjái þér nökkur blóðug vápn þeira eða klæði? Mun þetta vera prettr Sverris. Ok er konungr sá, at Baglar vöruðust þetta, sneri hann aptr til herbúða sinna, ok allir hans menn.

*Um harðrétti.*

197 (176). Nú líðr á vetrinn, lagði nú á frost ok ísa. Gerðist Birkibeinum þá verra at sópast at vistunum, gerðist þá kurr mikill í liðinu, vildu þá gjarna heim leiðangrsmenninir. Konungr hafði þá húsþing, hann mælti svá: Þat heyri ek nú af mínum mönnum, at þessi seta þykki mjök úsynju, ok nú væri gott heima. Úhermannligt mál at kurra slíkt at konungi sínum, þótt þér þenit eigi svá vömbina sem verkmenn við þúst. Úlikir eru þér þeim, er í forneskju eru sögur af gervar, er veittu umsátir svá þrátt at eyða fjándmönnum sínum, ok svá

mikinn hug lögðu þeir á, at fúnuðu af þeim klæðin, en þeir átu skálpana af sverðum sínum ok yfirleðr af skóm sínum, ok léttu aldri fyrr en þeir sigruðust. En þótt ek taka þessi dœmi, þá eigum mér skemra til at seilast, meira þrályndi sýna Baglar á berginu, er þeir gefast eigi upp. Nú látit mik eigi lengr heyra þenna kurr, þvíat hér skal nú sitja, hvárt er yðr þykkir ljúft eða leitt, bjúgt eða bratt, þar til er vér höfum vald yfir Böglum.

*Brögð þeira Bagla á berginu.*

198 (176, 177). Nú minkaðist mjök vist á berginu, sá Hreiðarr, at nú mundi verða at leita í nökkurra bragða, þvíat þeim kómu engi andsvör frá Böglum, nema þat er Birkibeinar sögðu þeim hvern dag, at Ingi konungr þeira mundi brátt koma við allmiklu liði at frelsa þá. En Böglum þótti þetta vera spottr einn, sem var. Þá lét Hreiðarr gera bréf til Inga ok Sigurðar, ok var þat sagt á, at þeir mundu haldast á berginu ok þó með hörðum kosti til Nikulásmessu, ok beðit með fögrum orðum, at þeir mundu til koma at hjálpa þeim. Eptir um nóttina gerði Hreiðarr einn mann með þessum bréfum norðr af berginu. Hann hafði tvau skíð, hann skreiddist fram með landinu um díkit. Urðu Birkibeinar eigi fyrr varir við, en þessi maðr var allr á brautu; fór hann leið sína ok kom til Inga með bréfum í Hamarkaupangi. Ingi átti stefnu við sveitarhöfðingja ok lét bréfit upp lesa. Sigurðr jarlsson svaraði svá: Vér höfum nú vafizt í flokkum um hríð, ok nú munum vér eigi rasa í helina opna, þó at Hreiðarr vili þat. Munum vér gera annat ráð, förum vér norðr í fjörðu ok fám oss skip, ok mun Sverrir konungr þat til vár spyrja, at honum mun þykkja þat meiri þörf at verja þar landit, en sitja þar um fá menn á berginu. Þetta lézt öllum þykkja höfuðráð.

*Frá Jóni ok Böglum.*

199 (177, 178). Baglar snerust þá til ferðar norðr í Dala ok kómu ofan í Raumsdal, ok fá sér þar skútur

ok rekast suðr með landi. En er þeir koma suðr fyrir Sognsæ, víkja þeir þar inn ok tóku mikinn andróða. Þeir kómu um nóttina inn í Vík ok tóku skútu undan Jóni stál, ok alt þat er á var; hann komst á land upp ok í skóg ok allir hans menn. Um daginn eptir fóru Baglar til Hofs 50 manna. Þat sá Jón stál, hann var uppi í fjallinu við átjánda mann. Jón hljóp heim á bœinn, en Baglar tóku undan, Jón fylgði þeim ofan til Aldinhaga ok drap þar einn mann. Annan dag snerist Jón suðr til Björgynjar á ferð hit efra. Hann fann í borginni Einar konungsmág ok Dagfinn, réðu þeir þá til skipa ok fara norðr til Sogns. Baglar höfðu þá sezt inn í Lúsakaupangi ok átt þar þing við Sygni. Var þar Ingi til konungs tekinn, Gunnþjófr hét búandi, sá er honum gaf konungsnafn.

*Birkibeinar eltu Bagla.*

200 (178). Birkibeinar kómu um myrgininn snemma til Kaupangs ok lögðu við bryggjur, létu þá kveða við lúðra ok géngu upp alldjarfliga. Baglar sneru á flótta. Þar féllu nökkurir menn af þeim. Björn furulangr hét maðr, hann var umrenningr einn, hann hitti í selsætri einu í fjallinu Árna byskupsfrænda, hann var sárr mjök ok hafði eigi komizt lengra. Björn drap hann til klæða ok fjár ok myrði hann; fundust hræ hans um várit. Birkibeinar tóku skip þeira ok mikinn þora vápna ok alt fé þeira. Baglar heimtust saman inn í Lystr ok sneru þar yfir fjallit ok ofan í Árdal. Þá spurði Jón stál til þeira ok fór inn at þeim. Baglar váru þá komnir upp um vatnit, ok um myrgininn eptir sneru þeir á fjallit upp á Valdres ok þaðan til Upplanda.

*Sverrir sat um bergit.*

201 (179). Sverrir konungr sitr um bergit, ok er nú liðin sú stund, er Hreiðarr hafði á kveðit á bréfum, at hann mundi haldast á berginu. Gerðist þá nú svá

hörð reiðan þeira á berginu, at þá var ekki annat til matarins, en þeir hjoggu svarðreiða sinn ok bjoggu þat til matar, ok var um þvílíkt at véla til jólavistar, ok þó eigi hálfœrit.

*Beglingar gáfu upp bergit.*

202 (179). Á ofanverðum jólum á einni nótt hljóp Hallvarðr bratti af berginu með annan mann, ok kómust þeir á fund konungs, ok gaf hann þeim grið. Birkibeinar urðu þessa vísir um myrgininn, ok þótti þeim allþungt, er Baglar höfðu fengit grið. Baglar urðu þessa vísir, ok þótti þeim þá nökkur ván sér griða. Hljópu þá margir af berginu til konungs, ok féngu allir grið. Konungr varð þá víss hins sanna, at Baglar höfðu þá enga lífsván á berginu, ok þeir váru þá allir at þrotum komnir af matleysi; hafði þá ok Hreiðarr látit segja konungi, at annan dag eptir mundi hann ganga af berginu, ok þola heldr dauða af vápnum en af sulti, en þiggja grið, ef þeira væri kostr, sér ok öllum félögum sínum. Sverrir konungr lét þá blása til húsþings; hann talaði ok mælti svá: Ek vil nú leita ráða af yðr, hvernin skipa skal við Hreiðar ok hans menn, ef vér fám vald yfir þeim; ok ef svá verðr. þá munu því allir fegnir verða várir menn, at slíti þessa þrásetu, ok þeir fegnastir, er verst létu í haust, er eigi skyldu þá í brott hverfa; eða skulum vér nökkurum mönnum grið gefa eða engum? Þá svara margir: Svá lízt oss, sem þeir einir muni hér saman komnir á berginu, er flest ilt hafa gert, mun oss sá þykkja hinn harðasti kostr, at hafa soltit í vetr fyrir þeira skyld, ok haft marga vásbúð, en nú skyli vér hér taka föðurbana vára eða bróður ok gefa grið ok skipa síðan í hálfrými með oss. Konungr mælti: Séð, góðir menn, hverr yðarr er sá, er mér þykkist ofstórr ok eigi vill þola at jafnast við mik; minnizt á, hvárt nökkurum mun þat vera brigzlat síðan, at hafa hér minn dóm.

Hér í Túnsbergi feldu Baglar Híða bróður minn, en í Osló Filippus jarl frænda minn ok marga aðra; í vetr munu þér heyrt hafa, at þeir hafa kallat Sverri bikkju ok mörgum öðrum illum nöfnum. Nú vil ek þat alt fyrirgefa þeim fyrir guðs sakir, ok vænta þar á mót af honum fyrirgefningar þess, er ek hefi mót honum gert; eigu þér ok eigi síðr sál en ek, ok skulu þér þess minnast; ok engi maðr mun yðr kalla fyrir þetta bleyðimenn. Jáðu nú allir þessu, at konungr réði. Lét þá konungr gera orð til Hreiðars, at þeir skyldu allir grið hafa; géngu þeir Hreiðarr þá af berginu um myrgininn eptir at dagverðarmáli allir.

*Baglar svörðu eiða Sverri konungi.*

203 (179). Sverrir konungr lét leiða þá fyrir sik, svörðu þeir honum allir eiða. Síðan lét hann skipta þeim í sveitir, tók hann Hreiðar í sína sveit; hann bað menn mikinn hug á leggja at nœra þá, en svá var gert; bað hann þá ok fyrst taka varliga mat ok drykk, en þeir gerðu þat allmisjafnt. En svá nær váru þeir komnir dauða, at allir féngu sjúkleik, ok margir önduðust; margir krömdust lengi, þeir er lifðu. Hreiðarr var lengi sjúkr, ok lagði konungr þar til mörg lækningarbrögð. Konungr sat um Túnsberg 20 vikur; en litlu síðarr bjóst hann á braut, en bergit var unnit.

*Um krankleik Sverris konungs.*

204 (180). Konungr tók sjúkleik þar í Túnsbergi, ok fór sú sótt ekki œst. Konungr fór norðr til Björgynjar ok kom þar á föstu; hann lá lengstum um daga aptr á skipi sínu uppi í lyptingunni. Hreiðarr lá þá ok, var honum rúm gert við lyptingina á hásætiskistunni; lét konungr veita honum alla athjúkan sem sér, ok talaði við hann jafnan, þvíat Hreiðarr var vitr maðr. Sverrir konungr fór upp til borgar í Björgyn, ok var í höllinni;

var honum þar veittr umbúnaðr. Þat var þriðjadags myrgin í annarri viku langaföstu, at konungrinn hafði fengit sveita, ok þóttist þá verklauss; kómu þá til hans margir menn, en optast var fátt hjá honum. Ok er flestir menn váru braut gengnir, talaði við hann Pétr svarti; sagði konungr honum draum sinn: Maðr kom at mér, sagði hann, hinn sami er mér hefir opt sýnzt fyrr, ok aldri vilt borit fyrir mik; en ek þóttumst vita, at ek var sjúkr ok mjök máttfarinn; ek þóttumst spyrja, hvernin sú sótt mundi lúkast; en mér þótti hann þá þegar snúa braut frá mér, ok svaraði á þessa leið: Búst þú við upprisunni einni, Sverrir! sagði hann. Nú sýnist mér þessi draumr mjök tvíslœgr; en þó væntir mik nú eptir sveita þenna, at aðrahvára skipan taki brátt. Var ok svá, at honum tók þá at þyngjast, sem á leið daginn. Eptir um myrgininn lét konungr sœkja kennimenn ofan í bœinn, ok var þá búizt til at olia hann; lét hann þá upplesa bréf, þau er hann sendi Hákoni syni sínum um skipan ríkisins, ok lét þau bréf innsigla. Hann talaði þá ok fyrir öllum þeim, er hjá váru, ok sagði svá: At allra yðar vitni þá veit ek mik engan son eiga á lífi nema Hákon einn, þó at þeir menn komi síðar upp, er svá kallist, ok vili fyrir því gera úfrið í landi hér. Nú vil ek, áðr en ek sjá oliaðr, láta mik hefja upp í hásætit, ok vil ek þar annathvárt bíða bót eða bana; ok mun þetta annan veg fara eða til spyrja Nikulás Árnason, en hann mun vænta, ef ek öndumst hér í hásætinu, ok standa yfir mér vinir einir; en hann hefir sagt, at ek munda vera höggvinn niðr fyrir hund ok hrafn. En guð sé þess lofaðr, er hann hefir gætt mín í mörgum þrautum fyrir vápnum úvina minna. Var þá konunginum veitt olean, eptir þat minkaðist megn hans. Ok er hann fann, at nær dró at andláti hans, þá mælti hann: Við dauða minn látit bert andlit mitt ok látit þá sjá bæði vini ok úvini, hvárt þá birtist þat nökkut á líkama mínum, er

úvinir mínir hafa bannat mér eða bölvat; nú mun ek þá ekki mega því leyna, ef eigi eru betri efni í, en þeir hafa sagt. Hefi ek meira starf ok úfrið ok vandræði haft í ríkinu en hóglífi. Er svá at minni virðing, sem margir hafi verit öfundarmenn mínir, þeir er þat hafa látit ganga fyrir fullan fjándskap við mik, sem nú fyrirgefi guð þeim öllum; ok dœmi nú dróttinn minn vár í milli ok alt mitt mál.

*Andlát Sverris konungs.*

205 (181). Sverrir konungr andaðist laugardaginn í sæludögum, ok var um lík hans búit vegliga, sem ván var. Var svá gert, sem konungr hafði beðit, at berat var andlit hans; sá allir, þeir er hjá váru, ok báru síðan þar allir eitt vitni, at engi þœttist sét hafa fegra líkama dauðs manns en hans; var hann ok, meðan hann lifði, allra manna fegrstr á hörund. Sverrir konungr var maðr lágr á vöxt, þykkr, sterkr at afli, breiðleitr ok vel farit andlitinu; optast skapat skegg, rauðlituð augu, ok lágu fagrt ok fast. Hann var kyrrlátr ok hugaðsamr, manna var hann snjallastr, stórráðr, skýrt orðtakit, ok rómrinn svá mikill yfir málinu, þó at hann þœtti eigi hátt tala, þá skildu þó allir, þó at fjarri væri; hann var sœmiligr höfðingi, þar sem hann sat í hásæti með vegligum búnaði; hann var hár í setunni, en fótleggrinn skammr; aldregi drakk hann áfenginn drykk, svá at hann spilti viti sínu at heldr. Hann mataðist jafnan einmælt; hann var djarfr ok frœkn, eljunarmaðr mikill við vás ok vökur.

*Um gröpt Sverris konungs.*

206 (182). Lík Sverris konungs var borit ofan til Kristskirkju; var sú líkferð ger með mikilli prýði. Í Kristskirkju utar frá kóri ok innar frá suðrdyrunum var opnaðr steinveggrinn, ok lagt þar í lík konungsins, ok var síðan látinn aptr veggrinn, ok fest þar í tabula af

eiri, ok þar ritat á með gullstöfum vers nökkur. Þar var fest á utan pell eitt, ok þar hjá merki hans, skjöldr ok sverð ok stálhúfa. Sverrir konungr andaðist octava idus martii, anno ab incarnatione domini millesimo ducentesimo secundo, þá hafði hann konungr verit 25 vetr. Þá váru liðnir 18 vetr frá falli Magnús konungs Erlingssonar. Á sama ári andaðist Knútr Danakonungr, ok kom þar til ríkis Valdimarr bróðir hans. Þá andaðist ok Birgir jarl brosa, ok tóku þá Svíar til konungs Jón, son Sörkvis konungs, var hann þá vetrgamall; höfðu þá Svíar konung bróklausan.

---

# SAGA HAKONAR SVERRISSONAR, GUTHORMS SIGURDARSONAR OK INGA BARDARSONAR.

*Upphaf Hákonar Sverrissonar, er hann var til konungs tekinn.*

Þat sama sumar er Sverrir konungr andaðist um várit, var Hákon son hans til konungs tekinn norðr í Þrándheimi á Eyraþingi; hurfu at því ráði allir höfðingjar, þeir sem áðr höfðu þjónat Sverri konungi föður hans. Litlu áðr hafði andazt Sigurðr lávarðr son Sverris konungs, hann átti son eptir, er Guthormr hét. En er Ingi konungr spurði, at Sverrir konungr var braut farinn or Víkinni, er hann hafði setit um bergit, sem fyrr er ritat, fór hann út í Víkina, ok dvaldist þar til þess er hann spurði andlát Sverris konungs. Réðu Baglar þá enn til skipa ok féngu enn lið mikit, þeir ætluðu þá enn norðr til Björgynjar. En er þangat kom fréttin, var þar fyrir Sigurðr konungsfrændi; ok er hann spurði til Bagla, fór hann móti þeim með miklu liði. Hann fann Bagla suðr á Jaðri, ok elti þá þar upp af skipum, ok tók öll skip þeira ok fé þat alt er þeir höfðu; en Ingi flýði til Víkr austr ok þaðan til Upplanda, ok lá um sumarit uppi í Mjörs; þá var hann svikinn af mönnum sínum sjálfs. Gunnarr lest hét maðr, hann hafði Ingi áðr settan næstan sér ok gert marga hluti vel til hans. Ingi var drepinn af bóndum í Eynni helgu í Mjörs; eyddist þá allr flokkrinn,

ok stukku margir or landi, sumir suðr til Danmerkr, en sumir lengra á braut. Margrét dróttning, er átt hafði Sverrir konungr, fór eptir andlát hans austr í Gautland, ok hafði með sér Kristínu dóttur þeira Sverris konungs, ok margar gersimar er konungr hafði átt. Þetta sama vár fór Hákon konungr austr til Víkr, ok sat þar um sumarit lengi; hann sendi orð byskupum öllum, þeim sem verit höfðu í missætti við Sverri konung, at þeir kœmi á hans fund ok gerði sætt við hann, eptir því sem Sverrir konungr hafði ráð til gefit, áðr hann létist. Hann sendi ok orð eptir Kristínu systir sinni, ok tóku hana af nauðigri dróttninginni. Byskupar fóru heim til stóla sinna um sumarit ok gerðust ástvinir konungs. Hákon konungr fór um haustit til Björgynjar ok sat þar um vetrinn, var hann orðinn allvinsæll. Þat haust kom utan af Íslandi Guðmundr Arason, ok var kosinn til byskups yfir Norðlendinga fjórðung, tók konungr allvel við honum. Var byskupsefni með honum um hríð, var hann hinn mesti vin konungs jafnan síðan. Einarr prestr átti systur Hákonar konungs, aðra dóttur Sverris konungs, ok hafði sýslu suðr á Rogalandi, hann var hinn mesti höfðingi, hann var allkærr Hákoni konungi. Margir aðrir váru þá höfðingjar með Birkibeinum: Hákon galinn, Pétr steypir, Sigurðr konungsfrændi, Hróarr konungsfrændi, Eyvindr prestsmágr, ok margir aðrir ágætir menn bæði at ættum ok mannvirðingu.

### *Frá Erlingi steinvegg.*

2. Maðr hét Erlingr steinveggr, er kallaðr var son Magnús konungs Erlingssonar, hann var í gæzlu á Vindlandi ok haldinn þar í turn einum. Margrét hét kona vindversk, hon kom honum þaðan með þeim hætti, at þau ristu í sundr klæði sín ok lögðu í streng, fór hann út um glugg einn ok ofan fyrir steinvegginn með festinni, en festrin vannst eigi til jarðar, ok féll hann

þá ok lamdist mjöðmin; en með því at nótt var myrk, þá komst hann á braut, ok kom fram í Danmörk; síðan var hann kallaðr Erlingr steinveggr. Sumar þat er Hákon konungr var í Víkinni, kom Erlingr steinveggr á Skáneyri, ok birti fyrir Norðmönnum ætt sína; buðust honum þar menn til fylgðar, en hann kvezt eigi vildu reisa flokk á móti Hákoni konungi eða gera úróa í landi, meðan hann væri konungr yfir Noregi. Fór Erlingr þá til Kaupmannahafnar ok var þar um vetrinn.

*Andlát Hákonar konungs Sverrissonar.*

3. Hákon konungr fór um haustit til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn, en um sumarit fór hann til Víkr austr, en fór aptr til Björgynjar um haustit, ok efnaði þar til vetrsetu. Þat haust kom Erlingr á Skáneyri, ok þá kom Margrét dróttning austan af Gautlandi til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn, ok lagðist heldr þungt á með þeim Hákoni konungi. Um vetrinn á jólum fékk Hákon konungr sótt, ok tók þegar svá hart, at hann fékk eigi stýrt sér, lét hann þá fœra sik upp til borgar, ok lá þar litla stund, áðr hann andaðist; þat var hinn átta dag jóla. Hann var jarðaðr í Kristskirkju, ok stóðu menn mjök hryggvir yfir grefti hans, þvíat hann var manna vinsælastr; léttlátr var hann ok lítillátr, hirðprúðr ok háttagóðr, hraustr ok sigrsæll í mannraunum, sem fyrr er ritat, at hann þótti jafnan vera traust Birkibeinum. Þat var kent Margrétu dróttningu, at hon hefði ráðit mann til at svíkja konunginn í drykk; þann mann tóku Birkibeinar ok höfðu þessi kensl á honum, en hann setti þar syn fyrir ok bauð skírslur, ok kom því svá, at hann fastaði til járns, ok bar járnit allsköruliga, en er höndin var leyst, þa var hon mjök brunnin; eptir þat var hann fluttr út fyrir Björgynjarvág ok drekt þar.

*Guthormr til konungs tekinn Sigurðarson.*

4. Þat sama vár tóku Birkibeinar sér konung, Guthorm son Sigurðar lávarðar, hann var þá barn at aldri; en fyrir flokkinn bundust Hákon galinn systurson Sverris konungs ok Pétr steypir annarr systurson Sverris konungs, hann átti þá Ingibjörgu dóttur Magnús konungs. Þessir váru ok með flokkinum, Sigurðr konungsfrændi, Eyvindr prestsmágr, Einarr konungsmágr, Hróarr konungsfrændi ok mart annarra göfugra manna. En er þetta spurðu þeir menn, er verit höfðu fyrrum með Böglum, þótti þeim sér ekki mjök friðvænt með Birkibeinum, ok fóru or landi til Danmerkr. Þorleifr skálpr ok þeir synir Önundar hlyns, Oddr tanr ok Arnbjörn tröll kómu til Erlings steinveggs í Kaupmannahöfn. Þá hófst þar flokkrinn; dreif þar mart manna til þeira, er áðr höfðu verit með Böglum. Þeir sendu þá boð norðr í Víkina til vina sinna ok stefndu þeim til Álaborgar um föstu. Þar kom þá af Noregi Hreiðarr sendimaðr, Sölvi Dísarson, Philippus af Veigini, þeir höfðu þá mikinn skútnaher. En er þeir kómu í Víkina, þá gékk alt fólk undir þá, ok fóru svá austan til Oslóar; þar var þá fyrir Nikulás byskup. Þá bað Erlingr byskup gera sér skírslur til faðernis, en byskup vildi þat eigi, ok bað hann bera járn í Borg; fór þá Erlingr til Borgar, ok fastaði þar. Kom þar þá Nikulás byskup, ok er Erlingr skyldi taka undir járnit, þá sagði byskup hann skyldu bera ekki járn: Farðu til Túnsbergs, ok ber þar járn, þvíat þar mun koma Danakonungr, ok skal hann sjá járnburðinn. Fór þá Erlingr til Túnsbergs, ok beið þar Danakonungs. Nikulás byskup ok Danakonungr höfðu þat ráð gert með sér, at hann skyldi fara til Noregs ok hafa með sér Philippus son Símunar Kárasonar, systurson Inga konungs Haraldssonar ok frænda Nikulás byskups. Þat var um várit fyrir Bótólfsvöku, er Valdimarr Danakonungr kom til Túnsbergs, ok hafði meir en þrjú hundruð skipa, ok fór allspakliga. Þá fastaði

Erlingr til járns annat sinn, ok bar járnit vel ok sköruliga; sá þá skírslu byskup ok konungr, en er höndina skyldi leysa, þá setti Danakonungr menn vápnaða umhverfis kirkjuna, ok ef Erlingr yrði eigi skírr, þá var auðsær hans kostr. Var hann í boði Danakonungs um daginn; konungr gaf honum hálfan fjórða tug skipa með öllum reiða. Eptir um myrgininn var blásit til húsþings. En áðr þingit væri, hafði Nikulás byskup því til leiðar komit af fulltingi vina sinna ok sjálfs síns framkvæmð, at Philippus frændi hans var tekinn til jarls; hét byskup því, at hann skyldi veita þeim með allan sinn styrk; var þá Erlingr til konungs tekinn. Fór þá Danakonungr suðr til Danmerkr. Þá gékk til handa Erlingi Arnbjörn, son Jóns Gautssonar, ok Helgi Birgisson, Ásbjörn koppr, Gyrðr Benteinsson, Guthormr þvari, Ormr langi, Þórðr dokka, Benedikt af Gumanesi, Símun kýr, Kolbjörn rauði, Gyrðr skjálgi, ok höfðu allmikit lið. Á bak Jónsvöku höfðu þeir Borgarþing; var þar Erlingr til konungs tekinn, en Philippus til jarls. Birkibeinar stukku allir or Víkinni, ok fóru norðr til Þrándheims, en sumir til Björgynjar. Þetta sumar andaðist Guthormr konungr þar í Þrándheimi. Birkibeinar stefndu þá Eyraþing, var þar þá Þórir erkibyskup ok allr fjöldi hinna vitrustu manna í Þrœndalögum; var þar þá rœtt um konungstekju. Hákon galinn hafði þá fengit frú Kristínar, en erkibyskup hafði talit at því; vildu flestir bœndr taka hann til konungs, en erkibyskup mælti á móti; var þá tilnefndr Sigurðr konungsfrændi, dótturson Sigurðar konungs Haraldssonar, ok Pétr steypir, systurson Sverris konungs. Ingi hét son Ceciliu konungsdóttur, bróðir Hákonar galins ok son Bárðar Guthormssonar, hann var þar þá í kaupangi; en fyrir því at hann var þrœnzkr at ætt, þá vildi alþýðan hann til konungs; var ok þat erkibyskups vili; hafði ok Ingi áðr verit með honum. Var þá Ingi til konungs tekinn, en fyrir því at hann var œskumaðr ok ekki reyndr í

herstjórn, en var vandi mikill fyrir at sjá, þá var þat ráð liðsmanna, at Ingi gæfi Hákoni jarls nafn, ok svá var gert. Eptir Ólafsvöku fór Erlingr or Túnsbergi með öllum her sínum, ok sneri norðr með landi, ok höfðu hálfan fjórða tug skipa; tóku leiðangra ok allar konungs skyldir, fóru heldr tómliga. En er þeir kómu til Björgynjar, þá váru í borginni Birkibeinar: Dagfinnr, Þorgrímr af Ljánesi, Þórðr brasi ok nær tvau hundruð manna. Géngu Baglar upp í bœinn ok sóttu upp til borgar, ok skutust á um hríð, þá mælti Erlingr steinveggr við sína menn: Skjótit eigi á þá, þvíat þeir eru allir várir menn. Baglar sváfu jafnan á skipum um nætr, sumir við akkeri, en sumir yfir við Munkabryggju, en váru jafnan í bœnum um daga; þeir fóru jafnan upp til borgar, ok skutu hvárir á aðra, urðu margir menn sárir, en fáir féllu. Einn dag reru þeir Erlingr konungr á nökkurum skútum at Hólmi, ok lendu við Byskupsbryggjur ok géngu upp til Kristskirkju. En er þat sá Birkibeinar, géngu þeir á mót þeim ok veittu þeim svá harða árás, at Baglar hrökkva undan; hljóp Erlingr á kaf ok sumt liðit, en sumt féll, sumir náðu skipum. Ok er þeir náðu skipunum, spurðu þeir Erling, hvárt þeir væri enn þeira menn? Konungr sagði, at svá var. Litlu síðarr fóru Baglar or bœnum ok norðr með landi, settu sýslumenn í heruð, ok fóru þá norðr í Rugsund, ok lágu þar nær þrjár vikur. Þá tók Nikulás byskup landskyldir sínar, ok þá kom at þeim leiðangr mikill; þá kom til þeira Loðinn búandi af Leykin ok Nikulás Bótólfsson ok Körlungr bróðir hans, Eindriði hegri, Kálfr af Hornyn. Þá spyrja þeir, at Birkibeinar hafa tekit sér konung ok jarl, ok búast nú norðan með her mikinn; snúa Baglar þá aptr til Björgynjar, ok lögðu skipum sínum inn í Laxaváginn. Byskup hafði þar suðrmann einn, er gera kunni möngu, ok kvezt hann þar hafa brotit með marga borg: ok ef eigi brýt ek þessa, sagði hann, leggit mik í slönguna ok slöngvit

mér at borginni. Þá váru fluttir til viðir til borgarinnar, ok tekit at búa mönguna, þetta var kallat mönguhaust. Þá kom sú njósn til bœjarins, at sén væri sigling Birkibeina norðan um Stafafjörð; var þá blásit til stýrimanna stefnu ok leitat eptir, hvat mönnum þœtti ráð til at taka. Konungr vildi, at þeir biði ok héldi orrostu við Birkibeina. Byskup svaraði: Ef þú vill, konungr, berjast hér við Birkibeina, þá muntu eigi þurfa at gera ráð fyrir þessum mönnum optar, er nú fylgja þér; er þat mitt ráð, at vér búimst sem skjótast ok setim upp segl vár, ok siglum í Vík austr; berjumst þar við Birkibeina, ef þeir sœkja þangat eptir. Var þat ráðs tekit; lét byskup þegar fara tjöld af skipi sínu, ok sneri út or váginum, ok síðan svá hverir sem búnir urðu; fóru bæði nætr ok daga, þar til er þeir kómu til Túnsbergs, fór þá byskup inn til Oslóar. Birkibeinar kómu til Björgynjar litlu síðar, en Baglar váru á brautu, dvöldust þeir í Björgyn um hríð, sneru síðan aptr norðr til Þrándheims, ok sátu þar um vetrinn, en Baglar í Víkinni; á Upplöndum váru hvárirtveggju.

*Um manntal.*

5. Á Upplöndum var af Birkibeinum Úlfr hani, Haraldr kesja, Guðleikr flotbytta, ok enn fleiri sveitarhöfðingjar; en af Böglum var Þóraldi Auguson, Guðleikr skreiðungr, en á Hringaríki Benedikt af Gumanesi; á Valdresi var Jón griðmaðr; þeir feldu um vetrinn Narfa spjót ok mart manna með honum, en sumir kómust undan. Um várit eptir páska sendi Erlingr frá sér skútur ok öll léttiskip, var þar fyrir Arnbjörn Jónsson, Nikulás Bótólfsson, Loðinn stallari, Gyrðr Benteinsson, Atli griðkona; þeir höfðu 18 skip ok ætluðu til Björgynjar, ok fóru skjótliga. En er þeir kómu til Fjölbyrju, spurðu þeir, at Einarr konungsmágr var með sveit manna í Stafangri ok hafði ekki spurt um þeira ferð; sneru

þeir þá þangat, ok sigldu um daginn fyrir Jaðar ok um miðs dags skeið til staðarins. En er Einarr fékk njósn af ferð þeira, var hann á sættarstefnu, ætlaði hann, at eigi mundi svá skjótt at bera; en er þeir Einarr sá skipin, þá hljópu þeir í Svithunskirkju ok upp í stöpulinn. Baglar brutu upp kirkjuna, ok buðu Einari grið; géngu þeir þá innar í kirkjuna, vann Einarr þá eið at Svithuns skríni, at vera aldri á mót Erlingi konungi. Eptir þat fóru þeir með hann út or kirkjunni, vildu þá höfðingjar halda grið við hann, en liðsmenn réðu ok drápu hann; fjórir menn aðrir váru drepnir í kirkjunni. Þar tóku Baglar leiðangr mikinn, er Einarr hafði saman dregit áðr um Rogaland; sneru Baglar þá aptr til Túnsbergs.

*Frá Birkibeinum ok Böglum.*

6. Birkibeinar buðu út leiðangri alt norðan or landi, ok fóru um várit suðr til Björgynjar ok höfðu allmikit lið; fóru síðan austr til Víkr. Pétr steypir tók sýslu, þá er Einarr hafði haft, ok setti þar í Ána systurson sinn ok Þorkel dreka, en Pétr fór austr með konungi. Baglar váru í Túnsbergi ok höfðu búit skip sín, ok ætluðu norðr í land; en er þeir spurðu til Birkibeina, þá vill Nikulás byskup, at þeir fari undan suðr til Danmerkr; ok var þat ráðs tekit; sigla suðr til Hallands, ok lágu í Visk um hríð. Birkibeinar kómu til Túnsbergs, ok áttu þar Haugaþing, var þar Ingi til konungs tekinn, en Hákon til jarls. Lögðu þeir þá undir sik Víkina, ok settu menn í sýslur, þá fóru þeir yfir til Borgar, ok áttu Borgarþing; var þar enn Ingi til konungs tekinn, en Hákon til jarls, fóru síðan aptr til Túnsbergs. En er Baglar spyrja þetta, þá fór Philippus jarl norðr í Víkina, ok með honum Arnbjörn, Philippus af Veigini, Hreiðarr, Nikulás Bótólfsson, Atli griðkona, Helgi görn; þeir höfðu 20 skip. Konungr var eptir við sumu liðinu. Nikulás byskup var farinn suðr til Kaupmannahafnar.

Baglar fóru norðr sem skjótast ok ætluðu at koma á úvart, en er þeir kómu í Hafsteinssund, kom þar kuggr einn eptir ok sigldi þegar fram or sundinu. Baglar brugðu þá við þegar, ok sá þá, at njósn mundi komin fyrir þá til Túnsbergs, sneru þeir þá aptr til Hafsteinssunda; fóru þeir þá öllu liðinu til Limafjarðar, ok váru þar lengi um sumarit í Álaborg. Þá kom þar Nikulás byskup; sigldu þeir þá norðr í Augusund frá Konungahellu, ok géngu þar á land, en sendu aptr skipin suðr til Hallands, ok þar með Loðin stallara, Arnbjörn tröll ok nær tvau hundruð manna, sigldu þeir suðr í Nizi, ok settu þar upp skipin, kom þar þá ok Nikulás byskup ok gékk þar af Bókaskreppunni; fór hann landveg austan í Víkina. Baglar fóru margir með honum, en sumir fluttust hit ytra á smáskútum; fundust þeir í Borg um haustit. Þeir fluttu skip sín alt upp í Mjörs, ok svá norðr á Heiðmörk; en er þeir kómu norðr at Hamrinum litla, var drepinn Oddr tanr; þat gerði Guðleikr flotbytta. Baglar fóru norðr til fjalls ok ofan í Uppdal ok svá til Orkadals, ok þaðan inn til kaupangs. Sumar sveitir Bagla fóru af Upplöndum, ok kómu ofan í Harðangr; váru þar þessir sveitarhöfðingjar: Sörkvir snápr, Símun uxi, Erlingr skamháls, Halli lauð, Ögmundr eikiland; þeir höfðu 30 manna. Þeir drápu Erling birkibein, ok þá drápu þeir Þorkel dreka við Ögvaldsnes við sex menn ok 20, fóru síðan aptr á Upplönd. En Baglar, þeir er kómu til kaupangs, féngu enga mótstöðu, ok dvöldust þar um hríð. Þá stefndu þeir Eyraþing, ok kom fátt manna til þeira, var þar Erlingr til konungs tekinn, en Philippus til jarls. Váru þá menn sendir í sýslur, ok fékkst lítit af fé or heruðum. En er Birkibeinar spurðu, at Baglar höfðu farit norðr um fjall, þá skipta þeir liðinu, fór Ingi konungr norðr með sumu liðinu, en Hákon jarl fór suðr með sumu til Hallands, ok kom at þeim, er skipanna gættu í Nizi; féll þar af Böglum nær 30 manna, en alt annat flýði á

land upp. Þar féll Arnbjörn tröll. Hákon jarl tók þar öll skip þeira ok svá Bókaskreppuna, er Nikulás byskup átti; þeir brendu sum, en sum höfðu þeir með sér; fóru þeir þá aptr í Víkina. Um haustit fór hann norðr til Björgynjar, en Ingi konungr fór norðr til Þrándheims. Baglar höfðu á njósn suðr á Mœri Ásbjörn kopp ok Þóralda skinhring með tveim skútum. Þeir sá, er Birkibeinar sigldu fyrir Stim, reru þeir þá norðr. Birkibeinar sá þá ok herðu eptir þeim ok eltu þá allan dag. Sumir reru inn til Þingvallar; þar var Guthormr þvari, hann hafði haft sýslu. Birkibeinar eltu þá þar upp, þar féll Guthormr við sínum mönnum. Síð um kveldit lögðu þeir at í Sólskel þeir Ásbjörn koppr. Birkibeinar kómu at þeim um nóttina ok eltu þá upp, ok gættu eyjarinnar; en um myrgininn rannsökuðu þeir eyna ok drápu flest alt manna. Ásbjörn komst undan við nökkura menn. Þá fóru Birkibeinar norðr ok tóku eina skútu af Böglum norðr við Agðanes, fóru þá inn til bœjar. Baglar fóru þegar or bœnum upp um brú, ok svá austr um Skáneyjafjall til Eystridala, ok léttu eigi fyrr, en þeir kómu til Oslóar, en sumir sátu í Eynni miklu. Ingi konungr var þann vetr í kaupangi, en Hákon jarl í Björgyn. Áðr um haustit er Baglar váru upp eltir í Nizi, þá fóru þeir sunnan um Halland allmœðiliga. Þeir kómu fram í Ljóðhúsum síðla kvelds. Þar váru fyrir á tveim skútum Birkibeinar; Hallvarðr hlíðarfaxi var fyrir þeim. Urðu þeir eigi fyrr varir við, en Baglar kómu at þeim ok drápu þá nær alla. Baglar tóku skipin ok reru upp eptir ánni alt til Naustdalsfors, settu þar upp skúturnar ok brendu, fóru síðan upp á Markir, ok svá norðr til Eiðaskógs til Upplanda; hittu konunginn í Mjörs. Hallvarðr hlíðarfaxi komst undan, þvíat hann hafði verit uppi í bœnum.

*Frá sýslumönnum.*

7. Þegar á bak jólum fóru sýslumenn í sýslur. Philippus af Veigini hafði Borgarsýslu; hann lét gera tvær

skútur, Ásbjörn koppr eina skútu, Þóraldi Auguson eina skútu, Ormr langi í Óðinsey eina skútu, Þorsteinn þjófr eina skútu, Jón dróttning tvær skútur við Elfi, Guðólfr á Blakkastöðum ok Gunnarr Ásuson tvær skútur, Hreiðarr eina skútu, Philippus jarl tvær skútur, Þórðr dokka eina skútu, Gunni langi tvær skútur í Skíðunni, Gyrðr eina skútu. Alls váru gervar tvær skútur ok 20. Þeir fóru suðr eptir Víkinni alt til Konungahellu, kómu þar nær miðföstu, snúa þá norðr til Túnsbergs. Þriðja dag í efstu viku spurðu Birkibeinar skipagerðina. Baglar fóru langafrjádag or bœnum, annan dag páska fóru þeir í Grindhólmasund, laugardaginn sigldu þeir í Portyrju, dróttinsdaginn í Esjuneseyjar. Var þá saman komit alt liðit; segir konungr, at hann vill þá norðr í land; þessi ætlun þótti mönnum misjöfn. Þriðja daginn fór konungr þaðan í Randarsund; en eptir lágu í Esjuneseyjum, ok vildu eigi fara, Ormr langi ok Ragnarr Gamalsson ok Gunnarr Ásuson, Benedikt af Gumanesi með fjórum skipum. Þá spurðu þeir, at Þorgils fuðendr hafði dregit saman leiðangr mikinn inn í Hvinisdal. Var þá siglt fyrir dag, ok kómu snemma norðr í Hítr; var Þorgils norðr farinn. Reru þeir þá norðr eptir þeim, en er þeir kómu at Foksteinum, þá sá þeir, hvar byrðingarnir fóru. En er byrðingsmenn sá skúturnar, sneru þeir inn Rekuvág ok hljópu þar upp, en Baglar tóku leiðangrinn ok fóru um kveldit í Eikundasund.

*Drepinn Jón dróttning.*

8. Þat vár þá er Baglar gerðu skúturnar, þá hafði Jón dróttning sýslu austr við Elfi. Fór hann við sveit mikla at veizlum, hann kom til þess búanda, er Þrándr hét, hann átti konu fríða. Jón kallaði þau á tal í lopt eitt, gékk húsfreyja fyrri, ok er hon kom í loptit, þá snerist hann við bónda ok hratt honum út, en lét aptr loptit. En er búandi taldi at þessu, þá hœtti Jón honum

sökum, ok lét taka hann ok binda við hrosshala, fluttu hann svá til skips. Hann leysti sik hálfri mörk gulls, ok varð því feginn. Sjau nóttum síðar þá Jón veizlu þar, sem heitir at Forsœlu, gékk hann upp til kirkju snemma einn myrgin, ok annarr maðr með honum. En Þrándr ok þeir átta saman lágu þar skamt frá ok sá til ferða hans; þá hljópu þeir til kirkjunnar. Jón hljóp innar í sönghúsit. Þrándr skaut spjóti at Jóni, hljóp Jón þá út um sönghúsit, en Þrándr eptir honum, ok feldu hann á akrinum, hjó Þrándr þá höfuð af honum. Jón var fluttr til Konungahellu ok jarðaðr þar at munklífi, en Þrándr fór síðan til Birkibeina. Gunnbjörn bróðir hans ok Sölvi Dísarson hefndu hans, ok drápu níu menn en fóthjoggu sjau.

*Frá Böglum.*

9. Þá er Baglar höfðu legit í Eikundasundi, þá sigla þeir þaðan fimtadaginn norðr fyrir Jaðar í Hvítingseyjar, ok svá norðr um Karmtsund, þaðan norðr í Siggjarvág, ok áttu þá stýrimannastefnu ok töluðu um, hvárt þeir skyldu snúa til Björgynjar eða norðr þaðan. Spurðu þeir þá, at Hákon jarl var í bœnum ok hafði ekki til þeira spurt; váru þess flestir fúsari. Hreiðarr mælti því á móti ok vildi heldr, at þeir héldi at konunginum, ok svá var gert. Lögðu þeir at um daginn í Skálavík. Þá gerðu þeir tvær skútur inn í Grafdal, ok tóku þeir þar mylnumenn tvá ok fluttu út til liðsins; sögðu þeir at jarli var komin njósn, ok allir bœjarmenn væri þar í viðrbúnaði í Kristskirkjugarði. Váru þá þegar dregin upp segl ok snúit út um Völunes ok svá fyrir utan Fenhring. Þrjá byrðinga hittu þeir í Víkingavági, váru þar á Birkibeinar, ok drápu þeir þar af nökkura menn, en sumir hljópu upp í eyna. Mánadag at kveldi lögðu þeir at í Skútusundi, géngu upp til bœjarins ok spurðu tíðinda, ok kváðust vera Birkibeinar. Búandi

sagði, at hann kvezt flutt hafa bréfamenn Inga konungs um daginn, ok sagði, hvar þeir mundu vera um nóttina. Baglar náðu bréfunum ok fluttu Erlingi konungi. Var þat þar á, at Hákon jarl sendi kveðju Inga konungi bróður sínum, ok bað hann varast, at Baglar váru sunnan á leið, ok veit ek eigi, segir hann, hvárt þeir snúa at yðr, þvíat þeir hafa lið lítit. Þriðjadaginn róa þeir norðr í Angrgerði; þá var andviðri, svá at byrðingar sigldu á mót þeim við tvau rif. Baglar spurðu, at leiðangr mikill var samandreginn í Borgund, ok þar var langskip gert. Miðvikudaginn réðu þeir til, ok rak aptr öll skipin, nema Philippus jarl á fjórum skútum, ok kómu um nóttina til Borgundar, ok drápu þar 18 menn, en tóku allan leiðangrinn ok brendu langskipin. Fimtadaginn reri konungr norðr í Yxney, ok lágu þar um nóttina. Spurðu þeir þá norðan or kaupangi, at Ingi konungr skyldi gipta Sigríði systur sína Þorgrími af Ljánesi, ok skyldi þá efla at brullaupinu frjádaginn, ok svá þat, at Birkibeinar höfðu gert langskip í Raumsdal. Þá sendu þeir þangat Philippus af Veigini ok Þorð dokku með tveim skútum. Frjádaginn reru þeir norðr í Lyngver. Þeir Philippus kómu um kveldit í Véeyjar ok lögðu í hinn ytra váginn; Birkibeinar áttu skútu í hinum iðra váginum. Féngu Baglar þar fátt af mönnum, en tóku þar leiðangr mikinn, en brendu skipin. Frjádaginn at kveldi rann á byrjargol. Drógu Baglar þá segl sín ok sigldu norðr um nóttina, ok er þeir kómu norðr í Sveggjaðarsund, hvesti veðrit, ok sviptu þá til eins rifs; lögðu at um daginn í Veðdey, ok mötuðust þar, ok gerðu ráð sín. Þá mælti Arnbjörn Jónsson ok svá Hreiðarr, at þat væri ráð at bíða liðsins, þvíat þeir Philippus váru eigi eptir komnir. Konungr svaraði: Betra þykki mér at hafa í nótt 14 skútur til bæjarins en hálfu fleiri á myrgin. Vinda þeir nú segl sín ok sigla norðr ok innan undir Agðanes um kveldit. Var þá skipat til atlögu. Þá

mælti Loðinn stallari: Veri menn nú öruggir! er vér komum í bœinn, skulum vér leggja utan at Eyrum; er nú betra at falla með drengskap, en rekast hér með landi lengr. Munu þeir hafa enga njósn af oss ok liggja fyrir dauðadruknir, sem líkligt er, at margr hafi eigi sparat at gera sik drukkinn af miði ok víni. Konungs sveit ok hans merki skal fara upp um vestra stræti, en jarl ok Arnbjörn um nyrðra stræti, en Arnþórr foka ok Símun uxi þeir skulu róa til árinnar ok gegna þeim, er á sund hlaupa. Var nú tekit til segla ok siglt inn eptir firði, svá sem vera vildi, var þá myrkt af nótt.

*Um bréfasending.*

10. Hákon jarl hafði látit gera þrenn bréf í Björgyn, ok eitt á öllum. Ein bréfin tóku Baglar, sem fyrr var ritat, en önnur kómu til konungs, hin þriðju urðu seinni. Laugardaginn at kveldi kómu bréfin til Inga konungs, ok las hann ok sýndi höfðingjum, ok réðu menn þat af at blása öllu liðinu um kveldit út til Gildaskála með vápnum. Ok er Þorgrímr vissi þat, þá bað hann konung, at eigi skyldi spilla veizlunni, sagðist hann mundu fá útvörðu um nóttina, en lézt ætla, at Baglar mundu eigi þora at halda til bœjarins, at slíku fjölmenni sem þar var fyrir. Liðit var mjök drukkit, varð skjótt af talit, at blása liðinu í samnaðinn. En þeir, er vörðrinn var boðinn, kölluðust ekki skyldir heldr vöku en aðrir menn, ok drukku sik úfœra; var engi vörðr greiddr. Konungr svaf í garði Sigurðar svardaga.

*Frá Böglum, bardagi í bœnum.*

11. Baglar sigldu inn eptir firði um nóttina, þeir lögðu seglin við Ílu. Kom þá drífuél mikit ok var allmyrkt; þat var hinn efra hlut nætr. Þá skildu þeir skipin. Reru þeir Arnþórr til árinnar; en er þeir kómu í ósinn, vildi Arnþórr eigi uppleggja, en Símun ok sum

sveitin vildu uppleggja; ok var þar búit við atgöngu, en þó réð Arnþórr. Annat liðit lendi utan at Eyrum, ok fóru svá upp í bœinn. Var þá blásinn herblástr. Alt var kyrt ok hljótt í bœnum. Fóru þeir þá upp um stræti með óp ok brak, ok brutu húsin; var þá ekki fallit mannanna. Þá svifu þeir út um aptr um akra fyrir utan bœinn, féllu þá við menninir, er á rás váru komnir. Fóru þá Baglar annat sinn utan um stræti, féll þá mart manna í þeiri svipan. Þórðr Finngeirsbróðir féll fyrir garði sínum. Þorgrímr af Ljánesi féll á efra stræti, ok þeir sex saman, en er Baglar hljópu fram yfir þá, þá komst Þorgrímr á braut ok allmjök sárr. Ingi konungr svaf hjá frillu sinni, ok fátt manna hjá honum. En er hit fyrsta kom herópit, þá vöktu konurnar hann, ok vaknaði hann alltrautt, ok mælti nær í úvitinu: Hvat, hvat? Herra, segja þær, úfriðr er kominn í bœinn! Þá hljóp hann upp ok til dyranna ok heyrði út brakit. Hljóp hann þá at húsamótinu, meðan Baglar fóru út um garðinn. En er kyrðist á strætinu, þá hljóp hann ofan á bryggjurnar ok út á ána. Þar lágu skip nökkur við akkeri, ok sveif honum þar at, ok tók um strenginn, ok réð um at fara upp í skipit; þá losnaði línbrók hans, ok sveif henni um strenginn. Maðr var á skipinu, ok mælti til hans: Halt eigi strenginum, maðr, far heldr leið þína! Konungr þagði við. Kaupmaðrinn tók upp fork einn ok skaut við honum, svá at þá varð konungrinn lauss við strenginn; tók konungrinn þá til sunds. Í þessu bruni hljóp fjöldi manns á ána, sumt fyrr en konungrinn, sumt síðar. Konungr komst yfir ána ok gékk upp í bakka einn; þá féll hann ok mátti eigi ganga lengra, leið þá bæði at kuldi ok mœði. Þá sá hann upp fara Ívar fljóðakoll, ok mælti til hans: Ívarr, segir hann, hjálp mér! Ívarr svaraði: Mér mun ek nú fyrst hjálpa, ok gékk á braut. Nökkuru síðar kómu menn upp af ánni, ok var þar fyrir Reiðúlfr Bárðarbróðir.

Hann gékk upp hjá konunginum ok mælti: Erut þér þar, herra? Hann svaraði: Svá kölluðut þér mik í gær. Reiðúlfr mælti: Svá ertu enn, ok svá skaltu, meðan við lifum báðir. Hann tók af sér höfnina ok sveipaði um konunginn, tók hann upp ok bar hann upp á völlinn. Þeir fluttust svá upp á Skúsás. Þar fékk konungrinn eyk ok sleða ok klæði, sem þeir þurftu, þvíat Reiðúlfr hafði áðr eigi fleiri en skyrtu ok hosur.

Sigvaldi karl ok þeir níu saman vörðust í lopti einu, ok féllu þar allir. Bergsveinn langi var feldr, merkismaðr Inga konungs, en er Baglar géngu frá honum, þá tóku konur nökkurar merkit af belti hans. Kolbeinn berir féll við Gregoriuskirkju, ok þeir sex saman; Eyvindr feykir féll á akrinum, ok þeir átta saman; Kolbeinn stránefr féll á strætinu nyrðra, ok þeir fim saman; Hallvarðr hlíðarfaxi féll við þriðja mann við Krosskirkju. Birkibeinar höfðu saman samnazt á akrinum 40 manna, var þar fyrir Sigurðr skjálgi, Örnólfr hœkill, Þorgils sokkr, Þorfinnr lúðrsveinn. Þeir feldu mann í geilunum af Böglum, er Styrr hét, annan á strætinu íslenzkan, er Kolskeggr hét. Þá hljópu Birkibeinar at garðshliðinu, var garðrinn fullr af Böglum. Guðólfr af Blakkastöðum snerist við Birkibeinum, ok skaut skildi fyrir sik, en lagði með sverði; kom lagit á Örnólf í ennit fyrir neðan stálhúfuna. Stukku Birkibeinar þá á braut, ok kómust flestir í Kristskirkju. Örnólfr hafði hlaupit á ána, ok fannst hann dauðr. Konur nökkurar sögðu Böglum, at Ingi konungr væri í Maríukirkju. Þá hljópu þeir til ok hjoggu sönghússyllrnar. Var þá upp látin kirkjan. Þar váru inni sýslumenn tveir, Ólafr af Ljáröndum ok Ívarr dýnulauss, ok þeir níu saman. Ólafr var skotinn í augat inn í kirkjuna, en allir váru drepnir. Í Andreskirkju var Bárðr stálpi, ok þeir fjórir; var Bárðr drepinn, ok varð við hinn hraustasti.

Dróttinsdaginn er ljóst var orðit, skiptu Baglar

bœnum með sér í fjóra staði ok svá liðinu til rannsóknar. Hafði konungr eina sveit, aðra Philippus jarl, Arnbjörn ok Guðólfr hina þriðju, Hreiðarr ok Philippus af Veigini hina fjórðu. Höfðu þeir Þórðr ok Philippus komit sunnan um myrgininn til bœjar. Var þá rannsakaðr allr bœrinn, fannst þá mart manna, ok váru nær allir drepnir; þar var ok tekit stórmikit fé. Annan dag vikunnar váru útsett skipin, þau er þeir vildu með sér hafa, hafði konungrinn Gullbringuna, en jarl Gestaskálpinn, Arnbjörn Darrhettuna, Hreiðarr Lyrtuna, Philippus Ógnarbrandinn. Þeir brendu Kláðann ok Elftrina ok enn hit þriðja. Baglar lágu hverja nótt út við Borg, en um daga bjoggu þeir skipin. Miðvikudaginn var borit hlutskipti út í Gildaskála, en fimtadaginn ok frjádaginn ok laugardaginn var skipt. Þar váru þrjú hundruð hringabrynja ok brynhosur at fornaði; í öllu var þar mikit fé, svá at engi hlaut minna fé en þrjár merkr eða fjórar.

*Frá Inga konungi.*

12. Ingi konungr fór á Strind ok hit efra til Gaulardals. Dreif þá lið til hans, þat er undan hafði komizt, ok svá bœndr; hafði hann þá meir en 20 hundruð manna. Fór hann þá til bœjarins. Annan dag vikunnar fóru Baglar út til Hólms, en þriðja daginn lögðu þeir út til Agðaness. Þeir höfðu haft lið or bœnum, alt þat er þeir féngu, ok fóru suðr með landi, var þá boðit út leiðangri, ok tóku hvern mann, er þeir féngu. Hákon jarl bjóst þegar sunnan, er hann frá tíðindin, ok fór norðr fyrir Staði, reri hann á sker ok braut skipit. Þar týndust 15 menn. Önnur skipin reru at ok tóku menn af kafi. En er jarl kom norðr fyrir Stim, sigldi hann þjóðleið. Þá lá við Markarhólminn Baglaherrinn; en er þeir sá siglingina, reru þeir norðr ok stefndu fyrir þá fyrir innan Langeyjarsund. Jarlinn lagði at í Sveggjaðarsundi; þá sá þeir skip Bagla, ok þóttust eigi lið til

hafa at berjast við þá, ok reru norðr á fjörðinn alt at Hamrasundi. En Baglar reru eptir þeim. Þá stefndu Birkibeinar út til Æðeyjar, gékk þá veðrit á vestr, kómu þeir þá seglum við, en Baglar sneru aptr. Fór jarl norðr, en Baglar suðr til Björgynjar. Þá sat í borginni Svertingr ok Þórðr brasi, Ívarr gusi, Eiríkr maxi. Baglar váru í bœnum um daga, en sváfu á skipum um nætr, ok höfðu allmikit lið. Ormr langi kom austan til Björgynjar með Margrétu konungsdóttur, konu Philippus af Veigini. Ok litlu síðar átti hann vörð ok sveitungar Benedikts af Gumanesi; hann var þá ok austan kominn. Þeir géngu upp á Bakka með sveitirnar, ok héldu þar vörðinn. En er borgarmenn sá þá, hlaupa þeir ofan á þá, en Baglar óku undan. Þar féll Ormr langi. Opt var þat á síðkveldum, at Baglar hljópu upp til borgar; váru þá sumir særðir, en sumir barðir eða drepnir.

*Frá Hákoni jarli.*

13. Hákon jarl bjóst norðan um vaknaskeið, en þá váru reist stórskip í kaupangi. Jarl fór, þegar hann var búinn, ok hafði fim langskip ok skútur 13. En er hann kom suðr um Stað í Hindeyjar, þá lét hann þar eptir öll stórskipin, en hafði með sér þat lið, er hraustast var. Andres dritljóð sendi hann aptr með stórskipunum til Þrándheims, en jarl fór suðr með skúturnar. Tvær skútur, er Baglar áttu, lágu í Mjaðmarsundi; þeim stýrðu þeir Marteinn soddi ok Kolbeinn smjörreðr. Þeir jarl reru norðan á Sognsjá, reru Baglar þá suðr. Birkibeinar reru eptir hart í Keilustraumi. Reri Kolbeinn upp á sker; tóku þeir jarl skútuna, ok drápu þá flesta; þeir Marteinn báru njósn til bœjarins. Jarl lagði at Háeynni, þeir reru um nóttina inn í Arnarfjörð, báru reiðann upp í skóg ok fálu; géngu síðan suðr yfir fjallit, ok kómu aðra nóttina til Björgynjar.

Baglar höfðu alt skipat fyrir sínum mönnum. Var

konungrinn uppi í Maríukirkjugarði. Uppi í Kopri váru gervir flakar, alt fyrir ofan þar sem misti húsanna; var þar lið mikit fyrir innan. Jarl ok Philippus af Veigini váru fyrir ofan Nikuláskirkju við mikla fylking. Um myrgininn töluðust þeir við, buðu Baglar Birkibeinum ofan at ganga; þeir sögðu á móti, at dögurðr þeira var í bœnum, ok þeir mundu ofan ganga. Baglar höfðu meir en 20 hundruð manna, ok allvel búit, en Birkibeinar sex hundruð manna. Þeir höfðu tvau merki, fór Pétr steypir með öðru, sneri hann hit efra móti jarlinum. Hákon jarl gékk hit efra at Kopri. Philippus jarl flýði þegar, er saman kom liðit, ofan í bœinn ok svá út eptir stræti. Þeir Hákon jarl brutu flakana; hrukku Baglar þá undan. Baglar höfðu tekit í kaupangi Þorfinn lúðrsvein ok lúðrinn Andvöku, er átt hafði Sverrir konungr. Erlingr konungr bað, at Þorfinnr lúðrsveinn skyldi blása, þegar er jarlinn géngi ofan. Þorfinnr kom engu hljóði í lúðrinn, ok komst ekki upp blástrinn. Birkibeinar sóttu nú ofan um garðana, varð þá ekki af viðrtökunni, flýði þá hverr um annan. En er Erlingr kom ofan at Maríukirkju, þá mælti við hann Þorfinnr lúðrsveinn: Herra, segir hann, hlaupum inn í kirkjuna! Konungr þagði, ok sneri eigi inn. Þorfinnr hljóp í kirkjuna, ok margir Birkibeinar. En er jarlinn kom ofan í garðinn, þá hljópu Birkibeinar út or kirkjunni til hans; blés Þorfinnr þá svá Andvöku, at gall við í hverjum steinvegg. Þá fór flóttinn ofan um Lafranzkirkju, varð þá þröng mikil um garðshliðit, ok lá þar hverr um þveran annan, gerðist þar valköstr mikill. Uppi við Lafranzkirkju féll Þórðr dokka ok Benedikt af Gumanesi, Gunni langi. Þá réðu Birkibeinar til at höggva valköstinn. Þá mælti einn maðr: Höggum eigi, sagði hann, várir menn eru. Nú létu þeir af at höggva. Baglar hljópu þá á fœtr, hverr sem mátti, ok komst þá mart undan, ok mart féll. Baglar hljópu þá á skipin, en Birkibeinar á bryggjurnar,

ok tóku festarnar ok drógu at sér skipin, en Baglar vörðust; létu þá hvárirtveggju ganga alt þat, er til vápna höfðu. Baglar hjoggu festarnar ok kómust með því út. Tóku þeir marga sína menn af sundi, ok lögðu þegar út á váginn, en sumir yfir til Munkabryggju ok tóku sína menn, er hlaupit höfðu or bœnum.

Reru Baglar þá norðr með landi ok inn í Arnarfjörð. En Birkibeinar, þeir er jarl hafði þar sett til geymslu, hljópu þegar upp í skóginn, er þeir sá sigling Bagla, tóku þeir skipin, ok fundu nær allan reiðann. Reru þeir þegar norðr um nóttina, var þar fyrir Philippus af Veigini. Birkibeinar, þeir er norðr skyldu hafa farit með stórskipin, nentu eigi at róa norðr fyrir Stað, ok lágu í Síld ok biðu byrjar, en höfðu sexæring einn á njósn suðr í Úlfasundum. En er þeir sá, at liðit fór sunnan, þá reru þeir norðr ok sögðu sínum mönnum, at 14 skútur reru sunnan, ok kendu, at jarlinn hafði þær suðr haft. Þeir reka af sér tjöldin ok róa inn á fjörðinn; sá þeir þá, at úfriðr var, ok róa inn til Moldafjarðar. Skúturnar sœkja nú fast eptir; en er Birkibeinar kómu at landi, hlaupa þeir upp, sumir hljópu á kaf. Bagla bar þá at. Þar féll Andres dritljóð ok nær tvau hundruð manna. Tóku Baglar skipin ok alt þat er á var, fékkst þar mikit hlutskipti. Fóru þá Baglar suðr aptr ok hittu konunginn í Víkingavági.

*Frá Hákoni jarli.*

14. Hákon jarl fór þegar or Björgyn, er hann spurði, at Baglar höfðu norðr snúit. Fór jarl upp um Borgarskarð, ok ofan í Ostrarfjörð, ok svá norðr um Rauðafjall, ok létti eigi fyrr, en hann kom norðr til Þrándheims, ok hitti þar Inga konung. Baglar fóru þá til Björgynjar, ok dvöldust þar um hríð. Baglar skiptu þá liðinu; fór Philippus austr með stórskipin, en konungrinn hafði tvítugsessur ok mörg hin smæri; fór hann norðr

til Stims ok lá í Frekeyjarsundi, ok sendi skútur norðr á Mœri, ok bauð út leiðangri at mönnum ok vistum, ok tók af liðinu slíkt, er honum sýndist. Tók hann þá landskyldir með endilöngu landi. Þá fór hann um Sauðungssund hin nyrðri, er kallat var at engum konungi hlýddi at fara. Fór hann þá til Túnsbergs, ok kom þar litlu fyrir jól, var þá þar veitt um jólin. Eptir jól fór Philippus jarl norðr í land með tvítugsessur ok mörg smáskip, ok kom til Björgynjar. Erlingr konungr lét þá reisa langskip, annat Hreiðarr, þriðja Philippus. Þau váru miklu meiri, en fyrr hefði ger verit í Noregi; þau váru með tvennum háborum milli austrúma, enar efri árarnar váru 20 álna langar; tjaldit þyrfti yfir hálfþrítugt; átta menn váru skráðir í hálfrými; þá er maðr stóð niðri á innviðunum, þá náðu þeir einir, er hæstir váru, breiðöxi upp á þilfarit. Stundu eptir jól tók Erlingr konungr sótt ok andaðist. Leynt var andláti hans um hríð; var fyrst varðveitt líkit í herberginu sjau nætr, var þá fœrt líkit til Ólafskirkju, ok var þar. Var þá send skúta norðr til jarls, var þar fyrir Ólafr Þóruson, hitti hann jarlinn í Björgyn, ok sagði honum tíðindin, en alþýðunni var sagt, at Danakonungr vildi finna hann. Kom jarl til Túnsbergs at föstunni; var þá lýst andláti konungsins. Var þá jarðat líkit at Ólafskirkju. Konungrinn var lagðr í steinvegginn nyrðra utar frá altarinu. Þá tók Philippus jarl við forræði flokksins ok hélt saman liðinu; váru þá í Túnsbergi um föstuna. Erlingr steinveggr átti eptir tvá sonu, Magnús ok Sigurð. Sigurðr var þá fjögurra vetra, ok hafði Erlingr gengit við frændsemi hans. Magnús var þá átta vetra, ok festi Erlingr járnburð til hans faðernis; var hann þá hans son kallaðr. Sagði jarl, at þeir hefði góð konungsefni, þar sem váru synir Erlings; líkaði þat vel liðinu. Jafnan fóru bréf milli þeira Nikulás byskups ok Philippus jarls; hafði hann ok löngum launstefnur við bœndr ok þá mest, er

ríkastir váru. Hálfum mánaði eptir páska fóru Baglar öllu liðinu yfir til Borgar, höfðu þeir með sér sonu Steinveggs. Var þá stefnt Borgarþing; þar kom Nikulás byskup. Þingit var í Maríukirkjugarði, byskup var í kirkjunni, ok allir bœndr með honum, þeir er ríkastir váru ok mestu skyldu ráða. Talaði hann þar fyrir þeim ok kom þeim öllum í samþykki með sér um konungs tekju. Á þinginu talaði Hreiðarr, sagði þeim nauðsyn á vera at taka höfðingja yfir flokkinn, höfum vér þar til góð föng, þvíat hér eru tveir synir Erlings steinveggs, má þann til taka, er liðinu er skapfeldra. Menn gerðu at þessu góðan róm. Þeir váru bœndr í kirkjunni, er ríkastir váru ok mestu skyldu ráða. Var þá farit eptir þeim í kirkjuna, ok kómu þeir á þingit. Tók þá einn til orða, ok mælti svá: Rétt er þat, sagði hann, at yfrin er nauðsyn til, at vér takim oss höfðingja allir samt. Höfum vér nú gert várt ráð bœndrnir, sýnist oss sem þat muni ekki vera barnsverk at taka við þessum vanda; lízt oss svá sem þess manns muni við þurfa, er bæði sé vel viti borinn ok hafi til vanda at kunna herstjórnina, ok svá at skipa búandaréttinum. Viljum vér þann konung hafa, er oss sé nökkur vörn í. Nú er hér vel til borit, þvíat vér sjám góð föng til höfðingja, þar sem jarlinn er, systurson Inga konungs Haraldssonar, þess er beztr konungr hefir verit í manna minnum. Er hann reyndr at góðum siðum, munum vér gefa honum konungsnafn, ef þér vilit. Þá svaraði Loðinn stallari: Þér bœndr eigut at ráða konungstekjunni, en þat vildu liðsmenn, at son Erlings væri helzt til konungs tekinn, annarrhvárr, sá sem mönnum væri meira um. Þá svöruðu bœndr: Ef þér vilit eigi hafa þann konung, sem vér viljum, þá munum vér engan taka ok vera þá í engu yðr lýðskyldir. Ok er svá var komit, þá sá liðsmenn, at þat máttu þeir eigi; var þat þá ráðit at allra samþykki at láta bœndr ráða. Erlendr af Húsabœ or Heggini gaf

Philippo konungsnafn; stóð þá upp annarr búandi ok dœmdi leiðangr, róð ok reiðu. Var þá farit til skipa. Eptir um myrgininn fóru þeir aptr til Túnsbergs; þá gerðu þeir norðr 16 skútur, réð þar fyrir Arnbjörn Jónsson, Eindriði hegri, Nikulás Botólfsson, Arnþórr foka, Gyrðr Benteinsson. Í þenna tíma andaðist Philippus af Veigini, kom á hann drep, ok lá litla hríð, ok var hann jarðaðr at Ólafskirkju.

*Frá Birkibeinum ok Böglum.*

15. Þat sama vár bjoggust Birkibeinar norðan ok höfðu allstór skip, er þeir höfðu gera látit í kaupangi; váru þau þrjú, er meir váru en þrítug, ok margar tvítugsessur. Höfðu þeir allmikinn her ok fóru suðr til Björgynjar. Þá gerðu þeir frá sér suðr njósn, 14 skútur, réð þar fyrir Þorsteinn gemsir ok Sveinn næpa, en þeir konungr ok jarl fóru seinna með stórskipin alt í Hvítingseyjar. Baglar fóru austan í Seleyjar, þá spurðu þeir, at Þorgils fuðendr var á Veggjum ok hafði dregit saman leiðangr. Þá var á norðanveðr lítit. Þeir reru norðr um myrgininn við sól, skyldu öll skipin finnast í Hítrum; kómu þeir þar um miðs morgins skeið. En Arnþórr reri norðr um; en er Arnþórr kom fyrir árósinn, þá hleyptu Birkibeinar út at þeim tveim skútum. Arnþórr sneri þá undan, ok kom við segli. Viku Birkibeinar þá norðr fyrir Hádýri. Baglar reru inn til Sóknar ok lögðu inn í ána öllu liðinu. Þeir sendu þrjár skútur norðr á njósn; en er þeir kómu í Selvága, þá spurðu þeir, at Birkibeinar lágu á 12 skútum í Eikundasundi. Róa Baglar þá norðr fyrir Hádýri; þá sá þeir Birkibeina róa norðan 14 skútum, snúa þeir þá undan, en Birkibeinar elta þá. Sá þeir menn, er vörðinn héldu, hvar Baglar reru; snúa þeir Arnbjörn þá út or ánni, ok setti hann þá upp merki sitt. En er þat sá Birkibeinar, þá hugðu þeir, at vera mundi meginherrinn Bagla, snúa þá

undan ok róa norðr, en Baglar eltu þá. Snúa Birkibeinar þá undan, ok hlaupa á land upp í Sváfuvík, en Baglar eptir þeim ok elta þá. Með Birkibeinum var mart leiðangrslið, féll þar mart manna af þeim, þar féll Sveinn næpa ok Erlendr þjófakappi, en sumt fékk grið. Baglar tóku skipin öll, ok snúa þegar austr aptr, var þeim þá sagt, at herr Birkibeina lá í Hvítingseyjum. Fóru Baglar þá dag ok nótt austr til Túnsbergs, en Birkibeinar fóru norðr ok fundu konunginn í Hvítingseyjum með stórskipin.

*Frá Böglum, er þeir leifðu skipin.*

16. Litlu síðar búa Baglar austan skútnaherinn, ok hafa hálfan fjórða tug skútna; var þar fyrir Nikulás af Lista, Erlingr vikr, Ormr skutilsveinn, Knörr hattspjörr. Ok er þeir kómu norðr í Helgasund, þá kom njósn norðan; var þá sagt, at Birkibeinar hefði siglt norðan fyrir Jaðar; vildi Nikulás þá austr sigla, en Ormr mælti á móti, var þá beðit allan dag til kvelds. Um nóttina sigldu þeir austr ok lögðu at um myrgininn í Portyrju. Þá var á mjörkvi mikill, ok sá þeir eigi, fyrr en Birkibeinar sigldu fyrir höfnina. Brugðu Baglar þá við skjótt, ok ráku af sér tjöldin, ok snúa austr or höfninni, draga þá upp segl sín, ok stefndu fyrir innan Aur ok þar á fjörðinn. Birkibeinar váru þá komnir austr yfir fjörðinn. Baglar sigldu þá eptir ok lögðu í Staferni. Birkibeinar sigldu inn til sunda, en skútur þrjár, er Baglar áttu, sigldu undan þeim. Björgólfr bátr ok Eiríkr, Bergr ok Skæringr, þeir báru njósn til konungs. Lét hann þegar blása öllu liðinu upp á Hauga, spurði hann þá, hvert ráð þeir vildi upptaka, hvárt menn vildi ganga á skipin ok berjast við Birkibeina, eða vildi þeir bíða þar í bœnum, sagði þá mundu eiga við liðsmun at etja, er ok sá til at snúa á land upp, ætla ek oss vera þann beztan. Þá svaraði Arnbjörn Jónsson: Göngum á skipin þau hin stóru, ok tökum við sem drengiligast, ok munu þau seint sótt verða, þótt vér hafim lið minna. Þetta ráð líkaði

mönnum vel; var þá gengit til skipanna; var þá gengit á hit mikla skipit, þat er Philippus hafði gera látit, þat var mest af öllum; var Arnbjörn fram á skipinu við sína sveit. Birkibeinar lögðu at við Hrossanes, ok herklæddust, ok er menn váru búnir, greiddu þeir atróðrinn. En þegar er þeir kómu í skotfœri, flýðu Baglar ok sóttu upp or bœnum, ok svá upp um Fróðaás, ok létu þar enga menn nema einn, er hét Þorbjörn skeifr. Birkibeinar tóku öll skipin, ok mikit fé tóku þeir annat, þvíat Baglar bjoggust skjótt á braut. Dvöldust Birkibeinar þar um hríð.

Áðr Birkibeinar fóru or Björgyn, var þat ætlat, at Dagfinnr skyldi sitja í borginni; vildi hann hafa tvau hundruð manna; menn sögðu hann eigi þurfa at sitja þar við svá mikit fjölmenni; þá bauð Svertingr at halda borgina við hundrað manna. Var sá kostr tekinn, at þeir Ívarr boddi ok Erlendr sliðri sátu þar allir. Baglar, þeir er fóru með skútnahernum, stefndu norðr með landi; þeir spurðu, at Birkibeinar fóru norðan tveim skútum, Ólafr Jörundarbróðir ok Ólafr smjörmagi, þeir höfðu sýslu á Veströgðum. Baglar hittu þá, ok eltu aðra upp í Þrymlingum, en aðra við Flostrgafl, ok drápu þá flesta. Nikulás af Lista gaf grið hvárumtveggja Ólafi; en er liðsmenn urðu þess varir, þá veittu þeir þeim atgöngu ok drápu þá. Fóru Baglar þá norðr, ok er þeir kómu fyrir Jaðar, hittu þeir þar Englandsfar eitt ok ræntu, ok féngu þar mikit fé. Annat skip tóku þeir í Körmt, þat var ok Englandsfar. Þá fóru þeir norðr til Björgynjar, ok er þeir reru at bœnum, skiptu þeir liðinu, reru sumir at í Töluvík, en sumir lögðu utan undir borg. Géngu þá upp hvárirtveggju at borginni. Birkibeinar géngu á móti út; sóttu Baglar þá at; var þunt skipat fyrir. Hrukku Birkibeinar inn af veggjunum ok hljópu inn í meginborgina, Baglar kómust upp á útveggina, ok unnu hana; en er þeir sá, at þeir megu eigi vinna at svá búnu meginborgina, þá brendu þeir útborgina ok skipuðu sínum mönnum í

kastalann. Birkibeinar höfðu drykk lítinn í borginni; Baglar geymdu þess, at þeir næði eigi á braut at komast. Sátu nú svá hvárirtveggju um hríð.

Philippus konungr ok þat liðit, er upp var elt í Túnsbergi, fóru hit efra um Upplönd, ok kómu ofan í Sogn; þá spurðu þeir til sinna manna í Björgyn. Þeir réðu þá til skipa, ok fóru suðr til Björgynjar. En er Birkibeinar váru þrotnir at drykknum, þá báðu þeir sér griða, ok buðu at gefa upp borgina. Philippus konungr gaf þeim grið, ok svá, at hverr skyldi hafa þat, sem ætti í borginni, en þat sem konungr ætti, skyldi skipta með liðinu. Þá er borgin var uppgefin, ok menn géngu út, þá unnu allir eiða, at engi bæri meira út en hann ætti. Þar var í borginni Kristína, dóttir Sverris konungs, ok Skúli, bróðir Inga konungs; þar var ok Margrét, kona Dagfinns, ok Guðríðr, kona Þorsteins Heimness; alls váru þar 40 kvenna. Baglar tóku þá borgina, ok féngu þar vist mikla en lítit fé annat. Þórsdaginn brendu þeir borgina, en frjádaginn at kveldi tóku þeir at brjóta borgina, ok allan laugardaginn; þá kom þeim njósn, at Hákon jarl fór austan, lögðu þeir þá út öllu liðinu í Flóruvága.

Birkibeinar brendu öll stórskipin í Túnsbergi; þeir höfðu Gullbringuna með sér. En er þeir spurðu, at Baglar höfðu norðr farit, þá skiptu þeir liðinu; var konungrinn eptir með hin stœrri skipin, en jarlinn fór norðr með tvítugsessur ok smáskútur. Þá var á norðrœnt; þóttust Baglar þá vita, at jarli var þat andviðri. Annan dag vikunnar fóru Baglar inn til borgar, létu þeir þá blása öllum bœjarlýð til at brjóta borgina; týsdaginn lögðu þeir or bœnum suðr í Sundsvág. Miðvikudaginn var á suðrœnt, þá sigldi jarl sunnan, en er hann kom á Harðsæ, þá sá Baglar ok reru suðr í móti. Hugði jarlinn, at þeir mundu vilja berjast, ok hlóðu seglunum; en er Baglar kómu í skotmál, þá víkja þeir þvers út eptir firðinum. Birkibeinar reru út eptir þeim, en þó drógu Baglar undan. Birkibeinar sigldu norðr til Björg-

yjar, en er þeir koma þar, þá váru veittar stórar átölur þeim, er borgina höfðu upp gefit. Dagfinnr eggjaði mjök, at borgina skyldi upp bœta; var þat ráðs tekit, at blásit var til bœjarfólkinu at setja borgarveggina, dag eptir dag. Nú kemr jarli þat í hug, at konungr mundi þykkjast of fáliðr í Víkinni austr; býst hann þá norðan, en setr eptir Pétr steypi ok Dagfinn til at geyma borgarinnar, en hann fór á braut.

*Frá Inga konungi ok Böglum.*

17. Ingi konungr fór or Túnsbergi ok inn til Oslóar, ok hafði fjögur skip, Ógnarbrandinn ok Gullbringuna ok tvau önnur. Hann dvaldist þar um hríð. Böglum byrjaði vel norðan, en er þeir kómu í Þrymlinga, spurðu þeir, at Ingi konungr var í Osló, sigla þá inn ok liggja við Ormeyna, ok ætla at at leggja konunginum; síðan sigla þeir inn til Höfuðeyjar. Þat var í þann tíma, er menn váru komnir í skytninga. Var þá blásit í bœnum, hljópu Birkibeinar þá á skip sín, ok heimtust út undir akkerin. Þá lögðu Baglar at þeim ok hjoggu strengina. Veðr var á hvast, þá rak stórskipin inn til Frysju, þar til er öll stóðu á Leirunni, var konungsskipit eitt sér. Baglar leggja þá at alldjarfliga; létu þá hvárirtveggju ganga alt, þat er til vápna höfðu. Lagði Philippus konungr næst sína skútu; Birkibeinar kómu á hana stafnljám, ok drógu hana at sér; þá steig konungrinn fyrir borð ok alt liðit. Þar féllu átta menn; var konungrinn tekinn af sundi við sínum mönnum. Baglar reru þá frá ok inn til bœjarins, ok tóku þar byrðinga fim, ok báru á við ok næfrar ok hálm, lustu þar í eldi, ok létu þat reka inn at skipunum. Birkibeinar stungu forkum við eldinum ok rak þat inn á Leiruna. Baglar reru um kveldit út til Höfuðeyjar. Þá minkaði veðrit, en er flœða tók, flutu skip Birkibeina; reru þeir til bœjar, ok lágu við akkeri um nóttina. Um myrgininn gerðu Baglar þat ráð at fara til Túnsbergs,

taka þar kaupskip, ok stefna þá at Birkibeinum, ok standa nú engum mun lægra en þeir. Þeir tóku þar kugga tvá ok austfararskip sjau, tóku þar frá vígin ok háboruðu ok þildu á bitum; báru þá á grjót, ok fluttust út á fjörðinn. Birkibeinar sigldu þá innan eptir firði, en Baglar utan á móti. En er Birkibeinar koma í skotmál, þá snúa þeir þvers út á fjörðinn, bar þá brátt í sundr. Birkibeinar lögðu at út í Marfirðinum; þar lágu Birkibeinar við akkeri, en Baglar í bryggjulægi. Birkibeinar höfðu vatnfátt; um myrgininn létu þeir síga at skipin; þá kölluðu þeir ok báðu Smjörkára frænda ryðja höfnina. Baglar lögðu þá or höfninni, ok stungu stöfnum at nesinu. Birkibeinar reru þá austr aptr, ok lögðu at í Staferni, lágu þeir enn um akkeri. Baglar fylgðu þeim, ok fór alt á sömu leið. Um myrgininn váru hvárirtveggju á landi; þá sá þeir, at skip sigldu vestan um Grenmar, eigi færi en 30; var þá illr kurr í Böglum, þvíat þeim var jarlsins ván. Birkibeinar mæltu: Hvat er nú, Baglar! sjáit þér sigla nökkut? verum kyrrir, liggjum allir saman, þat er oss údaufligra. Baglar gáfu ekki at því gaum, drógu segl sín, ok sigldu austr yfir Foldina, lögðu at í Astishólmum, ok lágu þar nökkurar nætr. Þat höfðu verit byrðinga segl. Fám dögum síðar kom jarlinn norðan, hitti hann þá konunginn; fóru nú með öllu liðinu til Túnsbergs, ok dvöldust þar um haustit.

Baglar gerðu sitt ráð, ok sigldu um myrgininn snemma, ok kómu um kveldit í Þrymlinga, hittu þar byrðinga marga, er norðan váru komnir. Spurðu þeir þá, at jarlinn hafði austr siglt, svá þat, at Pétr steypir ok Dagfinnr sé í Björgyn, ok létu gera upp borgina. Lagði Dagfinnr á allan hug um borgargerðina, þvíat hann hafði þá sýslu um Hörðaland, en Pétr gaf at engan gaum; var hann jafnan yfir at Jónskirkju, þvíat þar var Ingibjörg kona hans. Hákoni jarli var ekki mikit um at brjótast við borgargerðina. Baglar fóru norðr ok heldr skyndiliga; þeir lágu í Eldeyjarsundi, reru þaðan um

kveldit ok um nóttina, ok kómu fyrir dag til bœjarins; hljópu nú af skipunnm ok svá í bœinn ok upp eptir stræti, en sumir fyrir ofan bœinn. Dagfinnr var með sína sveit í borginni, ok urðu þeir þegar varir við, er þeir hljópu í bœinn; blésu þeir þegar herblástr. Birkibeinar vildu til borgarinnar, þeir er í bœnum váru. Baglar kómu á mót þeim, ok féllu þar ellifu menn. Pétr hljóp upp or bœnum við sína sveit. Baglar settust um borgina, ok biðu lýsingar; en er ljóst var orðit, sóttu þeir at borginni. Þeir buðu Dagfinni grið, en hann lézt engarra þurfa. Var þar nú hörð atsókn. Birkibeinar vörðust vel ok drengiliga, þá báru Baglar eld at borginni. Fórust Birkibeinar þá mjök af reyk ok mœði; þeir váru ok allir mjök sárir; þar var hálfr þriði tugr manna. Dagfinnr bað þeim griða; Baglar sögðu þá ekki þurfa griða heldr en um myrgininn. Þá tóku þeir kirkjustiga ofan í bœinn, ok váru þeir settir við borgina, ok gengu menn svá upp. Þá lét Dagfinnr fara ofan í festi sveininn Hákon, son Hákonar konungs, ok bað gefa honum grið, ok þar með lét hann fara sverð búit, er hann sendi Gyrði skjálga, mági sínum. Gyrðr tók við öllu samt, sveininum ok sverðinu. Gakk til konungs, sagði Dagfinnr, ok vit, ef þú fáir oss grið. Gyrðr gerði svá; hann bað konunginn gefa Dagfinni grið, bauð þar at veði alla eigu sína. Konungr lét þá blása til húsþings, ok sagði, at Baglar skyldu ráða griðum; allir mæltu á móti. Gyrðr bað eigi at síðr. Gakktu, sagði konungrinn, ok bið Dagfinn ganga hingat einn, ok hafa grið. Gyrðr sagði þetta Dagfinni. Hann svaraði: Eigi vil ek grið hafa, nema vér hafim allir. Gyrðr sagði nú konungi. Konungr bað liðsmenn þá gefa þeim grið, sagði þeim engan frama at drepa fá menn ok þó áðr illa leikna. Váru þeim þá grið gefin; skyldu þeir ganga út vápnalausir ok yfirhafnalausir; Dagfinnr einn hafði stálhúfu. Gengu þeir þá ofan í byskupsgarð ok unnu þá konungi trúnaðareiða.

Annan dag var brotin öll borgin ok borinn sérhverr steinn.

Baglar dvöldust hálfan mánuð í bœnum, þaðan fóru þeir norðr í Þrándheim; var þar Philippus til konungs tekinn á Eyraþingi. Þá var svá mikit hallæri í Þrándheimi, at þeir fóru braut eptir vetrnætr suðr með landi. Þá gerðu þeir skútur suðr á njósn, var þar fyrir Björgólfr bátr, Birgir af Stöngum, Brynjólfr nef, þeir höfðu spurt, at Pétr var í Stafangri. Baglar lögðu at í Mostr ok spurðu, at Pétr steypir var ekki í bœnum um nætr, en sat þar um dögum; þá róa þeir út í Herfili, ok tók þá þar andviðri, ok lágu þar fjórar nætr. Þá reru þeir suðr í Fjölbyrjusund ok inn iðra váginn. Pétr steypir hafði gengit til óttusöngs ok hlýddi formessu, ok sveit hans. Drífa var á svá myrk, at þeir urðu eigi fyrr varir við, en Baglar géngu af skipum. Þá sá Birkibeinar ok sögðu Pétri. Hljóp hann þá þegar út, ok tók á rás upp or bœnum, ok allir þeir. Baglar hljópu eptir, ok drápu þar níu menn. Pétri var svá nær komit, at hann kastaði kyrtlinum ok beltinu. Baglar fundu eigi beltit, en kyrtilinn höfðu þeir heim til bœjarins. Konungsdóttir hugði, at Pétr mundi fallinn, áðr henni var sagt. Dvöldust Baglar þar um nóttina, fóru síðan til Björgynjar.

*Frá konungi ok jarli.*

18. Þeir konungr ok Hákon jarl fóru austan or Víkinni, ok kómu norðr litlu fyrir jól. Þeir lágu lengi í Seleyjum. En er Baglar spurðu til Birkibeina, fóru þeir or bœnum, ok lágu um nóttina í Bárðarsundi, reru um daginn í Hvísvíkr; þá var á sunnanveðr. Sigldu Birkibeinar þá ok lögðu at í Eldeyjarsundi. Þá spurðu þeir, at Baglar váru fyrir sunnan Storð, reri jarl þá suðr með öll léttiskipin. Jarl lagði at við Títólfsnes um kveldit, spurði hann þá, at Baglar váru eigi um farnir. Baglar reru suðr um nóttina, ok hugðu Birkibeina mundu vera alla samt í Eldeyjarsundi, reru þeir þá um nóttina til

Títólfsness. Arnbjörn fór fyrstr með fjórum skútum. Þá varð vörðr Birkibeina varr við ok kallaði hátt: Af tjöldin, hér ferr úfriðr. Þeim Böglum þótti þetta undarligt. Rendu þá skúturnar fram fyrir höfnina, sá þeir þá elda á landi ok skipin, er bar við eldsljósinu, ok hömluðu nú at um. Þá kallaði Björgólfr bátr á þá: Hvat liði er þetta? sagði hann. Birkibeinar höfðu þá starfsamt, tóku af sér tjöldin ok lögðu viðuna ok svöruðu engu. Björgólfr kallaði annat sinn ok þriðja. Þá svaraði maðr: Lát eigi svá, lát eigi svá, maðr, sagði hann, þú verðr varr við. Nú þóttust Baglar vita, at Birkibeinar mundu vera, ljósta nú í árum ok róa út; var þá ok komit fyrir höfnina lið þeira alt. Birkibeinar róa þá eptir ok létu ganga lúðrana; Baglar reru þá engum mun at minna. Svá var myrkt, at þeir kendust eigi, ok fóru náliga skipin öll saman. Reru Baglar út með landi, en Birkibeinar stefndu á fjörðinn. Bar þá í sundr með þeim; vissu Birkibeinar ekki til, hvert Baglar sneru. Pétr kom þá til þeira or Eikundasundi, ok stýrði þá skútu; hann reri þá upp á skip Hreiðars sendimanns. Þá kallaði einn maðr af skipi Pétrs: Hví róa djöflar yðrir fyrir oss í alla nótt? Ok tekr upp stein ok kastar ok kemr á þann, er sitr í fyrirrúminu á skipi Hreiðars. Róa þeir engum mun at minna. Þeir Pétr kendu þá eigi. Reru þeir Hreiðarr fyrir innan Mostr ok Helgi Birgisson. Arnþórr foka sneri aptr norðr ok inn í Teknafjörð, ok hljópu þar á land. Birkibeinar lögðu inn í höfnina ok biðu þar dags. Um myrgininn eltu Birkibeinar upp í Vaðilsey Arnbjörn, bróður Sörkvis snáps; þar féll Arnbjörn við fimta mann. Birkibeinar fóru leið sína norðr til Björgynjar. Baglar kómu um myrgininn í Haugasund með sínu liði, þá kómu þar til konungs bréfamenn Nikulás byskups. Lét konungr lesa upp bréfin; var þat þar á, at þeir skyldu sættast Birkibeinar ok Baglar, ok hvárigir skyldi öðrum mein gera. Þá var skamt til jóla. Baglar skiptu liði sínu um

jólin á Agðir, eptir þat fara þeir austr til Túnsbergs, ok dvöldust þar um vetrinn.

Nikulás byskup hafði farit áðr um sumarit norðr til Þrándheims á fund Þóris erkibyskups. Kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldu leggja á allan hug, at þeir sættist Birkibeinar ok Baglar. Fór Nikulás byskup þá austr aptr, hófust þá upp bréfsendingar millum manna. Um várit fór Nikulás byskup út til Túnsbergs á fund Philippus, áttu þeir þá stefnur sín á milli. Þá mælti konungr: Herra byskup! sagði hann, hvern stað á sættarumleitan þessi, er þér farit með? Byskup svaraði: Herra, sagði hann, þat er upphaf at, at þér erut þrír höfðingjar, skal sinn þriðjung lands hafa hverr yðarr; skulut þér, herra, hafa Víkina ok Upplönd, ok er þat ekki jafnt eða Þrándheimr, er þar er nú sultr ok seyra, en hér er árferð góð. Mér erkibyskup höfum þat hugsat, at þér skulut fá Kristínar dóttur Sverris konungs, er af beztri ætt er komin í Noregi; mætti svá verða, at þit ættit sonu samt, mun mönnum þá þykkja lítils um vert ætt Bárðar Guthormssonar eða Fólkviðar lögmanns. Hefir oss lengi verit þungt at eiga við Birkibeina, en ef þér vilit þetta fyrst miðla, kann vera, at svá búim vér um, at þeir miðli meira annat sinn. Konungi þótti þetta áheyriligt. Byskup ferr nú norðr til Björgynjar með góðu föruneyti, hann kom sér í tal við Inga konung ok Hákon jarl, bar þetta upp fyrir þá, ok sagði svá: Philippus frændi várr vill nú uppgefa með minni fyrirtölu alla mótstöðu við yðr; fellst honum vel í skap at binda við yðr tengðir, ef þér vilit gipta honum Kristínu dóttur Sverris konungs. Nú má hann vera yðr, herra, styrksmaðr mikill, hvers sem þér kunnit krefja. Þeir konungr ok jarl váru fátalaðir um þetta, sögðu, at ekki mundi sú sætt verða, at eigi væri Ingi einn konungr yfir landi. Byskup talaði hér um mjúkliga, las fyrst smám ok smám munina fyrir þeim. Kom þat helzt ásamt með þeim, at Philippus skyldi fá meyjarinnar, ef þat væri

hennar vili, ok hafa þvílíkt af landi, sem haft hafði Eiríkr jarl, bróðir Sverris konungs, ok þvílíka nafnbót, sem Ingi konungr vill gefa honum; þótti Birkibeinum byskup taka alt frekara en þeir jáðu. Kom svá, at þetta var talat á þingum, flutti Nikulás byskup málit. Birkibeinar skutu við orðum heldr úvingjarnligum, ok báðu níðinginn þegja, sögðu hann nú sem fyrr útryggjan. Byskup gaf engan gaum at, hvat þeir sögðu. Erkibyskup var þá ok norðan kominn, lagði hann ok mikinn hug á um sættargerðina; kóm svá, at sættarfundr skyldi vera í Hvítingseyjum, skyldu þar til koma hvárirtveggju, svá ok erkibyskup ok Nikulás byskup. Hittust þeir þar um haustit. Lágu Birkibeinar við Hvítingsey, en Baglar við Nauteyna, fóru þá menn á millum, ok því næst fundust þeir sjálfir. Birkibeinar váru miklu fjölmennari, töluðu þá byskupar ok sögðu upp, hver sætt ætluð var; var þá, sem opt kann verða, at hvárumtveggjum þótti nökkut dregin sín orð. Veittu Birkibeinar þá orskurð, at Philippus skyldi hafa land eigi lengra norðr en til Rygjarbits ok eigi suðr lengra en til Svínasunds; hann skyldi ok niðr leggja konungs nafn, en hafa slíka nafnbót, sem Ingi konungr vildi gefa honum. Þessi sætt var svardögum bundin, svá ok um manna aftökur flokka á millum, þá skyldu hvárigir hefna né heimta gjöld fyrir, svá um fjár upptekt, hvárir sem tekit höfðu. Unnu þeir nú sættareiðana, fyrst höfðingjarnir, Ingi konungr ok Hákon jarl ok Philippus, síðan lendir menn ok sýslumenn, tvennar tylftir af hvárum. Lauk svá þinginu, at grið váru sett ok trygðir veittar, mælti þar fyrir Gunnarr grjónbakr. Annan dag eptir festi Philippus sér Kristín konungsdóttur.

Þá gerðist kurr í hvárutveggja liðinu af þeim mönnum, er félausir váru ok höfðu þó nafnbœtr. Var þá þat ráð gert, at eptir um várit skyldu þeir herja til Suðreyja ok afla sér fjár; ætluðust þá til menn af hvárutveggja liðinu. Þá gerðu þeir ok sitt ráð Pétr steypir ok Hreiðarr sendimaðr; hann

átti Margrétu dóttur Magnús konungs; ætluðu þeir at fara út í Jórsalaheim. Skildust þá at svá mæltu; fóru Baglar austr, en Birkibeinar til Björgynjar. Baglar kölluðu Philippus þá konung sem áðr.

Eptir um várit gerði Philippus tvær skútur norðr til Björgynjar móti Kristín konungsdóttur, var þar fyrir Eysteinn Róason, Ámundi burst, Grundi féhirðir; fór konungsdóttir austr til Víkr. Philippus gerði brullaup sitt í Osló; þar kom þá austan af Gautlandi Margrét dróttning, er átt hafði Sverrir konungr, hon var dóttir Eiríks konungs hins helga; hon var ok móðir Kristínar. Þat sumar fóru þeir í víking í Suðreyjar, Þormóðr þasramr ok Þormóðr fylbeinn, Úspakr suðreyski, þessir váru af Birkibeinum; en af Böglum var Eiríkr Tófason ok Eiríkr ok Erlendr píkr, Bergr maull, Nikulás gilli, þeir höfðu 12 skip. Einum vetri síðar fóru þeir af landi braut Pétr steypir ok Hreiðarr, ok höfðu tvau skip, ok kom hvárgi aptr.

### *Fall Styrkárs.*

19. Þann vetr er Erlingr steinveggr andaðist, þá fóru Baglar litlu fyrir jól austr til Víkr; þá dvöldust eptir þeir menn, er skyld erendi þóttust eiga. Sörkvir snápr hafði farit inn í Harðangr; fór hann suðr þaðan á lítilli skútu, ok þeir 13 saman. Þá hafði lén á Rogalandi Styrkárr stagnál; hann spurði til fara Sörkvis, ok fór at leita hans. Þeir sást við Barðhólma; Styrkárr reri eptir ok elti þá suðr í Karmtsund. Tók þá at nátta, lagði Styrkárr at í Bœ, settu upp skipit ok fóru til húss; þeir lágu í stofunni. Þeir Sörkvir viku aptr ok leita þeira, lögðu at í Bœ ok kendu þar skip Styrkárs. Géngu síðan heim til bœjarins. Sörkvir gékk fyrst inn í stofuna, hann greip ofan kesjur tvær ok hljóp út með, ok bað þá at sœkja, sagði œrit lið; tóku þá sleða ok ráku fyrir dyrrin. Þeir Styrkárr hljópu upp ok tóku vápn sín, hugðu þeir, at fjölmenni væri úti, varð því ekki af útgöng-

unni. Þeir settu borð við stofuglugginn, fóru þar út nökkurir menn. Baglar rufu stofuna ok báru þar inn grjót, þá tóku þeir næfrar, ok lustu þar í eldi ok báru í gluggana, svá at ljóst var í stofunni. Váru þeir þá sumir særðir, en margir drepnir. Þar féll Styrkárr ok þeir 17. Sörkvir varð sárr; níu mönnum gáfu þeir grið.

*Frá smið ok Óðni.*

20. Þann sama vetr eptir jól fyrir sættasumarit þá bjó smiðr einn á Nesjum. Þat var eitt kveld, er þar kom maðr einn ríðandi, ok bað hann gistingar, ok bað hann gera sér hestgang. Búandi kvað þat vel mega; þeir stóðu upp, er langt var til dags, ok tóku til smíðar. Búandi spurði: Hvar vartu í fyrri nótt? Í Meðaldal, sagði gestr. Þat var norðarliga á Þelamörk. Smiðrinn mælti: Þú munt vera hinn mesti lygimaðr, þvíat þetta má engan veg vera. Þá tók hann ok smíðaði, ok smíðaðist ekki, sem hann vildi. Hann mælti: Aldri smíðaðist mér svá fyrr, sagði hann. Gestrinn mælti: Smíðaðu sem sjálft vill fara. Ok urðu meiri hestskúarnir, en hann hefði fyrr séna, en er þeir báru til, þá var sem hœfði hestinum. Þá skúaðu þeir hann. Þá mælti gestrinn: Þú ert úfróðr maðr, sagði hann, ok úvitr; hví spyrr þú enskis? Smiðr mælti: Hvat manna ertu? eða hvaðan ertu kominn? eða hvert skaltu fara? Hann svaraði: Norðan em ek at kominn or landi, ok hér hefi ek nú lengi dvalzt í Noregi, en ek ætla nú at fara austr í Svíaveldi, ok lengi hefi ek nú á skipum verit, en nú mun ek verða at venjast hestinum um hríð. Smiðrinn mælti: Hvert ætlar þú í kveld? Austr í Sparmörk, sagði hann. Þat mun eigi satt, sagði búandi, þvíat þat fær varla riðit á 7 dögum. Hann steig þá á hestinn; búandi mælti: Hverr ertu? Hann svaraði: Hefir þú heyrt getit Óðins? Heyrt hefi ek hann nefndan, sagði búandi. Hér máttu nú hann sjá, sagði gestrinn, en ef þú trúir eigi því, er ek hefi sagt þér, þá

sé nú. er ek hleypi hesti mínum yfir garðinn. Hestrinn hopaði til; þá keyrði hann hestinn sporum ok rendi honum at; hestrinn hljóp yfir garðinn, ok kom hvergi við, sjau alna var garðstaurrinn hár. En aldri sá hann hann síðan. Fjórum nóttum börðust þeir síðar í Leinum Sörkvir konungr ok Eiríkr konungr. Þessa frásögn sagði smiðrinn sjálfr Philippo jarli þann sama vetr í Túnsbergi, en sá sagði oss, er þá heyrði á. Bœrinn heitir í Píslum, en búandinn, sá er hestskúana gerði, hét Þórðr vettir.

---

# HAKONAR SAGA HAKONARSONAR.

*Hér hefr sögu Hákonar konungs Hákonarsonar hins krúnaða.*

A dögum Innocencii páva, þess er hinn þriði var með því nafni í postoligu sæti, gerðust þau tíðindi í Norðrlöndum, er saman eru sett um æví Hákonar konungs sonar Hákonar Sverrissonar. Þá var liðit frá holdgan várs herra Jesu Krists þúsund tvau hundruð ok þrír vetr. Þá váru keisarar yfir Rómaborgar ríki Philippus af Sváva út á Púli, en Otto son Heinreks hertoga af Brúnsvík fyrir norðan fjall; þeir stríddu sín á millum, þar til er Philippus var veginn af Philippo hertoga sínum undirmanni. Þá var konungr yfir Danmörk Valdimarr Valdimarsson, yfir Svíum Sörkvir Karlsson, yfir Englandi Jón Heinreksson, Hákon Sverrisson yfir Noregi; þat var einum vetri eptir andlát Sverris konungs. Þann vetr hafði Hákon konungr setit norðr í Þrándheimi. Konungr fór um várit austr til landsenda, váru þá með honum margir ágætir höfðingjar, sem fyrr segir. Dvaldist konungr lengi í Borg um haustit, er hann fór austan frá Elfinni. Þar var þá hjá honum kona, sú er Inga hét, vel ment ok trúlynd, hon var frændkona Auðunar í Borg, ok marga átti hon góða frændr í Borgarsýslu, er kallaðir váru Varteigsmenn. Inga var í herbergjum Hákonar konungs ok samrekti hjá konunginum, svá at þat vissi Hákon galinn ok enn fleiri trúnaðarmenn konungs. Konungr fór eptir þat norðr í land. Þá fór við honum

Margrét dróttning, er átt hafði Sverrir konungr, ok frú Kristín dóttir þeira. Konungr kom til Björgynjar fyrir jólaföstu ok bjó þar til jólaveizlu. Þann vetr andaðist Hákon konungr átta dag jóla.

*Guthormr til konungs tekinn.*

2. Tíunda dag jóla tóku Birkibeinar sér konung Guthorm son Sigurðar lávarðar; hann gaf Hákoni galni jarls nafn frænda sínum; bazt hann þá fyrir herstjórninni. Um várit fóru Birkibeinar norðr til Þrándheims; var þá Guthormr til konungs tekinn á Eyraþingi, sem lög stóðu til. Ok þat sama sumar andast Guthormr konungr þar í Niðarósi. Höfðu Birkibeinar þá Eyraþing, vildu þá margir taka Hákon jarl galinn til konungs; en Þrændir mæltu á móti, ok vildu þeir taka til konungs Inga Bárðarson ok Ceciliu konungsdóttur, bróður jarlsins sammœðra, sögðu hann eigi firr konungdóminum í móðurætt, ok sögðu jarlinn vera útlendan at föðurkyni, en Inga norrœnan ok þrœnzkan ok kominn af hinum beztum ættum. Liðsinnaði erkibyskup Þrœndum. Kom þar engu öðru við, en þeir réðu. Var þá Inga gefit konungs nafn en Hákoni jarls nafn, ok skyldi hvárr þeira hafa hálft ríki við annan, en Hákon skyldi bindast fyrir herstjórninni, þvíat hann var meir reyndr at harðfengi.

*Fœddr Hákon Hákonarson Sverrissonar.*

3. Eptir um sumarit var Inga austr í Borgarsýslu, er fyrr var nefnd, í bygð þeiri, er Heggin heitir, á þeim bœ, er Folkisberg heitir. Þar söng prestr, sá er Þrándr hét. Þar fékk Inga sótt ok fœddi sveinbarn. Þrándr prestr vissi, at Hákon konungr Sverrisson var faðir sveinsins, hann skírði hann ok fór með leyniliga, ok trúði engum til á at halda nema sér ok sonum sínum. Erlendr hét maðr á Húsabœ, hann var frændi Sverris konungs kominn af ætt Guthorms grábarða. Þrándr prestr fann

Erlend, ok gerðu þeir þat ráð um mál sveinsins, at fara með hann sem leyniligast. Var hann með Þrándi prest. Á öðrum vetri fyrir jól fóru þeir austan or Borgarsýslu Þrándr ok Erlendr, þeir höfðu við sér þau mœðgin, þeir fóru til Upplanda ok kómu jólaaptan í Hamarkaupang. Þar váru fyrir sýslumenn Birkibeina tveir Friðrekr slafsi ok Gjafvaldr gauti. Þeir höfðu miklar sveitir ok sátu við miklum ótta, þvíat Baglar váru um öll Upplönd. Ívarr byskup var þá í Hamri, var hann þá sem jafnan mikill úvin sættar Sverris konungs. Byskup varð nú varr við ferð konungssonar, bauð hann þeim mœðginum til sín um jólin ok taldi frændsemi við sveininn, sem var. Birkibeinum var engi trúnaðr á því, sögðu sveininn skyldu fara til byskups eptir jólin, ok sögðu konungsson vera nú farmóðan ok mega eigi vera fyrst í fjölmenni. Annan dag jóla fóru þeir braut með sveininn leyniliga, ok hvíldust eigi fyrr en norðr við litla Hamar; váru þau mœðgin þar á litlum bœ leyniliga. At níu vikna föstu fóru Birkibeinar við þau mœðgin til Eystridala. Í þessi ferð féngu þau mikit vás af illviðrum; þeir váru stundum úti um nætr á skógum ok úbygðum. Eitt kveld gerði svá ilt veðr at þeim, at þeir vissu eigi, hvar þeir fóru. Tóku þeir þá tvá menn vel skíðfœra, hét annarr Þorsteinn skefla, en annarr Skervaldr skrukka; bœndr tveir váru til leiðsagnar. Þeir fundu úthlöður nökkurar ok slógu þar eld ok bjoggu þar um sveininn. Fóru síðan aptr á mót liðinu, kómu til þessa herbergja at miðri nótt. Var þar hörð búð, þvíat öll hlaðan draup, þegar sem snjórinn bráðnaði af eldinum. Engi var önnur fœða sveinsins, en þeir bræddu snjó í munn honum. Þeir váru þá komnir í Nafardal. Þeir höfðu þar hinar mestu úferðir af snjófum. Vel tóku bœndr við þeim í Eystridölum ok gerðu þeim fararbeina, þann sem þeir þurftu.

*Um vás ok erviði Birkibeina.*

4 (3). Svá hafa vitrir menn sagt, at þat hafi líkast verit vás þat ok erviði, er Birkibeinar höfðu í þessarri ferð, með ótta þeim, er þeir höfðu af sínum úvinum, áðr þeir kómu með konungsson norðr til Þrándheims, þeim nauðum, sem þoldi Ólafr Tryggvason ok Ástríðr móðir hans, þá er þau flýðu or Noregi fyrir ofríki Gunnhildar konungamóður ok sona hennar. Svá segir Sturla Þórðarson:

Þá hefir í ætt
öðlingr drepit
Tryggva niðs
tírar höldi,
er framráðs
flýja þurfti
ynglings barn
fyr úfriði.

Erlingr steinveggr ok Philippus jarl ok höfðingjar Bagla, þeir sem sátu í Túnsbergi, féngu njósn af Nikulási byskupi, er þeir Erlendr ok Þrándr prestr fóru til Upplanda, ok fóru með son Hákonar konungs. Sem þeir spurðu þessi tíðindi, þá sendu þeir átta sveitarhöfðingja til Upplanda með miklu liði at leita eptir sveininum, ok mætti þeir ná honum. Ok er þeir kómu á Heiðmörk, váru Birkibeinar komnir í Eystridali. Þeir spurðu, at til þeira dreif lið mikit; vildu Baglar þá eigi fara lengra, sneru þeir þá aptr á Heiðmörk. Svá segir Sturla:

En lofðungs
leita fóru
á Upplönd
átta sveitir
Bagla liðs
búnir rómu,
ef fólkvörð
finna mætti.
Hafði Kristr
of konungsefni
huliðs hjálm
heilli góðu,
þá er allvalds
or úfriði
frægðar son
fagnandi kom.

Fjöldi manns kom í för með konungssyni, ok er þeir kómu norðr af fjallinu, þóttust þeir hirðir or öllum mannháska at sinni. Eigi megu menn nú undrast, þó at allsvaldandi guð hafi framar veitt sína miskunn þessum

konungasonum Ólafi Tryggvasyni ok Hákoni, er hér er nú af sagt, ok frelsta þá af valdi sinna úvina til svá mikillar frægðar, sem hann hafði hvárntveggja skipat, annan til þess at hefja at upphafi kristnina í Noregi, en annan til þess at styrkja hana framar en engi annarr Noregs konunga með hinum helga Ólafi konungi í kirknagerðum ok lagaskipan ok mörgu öðru uppheldi guðs kristni, sem þeim mönnum var kunnigt, er honum váru samtíða í Noregi.

*Andlát Erlings steinveggs.*

5 (4). Ingi konungr var þá í Niðarósi, fékk hann njósn af því, at lið mikit var komit austan um fjall. Birkibeinar fóru tómliga ofan eptir bygðinni, þvíat þeir váru mjök farmóðir. Sá kvittr fló ok með, at konungsson væri í þessu liði, en þat kunnu engir at segja, hvers konungs son hann var; hugðu þat margir, at úfriðr mundi vera, þvíat þann tíma hófust margir úaldarflokkar. Ok er konungr fréttir þetta alt jafnsaman, þá lét hann blása öllu liðinu út til litlu borgar, sendi síðan hirðmenn tvá upp á ásinn Gunnar tind ok Eyvind Sámsson. Ok er þeir kómu upp á ásinn, þá mœttu þeir þeim mönnum, er Birkibeinar höfðu sent fyrir til konungs; fóru þeir þá allir saman á konungs fund ok sögðu honum alt frá ferðum sínum. Konungr þakkaði þat guði, er konungsson frændi hans kom með heilu á hans fund. Konungr beið þar, til þess er þeir kómu með sveininn, hann tók við honum af hesti ok bað frænda sinn velkominn sér ok allri hirðinni. Váru þau mœðgin nú með konungi í góðu yfirlæti. Allir fornir Birkibeinar urðu mjök fegnir sveininum ok géngu jafnan at finna barnit fyrir ástar sakir við forellrit. Um várit eptir veittu Baglar slag í Þrándheimi. Þenna vetr sátu þeir konungr ok jarl í Þrándheimi; tók þá Hákon jarl þau mœðgin til sín. Var þá við honum frú Kristín. Jarl unni mikit sveininum ok var til hans ástsamliga, ok lýsti því jafnan fyrir mönnum, at þeir Ingi

konungr báðir sæti í hans föðurarfi. Þenna vetr andaðist Erlingr steinveggr, tóku þá Baglar til konungs Philippus jarl. Um vetrinn er Hákon var þrevetr, fóru þeir Ingi konungr ok Hákon jarl norðan or Þrándheimi við miklu liði suðr til Björgynjar. Jarl lét eptir þau mæðgin; þau váru í borginni um sumarit, þar til er Baglar kómu ok borgin var uppgefin. Þá tók Philippus Baglakonungr konungsson til sín, ok var hann með honum þrjá mánuðr. Þat var einn dag, er Baglar báru sveininn í loptsvalir, þar sem langskip lágu fyrir bryggjum, þá mæltu þeir: Sé langskipin, konungsson! Sé ek, sagði hann. Hverr á? sögðu þeir. Minn herra, kvað sveinninn. Þinn herra er Philippus konungr, sögðu þeir. Ekki er hann minn herra, kvað sveinninn, Hákon jarl er minn herra, ok hann á skipin. Þeir hlógu at ok mæltu: Eigi mun þessi sveinn oss tryggr vera Böglum.

Reiðarr var þá enn með Böglum ok mikils metinn, hann mælti einn dag við nökkura Bagla, er hjá honum váru, ok mælti svá: Ef vér skyldim stórræði með höndum hafa, þá væri nú þat efni í váru máli, er aldri var fyrr, ok vér mættim skjótt allan styrk undan hafa Birkibeinum, ok alt landit mundi með oss. Þeir spurðu, hvert efni þat væri. Hann svaraði: Vér höfum nú hér við oss son Hákonar konungs, þess höfðingja er alt fólk unni hér í landi; munu allir Birkibeinar gjarna vilja þjóna hans syni. Nú ef vér tökum hann til konungs en gefum jarls nafn þeim, er vér þjónum áðr? Erum vér svá viti bornir, at vér vitum lög hins helga Ólafs konungs at því, at sá er réttr konungr í Noregi, er konungsson er, en eigi dóttursón eða systurson konunga, sem nú þjóna Noregsmenn. Væri þat Philippo mest sœmd, at hann hefði bæði gæzlu yfir ríkinu ok konunginum, þvíat þá væri hann bæði konungr ok jarl yfir Noregi. Þetta ráð lézt Böglum vel hugna, en sumir mæltu á móti ok sögðust eigi vilja þjóna öðrum konungi en þeim, er þeir höfðu sjálfir gefit

konungsnafn. Varð ok ekki af þessi ráðagerð, hugðu þeir, at konungr mundi þeim reiðr verða, ef hann yrði varr við. Litlu síðar kom þeim njósn, at Hákon jarl væri sunnan á leið, vildu þeir með engu móti bíða hans í bœnum. Þá bað Þórir erkibyskup Philippus konung, at hann féngi honum konungsson, ok hann gerði þat eptir bœn erkibyskups. Var þá konungsson með honum, til þess er jarl kom. Tók Hákon jarl báðum höndum við Hákoni ok þakkaði þat guði, er hann var braut frá Böglum, ok sagði hann eigi skulu við sik skilja. Var hann þá jafnan með Hákoni jarli.

*Frá Hákoni konungssyni.*

6 (4). Þenna vetr hinn næsta var sveinninn á fjórða vetr, þann kölluðu menn hinn illa vetr, en Birkibeinar kölluðu Seleyja vetr, þeir lágu lengi í Seleyjum. Var þá konungsson við jarlinum. Þá váru svá mikil frost, at fraus fyrir þeim allan drykkinn, ok svá var smjörit hart, at eigi mátti klína á brauðit fyrir konungsson; en hann vildi jafnan í frammi vera með hirðinni, þvíat allir váru vel til hans. Jarl gaf konungssyni flúrbrauð bakat svá blautt, at vefja mátti saman. Konungsson stóð fyrir hirðinni, ok var mjök kalt. Hann sá, at sumir bitu annan bita af brauðinu, en annan af smjörinu. Sveinninn tók smjörit ok vafði innan í brauðinu, ok mælti: Bindim vér nú smjörit, Birkibeinar! Allir hlógu at, er heyrðu. Var þat orð svá frægt með öllu liðinu, at allir höfðu þat orðtak: Bindum vér nú smjörit, Birkibeinar! svá býðr konungsson. Sveinninn var mjök sprækr, þótt vöxtrinn væri lítill; hann var mjök hlœgimálugr, varð at því mörgum mikit gaman. Jafnan tóku Birkibeinar hann tveir senn, annarr í höfuðit, en annarr í fœtrna, ok toguðu hann millum sín til gamans ok kváðust draga hann til munar. Því mæltu þeir svá, at þeim þótti hann ofseint vaxa.

*Um einkamál konungs ok jarls.*

7 (5). Þá er Hákon var sjau vetra, lét jarl setja hann til bœkr. En er hann hafði numit um stund, spurði jarl: Hvat nemr þú, Hákon? Söng, minn herra, sagði hann. Jarl svaraði: Ekki skaltu söng nema, þvíat hvárki skaltu vera prestr né byskup. Mikla elsku hafði jarl á sveininum, ok svá frú Kristín, en þó var hennar skaplyndi sem margra kvenna, at stundum var hon mjök stuttmælt við sveininn ok lézt eigi vita, hverr hann var. Ok er jarl heyrði þat, mælti hann: Eigi skaltu svá tala, þat vitu menn allir, at vit Ingi sitjum í hans föðurarfi. Þetta mælti hann jafnan öllum mönnum áheyranda.

Birkibeinar ok Baglar sættust í Hvítingseyjum, sem fyrr segir. Litlu síðar hafði Hákon jarl þá umleitan, at hann vildi láta gefa sér konungsnafn, en Ingi setti þar fyrir þvert nei. Jarl hóf þá annan útveg; hann átti skilgetinn son, er hét junkherra Knútr, en Ingi átti frilluson, er Guthormr hét. Jarl bað þá konung gera þau einkamál sín á milli, at sá þeira, sem lengr lifði, tœki alt ríki eptir annan, ef konungr ætti eigi skilgetinn son, en sá skilfenginn arfi þeira, er lengr lifði eptir þá báða, skyldi sá eiga allan Noreg ok allan arf annan. Þessum einkamálum var lýst á Eyraþing, svá at við var Þórir erkibyskup ok Eiríkr erkibyskup, Marteinn byskup ok fjöldi annarra manna. Váru þessi einkamál staðfest með innsiglum konungs ok jarls ok byskupanna.

*Frá konungssyni ok Helga.*

8 (6). Þann dag er þingit var átt, fékk konungsson leyfi at fara yfir á Bakka til Ástríðar sifkonu sinnar; hann kom heim um kveldit eptir mat. Sá maðr var með Hákoni jarli, er Helgi hvassi hét, forn Birkibeinn. Helgi elskaði mjök sveininn, ok rann hann jafnan at honum. Hann kom enn til Helga, en hann hratt sveininum frá sér ok bað hann braut fara. Sveinninn mælti: Hví ertu mér reiðr, Helgi minn? Hann veik honum frá sér annat sinn. Sveinninn mælti annat sinn hin sömu

orð. Þá svaraði Helgi: Brauttu nú, sagði hann, þvíat í dag var dœmdr af þér föðurarfr þinn; hirði ek nú ekki um þik. Sveinninn svaraði: Hvar var þat gert, eða hverir gerðu þat? Helgi svaraði: Þat var gert á Eyraþingi, en þat gerðu þeir Ingi konungr ok Hákon jarl. Sveinninn svaraði sem vitr vaxinn maðr: Ver eigi mér reiðr, sagði hann, ok gef eigi gaum at þessu, þvíat vant er at sjá, at sá dómr haldist, þvíat þar var engi minn umboðsmaðr at svara af minni hendi. Helgi mælti: Hverr er þinn umboðsmaðr? Hann svaraði: Guð ok hinn helgi Ólafr konungr, þeim hefi ek fengit mitt umboð, ok þeir skulu sjá hlut mér til handa um landskipti ok aðra hamingju. Þetta heyrðu allir, þeir er við váru, ok fannst mönnum mikit um. Helgi tók sveininn í fang sér ok kysti hann ok mælti: Tala heill, konungsson! betra er þetta mælt en eigi. Þetta var sagt jarli, ok fátt hafði hann um, en frú Kristín var mjök reið ok mælti hart við sveininn. Jarl fór eptir þingit suðr til Björgynjar, ok konungsson við honum. Allir fornir Birkibeinar elskuðu mjök sveininn, ok því meir, sem þeir sá, at vit hans óx ok eljun.

*Frá Híða, er níðast vildi á konungssyni Hákoni.*

9 (7). Híði hét maðr, hann var bróðir Sigurðar skjálga, þeir þjónuðu báðir lengi Sverri konungi. Híði var nú við jarli. Hann vissi, at frú Kristín var nökkut á mót konungssyni, hugði hann, at jarli mundi svá umgefit. Hann mælti einn dag við jarl: Hér er sveinn sá með yðr, er kallaðr er konungs son, kann vera, ef hann vex hér upp, at margir menn elski hann fyrir sakir föður ok föðurföður, ok mun yðrum syni eigi hœgt til lands at ganga, ef þessi sveinn stendr á móti. Nú ef svá væri til háttat í öðrum löndum, þá mundi þat ráð fyrir gert, at eigi þurfti landshöfðingi at óttast um sitt afkvæmi, mundi sveinn þessi sendr í önnur lönd til þeira

höfðingja, er enga vináttu ætti honum at gjalda, mundi hann þá vera meiddr eða innsettr, ok ef þér vilit, þá mun ek fara braut með hann. Jarl svaraði: Vili guð þat, sagði hann, at eigi kaupa ek með því móti ríki syni mínum, at ek fyrirkoma þess manns syni eða sonarsyni, er ek ætta bezt at launa. Jarli var aldri jafnvel við Hiða sem áðr.

*Andlát Hákonar jarls.*

10 (8). Þá er konungsson var tíu vetra, fékk Hákon jarl sótt, þá sem hann leiddi til bana. Sveinninn var hjá honum, ok fá menn kendi jarl lengr en konungsson. Ok er Hákon jarl var andaðr, fór konungsson til Inga konungs, ok var með honum jafnan síðan. Þeir váru báðir saman í skóla Hákon ok Guthormr son Inga konungs, ok urðu þar margir ymisligir atburðir um þeira athæfi, þeir er minniligir mundu þykkja, ef ritaðir væri. Guthormr var miklu bráðari í sínu skaplyndi, Hákon var hugaðlátr, hann var þokkasæll hverjum manni. Konungr hélt þá jafnt at öllum hlutum.

*Um konungstekju.*

11 (9). Þat var eitt sinn er Ingi konungr var krankr, þá var við honum Skúli bróðir hans ok margir aðrir ágætir menn. Hirðin öll var þá á stefnu, ok þá mælti Skúli: Ef guð kallar frá oss konunginn, þá þurfum vér heilla ráða, hvern vér skulum til konungs taka eptir hann. Þá svaradi Dagfinnr búandi: Hver efni eru þar til? Skúli mælti: Hér er fyrst Guthormr son Inga konungs, er vel er tilfallinn, þá erum við samfeðri brœðr, sem þér vituð, þá er Hákon son Hákonar konungs, austr í Gautlandi er Knútr son Hákonar jarls, megut þér ok vita, hversu hann er tilkominn. Hér töluðu þeir um lengi, ok lagði hverr til slíkt, sem sýndist. Þá svaraði Eyvindr prestsmágr: Þat þykki mér undarligt, er þér vefit þetta

svá mjök, vitrir menn, er ljóst liggr fyrir augum öllum mönnum, ef rétt vilja um tala, at son Hákonar konungs Sverrissonar er réttkominn til alls Noregs eptir föður sinn, en eigi þú, Skúli, né bróðurson þinn, ok eigi son Hákonar jarls, ok ef þeir brœðr báðir lifði Hákon ok Ingi, ok þann dag er Hákon vildi ok væri hann fulltíða, þá mætti hann krefja yðr báða or sínum föðurarfi ok setjast sjálfr í staðinn. Ok er Eyvindr hafði veittan þenna orskurð, þá urðu engir til mótmæla, þeir sem þar váru, ok féll þessi rœða niðr, en konunginum bœttist.

*Vágsbrúar sumar.*

12 (10). Ingi konungr varð missáttr við Þrœndi fyrir þat, er þeir héldu leiðöngrum fyrir honum. Konungr barðist við þá á Raumaþingi, sem segir í sögu hans. Ingi konungr fór um sumarit norðr til Þrándheims við miklu liði. Váru þá með honum margir sveitarhöfðingjar. Hélt hann her þeim á hendr Innþrœndum ok fann þá inn við Vágsbrú; þá sættust þeir. Var þat kallat Vágsbrúar sumar. En er konungr kom út aptr til Niðaróss, þá beiddu frændr konungssonar Inga konung, at hann mundi fá Hákoni lén nökkut at halda sik við ok frændr sína. Konungr spurði, hvers þeir beiddist um. Þeir beiddust Jamtalands, þvíat þat vann Sverrir konungr föðurfaðir hans undir Noregs veldi. Konungr svaraði stutt ok mælti: Svá stórum er nú Noregr áðr brytjaðr austan af Böglum, at eigi munum vér fá honum svá stór lén, ok engu landi munum vér nú skipta; er hann ok svá vel haldinn at svá búnu, at hann vantar ekki. Géngu þeir á braut ok undu illa við. Fám dögum síðar höfðu frændr konungssonar stefnu við Hákon fyrir sunnan Krosskirkju. Þeir mæltu svá: Lítit þykkir oss, konungsson, sem Ingi vili miðla þér af föðurarfi þínum. Svima þeir nú margir í fullsælu, þeiri er þú átt, er til enskis eru um komnir, en vér frændr þínir fara útlaga af öllu váru góðs. Nú

er þat várt ráð, at vér hlaupim á braut við yðr ok samnim liði, þvíat vér heyrum nú marga Birkibeina um rœða, at minna gott þykkist upp taka en til hafa þjónat. Segist ok slíkt austan frá Böglum, at þeir mundi gjarna til móts við yðr, ef þeir næði. Konungsson svaraði engu. Þá mælti Andres skjaldarband: Nú viljum vér, konungsson, at þú farir braut við oss, ok mun skamt at bíða, at þeir munu hinir sömu biðja yðr sœmdarinnar, er nú varna yðr. Slíkt sama mælti þá hverr at öðrum. Þá svaraði konungsson: Mjök em ek bernskr undir slík stórræði at ganga, væri þat úsannligt, at ek berðumst á mót Birkibeinum, eða ek etta þeim saman, er allir ætti einskjaldar at vera. Vil ek heldr þess guð biðja, at hann gefi mér slíkt af mínum föðurarfi, sem hans er mildi til, hvern tíma sem þat kemr fram. Mun ek engan flokk reisa í Noregi, at svá tilkomnu sem enn er. Var þessi rœða eigi lengri at sinni.

### *Andlát Inga konungs.*

13 (11). Þá er liðnir váru tveir vetr frá andláti Hákonar jarls ok kominn var hinn þriði, fékk Ingi konungr sótt. Hann lét jafnan vera hjá sér konungsson, þvíat honum var jafnan gaman at hans orðum. Nikulás hét dróttseti konungs, hann var kátr ok gamansamr. Váru þeir jafnan hjá konungi. Skúli bróðir hans sat yfir honum, ok er konungr fann, at minkaðist megn hans, þá leiddi hann Skúla bróður sinn til sætis ok gaf honum jarls nafn at bœn vina sinna. Tók hann þá við allri hirðstjórn, ok litlu síðar andaðist Ingi konungr. Þat var hinn 9di kal. Maji.

### *Um konungskosning.*

14 (12). Þá var Hákon konungsson 13 vetra, er Ingi konungr andaðist, en Guthormr son hans 9 vetra. Þá váru áttar hirðstefnur ok talat um konungstekju.

Snerust þeir menn þá saman, er þjónat höfðu Sverri konungi, ok þar með allir fornir Birkibeinar, kom þat ásamt með þeim, at þeir vildu taka til konungs Hákon son Hákonar konungs; en Skúli vildi ok hans vinir, at Guthormr væri til konungs tekinn. Sumir váru þeir vinir jarls, at þat mæltu, at hann væri nærkomnastr konungdóminum, þar sem hann var arfi Inga konungs. En þótt þetta væri eigi hátt talat í fyrstu, þá kom þó þetta í fjölmæli um síðir, svá at hér varð um hinn mesti sveitardráttr. Jarl vildi lítt vera á stefnum, þvíat hann vissi vilja Birkibeina hér um. Þá kómu til bœndr af heruðum, ok sögðu svá flestir hinir ellri menn, at þeir vildu þann til konungs, er af konungaætt væri kominn, svá at aldri hefði kvenkné á millum komit. Margir af bóndum fylgðu ok Skúla. Guthormr erkibyskup var farinn norðr á Hálogaland, vildi jarl, at biði erkibyskups, ok höfðu Birkibeinar þat fyrir satt, at Skúli jarl vildi, at erkibyskup yrði berr at því, er hann vildi, at væri. Þeir váru enn nökkurir af kennimönnum, er gjarna vildu fyrirkoma ætt Sverris. Jarl lét sem hann vildi gjarna gera ráð með hirðinni, en þó dró hann þat undan. Sem Birkibeinar sá, hversu jarl dró þetta undan, létu þeir einn dag blása til hirðstefnu í höllina, géngu síðan til jarls ok báðu hann ganga á stefnuna. Ok er jarl kom, stóð upp Vegarðr veradalr ok mælti: Herra jarl, sagði hann, vér viljum eigi lengr hafa drátt í þessu máli um konungstekjuna, viljum vér hafa þing þenna myrgin í konungsgarði, viljum vér, jarl, at þú takir við Hákoni konungssyni ok setir hann í hásæti hjá yðr, ok kalli allir hann konungsefni, þar til er Eyraþing er; en ef þér vilit eigi þetta, þá munu vér setja fram skip vár, ok munum fara suðr til Björgynjar til hirðar þeirar, er þar er. Munum vér þar hafa Gulaþing, ok tökum Hákon þar til konungs, leggjum vér hans mál ok várt á guðs vald ok hins helga Ólafs konungs. Jarl kvað svá vera skyldu, sem hirðin

vildi. Eptir þessa hirðstefnu kallaði jarl saman alla sína vini, bæði leikmenn ok lærða menn. Vissu menn fátt af þeira tali. Eptir um myrgininn létu hirðstjórar blása til þings öllu fólki í konungsgarð, lét þar jarl gera hásæti fyrir sunnan Nikuláskirkju. Stóð þá enn Vegarðr upp ok talaði af því sama efni sem fyrra dag. Eptir þat talaði Gregorius Jónsson lendr maðr ok mælti: Vér hugðum, at þetta skyldi eigi gera með svá bráðum áhlaupum, væri þat ráð, at vér biðim erkibyskups ok annarra byskupa, ok svá allra hinna vitrustu manna í landinu, ok hefði menn þeira ráð við slík stórmæli. Þá svaraði Önundr merkismaðr: Eigi mun oss Birkibeinum hœfa at bíða langrœðu byskupanna at þessu máli, þvíat lítt munu þeir fylgja lögum hins helga Ólafs konungs, þegar nökkurr á í hlut af ætt Sverris konungs, erum vér þá ok eigi vel við búnir Böglum, ef þeir koma á hendr oss, ef vér erum höfuðlausir fyrir eða eigi sjálfir vel samlyndir. Er því engi annarra til, en vér fylgim konungaættinni, meðan guð vill oss fylgja.

*Hákon konungsson leiddr á þing.*

15 (13). Eptir þat nefndu þeir 12 menn á þinginu at ganga eptir konungssyni, hann var uppi við Kristskirkju. Þeir géngu inn í skólann, ok þá mælti sá, er fyrir þeim var: Allir fornir Birkibeinar ok bœjarmenn ok öll alþýða heilsa yðr, konungsson! Sitja þeir nú í konungsgarði ok bíða yðar. Tóku síðan í hönd honum ok leiddu hann við sér. Ok er þeir kómu þar, sem jarl sat á stólinum, þá mælti Skúli: Eigi munum vér at svá búnu setja Hákon í hásætit, þvíat þeir eru margir várir menn, at eigi þykkjast sannfróðir um hans faðerni. Þá svöruðu Birkibeinar: Þat megut þér vita, Skúli jarl, at þann fyrsta vetr er Hákon kom til móts við Inga konung bróður yðarn, at hann tók svá við honum sem sönnum sínum frænda, hafði hann aldri efa á því, at hann væri

son Hákonar konungs; ok slíkt sama gerði Hákon jarl. Mun þetta vera komit af rótum ok ráðum þeim, sem nú hafa verit um hríð, ok af fornum fjándskap þeira, er fyrirkoma vildu Noregs konungaætt hér í Noregi, en þá fram draga, sem ekki eru til komnir. Frændr sveinsins sögðust glaðliga vildu ganga til skírslu, heldr en hann misti sinnar föðurleifðar.

*Inga konungsmóðir fastaði til járns.*

16 (14). Þeir géngu nú af þinginu, en Inga konungsmóðir fór til Pétrskirkju ok fastaði þar til járns. En meðan þetta var, skorti eigi náttstefnur af jarli ok nökkurum kórsbrœðrum ok enn fleirum lærðum mönnum, þeim sem móti váru konungssyni. En þá er járnit skyldi bera, var því brautu skotit, ok vissi engi, hvar þat var komit. Sumir kórsbrœðr kváðu ekki járn skyldu bera, meðan erkibyskup væri eigi við. Sem Birkibeinar sá, hversu fór, þá héldu þeir fram eigi at síðr sínu máli, ok sendu menn um öll Þrœndalög ok stefndu Eyraþing á mánaðar fresti. Þeir féngu ok menn til at fylgja konungssyni dag ok nótt, ok kölluðu hann æ konungsefni ok létu hann sitja hjá jarli, þótt honum væri þat eigi mjök at skapi.

*Frá Dagfinni bónda.*

17 (15). Þá er þetta var tíðinda, kom sunnan or landi Dagfinnr bóndi, lögmaðr ok stallari. Hann hafði bréf frá Hávarði, er þá var byskupsefni í Björgyn, ok frá lendum mönnum or Gulaþingslögum. Var þá blásit til hirðstefnu ok bréf upplesin, þau er þetta stóð á: Vér höfum spurt fráfall várs herra Inga konungs, var þat miklum mun fyrr, en várr vili stóð til. Vér höfum ok frétt, at nökkut leikr á tveim tungum, hverr í konungs stað skal koma, ok er þat undarligt, er svá vitrir menn skulu vera tvídrœgir um þat, er öllum mönnum er

svá auðsætt, þvíat engan vitum vér annan réttkominn til en Hákon son Hákonar konungs Sverrissonar, þvíat hans ættmenn hafa jafnan fyrir Noregi ráðit. Þér skulut nú ok vita hér várn vilja um, at vér munum engum konungi þjóna nema honum, en hvern annarra, sem þér takit til, þá skulu vér móti falla. Ok ef þér þrœndir vilit nökkut fram draga þá, sem eru yðrir frændr eða fóstbrœðr, þótt þeir sé í ættartölu við konunga, ok ef svá skulu hverir sínum frændum fylgja eða fóstbrœðrum, þá kann vera, at brátt verði margir neskonungarnir. Skyldum vér vera um slíka hluti einarðir, ok svá væntum vér, at þér sét, hvat sem hverigir segja. Dagfinnr bóndi ok Hróarr konungsfrændi kunnu at segja yðr allan várn vilja um þetta mál.

*Tala Dagfinns.*

18 (16). Sem bréfin váru lesin, talaði Dagfinnr hér um mörgum orðum, ok lauk svá: Ef Hákon verðr hér eigi til konungs tekinn, þá viljum vér Birkibeinar fylgja honum suðr til Björgynjar, er þat sannr vili allra Gulaþingsmanna. Þá varð rómr mikill, ok sögðu þetta skyldu fram ganga, hversu sem hverigum þœtti. Ok lauk svá þeiri stefnu. Ok er þetta var tíðinda, fór þingboðit um heruðin.

*Upphaf konungdóms Hákonar konungs.*

19 (17). Dag þann er Eyraþing var stefnt, kom til bœjarins fjölmenni mikit, svá sem siðvani er til, er konung skal taka. Var þá blásit öllu fólki út á Eyrar. Þá váru menn sendir til kórsbrœðra eptir skríni hins helga Ólafs konungs. Ok er þeir kómu til kirkjunnar, var hon í lási, en klokkarar sögðu, at kórsbrœðr lögðu hverjum manni bann við, er bryti upp kirkjuna eða tœki út skrínit. Ok er þetta spurðist á þingit, þá var eigi því síðr gefit Hákoni konungsnafn eptir réttum siðum ok fornum máldögum; þat gerði sá maðr, er Skervaldr hét or Gaulardal. Var honum þá dœmt land ok þegnar ok ját allri réttri

hlýðni ok þegnskyldu svá fullkomliga, sem bæði hefði hann svarit þeim eið, ok þeir honum. Annan dag eptir var blásit til hirðstefnu, sóru menn þá eiða þeim Hákoni konungi ok Skúla jarli, hverr með slíkum nafnbótum, sem þeir höfðu haft með Inga konungi.

*Frá konungi ok jarli.*

20 (18). Brátt eptir þingit bjoggust þeir konungr ok jarl suðr til Björgynjar, ok höfðu eitt skip báðir. Jarl var eptir í bœnum, en konungr fór með skipinu. Veðr var lítit, lögðu þeir at við Hattarhamar. Þá deildu þeir um lægi Eilífr ok Ásólfr, þvíat þá var hvárrtveggi skipstjórnarmaðr. Gestir vildu þröngva Ásólfi or læginu. Géngu þá árar ok forkar, ok síðan tóku hvárirtveggju til vápna. Var þá hörð svipan, þvíat skipin lágu jafnfram. Í þessu kom konungsskipit at, ok er hann sér vápn á lopti, þá bað hann sína menn stýra fram millum skipanna. Ok er konungsskipit rendi á millum fram, máttu þá hvárigir gera öðrum mein. Þá urðu hvárirtveggju sárir. Konungr gékk þá á land upp ok sætti þá. Kom þá jarl innan or bœnum; byrjaði þeim vel suðr til Björgynjar, ok lögðu at við Hegranes. Um myrgininn kom til þeira Dagfinnr bóndi ok sagði, at bréf hefði komit norðan frá kórsbrœðrum til byskupsefnis, ok stœði þat á, at hann skyldi enga tign veita konungi. Sagði Dagfinnr, at þeir þœttist við vant um komnir. Jarl svaraði hér fá um. Þá mælti Dagfinnr: Ef þeir fara með slíku hér fràm, sem þeir hófu í Þrándheimi, þá mun brátt af þvást öll sú sœmd, er konunginum heyrir til. Þá mælti konungr: Dagfinnr bóndi, far inn til bœjar ok seg svá kórsbrœðrum, at ek vænti bezt af þeim einna manna í landinu, en ef þeir gera öðruvís, þá skal eigi langt til, at þeir skulu vita, hvárt oss hugnar vel eða illa. Fór Dagfinnr þá til bœjar ok sagði kórsbrœðrum orð konungs.

*Frá konungi ok kórsbræðrum.*

21 (19). Þeir kváðust gjarna vilja gera konungi alla sœmd, sem þeir kunnu, hversu sem erkibyskupi þœtti. Reri þá konungr inn til bœjar, var þá hringt á mót honum um allan bœinn, géngu lærðir menn á mót honum sem sœmiligast. Var þá stefnt þing öllum lendum mönnum ok hirðstjórum, þeim er í Gulaþingslögum váru, var þingit sett á Seljumanna vöku. En meðan þessi biðvangr var, hafði jarl stefnur við sína menn ok sendi bréf bæði norðr ok suðr í landit; var þat flestum mönnum úkunnigt, hvat á þeim var, ok fá váru konunginum sýnd. Þá váru menn sendir austr í Vík til Philippus Baglakonungs. Birkibeinar kærðu slíkt fyrir konunginum, at slík umleitan væri kynlig. Konungr svaraði ok sagði, at Skúli jarl var svá vitr maðr, at hann mundi kunna at sjá vini sér til handa, mun mér þat meinlaust, at hann eigi sér marga vini, þvíat hann mun vel halda vár einkamál af sinni hendi.

*Bréfagerðir Skúla jarls.*

22 (20). Skúli jarl lét gera bréf vestr um haf til Jóns jarls í Orkneyjar, ok váru þar fyrir konungs innsigli. Með bréfunum fór Jósteinn þömb. Ok er þessi bréf kómu til hafs, urðu menn varir við á skipinu ok gerðu orð inn til Ívars bodda ok Dagfinns, ok sögðu konungs innsigli fyrir þessum bréfum. Ívarr gékk þá til konungs ok spurði, ef hann vissi nökkut til þessarra bréfa. Hann kvezt eigi vita. Ívarr kvað betr, at hann sæi þau bréf, er með konungs innsigli váru send í önnur lönd. Konungr sendi þá menn eptir bréfunum. Jarl varð þessa varr, sendi hann þá sína menn á öðru skipi, ok urðu þeir skjótari, ok náðu þeir bréfunum, áðr konungs menn kómu. Ok þegar sem þeir kómu til bœjarins, lét jarl blása til hirðstefnu, hafði hann miklar kærslur á Ívari bodda ok öðru ráðuneytinu, sagði þá vildu koma sundrþykki millum þeira konungs, er mistrygðu hann í sínum ráðum.

*Frá konungsmönnum.*

23 (20). Þá mælti Gregorius Jónsson frændi jarls: Ek var í tali með þeim mönnum, er fyrst sóru eiða konungi ok jarli til trúnaðar, ok hugðu vér, at alt skyldi eitt vera, en nú vill einn prestr spilla váru samþykki; skal honum þat aldri hlýða, tökum hann ok refsum honum, svá at aðrir sjái við síðan. Eptir þat hljópu upp frændr jarls ok vinir, þeir sem inni váru, ok sögðust skyldu rífa hann í sundr kvikan. Ívarr stóð þá upp ok vildi tala, ok fékk eigi. Var þá við því búit, at Ívari mundi veitt atganga. Þá stóð konungr upp ok mælti: Ek kann fátt tala, en þó vil ek, at þér hlýðit Ívari fóstrföður mínum, ok svarit síðan, sem yðr líkar. Hróarr konungsfrændi kvað svá vera skyldu.

*Frá Ívari bodda.*

24 (21). Þá mælti Ívarr: Þat er fornum Birkibeinum kunnigt, at ek kom þat vár til Sverris konungs, áðr hann barðist á Strindsjó, hafða ek af honum gott yfirlát, svá at um síðir vissa ek öll leyndarmál með honum; mundi hann eigi hafa svá gert, ef hann hefði fundit mik at údygðarmanni. Slíkt sama gerði ok Hákon konungr son hans, ok hinn sama hátt hafði Guthormr konungr, en síðan þeir tóku ríkit Ingi konungr ok jarlinn Hákon, þá gerðu þeir enn með sama hætti, ok þat framar, at mér var mjök móti skapi, at þeir hlíttu mér til sinna bréfagerða, ok var ek jafnan um þat hræddr, at mínir úvinir mætti þar nökkut at finna, þvíat þá var sem nú, at mik skorti eigi öfundarmenn, þeir er mér vildu fyrirkoma. Ok því vil ek skjóta til allra manna vitnis, at aldri varð því á mik sannat, er til fals eða flærðar væri við minn herra. En þessi ungi konungr er bernskr ok þarf heilla ráða ok tryggva návistarmenn, þvíat þeir sitja yfrit nærri, er þá vildi frá honum spenja, sem honum væri heilráðir. Nú ef þessi mín sök er svá mikil, at ek sjá þess verðr at vera rifinn í sundr kvikr, sem þú sagðir, Gregorius Jónsson, ok þú, Páll flíða, þá skal þess eigi optar við





þurfa, þvíat ek skal mik or konungsgarði skilja ok eigi spilla samþykki með konungi ok jarli. Gefi guð, at þeir einir sé eptir, at báðum þeim sé hollir ok heilráðir, ok þat ráði þeim, at hverr hafi slíkt, sem hann er til borinn. Svá lauk þessi stefnu, at konungsmenn váru úglaðir, en öfundarmenn kátir.

*Um þat, hvat Hákon konungr erfði.*

25 (22). Hákon konungr kom svá til ríkis, at hann fékk eigi meira af föðurarfi sínum en eina sylgju ok fingrgull af lausafé. Skúli jarl hafði nát öllu því fé, sem átt hafði Ingi konungr. Hinn næsta dag fyrir Gulaþing fundust þeir konungr ok jarl ok ráðgjafar þeira. Sögðu svá konungsmenn, at þeir vildu, at jarl sverði konungi trúnaðareiða eptir fornum vana. Jarl kvezt eigi þat mundu fyrri gera, en hann vissi, hvat hann skyldi á mót hafa, ok beiddist hálfs alls ríkisins. Konungsmenn buðu þriðjung af Noregi, en ekki af skattlöndum. Gregorius ok Páll fliða sögðu hann skyldu hafa hit minsta þriðjung af öllu, ella mundi hann braut leita við öllum sínum styrk, ok þangat, sem hann féngi þat, er honum hugnaði. Birkibeinar sá, at þat var konunginum váðvænt, ef þeir jarl ok Philippus snerust at einu ráði, ok því tóku þeir þat ráð, at þeir jáðu Skúla jarli þriðjungi af Noregi ok öllum skattlöndum. Lauk með því þessarri stefnu.

*Tala Dagfinns.*

26 (23). Annan dag eptir var blásit til þings út í Kristskirkjugarði, var þá útborit skrín hinnar helgu Sunnifu ok margir aðrir helgir dómar. Þá stóð upp Sigurðr af Ónarheimi af hendi allra Gulaþingsmanna ok fagnaði konungi ok jarli, ok fór þar um fögrum orðum. Eptir þat talaði Dagfinnr ok sagði, at Þrœndir hefði læst inni skrín hins helga Ólafs konungs, var þat eigi vili bónda, sagði hann, eða ráð Gulaþingsmanna, þvíat vér viljum gjarna gera konunginum alla sœmd, sem vér kunnum, bæði leikmenn ok lærðir menn.

*Um eið konungs.*

27 (24). Eptir þat stóð upp Steingrímr stryllr, vitr maðr, ok gaf Hákoni konungsnafn. Síðan sór konungrinn at halda lands rétt. Jarl hafði áðr skipat eiðnum, ok var svá eiðrinn, at konungr skyldi halda öll einkamál við jarl, þau sem millum þeira váru ger. Jarl sór, at hann skyldi halda landslög við fólkit, hann skyldi ok vera hollr ok trúr Hákoni konungi, svá lengi sem hann héldi þau einkamál, er millum þeira váru mælt. Síðan sóru lendir menn, þá hirðstjórar, þá handgengnir menn, þá gestir, þá bœndr.

*Um ár í landinu.*

28 (25). Þá er Hákon var til konungs tekinn, var svá mikit ár í landinu, at þat var víða, at aldinviðrinn bar tvennan ávöxt ok útifuglar urpu tysvar. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Mærir glöddusk miklu ári
menn, báru þá ávöxt tvennan,
veglig sýndisk, viðr ok fuglar,
vísa grein, á sumri einu.

Svá segir Sturla:

Bar tállaust
tvinnan blóma
aldinviðr
einu sumri,
ok úkalt
útifuglar
öndvert ár
urpu tysvar.

Þá er allvaldr
við jöfurs nafni
tírar gjarn
of tekit hafði,
ok hans gipt,
hæstrar tíðar
veg valið,
vaxa náði.

Sá hverr maðr,
at höfuðskepnur
fylkis tign
fagna vildu
göfugláts
gjálfri kringðum
á vindkers
víðum botni.

*Um bréf Baglakonungs.*

29 (26). Litlu eptir þingit kómu menn austan frá Philippo Baglakonungi með bréfum til Skúla jarls, ok var þat á, at Philippus beiddist helmingsskiptis af Noregi, ella kvezt hann mundu reisa úfrið á mót Birkibeinum. Ekki var konungs getit í þessum bréfum. Jarl gaf þau andsvör þessum mönnum, at Philippus skyldi hafa þann hluta lands þá 12 mánaði, sem hann hélt áðr, en þeir skyldu finnast at sumri, ok allir hinir beztu menn í landinu, ok skipa þá millum sín. Fóru sendimenn með þessum bréfum austr aptr.

*Frá Sigurði konungsfrænda.*

30 (27). Sigurðr konungsfrændi var settr til gæzlu í Víkinni af hendi Birkibeina, fór hann þetta sumar til Jórsala. En áðr sendimenn Philippus kómu austr í Víkina, fékk Philippus sótt í Túnsbergi. Síðan var hann fluttr til Laufeyja, hann lá litla hríð, áðr hann andaðist. Baglar leyndu andláti hans. Loðinn Pálsson varð varr við ok sendi norðr á skútu Gunnar banamann. Var hann eigi lęngr á leið til Björgynjar en þrjár nætr, ok er hann fann konung ok jarl, sagði hann andlát Philippus, ok báðu Birkibeinar, þeir sem í Víkinni váru, þá konung ok jarl skunda austr þannig, þvíat Baglar leituðu sér um konungsefni. Baglar sendu menn suðr til Danmerkr ok kváðust spurt hafa, at þar væri sá maðr, er héti Sigurðr ok væri son Erlings steinveggs.

*Um ferðir konungs ok jarls.*

31 (28). Þegar sem þeir konungr ok jarl höfðu frétt þessi tíðindi, bjoggust þeir austr sem skjótast, ok höfðu eitt skip báðir, er hét Ógnarbrandrinn. Þeir fóru austr eptir Maríumessu fyrri. Baglar váru allir austan fjarðar. Þessir váru þá formenn Bagla, herra Andres bróðir Philippus konungs, Rögnvaldr Hallkelsson, systurson

Magnús konungs, Arnbjörn Jónsson, ok margir aðrir góðir menn. En er þeir konungr ok jarl kómu í Víkina, þá kom Nikulás byskup á mót þeim við Hrossanes. Váru þá sett grið. Kómu Baglar þá austan um fjörðinn, þeir fundust í Maríukirkju í Túnsbergi. Váru þar margir hlutir talaðir. Bauð konungr ok jarl Böglum at gerast sér handgengnir ok hafa slíkar nafnbœtr, sem áðr. Baglar vildu hafa slíkt af landi sem áðr, en svá lauk, at þeir skyldu hafa hálft alt, þat sem Philippus hafði haft, en hvárirtveggju senda menn norðr til erkibyskups, ok skyldi hann staðfesta ok semja á millum þeira um sumarit eptir. Fór af hendi Birkibeina Gregorius Jónsson ok Dagfinnr bóndi, en af hendi Bagla Eindriði bekill ok Grundi féhirðir. Þeir konungr ok jarl skipuðu nú sýslur þær, sem þeir höfðu hlotit í Víkinni. Síðan áttu þeir Haugaþing, var þar Hákon til konungs tekinn. Ok þá fóru þeir austr yfir Foldina ok áttu Borgarþing, þaðan í Vettaherað, ok svá austr til Elfarbakka. Var Hákoni gefit konungsnafn á öllum þessum þingum, ok gerðu menn út allan almenning. Þeir sátu langa hríð í Konungahellu um haustit.

### *Áskell lögmaðr fékk frú Kristínar.*

32 (29). Sumar þat er þeir váru í Víkinni, var gipt frú Kristín, er átt hafði Hákon jarl galinn, austr í Gautland, fékk hennar Áskell lögmaðr, son Magnús minniskjaldar, bróðurson Birgis jarls. Þar fœddist upp með þeim junkherra Knútr son Hákonar jarls. Um haustit er þeir konungr ok jarl sátu í Konungahellu, sendu þeir bréf upp í Gautland til lögmannsins, at hann skyldi senda þeim Knút, ok lögðu stefnu við lögmann, ok kom jarl í ákveðinn stað, en lögmaðr eigi. Eptir þat fóru þeir norðr í land.

*Frá lendum mönnum.*

33 (30, 31, 32). Sumar þat er þeir konungr váru í Víkinni, fór Hróarr konungsfrændi út í Jórsalaheim. Erlendr Þorbergsson stýrði öðru skipi. Hróarr kom til Akrsborgar í þeiri ferð, en Erlendr til Darmatan. Þeir konungr ok jarl kómu sjau nóttum fyrir jól til Björgynjar ok sátu þar um vetrinn. Þann vetr gerðust þeir lendir menn Jón stál ok Ívarr nef. Féll þá vel með konungi ok jarli. Baglar skiptu nú sýslum með sér. Rögnvaldr hlaut sýslu á Foldinni ok um Osló, en hann hafði áðr haft uppi á Raumaríki. Raumum þótti hann hafa verit harðr í sýslunni, en er Foldungar spurðu þetta, kurruðu þeir illa, ok sögðu hann eigi þeim mundu góðan. Rögnvaldr fór út til Haugsvíkr ok stefndi Foldungum þing. En er þingboðit kom í bygðina, þá sneru bœndr því í herör, ok stefndu saman múga manns ok sóttu þingit með alvæpni. Rögnvaldr sótti þingit við fá menn, ok þegar hann vildi nökkut tala, œptu bœndr ok báðu hann þegja, en sumir brugðu vápnum ok unnu á Rögnvaldi. Sneri hann þá undan, en bœndr héldu eptir ok drápu hann. Lík Rögnvalds var flutt til Oslóar ok jarðat þar.

*Frá Bena skinnkníf.*

34 (33). Um sumarit er þeir konungr ok jarl váru í Víkinni, þá var prestr sá með Rögnvaldi, er hét Beni skinnknífr. Hann var ættaðr austan af Mörkum, hann fór með leika, hann lézt vera son Magnús Erlingssonar. Rögnvaldr hélt hann meir fyrir dára en frænda. En þá er Rögnvaldr var drepinn, fór Beni austr á Markir, ok samnaði hann liði ok lézt þá Magnús heita eptir föður sínum. Dreif þá lið mikit til hans. Sá maðr styrkti hann mest at öndverðu, er Haraldr hét af Rakkastöðum; Beni hafði verit leiguprestr hans. Fólk Bena var fátœkt mjök bæði at vápnum ok klæðum, þeir váru Slittungar kallaðir. Þeir váru úspakir í ránum ok launstuldum. Um

vetrinn kómu til Slittunga Þorbjörn af Lumalöndum ok Helgi bróðir hans, þeir váru menn settstórir ok féríkir. Kom þá mart í flokkinn til þeira. Margir hugðu, at Beni væri sannr sonr Magnús konungs. Þeir gerðu mart ilt um vetrinn ok ræntu mörgu ok lágu jafnan úti á mörkum.

*Orrosta mikil.*

35 (34). Á föstu féngu Baglar njósn, at Slittungar váru á skip komnir ok ætluðu til bœjarins, þeir bjoggust við. Slittungar lögðu at við Gunnarsbœ. Baglar létu þá blása öllu liðinu upp á Hauga. Beni sendi menn á fund Arnbjarnar Jónssonar ok sagði svá, at hann mundi eigi þess vara, at hann vildi berjast á mót bróður Erlings steinveggs. Arnbjörn svaraði: Rétt segir Beni þat, at eigi mun ek berjast á mót bróður Erlings, en þat hygg ek, at Beni sé í annarri ættartölu, ok því skulu vér öndverðir við horfa Baglar, ef þeir vitja vár. Fór sendimaðr aptr við þessum orðum. Slittungar ok Baglar fundust á akrinum við Gunnarsbœ. Þar varð hörð orrosta, ok féll mart ok miklu fleira af Slittungum. Arnbjörn var skotinn í hálsinn. Herra Andres varð ok sárr í kinninni, ok er hann fékk sárit, kastaði hann skildinum. Hann var manna sterkastr, hann tók vinstri hendi skjölduna, en hjó hœgri hendi hvern mann til bana við sverði því, er Skarði hét, allra sverða bezt. Arnbjörn sótti þá ok hart fram. Þar féll Þorbjörn af Lumalöndum ok Helgi bróðir hans; þar féllu 15 tigir manna. Beni komst undan við lítinn orðstír. Lík Þorbjarnar ok Helga váru flutt til kirkju, en engir aðrir af Slittungum. Beni snýr nú austr á Markir ok dró at sér mart illþýði.

*Frá Slittungum ok lögmanni.*

36 (35). Um várit eptir páskir kómu Slittungar ofan til Oslóar. Ívarr hafði þá Oslóarsýslu. Birkibeinar fóru á mót Slittungum, ok hittust þeir við Frysju ok

skutust á yfir ána. Þar féll meistari Stefnir. Birkibeinar flýðu í bœinn. Slittungar ræntu þar mörgu ok tóku langskip, er byskup átti, ok nökkur skip önnur, fóru síðan út eptir firði, ok svá suðr í Víkina, ok ræntu víða. En er þeir kómu fyrir Elfarbakka, þá lögðu þeir í hina eystri kvíslina. Áskell var þá í Ljóðhúsum, hann skipaði nökkurar skútur ok ætlaði at Slittungum. Þá var við honum junkherra Knútr, ok er þeir lögmaðr fóru út eptir ánni, þá lét Áskell junkherra Knút á land, ok rann hann í skóginn. Ok litlu síðar rendu þar at þeim skútur Slittunga. Tók lögmaðr á land upp við öllum sínum mönnum, en Slittungar tóku skúturnar ok alt þat, er á var, þar tóku þeir landtjald ok messuföt ok mart annat. Menn Áskels tóku junkherra Knút. Slittungar fóru út til sjófar ok svá suðr á Halland, ok ræntu, hvar sem þeir kómu.

*Frá Böglum ok Slittungum.*

37 (36, 37). Birkibeinar, þeir sem í Víkinni váru, stigu á skip ok fóru at leita Slittunga. Þar váru þessir formenn, Guthormr Gunnason, Loðinn Pálsson, Loðinn Gunnason, Hallvarðr bratti, Ívarr útvík. Þar var af Böglum Andres ok Arnbjörn. Þeir hittu Slittunga í Barðafirði. Fundu þeir eigi fyrr, en Birkibeinar kómu fyrir höfnina. Tóku þeir allir á land upp ok flýðu undan, en Birkibeinar ok Baglar tóku skipin ok alt þat, er á var. Herra Andres lagðist sjúkr litlu síðar, ok opnaðist sár þat, er hann hafði fengit á Gunnarsbœ. Ok er megn hans minkaðist, lét hann gera bréf, ok sendi Skúla jarli. Váru þar á vinsamlig orð, sem þeir höfðu áðr við rœzt, hann sendi jarli sverðit Skarðann ok gullagðan skjöld. Litlu síðar andaðist Andres, var hann jarðaðr í Hallvarðskirkjugarði. Var hann mörgum mönnum mjök harmdauði í Víkinni.

*Frá Sæmundi um rán við austmenn.*

38. Þenna vetr sat Hákon konungr í Björgyn. Var þessi hinn fyrsti vetr ríkis hans. Þat var um sumarit áðr til tíðinda á Íslandi, at Sæmundr í Odda gerði úfrið norrœnum mönnum á Eyrum, fór at þeim við fim hundruð manna, ok tók upp fyrir þeim þrjú hundruð hundraða váðmála, ok fann þat til saka, at Páll son hans hefði týnzt áðr um vetrinn fyrir Staði; þá týndist ok Áslákr Hauksson ok nökkur sex skip. Sæmundr þóttist þat spurt hafa, at Björgynjarmenn hefði gert honum áðr únáðir, ok hefði hann því norðr farit. Margan úfrið gerðu Oddaverjar norrœnum mönnum annan en þenna.

*Frá konungi ok erkibyskupi ok stórmenni.*

39. Hákon konungr ok Skúli jarl fóru um várit norðr til Þrándheims ok kómu til bœjarins hálfum mánaði fyrir páskir. Ekki var hringt á mót þeim, ok engi processsia var ger, ok þó at þeir erkibyskup mœttist ok konungr, þá veitti erkibyskup konungi enga blíðu. Þeir erkibyskup ok jarl fundust jafnan, ok var þar hinn mesti blíðskapr. Palmsunnudag váru þeir báðir í Kristskirkju konungr ok jarl, ok var konungi engi tign veitt, ok er þeir váru leiddir til altaris at ofra, þá snerist erkibyskup eigi á mót konunginum, ok eigi vildi hann við hans ofri taka. Lét konungr þat á altarit ok gékk síðan til sætis síns. Birkibeinum þótti ger til konungs mikil svívirðing. Litlu síðar fundust þeir konungr ok erkibyskup, ok þá spurði konungrinn erkibyskup, hverja sök hann gæfi honum, er hann vildi eigi veita honum konungliga tign. Erkibyskup svaraði: Þetta eru eigi mín eins ráð, þvíat allir vér byskupar erum í þessu ráði, ok sumir þeir sem eru innan hirðar; finnum mér þat til, at vér höfum heyrt nökkurn ifa á, hvárt þér erut son Hákonar konungs. Konungr svaraði: Eigi er þetta öllum byskupum at kenna, ok fám mönnum innan hirðar, þetta er komit af þeim

mönnum, er mér vildu fyrirkoma, en sjálfa sik til míns föðurarfs fram draga. Erkibyskup svaraði: Þegar mér erum sannfróðir um þetta, þá skulum vér veita yðr alla tign, þá sem vér kunnum framast. Með því lyktaðist, at þeir skyldu koma eptir um sumarit suðr til Björgynjar, konungr ok jarl ok allir byskupar ok lendir menn ok lögmenn, skyldi þá þetta mál fœra til vegar. Dagfinnr var þá með konunginum. Erkibyskup lét kalla Dagfinn bónda leyniliga á sinn fund, ok er hann kom, mælti erkibyskup: Guði mínum er þat kunnigt, at ek vil gjarna vera vin konungs, ok eigi væri þessir hlutir talaðir, ef ek réði; en þó biði þér nú hafa konung við gott þol, þvíat svá segir mér hugr um, at þetta verði honum mest til sœmdar, er nú er honum til vanvirðu gert.

*Um greinir með konungi ok jarli.*

40. Þeir konungr ok jarl fóru um sumarit suðr til Björgynjar. Urðu þá í nökkurar greinir með þeim konungi ok jarli. Váru þeir þá flestir, er fylgðu öðrumhvárum. Andres skjaldarband ok Vegarðr veradalr létu hvern dag fylgja konunginum tólf menn alvápnaða umfram þá, er fylgð héldu. Sem á leið um sumarit, kómu byskupar til Björgynjar, Guthormr erkibyskup, Nikulás byskup, Heinrekr byskup, Ívarr byskup, Bjarni byskup af Orkneyjum ok margir aðrir lærðir menn ok lögmenn, ok hinir beztu bœndr. Skúli jarl var jafnan á tali við byskupa.

*Beitt járnburðar.*

41. Einn dag er konungr var á stefnu við sína menn, kómu þar menn frá erkibyskupi ok jarli, Hávarðr byskup af Björgyn ok meistari Bjarni. Byskup mælti: Herra, sagði hann, erkibyskup ok jarl vildu, at járnburðr, sá er boðinn var af yðarri hendi þat vár, er þér várut kosnir til ríkis, vildu þeir, at nú kœmi fram, til þess at þeira manna sögn væri únýtt, er áðr hafa nökkurn

efa á um yðart faðerni. Konungr svaraði: Ek veit eigi, hvárt mönnum þykkir því kaupandi tign yður at ganga undir slíka afarkosti. Eptir um myrgininn fundust þeir í skrúðhúsinu konungr ok jarl ok allir byskupar, ok er þeir fundust, talaði erkibyskup mjök sömum orðum sem fyrra dag. Þá svaraði Dagfinnr bóndi: Varla munu dœmi til finnast, at nökkurir kotkarla synir geri slíka afarkosti konungi sínum úfriðarlaust, at þröngva honum til járnburðar, síðan hann var orðinn konungr. Ætla ek oss þykkja litlu verra at bera ekki járn nema þeim kalt, er honum vilja fyrirkoma, ok láta allsvaldanda guð skipta millum vár, eptir því sem hann skipti millum Sverris konungs ok hans mótstöðumanna.

*Tala Hákonar konungs.*

42. Þá mælti Hákon konungr: Þat er víst satt, Dagfinnr bóndi, at þetta munu þykkja miklir afarkostir mörgum konungi, at taka járnburð á hendr sér eptir staðfest ríki. En þá er ek bauð þetta af minni hendi ok móðir mín, var því öllu niðr drepit, ok váru þeir hinir sömu, er því voldu ok nú þessu. Var þat öllum mönnum kunnigt, þá er við móðir mín kómum fyrsta sinn til Inga konungs ok Hákonar jarls, bauð hǫn þessar sömu skírslur af sinni hendi, ef þeim væri nökkurr grunr á váru efni, en þeir vildu þat með engu móti heyra, ok Hákon jarl kvað sér slíkt alt áðr vera kunnigt, þeir sögðu ok svá jafnan fyrir mörgum mönnum, at þeir sæti í mínum arfi. Nú skulum vér þetta eigi illa virða, þvíat þenna járnburð vil ek gjarna láta fram koma þegnum mínum til sœmdar. Sá hlutr er ok annarr til, at vera kann, at því þykki, sem vér dragim undan, at vér sjálfir hafim nökkurn efa á váru máli; sá er hinn þriði hlutr, er ek em öruggr um þann dómarann, er þetta mál er undir skotit, at engum brást til réttinda, óttast hann ok engan satt at segja. Þetta rómuðu allir menn vel, þeir sem við váru.

*Konungsmóðir fastaði til járns.*

43 (43, 44). Eptir þessa stefnu gékk konungsmóðir í kirkju at fasta til járns. Þessir menn föstuðu með henni, Sigurðr konungsfrændi, Dagfinnr bóndi, Andres skjaldarband. Tólf menn váru tilfengnir at gæta utan kirkju bæði nætr ok daga, at engir spillendr kœmi til. Jarl var miklu blíðari þessa daga til konungs en fyrr. Sá maðr var með jarli, er Sigarr hét, margra hluta vel kunnandi, hann lézt vera vin mikill konungs. Hann kom einn myrgin snemma til Dagfinns bónda ok kallaði hann á eintal - þat var óðinsdag, áðr bera skyldi járnit - hann mælti svá: Veit ek, at þér erut nú hugsjúkir mjök um yðart mál, en fyrir því at ek vil konunginum gott, þá vil ek fá til eina list, þá er ekki mun til saka. Ek hefi þat eitt gras, ef ek ríð því á hönd konungsmóður, at hon má öruggliga bera þetta járn ok skír verða. Dagfinnr svaraði: Guð þakki þér sannan góðvilja, þú munt vera skynsamr maðr! Eða hvar vex þetta gras, er svá mikinn krapt hefir með sér? Sigarr svaraði: Þat vex á þínum húsum ok hvers manns hér í Björgyn. Dagfinnr svaraði: Enga lækning skulu mér við þetta hafa, nema þat sem Jesus Kristr vill gera við sinni miskunn ok árnaðarorði hinnar helgu María ok hins helga Ólafs konungs ok allra guðs heilagra manna. En þú far braut með skrum þitt, vándr falsari! ok vit þat, ef þú mælir þetta optar, at þú ferr vánda ferð. Dagfinnr fór þá til konungsmóður ok mælti við hana leyniliga: Ef Sigarr kemr hér, ok býðr hann yðr nökkur lyf, þá varizt þér þat, þvíat þat er ekki nema fals ok hégómi ok opinber svik, skulu vér þar við sjá, sem vér megum.

*Inga konungsmóðir bar járn.*

44 (45). Um daginn eptir prímamál bar konungsmóðir járn eptir réttum tíma, ok greiddist þat hit bezta af hennar hendi. Var þar við konungr ok erkibyskup

ok aðrir landshöfðingjar. En þann dag er höndina skyldi leysa, var konungi sagt, at jarlsmenn ætlaði at bera vápn um daginn, ok því bauð konungr Jóni stál ok Vegarði veradal, at þeir léti vápnast sveitir sínar allar. Um daginn at réttum tíma kom konungr ok allir byskupar ok allir aðrir höfðingjar út til Kristskirkju. Ok sem leyst var hönd konungsmóður, þá gerði guð þar miklar jarteinir með sinni miskunn, at hon var skír. Sögðu þat allir, þeir er sá, at miklu var þá fegri hönd hennar, en áðr hon tók undir járnit. Sönnuðu þat þá bæði vinir ok úvinir.

*Frá Jófrey prófast.*

45 (46). Eptir þat váru á nýja leið gervar sættir millum konungs ok jarls. Var þá þing átt í Kristskirkjugarði, lýsti erkibyskup skírslu konungs ok lagði þar bann við hverjum manni, er nökkurn mistrúnað drœgi þar á. Eptir þat bjoggu þeir konnngr ok jarl ferð sína, þvíat þá höfðu komit bréf til þeira austan frá Birkibeinum ok Böglum, at Slittungar styrktust mjök. Sem þeir kómu til Túnsbergs, váru Slittungar í Osló, var þá blásit öllu fólki til brautlögu. Jófreyr hét prófastr, sá er þá var í Túnsbergi, hann gékk til konungs ok jarls ok hafði við sér svein einn, ok sagði, at Nikulás byskup hafði sent hann út til Túnsbergs með þeim erendum, at segja, at Slittungar ætluðu þannin. Birkibeinar sögðu þetta mundu vera prett byskups. Bœjarmenn báðu konunginn bíða ok fara eigi or bœnum um daginn, ok svá gerði hann.

*Frá Ívari.*

46 (47). Ívarr útvík ok Ásbjörn koppr lágu við Höfuðey, þeir höfðu Oslóarsýslu, urðu þeir allfegnir konunginum, ok sögðu Slittunga vera í Osló. Konungr sigldi nú inn eptir firðinum jafnfram öllum flotanum. Slittungar höfðu vörð uppi í Hallvarðskirkju stöpli, ok sá þeir skipin, þegar utan fóru fyrir Nesodda. Skundaði þá

Beni sem mest or bœnum. Birkibeinar lögðu at bryggjum ok hljópu svá upp í bœinn. Slittungar váru allir braut, ok féngu Birkibeinar ekki af þeim í því sinni.

*Baglar sátu í kastala.*

47 (48). Baglar sátu margir í kastala byskups, ok gættu sín ok váru hvárki með Slittungum né móti. Þeir kómu þá til móts við konung ok buðu honum sína þjónostu. Um myrgininn eptir gerði Nikulás byskup processionem á mót konungi við allri sœmd. Eptir þat váru bréf ger til Arnbjarnar Jónssonar ok allra Bagla, kómu þeir þá til bœjarins ok gerðust handgengnir Hákoni konungi ok Skúla jarli, ok gáfust í vald með öllu. Var þá fyrir Böglum Arnbjörn Jónsson, Símun kýr, Eysteinn Hróason, Guðólfr af Blakkastöðum, Eindriði bekill, Sigurðr sepill, ok margir aðrir sveitarhöfðingjar.

*Frá konungi ok Slittungum.*

48 (49, 50). Konungr spyrr nú til Slittunga uppi í Eyjavatni. Lét hann þá draga upp þannin 14 skip, var fyrir Guthormr ok Ólafr mokr. Slittungar féngu njósn ok flýðu undan austr á Markir. Birkibeinar fóru þá aptr til konungs. Váru þá drykkjur miklar í Osló, ok gerðist þar af mart hark. Konungr átti móðurbróður, er Gunnólfr hét, hann var úvitr maðr við drykk, hann mœtti eitt kveld góðum manni, er sira Eilífr hét, hann var hinn mesti vin jarls. Gunnólfr brá sverði ok hjó mjök svá höndina hina hœgri af Eilífi. Þetta var sagt jarli, þeir höfðu eitt skip konungr ok jarl. Jarl bað sína menn vápnast. Gunnólfr var miðskipa með hirðmönnum, ok skutu þeir yfir hann skjaldborg. Jarl vildi ganga at Gunnólfi, ok náði hann eigi fyrir hirðinni. Snýr jarl þá aptr eptir skipinu við sína menn. Sem hirðin sá þat, hugðu þeir, at hann mundi vilja at konunginum, hljópu þá allir aptr til hans. Jarl sneri þá upp eptir

skutbryggjunni við sínum mönnum. Þar lá næst skip Ásólfs konungsfrænda ok Þorfinns illa. Þá mælti Reiðúlfr, sá hjálp Inga konungi, er hann svam yfir ána Nið, hann mælti til jarls: Vér munum slíkar fara fleiri, ok því næst þér herra, ok er þat ráð, at vér verðim fyrri at bragði, ok drögum upp skipin undir þeim, ok drepum konunginn ok alla þá, er fyrir honum standa. Þá svaraði Ásólfr jarlsfrændi: Ofhefnt mun þá einnar handar, er þú vill, at vér níðimst á konunginum.

*Frá Birkibeinum; áverki við Vegarð.*

49 (51). Nú kom upp á bryggjurnar Dagfinnr ok Guthormr, Andres skjaldarband, Vegarðr veradalr við miklum sveitum, sneru þeir þegar at konungsskipinu. Jarl sneri á mót þeim ok lagði sverði til Vegarðar, ok kom í kinnina. Vegarðr bar af sér, ok skar út or kinninni. Dagfinnr gékk þá út á konungsskipit við sínum mönnum. Jarl kom þá út reiðr mjök. Konungr stóð upp á mót honum ok bauð boð fyrir Gunnólf. Jarl œmti því nær ekki. Dagfinnr mælti við jarl: Ef þér vilit eigi, herra, láta standa grið á þessu máli í nótt til allra manna, þá viljum vér hafa konunginn með oss. Konungr svaraði: Fyrir engan mun vil ek flýja skip mitt í nátt né mína sveitunga. Jarl kvað þá standa skyldu með griðum um nóttina til myrgins. Höfðu þá hvárirtveggju vörðu sterkja yfir sér.

*Frá Vegarði.*

50 (52). Um myrgininn er sungnar váru formessur, gékk konungr til Eilífs ok bauð honum boð fyrir Gunnólf. Eilífr seldi grið, til þess er sæi, hversu mál hans skipaðist. Eptir þat var blásit til hirðstefnu. Þá stóð upp Vegarðr veradalr ok birti fyrir hirðmönnum, hverja vanvirðing hann hafði fengit saklauss. Hirðin vildi þat með engu móti þola bótalaust. Festi þá jarl í dóm. Var

Vegarði dœmt bæði fé ok eiðar, ok gaf hann jarli upp hvárttveggja. Ok undi jarl þó miklu verr sínum hlut, sem enn mun sagt verða.

*Frá konungi ok jarli.*

51 (53). Hákon konungr ok jarl skipuðu sýslur allar á Upplöndum. Þeir skipuðu yfir Haðaland Gunnbirni Jónsbróður ok Þorgeiri byskupsmanni, en yfir Raumaríki Haraldi stangarfylju ok Þoralda Augusyni, yfir Heiðmörk Ólafi mok ok Friðreki slafsa, yfir Guðbrandsdölum var Eindriði bekill ok Bárðr hali. Konungr ok jarl fóru til Túnsbergs, en sendu sumt liðit til Björgynjar, ætluðu þeir at sitja í Túnsbergi um vetrinn. Þat sama haust varð Gautr Jónsson aptrreka or Jórsalaferð, fékk konungr honum hálfa Elfarsýslu um vetrinn. Þessi var annarr vetr ríkis Hákonar konungs.

*Gervir lendir menn.*

52 (54). Þá gerði konungr lenda menn um vetrinn Guthorm Gunnason, Pál vágaskalm. Þenna vetr brann bœrinn í Niðarósi. Þessir váru þá ráðgjafar konungs, Dagfinnr, Marteinn konungsfrændi, Gunni Loðinsson, Guthormr son hans, Bárðr bristeinn. Þessir sömu ráðgjafar konungs rituðu til þeira Arnbjarnar Jónssonar ok Páls vágaskalms, þeir mæltu á þessa lund: Oss þykkir mál konungsins vera mjök hættligt, þar sem jarl hefir bæði forsjá fyrir honum ok ríkinu, en margir eru umspillendr þeira á millum. Vildim vér gjarna fá svá komit þeira vináttu, at hon væri með öllu örugg. Nú sjám vér þat vænst til, ef konungr fengi frú Margrétar dóttur jarls, sögðu þá jarlinn mundu unna honum sem sínum syni. Þeir rœddu þetta fyrir konunginum, ok lézt hann þat gjarna vilja, ef þá væri alt trútt, en um þat em ek hræddr, at alt komi til eins, en þat líkar mér vel, sem þér vilit fyrir sjá. Síðan báru þeir þetta fyrir jarl, ok tók hann

því vel, ok skaut þó til móðnr hennar ok til hennar sjálfrar. En þær féllu lyktir á, at konungrinn festi sér frú Margrétu. Sögðu þá bæði vinir ok úvinir, at þá mundi engan veg mega skilja þeira vináttu.

*Getit Snorra Sturlusonar.*

53 (55). Um haustit áðr kom utan af Íslandi Snorri Sturluson ok þeir Sörli ok Grímarr með knörr þann hinn mikla, er þeir höfðu haft í Vestmannaeyjum. Þeir höfðu drepit göfgan mann Orm Jónsson bróður Sæmundar í Odda fyrir þann újafnað, er Sæmundr hafði gert kaupmönnum; var þó Ormr þess úvaldr, þvíat hann hafði jafnan bœtt meðr þeim.

*Frú Margrét púsuð Hákoni konungi.*

54 (56). Konungr ok jarl fóru um várit suðr til Björgynjar. Þá kom þar Jón stál við skip þat, sem hann hafði gera látit konunginum, þat var hálfþrítugt at rúmatali. Um Maríumessu skeið fóru þeir norðr til Þrándheims ok höfðu hit bezta mannval or Gulaþingslögum. Mikjálsmessudag var jungfrú púsuð konunginum, ok var veitt í höllinni. Sátu þeir þann vetr í Þrándheimi, fóru þá allir hlutir vel með þeim. Þessi var hinn þriði konungdóms hans. Þá var þeim skipuð sýsla hin nyrðsta Vegarði veradal ok Andresi skjaldarband, váru þeir báðir kærir konungi.

*Upphaf Ribbunga.*

55 (57). Eptir þat er Baglar höfðu gengit til handa konungi, var engi sýsla fengin Guðólfi af Blakkastöðum. Ok er hann fékk engar sœmdir af Birkibeinum, þá sendi hann son sinn Eilíf krúnu suðr á Halland við sveit manna at leita sveins þess, er Sigurðr hét, hann var kallaðr son Erlings steinveggs. Þeir fundu hann. Dreif þá mart manna til þeira. Guðólfr var formaðr ok Erlingr rúmstafr, Sundólfr Hauksson, Þorleifr brúðr, Erlingr hringr, Helgi

á Sólbjörgum, Gauti gott smjör, Gási undan fjallinu, Grímarr svangi. Þeir höfðu mikit lið ok frítt ok váru kallaðir Ribbungar.

*Frá Ívari útvík ok Guðólfi.*

56 (58, 59). Nökkuru áðr höfðu þeir gerzt eiðbrœðr Ívarr útvík ok Guðólfr blakkr. Ívarr hafði hinn vestra hlut Oslóarsýslu. Guðólfr samnaði sér mǫnnum ok fór at Ívari útvík til Höfuðeyjar, ok kom um nótt á úvart ok elti Ivar af skipi sínu. Þar féllu margir fornir Birkibeinar. Ívarr komst undan á einum báti, en Guðólfr tók skipit ok alt, þat er á var.

Um várit fóru þeir konungr ok jarl suðr til Björgynjar. Jarl gerði þá orð á því, at hann mundi gera her til Íslands. Þá hafði Björn Þorvaldsson dregit mann norrœnan or kirkju í Miðfirði ok látit drepa í hefnd Orms Jónssonar, hann átti Hallveigu dóttur hans. Jarl ætlaði mörg skip til ferðarinnar. Svá kvað Guðmundr Oddsson:

Hvat skal ek fyrir mik hyrjar
hreggmildr jöfurr leggja,
gram fregn at því gegnan,
geirnets sumar þetta?

Byrjar, hafs, at herja,
hyrsveigir! mér eigi,
sárs vinnr jarl, á órar
ættleifðir, svan reifðan.

Snorri Sturluson bað Dagfinn flytja við jarl, at eigi tœkist herferðin. Var þá átt stefna. Mælti Hákon konungr, at Skúli jarl mundi eyða þessi fyrirætlan, hefir land þat, herra, héðan bygzt, hafa ok várir frændr kristnat þat, eru þar ok flestir menn saklausir við oss, þótt sumir hafi illa gert til várra manna, en haf langt ok torsótt, ok mun þat verða margra manna skaði. Þetta fluttu margir með konunginum. Gaf þá jarl upp þessa ætlan. Skyldi þá fara út Snorri ok friða fyrir kaupmönnum. Gaf þá konungr Snorra lends manns nafn, skyldi Snorri þá koma landi undir konung. En um haustit er Snorri kom út, urðu þeir missáttir sjálfir Íslendingar, ok um várit féll Björn Þorvaldsson. Þat sumar fór utan

Jón son Snorra. Kom Snorri engu á leið við Íslendinga, flutti hann ok lítt, en frið höfðu kaupmenn góðan í þann tíma á Íslandi.

*Bréfsending til konungs ok jarls or Vík.*

57 (60). Um sumarit kom bréf austan or Vík frá lendum mönnum, at þeir konungr ok jarl kœmi austr, ok Ribbungar styrktist mjök. Fóru þeir austr um haustit á mót Mikjálsmessu ok höfðu nær 30 skipa. Þeir lágu lengi í Lygri, kurruðu bœndr þá illa. Var þá þat ráðs tekit, at konungr sneri til Björgynjar með stórskipunum, en jarl fór austr í Víkina. Skyldi jarl þá taka leiðangra um alla Víkina ok flytja norðr til jólaveizlu ok málagiptar. En er konungr kom í Eikundasund, fann hann þar Heinrek byskup, ok töluðu þeir marga hluti ok staðfestu sína vináttu, sagði byskup, at konungr hefði átt engan meira úvin í litlum manni en mik, en héðan af skal yðr engi öruggri af oss byskupum en ek, þótt yðr vegi þat lítit. Konunginum byrjaði vel til Björgynjar, hann hafði lítit fé við sér, en með engu móti var neitt fyrir. Lét þá konungr Dagfinn búa til jólaveizlu. Váru þá tekin stór lán til borðhalds ok jólabúnaðar, þá var ok gert útboðabréf til sýslumanna, ok kom þat til lítils at sinni.

*Frá konungi ok jarli.*

58 (61). Nú er at segja frá jarli. Þegar hann kom í Víkina, bauð hann út leiðangri ok tók landskyldir konungs um alla Víkina, sneri síðan til Björgynjar, ok kom þar fjórða kveld jóla. Sátu þeir konungr þá báðir saman um jólin. Var þessi hinn fjórði vetr konungdóms hans. En er á leið vetrinn, kómu þeim orð or Víkinni, at Ribbungar styrktust mjök, ok Slittungar váru þá tilkomnir með Ribbungum. Var Beni einn sveitarhöfðingi, ok vildi Sigurðr hann ekki meir tigna.

*Ráðagerð konungs ok jarls.*

59 (62). Þegar er várast tók, gerðu þeir konungr þat ráð, at jarl skyldi fara norðr til Þrándheims ok koma landveg í Víkina, en konungr skyldi fara meðr skipunum, ok finnast í Víkinni. Ok þegar jarl kom í Þrándheim, stefndi hann til sín lendum mönnum ok fór á land upp, ok er hann kom á Heiðmörk, þá kómu þar á mót honum allir sýslumenn Birkibeina, þeir er á Upplöndum váru. Hafði jarl þá fréttir or Víkinni, at Ribbungar váru í Osló ok ætluðu út til Túnsbergs at Arnbirni Jónssyni ok þeim lendum mönnum, er þar váru. Þeir Arnbjörn gættu sín á berginu. Skundaði jarl nú sinni ferð ok allir sýslumenn við honum til Oslóar.

*Frá konungi ok Ribbungum.*

60 (63, 64). Nú er at segja frá Hákoni konungi, at hann siglir austr til Víkr, ok lagði konungr at í Grindhólmasundi. Ribbungar lágu þá við Vörnu ok höfðu mörg skip. Arnbjörn fór þá or Túnsbergi við miklu liði, ætlaði hann þá at Ribbungum. Ok er þeir kómu út um Skeljasteinsgrunn, sigldi þar at þeim byrðingr einn, sögðu þeir, at konungr lá í Grindhólmasundi við miklu liði. Sneru þeir Arnbjörn þá til móts við konunginn, ok urðu þar hvárir öðrum fegnir. Sneri konungr þá til Jarlseyjar. Þessa sömu nótt kom austan skúta, ok váru á sveitungar Hallvarðar bratta, ok sögðu Ribbunga hafa elta þá, reru þeir þá austan at Rugey, er mér skildum, höfðu þeir 60 skipa ok nær öll smá. Dagfinnr bað menn liggja við öllum vápnum sínum um nóttina ok vera viðbúnir, ef Ribbungar kœmi at.

*Konungr elti Ribbunga.*

61 (65, 66). Loðinn Gunnason fór á njósn um nóttina með þrim skútum. Loðinn kom aptr í lýsing ok hafði tekit skútu af Ribbungum, en þeir ætluðu til Túns-

bergs, þvíat nú höfðu þeir spurt, at jarl var kominn til Oslóar við sínum mönnum. Konungr bað nú fara fyrir smáskipin, en þeir reru seinna með langskipin. Ok er þeir kómu skamt suðr um eyjarnar, sá þeir, at Ribbungar reru á mót þeim. Logn var veðrs ok sólskin fagrt, géngu skúturnar lítt undan. Konungr bað þá róa undan betr, ok sagði, at sjaldan reru svá slæliga fornu Birkibeinar, þá er slíkt lá við. Skúturnar géngu nú betr undan fram. Ribbungar hugðu, at byrðingar mundu vera í ferðinni, ok er saman dró með þeim, sá þeir, at skein á gylta veðrvita; þóttust þeir þá vita, at fleira var innan borðs en lendir menn einir, viku þeir þá inn eptir firðinum. Konungrinn stefndi þá fyrir þá. Sneru Ribbungar þá at landi ok hljópu upp, þar sem Jölund heitir. Birkibeinar hljópu ok á land ok eltu þá. Þar féllu nökkurir af Ribbungum. Svá kvað Sturla:

Ern lét austr til Vörnu
allvaldr skipum haldit,
rínfura vann rýrir
Ribbunga hlut þungan;
ok ústilta elti
örþingaðr víkinga,
rönd klauf ræsir steinda,
reiðr á land af skeiðum.

*Frá Skúla jarli ok Nikulási byskupi.*

62 (67). Skúli jarl var í Osló; hann bað Nikulás byskup ljá sér Skeggjann skip sitt. Byskup vildi þat eigi, ok hét þeim stórmælum, ef þeir rænti staðinn. Jarl mælti: Skamt hefir verit, síz Sigurðr ribbungr tók skip þín tvau, ok bannsöngt þú hann eigi. Byskup léði þá skipit með öllum reiða. Mörg önnur skip höfðu þeir or bœnum. Fóru þeir síðan út eptir firðinum, ok er þeir kómu til Jölundar, féngu þeir af spraka nökkurn, at Ribbungar mundu farnir at lendum mönnum. Ekki hafði jarl þá enn spurt til konungs. Jarlsmenn spentu þá hverja ár, sem þoldi. Var þá alt senn, at þeir reru fyrir Stallinn ok þeir sá, at Ribbungar váru eltir af skipunum. Sendi konungr þá skútu á mót jarli ok lét segja honum,

hvat fram fór. Konungsmenn tóku öll skip Ribbunga ok mikit herfang. Fundust þeir þá konungr ok jarl, fagnaði þá hvárr öðrum blíðliga.

*Frá konungi ok jarli.*

63 (68). Þeir konungr ok jarl snúa nú inn. eptir firðinum ok lögðu at við Höfuðey, en sumir lögðu alt inn til bœjarins. Um kveldit kom konungi njósn, at Ribbungar mundu leita til bœjarins um nóttina. Konungr sendi inn lúðrsvein sinn ok lét blása öllum mönnum or bœnum um nóttina. Þeir gáfu lítinn gaum at því. Um myrgininn kom Sigurðr í bœinn við sínum mönnum, hljópu þeir fyrst á bryggjurnar ok særðu þar nökkura menn, Hákon káviss var skotinn í fótinn. Þar féllu fjórir menn af Birkibeinum. Þeir herklæddust, er á skipunum váru, ok lögðu at bryggjum. Ribbungar sneru þá undan upp or bœnum.

*Frá konungi ok jarli.*

64 (69). Hákon konungr ok jarl lágu um nóttina undir Höfuðey, ok er þeir heyrðu, at blés í bœnum, herklæddist allr herrinn, ok lögðu inn at bœnum. Ok er þeir reru at bryggjum, mælti Ögmundr merkismaðr til konungs: Herra, nú megum vér sjá, hvar Ribbungar hlaupa norðr or bœnum, höfum mér þeira nú ekki at sinni. Í þessu bili kómu þrjár sveitir í bœinn af Ribbungum, þvíat þeir hugðu, at Sigurðr væri þar fyrir, ok er þeir kendu Birkibeina, hljópu sumir norðr eptir strætinu, sumir yfir á akrana. Þar féllu 80 manna af Ribbungum. Svá segir Sturla:

Lögðu til
litlu síðar
öðlings menn
Osló bœjar;
ok þar stökk
fyrir stálhvötuð
á glapstig
grýtlinga lið.

Ok enn kvað hann þetta:

Hólmreyðar gékk hjálmi
Hörða valdr um faldinn
enn, sá er úthlaupsmönnum,
auðmildr, sakar gildi.

Féllu fjándmenn stillis,
fékk tafn blám hrafni,
en sigrgœði síðan
sumir skunduðu undan.

*Jarl brendi bygð.*

65 (70). Þeir konungr ok jarl lögðu nú or bœnum ok lágu við Haugsvík ok höfðu þar hirðmanna stefnu. Sagðist jarl vildu fara upp á land ok hefna Rögnvalds, er þeir drápu saklausan. Konungr svaraði: Engar hefndir mun ek gera eptir Rögnvald, þvíat heldr hafa hans frændr niðrat mínum ættmönnum. Fór þá jarl upp ok Gregorius föðurbróðir Rögnvalds ok margir Birkibeinar, þeir brendu mikinn hluta af bygðinni. Fóru Birkibeinar eptir þat til skipa. Þá var þetta kveðit:

Rekit var Rögnvalds dauða,
þá er randviðir brendu,
þurru hús fyrir harra,
harða, austan fjarðar.

Vara tál, at skaut Skúli
skýþrungnum Foldungum,
eldr lék hús fyrir höldum
hingat, skelk í bringu.

*Frá konungi ok jarli.*

66 (71). Síðan sigldu þeir konungr ok jarl út eptir firði. Loðinn Pálsson var eptir á berginu, Arnbjörn ok Loðinn Gunnason fóru með konungi. Þeir lágu nökkurar nætr í Hornborusundi, ok tóku þaðan út kveld eitt ok váru mjök druknir. Um nóttina kom hvast veðr á mót þeim með regni, sigldu þeir þá inn til hafna, ok brutu margir stýri sín. Síðan fórst þeim vel til Björgynjar. Váru þær þá ok norðan komnar frú Margrét ok móðir hennar ok Sigríðr jarls systir, er síðan var abbadís á Reini. Litlu síðar fékk Loðinn Gunnason Ingibjargar systur jarls, var þá gert brullaup í konungsgarði.

*Víg Vegarðar.*

67 (72, 73). Í þenna tíma kómu norðan af Hálogalandi sveitungar Vegarðar, ok sögðu konungi þau tíðindi,

at Andres skjaldarband hafði drepit Vegarð. Konungr spurði, hvat til saka væri. Þeir sögðu hann gefa honum enga sök, sögðu þá sitja norðr í Hinn, Andres, þar sem Höfn heitir, en Vegarð litlu ofar. Vegarðr kom til Hafnar ok bauð Andresi til borðs, ok hann jáði því. Vegarðr sendi þá heim fyrir sveina sína. Andres bað Vegarð ganga til, þar sem Finnskattr var, ok hyggja at, at eigi spillist. Vegarðr gékk at húsinu. Þar var fjöl ein sigin ofan; hann tók ofan stálhúfuna ok sá inn, þá hljópu fram sveinar Andres tveir, Bótólfr limr ok Özurr gnit, ok drápu hann. Þetta verk líkaði konunginum stórilla, þóttist hann í þessu verki hafa látit tvá vini sína, en vita þóttist hann, hvaðan þetta var at komit. Þat fannst í orðum jarls, at honum þótti eigi verr, at þessa væri hefnt á Andresi. Litlu síðar kom Andres til bœjarins, iðraðist hann þá mjök þessa verks, þóttist hann þá sjá, í hverja snöru hann hafði gengit. Konungr tók af honum sýsluna, en gaf honum sætt með ráði vina sinna. Tók Ívarr útvík þessa sýslu. Skúli jarl fékk Andresi sýslu af sinni hendi.

*Um styrk Ribbunga.*

68 (74). Þá er á leið haustit, géngu þeir til konungs Arnbjörn Jónsson, Loðinn Gunnason, ok kváðust spurt hafa, at Ribbungar styrktust mjök í Víkinni. Sem þeir konungr ok jarl heyrðu þetta, bjoggu þeir ferð sína, ok er þeir kómu austr fyrir Agðir, þá spurðu þeir þar til Ribbunga í bygðum. Þá sendu þeir Birkibeina á skútum at leita þeira. Þar féllu nökkurir menn af Ribbungum, en aðrir flýðu undan. Bú var upptekit fyrir sumum, ok hlóðu þeir af þrjá byrðinga. Þeir féngu hvast veðr, ok sigldu þeir í boða, ok týndist þar einn byrðingrinn ok margir góðir menn. Slítandi hét forn Birkibeinn, er þar lézt, en þeir er lífit þágu, lögðust á nautabúkana dauða ok fluttust svá til lands. Þeir konungr

ok jarl lögðu at um kveldit við Áreyjar ok spurðu, at Sigurðr ok Beni váru á Raumaríki við miklu liði, en sumir Ribbungar váru suðr í Víkina. Þá gerðu þeir konungr þat ráð, at jarl skyldi fara suðr í Víkina ok leita Ribbunga, en konungr var eptir í Túnsbergi. Gunnarr Ásuson hét maðr, hann hafði verit forn Beglingr, hann hafði gengit til handa konungi, en litlu síðar hljóp hann til Ribbunga ok fékk þar mikla sveit, ok gerði engi meira ilt en hann. Jarl spurði til Gunnars í Vettaheraði, jarl fór at honum ok fann hann um nótt, þar sem heitir Apaldrssetr. Birkibeinar kringðu bœinn. Þeir Gunnarr bjoggust til varnar, hann hafði mikla sveit. Ámundi ákafr hét merkismaðr jarls, hann var lostinn öru í hóstinn ok fékk þegar bana. Þar varð hörð svipan, þvíat Ribbungar vörðust drengiliga. Þar féll Gunnarr Ásuson ok níu tigir manna með honum. Svá segir Snorri Sturluson:

Stála kendi stökkvilundum,
styrjar valdi rauðu falla,
rekkar stýrðu rétt til jarðar
roðnu barði, austan fjarðar.
Oddum rendi eljunstrandir
ýta ferðar hringa skerðir,
hilmir stœrði hvössu sverði
heila grundar meginundir.

Vafði lítt er virðum mœtti
vegrœkjandi fram at sœkja,
skerðir gékk í skúrum Hlakkar
Sköglar serks fyrir Skúla merkjum
Ruddisk land, en rœsir Þrœnda
Ribbungum skóp bana þungan,
Gunnarr skaut und gera fótar
grimmsetta il hjarna kletti.

*Frá konungi ok jarli.*

69 (75). Nú sneri jarl norðr til Túnsbergs ok fann þar konunginn. Var þá jarl eptir í Víkinni, en konungr fór til Björgynjar ok kom þar fyrir jól. Var þessi hinn fimti vetr hans konungdóms. Litlu síðar en konungr var norðr farinn, spurði jarl, at Guðólfr var í Oslóarheraði. Jarl tók skútur ok fór at Ribbungum. Hann spurði, at Guðólfr var at Forsi. Jarl kom þar í dagan ok veitti þegar atgöngu. Þar féllu 70 manna af Ribbungum, en Guðólfr komst undan. Jafnan drap jarl menn af Ribbungum um vetrinn. Svá segir Snorri:

Eyddi úthlaupsmönnum
ítr hertogi svörtum,
sungu stál of stillis,
stóð ylgr í val, dólgum.

Hal margan lét höfði
hoddgrimmr jöfurr skemra,
svá kann rán at refsa
reiðr oddviti þjóðum.

Gunnbjörn ok Þorgeirr byskupsmaðr höfðu þá sýslu á Haðalandi ok um Þótn. Sigurðr ribbungr hafði fengit Bergþóri ok Eysteini hring sýslu á Haðalandi. Ribbungar drógu skip í Tyri ok svá upp í Rönd. En er þat spurðu sýslumenn Birkibeina, fóru þeir á móti, ok mœttust þeir við Strönd. Þar féll tvau hundruð manna af Ribbungum, en Sigurðr flýði, ok tóku Birkibeinar öll skip þeira. Eptir þat dreifðust bœndr ok höfðu engar gæzlur á skipum sínum né bygðum. Litlu síðar fór Sigurðr ribbungr at Jóni kúr ok drap hann við nökkura menn. Eptir þat sættust bœndr við Sigurð ok guldu stór gjöld. Tók þá Sigurðr gisla af bóndum ok skipaði sínum mönnum um Haðaland. Þilir géngu ok mjök undir Sigurð, ok svá Verdœlir. Heinir gættu því betr sinna bygða, sem Ribbungar sátu meir um. Eptir kyndilmessu spurði jarl, at Ribbungar váru í vestri bygð í Oslóarsýslu. Jarl sendi til at fara at þeim Eirík ok Harald stangarfylju, þeir fundust þar sem Svans heitir, ok börðust þar. Þeir génguст svá nær, at merkismenninir mœttust. Birkibeinar tóku merkismann Ribbunga, er hét Björn. Þar féll Ásti af Ribbungum ok mikil sveit manna. Eptir þat flýðu Ribbungar, en Birkibeinar fóru út til jarls ok höfðu Björn með sér, var hann síðan hirðmaðr Skúla jarls.

*Um storm ok stórviðri.*

70 (76). Um várit í föstu fór Hákon konungr norðr til Þrándheims. Þá fór við honum Dagfinnr ok Hákon káviss, þeir höfðu 7 skip. Konungr lá í Leirgula um páskir. Þrim nóttum síðar sigldi hann inn um Agðanes svá mikit veðr, at alt tók seglit frá þeim, ok skipin rak hér ok hvar undir nesit. Konungr hélt inn at ánni, ok

var flóð, ok rak skipit upp á sandinn fyrir Bakka. Fór þá til fjöldi manns or bœnum ok báru strengi á skipit, ok kómu menn nauðuliga af grunninu.

*Frá Guthorm erkibyskupi.*

71 (77). Guthormr erkibyskup var í bœnum, fagnaði hann þá konunginum í öllum hlutum sem sœmiligast, áttu þeir þá jafnan tal sín í millum. Þat var eitt sinn, er konungr spurði erkibyskup, hví hann væri í svá mikilli úvináttu til hans, meðan hann var í bernsku. Byskup kvað þar eigi miðr til bera annarra manna völd en sjálfs síns illvilja. Fór þá upp alt hit sanna fyrir konungi. Hét erkibyskup þá konungi fullum sínum trúnaði. Konungr skipaði Gregorius Jónssyni at gæta allra Þrœndalaga, en konungr sigldi til Björgynjar ok sat þar um sumarit.

*Frá Skúla jarli.*

72 (78). Skúli jarl sat í Túnsbergi, Arnbjörn Jónsson sat austan fjarðar ok varði þar landit. Ribbungar váru á landi uppi ok höfðu mörg skip í vatninu Eyja. Birkibeinar lágu þá í Mjörs, var fyrir þeim Haraldr stangarfylja, Ólafr mokr, Friðrekr slafsi, Þorgeirr byskupsmaðr. Ribbungar kómu í Mjörs skipum sínum ok leituðu Birkibeina; þeir fundust þar, sem heita Íkórnahólmar, ok varð þar bardagi. Þar féllu tvau hundruð manna af Ribbungum ok þessir sveitarhöfðingjar, Styrr prestr, Örnólfr af Folavelli, Auðun austansjór, Þorbjörn rigr. Sigurðr flýði upp á Þótn. Þetta sumar spurði Arnbjörn til Bena uppi á Raumaríki með sveit manna. Arnbjörn sendi til hans Helga fleskún, þeir fundust við vatnit Eyja. Hljóp Skinnknífr á skip. Þeir héldu skipunum. Beni hljóp fyrir borð ok leyndist hér ok hvar undir skipunum, en þó fundu þeir hann um síðir. Var þá Beni drepinn ok allir hans menn.

*Frá Hákoni konungi.*

73 (79). Hákon konungr sat í Björgyn um sumarit við miklu liði, ok er hann spurði úfrið af Upplöndum, þá bjó hann ferð sína austr í Vík. Um Maríumessu kómu menn austan or Vík ok norðan or Þrándheimi ok báðu konunginn skunda norðr, sögðu Ribbunga komna norðr um fjall. Konungr bjóst norðr sem skjótast, hann hafði fjóra tugu skipa. Ok er konungr sigldi um Sognsæ, mœtti hann knerri, er kominn var af Íslandi. Var þar á Guðmundr byskup, sagði hann konungi mörg tíðindi af Íslandi. Þat vár höfðu þeir barizt í Grímsey Sighvatr Sturluson ok byskupsmenn, en áðr um vetrinn var Tumi drepinn. Konungr ætlaði at sigla norðr um Áleyjarsund, þá kómu þar menn Gregorius Jónssonar ok sögðu Ribbunga hafa komit norðr um fjall ok gert mart ilt, en bœndr hefði þá farit at þeim, sneru Ribbungar þá austr um fjall, sögðu eigi minni ván, at þeir kœmi ofan í Raumsdal. Konungr sigldi þá norðr til Leirgula, spurði hann þá, at Ribbungar höfðu snúit í Eystridali.

*Frá konungi ok Skúla jarli.*

74 (80). Hákon konungr snýr nú aptr til Björgynjar, gaf hann þá lendum mönnum heimleyfi, en hann efnaði þar til vetrsetu. Konungr hafði látit út bjóða leiðangri um sumarit áðr í hvárumtveggja helmingi Egðafylkis, en jarl hafði látit taka nær allan. Konungi þótti jarl nú gera mikinn sinn þriðjung af Noregi, er hann hafði alla Víkina ok öll Upplönd ok alt norðr til Rygjafylkis, en hinir fyrri jarlar höfðu millum Svínasunds ok Rygjarbits. Konungr sendi þá menn með bréfum til jarls ok sagði, at honum mislíkaði þetta landaskipti, ok jarl mundi eigi við Ribbunga eina eiga úfrið, ef hann héldi þessu fram.

*Herferð Andres ok Ívars.*

75 (81). Sumar þetta fóru þeir herferð til Bjarmalands Andres skjaldarband ok Ívarr útvík, þeir höfðu fjögur

skip. En sú var sök til, at þeir höfðu farit kaupferð til Bjarmalands nökkurum vetrum áðr, Andres af Sjaumælingum ok Sveinn Sigríðarson, Ögmundr af Spánheimi ok margir aðrir. Fóru þeir aptr um haustit Andres ok Sveinn, en þeir sátu eptir með annat skipit Helgi Bograngsson ok Ögmundr af Spánheimi. Hann fór um haustit í Suðrdalaríki við sveinum sínum ok varnaði. Háleygir urðu missáttir við Bjarma konung, fóru Bjarmar at þeim um vetrinn ok drápu alla skipsögnina. En Ögmundr fór austr í Hólmgarða, ok létti eigi fyrr, en hann kom út til Jórsala, ok þaðan aptr í Noreg, ok varð hans ferð allfræg. Ívarr ok Andres fóru til Bjarmalands ok gerðu þar hit mesta hervirki í manndrápum ok ránum ok féngu stórfé í grávöru ok brendu silfri, ok er þeir fóru norðan, sigldu þeir í röst norðr fyrir Straumneskinnum, ok bar or þrjú skipin, en þat skip sem Ívarr var á, bar sjóinn í seglit, ok því næst velti skipinu. Jógrímr hét maðr, er Ívari kom á kjöl; komst hinn þriði maðr á kjöl. Þeir skutu til báti af skipi Þorbergs, ok gékk or stafninn. Jógrímr kom þeim þá í bátinn. Þá kvazt Jógrímr eigi sjá Þorstein félaga sinn, ok hljóp þá enn á sundit út í röstina, þá lézt Jógrímr. Allir menn létust af skipinu nema þeir Ívarr tveir. Þar týndist stórfé mikit. Andres fór um haustit til Hálogalands.

### *Frá Skúla jarli ok Ribbungum.*

76 (82). Nú er at segja frá, at Skúla jarli kom njósn, at Ribbungar váru í vatninu Rönd. Jarl lét draga skip mikit í vatnit Dröfn, þat var sex rúm ok 20, ok mörg smáskip. Þá flýðu Ribbungar undan austr á Markir, en jarl fór aptr til Túnsbergs, ok litlu síðar fór jarl austr at leita þeira. Þeir Tobbusynir höfðu Elfarsýslu af hendi Ribbunga, jarl sendi til þeira Símun kú ok Þorð drafla ok Þorfinn illa, fundu þeir Tobbusonu við Hlésey ok drápu þá þar. Mikinn afla höfðu Ribbungar austan

fjarðar, svá at þat var eigi minna en 14 hundruð manna, er Sigurði var handgengit. Þessir váru í Borgasýslu af Ribbungum, Herjólfr dyntill, Eiríkr dregill. Jarl dvaldist þrjá vetr í Víkinni, áttust þeir Birkibeinar ok Ribbungar mörg skipti við í ránum ok manndrápum, þótt eigi sé þau öll skrifuð.

*Frá Skúla jarli.*

77 (83). Skúli jarl sat lengstum í Túnsbergi. Litlu síðar spurði hann til Ribbunga, sendi hann þá enn menn til þeira ok sagði, at þar sem húðfatsfélagar váru tveir, skyldi annarr fara, ok þeir hluta með sér. Þeir váru rekkjufélagar Þórir flík ok Jatgeirr skáld, ok hlaut Jatgeirr at fara. Þeir fundu Ribbunga við Kýrfjall, féllu þar nökkurir menn, en allir aðrir flýðu. Birkibeinar fóru aptr til jarls. Þórir spurði Jatgeir, hversu farizt hefði. Hann svaraði:

Rjóðr! sá ek hlækinn heðna,
hjaldrdrifs, á Kýrfjalli,
stirðaurriða storðar,
stórfjarri mér Þóri.

Þat frá líkn, þá er lékum,
laugtorgs, við Ribbunga,
dasinn lá at við dísi
dvergranns í Túnsbergi.

Um haustit sendi jarl orð Nikulási byskupi, at hann legði ráð til at eyða flokki Ribbunga. Byskup fékk konu þá er Ása hét, hon var frilla Guðólfs, at eggja Ribbunga til at sættast við Skúla jarl.

*Sigurðr ribbungr gékk á vald Skúla jarls.*

78 (84). Um sumarit fékk Sigurðr ribbungr menn til at leita við jarl, hverra sætta hann mundi unna honum, ef hann vildi upp gefa alla mótstöðu við Birkibeina. Jarl lét spyrja, hvers hann beiddist. Fóru þá jafnan menn millum þeira. Sigurðr vildi hafa þriðjung af Noregi, ok þat með, at jarl gipti honum dóttur sína. Jarl svaraði: Hákon konungr á vald á því, hvat hann vill miðla Sigurði af landi, en eigi mun ek gipta dóttur mína út í skóga,

ok engum manni mun ek miðla minn þriðjung. En ef Sigurðr kemr á mitt vald, skal hann hafa grið ok allir hans menn; skal hann ok konung finna í griðum. Má hann þá flytja sitt mál, ok hvergi skal ek á mót honum vera. En er þessi kostr kom til Ribbunga, ok með því at þá þröngði mjök þeira kosti, þá tóku þeir þat ráð, at Sigurðr reið á vald Skúla jarls í griðum ok gaf upp konungsnafn, en flokkinn í vald jarls, ok skildi sér á mót vináttu Skúla ok flutning við konunginn. Jarl tók við honum sœmiliga. Þótti þetta hinn fegrsti sigr, er jarl hafði eytt orrostulaust svá styrkjum flokki, var þá ok orðinn friðr um allan Noreg. Þetta sama vár fór jarl til Danmerkr við 13 skipum, ok er hann kom til Kaupmannahafnar, þá hafði greifi Heinrekr fangat Valdimar konung. Fór jarl þá aptr í Noreg, er hann spurði þetta.

*Stefndr höfðingja fundr.*

79 (85). Hákon konungr sat í Björgyn, þá er þessi tíðindi urðu. Var þessi hinn sétti vetr hans konungdóms. Um várit fóru menn í millum konungs ok jarls, ok var mælt, at höfðingjafundr mundi vera um sumarit í Björgyn, skyldu þar til koma allir hinir beztu menn í landinu. Var þá enn mikit ákall á föðurleifð Hákonar konungs af þeira manna hendi, er sik vildu fram draga til ríkisins, ok váru margir mjök tvídrœgir um, hversu vera ætti, váru þeir sumir, er gjarna vildu fyrirkoma ætt Sverris konungs af fornum fjándskap, er þeir höfðu við hann haft, en flestir bœndr í Noregi váru velviljaðir Hákoni konungi bæði norðr í land ok suðr.

*Frá konungi ok byskupum ok lendum mönnum.*

80 (86). Þessi stefna hófst at Ólafsvöku. Var konungr fyrir í Björgyn, ok Hávarðr byskup, Heinrekr byskup af Stafangri, Sörkvir byskup af Færeyjum, Sigurðr ábóti, Nikulás erkidjákn. Þessir váru lendir menn, Páll

fliða, Pétr son hans, Brynjólfr Knútsson, Jón stál, Gautr af Meli, Ívarr nef. Þar var ok Jón jarl af Orkneyjum ok Bjarni byskup, Gregorius kikr af Hjaltlandi; þar váru ok lögmenn or Gulaþingi, Dagfinnr bóndi, Ámundi remba. Þar kómu ok hinir beztu bœndr or hverju fylki, ok ábótar ok allir sýslumenn or Þrándheimi, þar kom ok Guthormr erkibyskup, Ásgautr ábóti af Hólmi, meistari Bjarni, Pétr af Húsastöðum; þessir lendir menn, Gregorius Jónsson, Páll vágaskalm, Ásólfr af Austrátt; þessir lögmenn, Gunnarr grjónbakr, Bjarni Marðarson, Þorsteinn Ásmundarson. Or Víkinni var Skúli jarl, Arnbjörn Jónsson, Loðinn Gunnason, Loðinn Pálsson, Símun kýr, Eysteinn lögmaðr, Þórðr skolli. Af Upplöndum váru þessir lögmenn, Saxi af Haugi, Þórðr Guðmundarson; þar kom ok Nikulás byskup af Osló, ok svá sýslumenn Ívarr gæslingr, Ámundi af Grœnlandi, Ólafr af Konungahellu, Haraldr stangarfylja, Þorgeirr byskupsmaðr, Hávarðr í Sundbúi, Friðrekr slafsi, Eindriði bekill, Eilífr keikr.

*Tala Hákonar konungs.*

81 (86). Svá hafa vitrir menn mælt, þeir er þá váru í Björgyn, at eigi hafi á þeira dögum betra mannval komit saman í Noregi. Höfðingjar finnast iðuliga, ok talar hverr við sína ráðgjafa. Lögðu nú allir höfðingjar stefnu millum sín á sunnudaginn eptir Maríumessu fyrri í tréhöllinni. Ok sem þeir kómu í höllina ok höfðu setit um hríð, mælti Hákon konungr: Herra erkibyskup, sagði hann, yðr er kunnigt, ok svá öðrum byskupum ok flestum góðum mönnum, þeim sem hér eru komnir, at nú eru hér þeir menn, er kalla til Noregs, en ek hugða, at þat væri minn föðurarfr bæði at fornu ok at nýju. En með því at þessi stefna var hingat lögð af öllum hinum vitrustum mönnum, þá bið ek, herra, at þér segit um, þat sem þér vituð sannast fyrir guði. Vitið þér nú ok allra manna tilkall, þeira sem til ríkis þessa kalla mér í hendr.

*Tala erkibyskups.*

82 (87). Þá svaraði erkibyskup: Þat er víst satt, herra, at vér erum skyldir til at leggja með öllum mönnum þat, sem vér vitum, at satt er, ok svá vili guð, at sé. Vitum vér ok flestra manna málefni, þeira sem hér veita ákall, ok þat bjóðum vér öllum mönnum, at hverr leggi til þat, sem hann veit sannast fyrir guði ok mönnum hér um. Nú sitit þér, Hákon konungr, í ríkinu, ok segit þér svá, at hverr yðarr langfeðga hafi ráðit fyrir Noregi maðr eptir mann, væntir mik, at flestir sanni þat. Skúli jarl er austan kominn, kallast hann erfingi Inga konungs bróður síns, höfum vér þat heyrt hans vini sanna með honum. Hér er ok Guthormr son Inga konungs, kallar hann til Noregs eptir föður sinn. Sigurðr ribbungr kallast ok til kominn eptir Magnús föðurföður sinn; menn eru ok hér komnir austan or Gautlandi frá junkherra Knúts sonar Hákonar jarls, er hann skilgetinn arfi eptir jarl, kallar ok þat hafa komit í einkamál, sem satt var, á Eyraþingi, at hann erfði Noreg eptir Inga konung. Nú er þat at mæla til allra þeira manna, sem hér eru, þá leggi nú hverr þat til, sem sannast er eptir sinni samvizku.

*Tala Skúla jarls.*

83 (88). Þá mælti Skúli jarl: Þat er víst satt, herra erkibyskup, at ek em bróðir Inga konungs samfeðri ok skilgetinn ok sannr hans erfingi at lögum hins helga Ólafs konungs. Þá svaraði Hákon konungr: Þú ert víst sannr arfi Inga konungs til alls þess, sem þit tókut réttliga, en eigi Noregs, þótt Ingi væri settr til geymslu til handa réttum eptirkomanda. Jarl svaraði: Ek köllumst víst arfi hans til alls þess réttar, sem hann hafði. Konungr svaraði: Þat skaltu nú vita, hvárt hann erfði Noreg eptir föður minn, eða var hann settr at gæta með góðra manna skipan. Erkibyskup bað þá létta þess kyns orðum, lögðu þá ok margir gott til.

*Tala Jóns stáls.*

84 (89). Þá mælti Jón stál: Þat hugðum vér fornir Birkibeinar, þá er vér heltum út váru blóði ok þoldum mest erviði með Sverri konungi, at eigi mundi þurfa þessa tals. En eigi er þat undarligt, þótt Skúli jarl fylgi þessu máli, þvíat mér höfum þat heyrt, at þeir lögmenn eru hér inni, er þat tjáðu jarli opinberliga, at hann væri réttkominn til Noregs eptir Inga konung. Er þetta mælt til ykkar, Ámundi remba ok Eysteinn Hróason, þar sem þit sitit á pallinum. Ámundi hljóp upp við ok mælti: Hvar vartu þá, Jón stál, er ek mælti þetta? Eysteinn duldi ok, at hann hefði svá mælt. Þá mælti Arnbjörn Jónsson: Vera kann, at lögmenn várir hafi þetta mælt, ok hafi meira verit í þeim af mjaðarlegi en lögum hins helga Ólafs konungs, má ok, at fylgt hafi mútugjafar.

*Konungr beiddi Gunnar lögsagnar um konungdóm.*

85 (90). Konungr mælti: Eigi skulum vér svá at fara um rannsak þetta, vér skulum fyrst láta segja þann lögmann, er yfir býðr öll Þrændalög, sem konungssætit er með réttu, hann er ok elztr lögmanna í landinu, tók hann lögsögn um daga Sverris konungs, hafa menn ok hér til eigi fundit með honum fals eða rangindi, er hann því hinn vitrasti maðr í landinu. Nú ok með því, Gunnarr lögmaðr, at til þín er skotit, þá seg nú öllum áheyrundum þat, er þú veizt sannast fyrir guði um várt mál, er til Noregs köllum.

*Tala Gunnars lögmanns.*

86 (91). Gunnarr tók seint til orða ok mælti: Þér ánefndut mik til þessa, herra, at ek skyla segja millum yðar höfðingja; en þat er mikil byrðr einum kotkarlssyni at skipta svá miklum ríkdómi, at segja einum en af öðrum. Kenni ek á mér þat, sem fleirum mun vera, at

hræddr mun ek þat gera, þvíat þá er Sverrir konungr fékk mér þetta starf, bauð hann mér at segja lög millum kotkarla en eigi höfðingja. Heyrða ek nú ok, at lögmenninir duldu þess, er þeim var kent, ok með því at flestir eru hræddir fyrir valdinu, þá vil ek eigi þessa byrði á mik binda. En með því at vér kotkarlar kunnum litla skynsemi at tala eða skipa svá stórum málum, má ok, at sumir sé nökkut vinhallir, þá látum þann fram segja, er veit, hvat satt er, ok eigi mun ljúga, hvárt sem á heyrir ríkr eða úríkr, ok engan óttast, þóat einhverjum mislíki, þat er lögbók hins helga Ólafs konungs, er eptir hans skipan var ger um allan Noreg, ok allir menn í Noregi eigu at hafa. En ef ek skal geta fyrir fram, hvat hon mun segja, svá sem framast hefi ek skyn til, þá segi ek svá, at Hákon konungr er einn réttkominn til Noregs af öllum þeim mönnum, er nú kalla til í dag; ok þó at þeir sæti í dag báðir í ríkinu Ingi konungr ok Hákon jarl, þá segi ek svá, at hann mætti at réttu kveða þá or ríkinu. Ok því segi ek, at hvárki Skúli jarl eptir Inga bróður sinn, ok eigi Knútr eptir Hákon jarl föður sinn, né Guthormr eptir sinn föður á at kalla til Noregs, meðan Hákon lifir. En Sigurði ribbung segi ek engi lög, segi Víkverir honum, þeir hófu hann. Mun ek nú fella hér mína rœðu at sinni.

*Dagfinns orskurðr.*

87 (92). Þá orti konungr á Dagfinn bónda, er næst hafði lögsögn, ok bað hann segja þat, sem hann vissi sannast fyrir guði. Dagfinnr svaraði: Ek kom ungr til Sverris konungs, ok var ek í nökkurum bardögum með honum, ok áðr hann barðist í Flóruvágum við Eyjarskeggja, mælti hann svá: Guð gæti vár ok heilug María ok hinn helgi Ólafr konungr, ok gefi guð mér svá sigr í dag, sem ek hefi rétt at mæla ok at verja mína föðurleifð. Ok því segi ek þat lög, ok því vil ek guði svara, at Hákon er

réttkominn til Noregs, en engi annarra, sá er nú kallar til, ok þat legg ek til minnar lögsagnar, at ek vil við honum berjast ok við honum lífit láta, ef þörf gerist.

*Um þat er Ámundi remba rumar.*

88 (93). Hákon konungr mælti þá til Ámunda rembu: Þú, Ámundi lögmaðr, sagði hann, seg mér nú þat, sem þú veizt sannast um Noregs erfð fyrir guði. Ámundi svaraði: Margar fagrar gjafir á ek at launa Skúla jarli, en eigi hefi ek fyrir fénu látit manndóminn eða sannendin, þvíat þat veit ek fyrir guði, at Hákon konungr er réttkominn arfi eptir föður sinn ok borinn til alls Noregs eptir sitt forellri, en þat hefi ek jafnan mælt, at Skúli jarl er réttr lögarfi Inga konungs bróður síns til alls þess, er hann tók réttliga. En sumir byskuparnir, ok eigi síðr lendir menn, gangit nú við þeim bermælum, er þér hafit mælt, þá er vér höfum drukkit með jarli ok verit vel haldnir, látit þér nú eigi undan ganga sannendin, þvíat þér hafit jafnan eggjat jarl at kalla til Noregs, ok fyrir löngu mundi hann hafa úfrið hafit, ef þér hefðit ráðit. Ok þat vildi ek, at hverr maðr, sá er hér hefir verra til lagit en Ámundi remba, hafi horn í höfði, ok eigi sem byskupsmítr.

Þá mælti Arnbjörn Jónsson: Eysteinn Hróason, sagði hann, vit erum fornir Baglar ok höfum lengi ásamt verit, látum uppi þat, sem vit höfum mælt. Eysteinn svaraði: Ek vænti, at margir vér hafim þau orð mælt fyrir jarli, at eigi gangi nú allir við, en aldri hefi ek þat mælt, at eigi væri Hákon réttkominn til Noregs eptir föður sinn.

*Hvat Þórðr skolli segir.*

89 (94). Þá bað konungr Þórð skolla segja hér lög um. Hann svaraði: Ekki em ek því lögmaðr kallaðr, at ek kunna nökkut í lögum, en jafnan hefi ek skipat málum millum kotkarla, en eigi hugða ek, at þat væri

mín yfirseta at segja millum höfðingja. En þat sagði minn faðir mér, en hans faðir honum, at æ skyldu allir Noregs menn fylgja konungs syni, meðan hann væri til, ok þat létu þeir ok fylgja, at þeir mundu aldri þrífast, er móti þeim væri.

*Sögn Saxa lögmanns.*

90 (95). Eptir þat bað konungr Saxa á Haugi segja hér lög um, hann var af Heiðmörk. Hann mælti: Ek var með Hákoni konungi feðr þessa konungs, ok heyrða ek þat mæla alla alþýðu, at gjarna vildi þjóna hans syni, þá er konungrinn var allr, ok eigi segi ek önnur lög, en hann er réttkominn til alls Noregs eptir föður sinn.

*Tillaga Þóris lögmanns.*

91 (96). Þá bað konungr Þóri lögmann birta sína lögsögn, hann var af Upplöndum. Hann svaraði: Þótt ek væra svá illviljaðr, at ek vildi annat segja, en þessir menn hafa áðr sagt, þá mundu mín orð enskis metin; en nú veit ek þat fyrir guði, at aldri hefi ek annat mælt hér til, en Hákon konungr eigi einn allan Noreg, ok þat læt ek fylgja, at vér Noregs menn fylgim honum allir, þvíat ella gerum vér rangt allir.

*Tala Guthorms erkibyskups.*

92 (97). Þá mælti Guthormr erkibyskup: Nú höfum vér heyrt, hvat lögmenn várir hafa sagt, sem vér vissum áðr, at satt var, ok því játum vér, at Hákon konungr er einn réttkominn til alls Noregs eptir föður sinn ok forellri af þeim öllum mönnum, er nú lifa. En þó viljum vér, at sú skipan standi öll millum konungs ok jarls, sem áðr var mælt um landaskipti, þvíat þat er líkast til friðar. Þess biðjum vér ok, at konungrinn geri sem bezt til Guthorms frænda síns, en um Sigurð ribbung kunnum vér ekki at tala.

*Um landskipti.*

93 (98). Eptir þat töluðu þeir konungr ok jarl um þriðjungaskipti. Vildi jarl hinn synnsta þriðjung alt norðr til Saltsúru. Konungr sagði hann þó meira, en menn vissi dœmi til, þótt hann væri frá Rygjarbiti til landsenda, en kvezt þat mundu sœma. Eptir þat báðu sýslumenn konung, at hann mundi hafa Víkina. Nikulás byskup bað ok þessa, ok hét þá enn konunginum fullum trúnaði.

*Frá konungi ok jarli.*

94 (98). Konungr sagði þá jarli, at hann vildi fara austr í land, en hann vildi, at jarl fœri norðr í Þrándheim. Ok er þessi boð kómu upp ok um þriðjungaskipti var rœtt, þá vildi konungr, at hinn nyrzti þriðjungr væri norðan til Sunnmœris, en jarl vildi, at hann væri til Sognsæs. En er menn hugðu, at þá skildi eigi meira en 10 skipreiður, at konungr hefði meir en hálft landit, vildi konungr þetta með engu móti. Erkibyskup bað, at þat skyldi standa með þeim, sem skildi erkibyskups ríki ok Björgynjar byskups, ok með hans ráði var þat staðfest með bréfum ok innsiglum konungs ok allra byskupa ok jarls. Skúli jarl skyldi ok skyldr at fara austr í land sem norðr, þegar er konungr þyrfti. Ok at þessum hlutum skipuðum fóru heimleiðis lendir menn. Tók konungr sína vini norðan or landi, en jarl hafði sína vini norðr með sér. Konungr hafði þá Gullbringuna, er hann átti þá mest skipa, ok sendi hana austr fyrir sér, ok stýrði henni Björn móðurbróðir konungs ok Ólafr Inguson.

*Frá Sigurði ribbung.*

95 (99). Sigurðr ribbungr bað konunginn fylgja sér í Vík austr, ok konungr jár því. Ok er jarl vissi þat, taldi hann þat fyrir Sigurði, at eigi mundi alt trútt, ok síðan fór Sigurðr með jarli. Þá mælti konungr til jarls, áðr þeir skildu: Með því, herra, at þér hafit Sigurð

við yðr, þá haldit hann sœmiliga, ok sjáit svá fyrir, at hann geri oss engan úmaka. Jarl kvað svá vera skyldu. Ferr nú jarl norðr í land með lendum mönnum sínum, en konungr fór austr í Víkina, ok kom þar, er upp hóf Adventus Domini. Nikulás byskup var þá fyrir í Túnsbergi ok fagnaði vel konunginum ok gaf honum margar góðar gjafir, en konungr veitti honum hinn nyrðra hlut Oslóarsýslu ok gaf honum tvítugsessu við öllum reiða. Fór byskup inn til Oslóar at jólum. Konungr gerði þessa lenda menn um jólin Hallvarð bratta ok Símun kú. Þessi var hinn sjaundi vetr konungdóms hans.

*Grein um byskupskosning.*

96 (100). Hákon konungr fór á mót páskum inn til Oslóar, ok var þar mjök lengi um várit. Þá kómu menn með bréfum norðan or landi frá jarli ok kórsbrœðrum ok sögðu andlát Guthorms erkibyskups, ok þat með, at þeir höfðu körit í stað hans Sigurð ábóta af Tautru, báðu þeir konunginn leggja þar til sitt samþykki ok rita við honum til páva. Konungr rœddi þetta mál við Nikulás byskup, ok þar sem hann var því appellaðr, er áðr hafði hann, þótti þeim hann eigi til svá stórra hluta fallinn, var hann ok lítill vin konungs. Konungr ok byskup rituðu bréf til páva, þau er á mót mæltu Sigurði, en þeir báðu, at Pétr á Húsastöðum skyldi vera byskup, er þá fór við bréfum jarls ok kórsbrœðra til páva.

*Um bréf konungs í Vermaland.*

97 (101). Austr á Vermalandi hafði Sigurðr verit löngum, þá er hann stríddi við Birkibeina. Konungr sendi bréf austr um várit ok stefndi austan á sinn fund vel 20 mönnum til umbótar þessa máls. Þeir kómu til konungs, ok bar hann þessar sakir á hendr bóndum, at þeir hefði styrkt þenna úaldarflokk. Vermar lögðu alt

á konungs vald. Lagði hann á þá mikit gjald, en gaf þeim upp alt fyrir miskunnar sakir, en sóru þeir konungi eiða, at þeir skyldu honum tryggvir vera ok láta aldri hans úvini þrífast í sínu landi. Var þessum eiðum lýst á öllum þingum um alt Vermaland.

*Sætt þeira konungs ok Jóns jarls.*

98 (101). Hákon konungr bjóst um várit or Osló til Túnsbergs. Trinitatisdag varð hark nökkut í bœnum með hirðinni ok gestum ok húskörlum, þar féllu fim menn, en margir urðu sárir. Eptir þat fór konungrinn til Björgynjar, þá kom þar til móts við hann vestan um haf Gillikrist ok Óttarr Snækollsson ok margir Suðreyingar, ok höfðu mörg bréf um nauðsyn þeira landa. Þá kom ok Jón jarl af Orkneyjum ok sættist við konung um þau mál, sem þeira váru á millum, ok setti Harald son sinn í gisling við konungi.

*Um víg Árna.*

99 (102). Þetta sumar fór Skúli jarl norðr á Hálogaland, við honum var Sigurðr ribbungr. Ok er jarl kom í Vága, var þat einn myrgin, er jarl vaknaði, þá váru í brautu menn allir af skipinu fyrir framan austrúm. Hann spurði, hvar þeir váru. Honum var sagt, at þeir höfðu stefnu í Vágum. Jarl hljóp upp í línklæðum einum við sverði; þeir fóru við honum, er eptir váru á skipinu. Sem jarl kom í Vága, var þat þar tíðinda, at Bárðr flekkr ok Þórðr prestr höfðu vegit Árna systurson Páls ok hirðmann, fyrir þat er hann hafði vegit Auðgrím agðanes lögunaut þeira. Jarl varð illa við þetta. Ívarr útvík hafði til farit með þeim ok hélt upp svörum. Páll hafði komit út um nóttina ok líkaði stórilla. Um myrginn bauð Ívarr boð fyrir vígit. Páll kvað Ívari meiri nauðsyn at hafa betr gætt siglingar sinnar, er hann fór af Bjarmalandi ok hafa eigi þar týnt mörgum góðum

manni, en gerast fyrirmaðr at drepa niðr hirð konungs ok jarls, ok kvað engi boð mundu þegin af honum at því sinni.

*Frá illum verkum Skúla jarls.*

100 (103). Þá er Skúli jarl hafði lukt erendum sínum á Hálogalandi, hélt hann norðan, ok er hann kom í Niðarós, þá váru þar komin leyndarbréf austan af Vermalandi til Sigurðar ribbungs frá þeim sumum Vermum, er áðr höfðu svarit Hákoni konungi, at hann skyldi leita austr þannin. Var þá ok kominn til móts við hann Erlingr rúmstafr, er verit hafði merkismaðr hans. Um myrgininn fyrir Ólafsvöku féngu þeir sér kórkápur af klerkum ok géngu svá út um akra ok út um Steinbjörg ok upp á Gaularás. Um myrgininn var jarli sagt, at Sigurðr var á brautu. Lét hann þá leita alla vega frá bœnum, ok fannst hann eigi. Jarl lét taka einn íslenzkan mann, er verit hafði við Sigurði, er hét Andres Þorsteinsson, bróðurson Sæmundar í Odda, ok sagði hann vita mundu, hvar hann var; en hann vissi ekki frá at segja. Jarl lét hengja hann. Hann gaf ok sök klerk, þeim er Bárðr hét, er kápurnar hafði lét. Guðmundr byskup var þá í bœnum, ok gaf hann mörg hörð orð jarli fyrir aftöku Andres, þvíat hann hafði áðr jafnan verit með byskupi. Jarl sendi nú menn til konungs ok sagði Sigurð með því móti hafa braut hlaupit, at hann mundi úfrið hefja. Konungr sendi þá boð um alt ríki sitt, at menn gætti sín sem bezt.

*Frá Sigurði ribbung ok hans mönnum.*

101 (104). Sigurðr kom austr um fjall, kom þá á mót honum mart hans manna, sem þeir höfðu ráð fyrir gert. Reisti hann þá merki ok fór austr í Vermaland, dreif þá mikit lið til hans, ok þessir sveitarhöfðingjar kómu þá til hans, Þórðr austmaðr, Eiríkr lati, Oddr son hans, Hallvarðr svaddi, Þorbjörn rigr ok Þorgeir rigr,

Haraldr skotún, Alfr Styrsson ok Gjarðarr bróðir hans, Ámundi af Folavelli. Vermar tóku vel við Sigurði ok hans mönnum.

*Dráp margra manna.*

102 (104). Þeir lyptu þá ferð sinni ok kómu fram á Raumaríki. Þeir kómu á úvart at Ólafi mok frænda konungs á þeim bœ, er Lyrin heitir, þar váru margir hirðmenn. Honum váru boðin grið, en hann kvezt eigi vildu, nema þeir hefði allir. Ok þá var því ját. Síðan gékk Ólafr út, ok héldu þeir honum, en drápu hvern hans mann, sem út kom; þar féllu 60 manna, ok váru 20 hirðmenn. Ribbungar báðu Ólaf sverja sér eið, at hann væri aldri á mót þeim. Ólafr sór eiðinn, ok kvað eigi vel sœran mundu. Ok þegar sem Ólafr komst á braut, fékk hann sér sveit ok fór at Ribbungum ok drap af þeim nökkura menn. En þar sem Ribbungar áttu frændr í hverju húsi, þá kom þeim njósn, hvar Ólafr var, ok kómu þar á úvart ok tóku hús á Ólafi ok drápu hann við nökkurum mönnum.

*Capitulum.*

103 (105). Þeir höfðu þá sýslu á Heiðmörk Ívarr af Skeðjuhofi ok Friðrekr slafsi. Heinir skáru upp herör ok nefndu menn or þriðjungum ok héldu vörð á sér hverja nótt ok dag ok tóku samheldi. Kómu Ribbungar sér þar aldri fram, svá gættu þeir vel bygða sinna.

*Frá Hákoni konungi ok Skúla jarli.*

104 (106). Hákon konungr ok Skúli jarl höfðu svá mælt millum sín, at þann sama vetr skyldi konungr gera brullaup sitt í Björgyn, skyldu þeir þar finnast. Konungr fór um haustit austr í Vík, ok er hann kom í Hornborusund, spurði hann dráp Ólafs moks ok þau illvirki, sem Ribbungar höfðu þá gert. Konungi þótti þetta vera skaði mikill um Ólaf frænda sinn; föðurmóðir Ólafs var dóttir

Haralds gilla. Konungr fór til Túnsbergs. Kom þar til hans Arnbjörn Jónsson ok Símun kýr, þeir báðu konunginn eigi fara or Víkinni, meðan þar væri svá mikill úfriðr. Þá sendi konungr til Björgynjar Dagfinn bónda ok Hákon kávís at segja, hvat tálmaði ferð hans. Konungr sendi þá annat sinn bréf til Svíakonungs ok minti hann á, hvern skaða hann hafði fengit af Vermum, ok bað hann eigi láta úvini sína styrkjast í hans ríki, sagði þau einkamál hafa verit hinna fyrri konunga, at hverr skyldi reka annars úvini or sínu ríki.

*Um bréf Svíakonungs.*

105 (107, 108). Hákon konungr sigldi þá austr til Konungahellu, Ribbungar stukku þá undan austr á Markir. Þá kom til móts við konung Áskell lögmaðr. Konungr bauð þá enn Knúti frænda sínum til sín. Lögmaðr tók því öllu vel. Þeir töluðu mart um rán ok illvirki, þau er Ribbungar gerðu. Lögmaðr bað konung enn rita til Svíakonungs, at hann ræki þenna vændisflokk braut or Vermalandi. Konungr svaraði: Vér höfum nú ritat tveim sinnum til Eiríks konungs, ok hafa hin sömu svör á mót komit, at hann skyldi um bœta, en þat hefir þó ekki vorðit, þvíat æ er verr ok verr. En svá lauk, at konungr gerði þá bréf með því móti, at Eiríkr konungr skyldi fyrir átta dag jóla hafa rekit úvini hans braut or sínu ríki, ella kvezt hann efanarlaust mundu hefna sjálfr síns skaða. Lögmaðr hét, at konungr skyldi vita sönn tíðindi fyrir átta dag jóla. Eptir þat skildu þeir, fór konungr norðr til Túnsbergs, ok kom þar sjau nóttum fyrir jól, ok stefndi hann til sín sýslumönnum af Raumaríki, ok kom þar mikit fjölmenni.

Konungr hafði mikla rausn um jólin. Í jólunum kómu austan bréf frá Svíakonungs, ok fannst konungi svá í hans bréfum, sem hann mundi litlar bœtr á ráða um þat, sem konungr taldi at. Konungr lýsti þá fyrir

sínum mönnum, at þegar eptir jólin mundi hann ríða austr at Vermum. Gerði hann þá orð Arnbirni Jónssyni, at hann kœmi á mót honum við Eiðaskóg; sumir hans menn skyldu koma til móts við hann á Mörkum. Konungr sendi ok boð um alla Foldina, at þeir skyldu fá honum reiðskjóta. Vestfyldir fluttu til hans tvau hundruð hesta ok gáfu honum fyrir sakir góðvilja.

*Frá Hákoni konungi.*

106 (109). Hákon konungr fór af Túnsbergi þrim nóttum eptir jól. Þessir váru þar formenn, Nikulás Pálsson, Gunnbjörn, Haraldr stangarfylja. Fór konungr á skipi or bœnum. Þessi var hinn átti vetr konungdóms hans. Ok er hann kom í Haugsvík, kómu þar hestar á mót honum, reið hann þar við öllu liði sínu. Ok er konungr kom undir Eikaberg, kom þar enn mart á mót honum, sem hann hafði ráð fyrir gert. Konungr sagði þá sínum mönnum, at hann mundi eigi lengr dveljast í Osló at því sinni en tvær nætr. Nikulás byskup var í bœnum. Prestr einn hafði komit austan af Vermalandi, er Jón hét. Byskup lét hann kalla til sín ok sagði honum svá, at Hákon konungr ætlaði at fara með her austr á Vermaland ok brenna bæði konur ok börn, en presta skyldi leggja á stiga ok hýða. Prestrinn verðr skjótt á braut, hann fór tvá daga or Noregi ok í Vermaland, ok fór þessi njósn fyrir konunginum. Konungr sendi orð í bœinn fyrir sik til byskups, at hann vill vera í byskupsgarði þessar tvær nætr. Byskup kvað eigi mega vera alt samt kálfa ok úlfa. Byskup reið á mót konungi ok bauð honum með sér alla hluti. Þó var konungr í garði Haralds sýslumanns síns, en hafði kost af byskupsgarði. Þar kom til móts við konung Dagfinnr bóndi, hafði hann farit bæði nætr ok daga af Björgyn, hann bauð at fara með konungi austr í Vermaland. Konungr vildi þat eigi, en þakkaði honum margfaldan góðvilja, er hann veitti

honum. Konungr talaði þá marga hluti um nauðsyn landsins, svá hvat ráði hann gerði þá fyrir Sigurði syni sínum, ef hann kœmi eigi aptr.

*Frá Dagfinni bónda.*

107 (109). Dagfinnr bóndi sneri þá aptr, ok er hann kom austan fyrir Nesjar, rak at honum ísa, ok varð hann at snúa til meginlands. Ribbungar váru þar fyrir alt í bygðum. Suðrmenn lágu fjölment á kuggum í Sandasundi, sneri Dagfinnr þangat, tóku þeir við honum allvel. Ísakr í Bœ hafði verit við konunginum um jólin, hann kom í þetta ísrek, sneri hann ok til suðrmanna, tóku þeir við honum með blíðu. Var hann til þess meðr þeim, er minkaði ísrekin, ok fór síðan til Túnsbergs, en Dagfinnr fór norðr til Björgynjar.

*Lygikvittr um úfrið.*

108 (110). Hákon konungr fór or Osló mánadaginn ok fór upp á Raumaríki, ok var um nóttina at Gunnars á Bergi. Aðra nótt var konungr uppi við Elfi með Kolbeini á Fyri. Þá sömu nótt kómu til konungs þeir menn, sem héldu hestvörð, ok sögðust hafa orðit varir við úfrið. Klæddist konungr ok alt liðit, ok vöktu til dags. Um myrgininn prófaðist þetta hégómi. Konungr reið þá til þess bœjar, er Nes heitir, þar kómu á mót honum sýslumenn af Heiðmörk Friðrekr slafsi ok Ívarr af Skeðjuhofi við þrjú hundruð manna. Konungr var um nóttina þar sem Straumr heitir. Konungi var þá sagt, at Vermar hefði samnað mikinn, þá sendi konungr á njósn Klemet af Hólmi við 60 manna. Um myrgininn reið konungr í bygð, þá er Vingr heitir. Þat sama kveld hljópu Ribbungar á nökkurar sveitir konungsins, féllu þar nökkurir menn.

*Tala Hákonar konungs.*

109 (111). Hákon konungr sagði þá fyrir herinum, hvernin þeir skyldu ríða í Vermaland, ok talaði þá fyrir

sínum mönnum: Engi ofkæti dregr oss til þessar ferðar, en þótt Vermar standi á mót oss, þá óttumst mér þat ekki, þvíat vér mælum eptir váru fé ok frelsi. En ef Svíakonungr kemr á mót oss, þá fara vár skipti, sem guð hefir fyrir sét. Þessor skipan var á ger ferðinni, at konungsmerkit skyldi fyrst fara, ok þar með 10 tigir manna, skutilsveinar ok hirðmenn, njósnarmenn fyrstir, hverr með tveim hestum; hér næst fóru tvau hundruð manna; eptir þat sleðamenn af Upplöndum við sjau hundruð manna; þá reið Nikulás Pálsson ok Haraldr stangarfylja við þrjú hundruð manna; þá allir sleðamenn utan frá sjó, ok váru níu hundruð manna; þá Loðinn Gunnason ok Erlingr hljóðhorn við sex hundruð manna. Hákon konungr hafði í Vermaland níu hundruð manna ok tuttugu vildarliðs, en alt annat umfram. Liðit sýndist miklu meira en var fyrir sleðanna sakir, en þóat íss væri tveggja rasta langr á einhverju vatni, þá var fyrri annarr endir hersins af ísinum en annarr væri kominn á.

*Um þat er konungsmenn börðust.*

110 (112, 113). Um kveldit er sveitarhöfðingjar skildust við konunginn, var svá mælt, at allir skyldu mettir at miðri nótt. Veðr var kalt ok vindlítit. Á mót degi sendi konungr menn fram á skóginn. Þar var mikil sáluhússtofa, ok bað konungr þar gera elda stóra í garðinum. Þat var alt jafnsnemma, at dagrinn rann upp ok konungr kom til eldanna, ok vermdu menn sik. Konungr reið þaðan, er alljóst var. Eiðaskógr er tólf rasta langr, ok er kirkja á miðjum skóginum. Sem konungr kom af skóginum, kómu njósnir hans á mót honum ok sögðu engan samnað fyrir í landinu ok fólk alt flýit or bygðinni á merkr. Þá fluttist herrinn til bœja þeira, er Mórastir heita, þar beið konungr til þess, er alt liðit kom saman. Sagði konungr þá, at hann vill með friði fara til allra bónda, ef þeir vildi á hans vald koma ok til miskunnar festa.

Aðra nótt var konungr þar, sem heitir Meðalbœr, er átti Oddr Eiríksson. Þetta var frjádagr fyrir níu vikna föstu. Konungr hafði marga sveitarhöfðingja í boði sínu um kveldit, ok drukku menn bæði bjór ok vín. Þá váru frost mikil. Þeir köstuðu út verplum öllum í garðinn, ok var nær þriðjungr frörinn í hverjum. Reiðskjótamenn tóku verplana til sín ok brutu í sundr, síðan tóku þeir jöklana ok bræddu, en suma átu þeir. Af þessu urðu þeir druknir, svá at þeir börðust um nóttina; þar urðu 14 menn sárir, en margir lamdir. Var þat fyrst gert um myrgininn at semja þeira manna á millum.

*Eydd bygðin fyrir konungi.*

111 (114). Laugardaginn vildi herrinn brenna bygðina, en konungr frestaði ok hugði, at bœndr mundu vilja koma ok biðja miskunnar. Ok er konunginum þótti sú ván þrotin, þá tóku menn at brenna bygðirnar. En svá vandliga höfðu menn eytt heruðin, at á engum bœ var nökkurr maðr. Svá kvað Sturla:

Vara landráð
litlu goldit
við allvald
austan markar,
þá er lofðungr
leystan hafði
elris garm
eski mettan.

Svalg hvert hús
heitum manni
viðar hundr
Verma bygðar,
ok svipkárr
selju rakki
um garðshlið
grenjandi fór.

Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Vígstorma, namt Vermum
valdr! fláræði gjalda;
léztu, ræsir! gim geisa;
gékk eldr um sjöt rekka.

Bœndr hlutu kvöl, þá er kyndisk
kapps hár logi, sára;
gegn, létuð hyr hegna,
hjaldréls frömuðr! vélar.

Hjá vatni einu hljóp út kerling ein gömul, ok spurði, hvar væri konungr Norðmanna. Þá var henni sagt. Hon gékk fyrir konunginn djarfliga ok bað hann fyrir guðs

sakir láta eigi brenna bœ dóttur hennar, fyrir þat er hon þorði ein at bíða. Konungr kvað svá vera skyldu, ok kallaði til sín gest, er Jón úmagi hét, ok þrjá aðra, ok bað þá þar vera, til þess er allr herrinn væri um farinn, sagði þat alt skyldu í friði vera, fyrir þat er þessi ein kerling vildi biðja hann miskunnar af öllum Vermum, ok bað hana fara eptir hjúm sínum, ok sagði fleiri bœi mundu úbrenda, ef þeir hefði á hans fund komit ok beðit miskunnar.

*Frá brota fyrir konungi.*

112 (115). Eptir þat kómu menn til konungs ok sögðu, at Vermar hefði felt brota fyrir þá við Nýjukirkju. Þá sendi konungr fram ríðandi hundrað manna; ok er þeir kómu til brotans, váru þar fáir menn ok stukku þegar frá. Var þá brotinn ok höggvinn með bolöxum. En þeir sem síðar fóru, var þeim sagt, at konungr berðist fram við brotann. Geystust þeir þá eptir honum fram, ok er þeir kómu ok heyrðu gnýinn ok sá hleypingarnar, hugðu þeir þá eptir, at úfriðr mundi vera, var þá búit við hinum mesta váða, áðr menn kendust; fóru þeir þá út í landit, þar sem Árvíkr heita.

*Um hersögu.*

113 (116). Konungr kom þar snemma um kveldit, ok þat fólk er honum fylgði. Ok er konungr afklæddist, var blásinn herblástr, ok var sagt, at Vermar berðist við Birkibeina á skóginum. Konungr hljóp upp ok sneri aptr á skóginn, kom þá allr herrinn á mót honum. Var þetta hin mesta lygi, en þeim hélt við váða, er þetta höfðu kveykt. Fóru menn þá til búða, sem ætlat var. Fyrir dag kómu menn til konungs sex af bygð þeiri, er Strönd heitir, sá hét Geirr, er fyrir þeim var. Þeir báðu konunginn miskunnar. Konungr jár þeim griðum ok sættum, ok gaf þeim þat mark yfir alla þá bœi, er í

þeiri bygð váru, at þeir skyldu hafa eina stöng mikla ok binda við hvíta blæju ok reisa á þat hús, er hæst væri á bœnum, skyldi svá mega kenna þá bœi, er grið váru gefin. Í þessi bygð váru 14 bœir.

*Um hernað konungs í Vermalandi.*

114 (117). Síðan reið konungr út í Vermaland, ok var brent, hvar sem þeir fóru. Menn váru hvergi heima í bygðum. Þeir fóru alt í þá bygð, er Glaðafors heitir, ok brendu. Sem konungrinn var á þeim bœ, er Knollr heitir, þá kómu bœndr á mót honum ok báðu miskunnar af hendi landsmanna ok buðu alt á konungs vald. Ok með því at Ribbungar höfðu eigi lengra farit út í landit, þá tók hann sættir af þeim, ok settu þeir honum átta gisla, þá er konungi fylgðu í Noreg. Sneri konungr þá aptr öllum herinum, ok var um nóttina at Gils búanda. Svá segja Vermar, at þar hvíli heilagr maðr, er Þorgeirr hét. Konungr fór þaðan um myrgininn, var þá brent, hvar sem þeir fóru. Konungr var um nóttina, þar sem Saurvíkr heita, við Kjölinn. Um myrgininn var fyrir þeim nökkurr samnaðr við kleifar þröngvar, skutust menn þar á, ok urðu nökkurir menn sárir. Litlu síðar flýðu Vermar í skóginn. Birkibeinar brendu þá svá vandliga, at aldri stóð kot eptir. Svá segir Sturla:

Eim lék hyrr með himni,
hljóp eldr í sal feldan,
vítt hygg ek þegnum þótti
þeim markar böl sveima.

Óðusk allar þjóðir,
eiðvandr, konungs reiði,
baugsendir rauð bryndan
brand í Verma landi.

Þá er konungr reið at Hólmadali, þá kómu á mót honum bæði prestar ok bœndr ok báðu miskunnar. Konungr lét þá blása öllu liðinu á vatnsísinn ok fyrirbauð hverjum manni at brenna, ok lagði við líf eða limar, ef nökkurr brygði af því. Konungr var um nóttina í Hólmadali at prests eins í góðum fagnaði, en ekki var at drekka nema blanda, ok hvergi féngu þeir mungát í Vermalandi, en

kjöt skorti aldri, þvíat búit var hvergi undan rekit. Um myrgininn fór konungr á skóginn, ok kom at miðjum degi í sitt ríki, ok var um nóttina í Borgarsýslu, þar sem heitir Folkisberg.

*Frá Arnbirni Jónssyni.*

115 (118). Arnbjörn Jónsson hafði fjögur hundruð manna, hafði hann ætlat at mœta konungi við Eiðaskóg. En er hann kom at skóginum, spurði hann, at Ribbungar höfðu snúit til Oslóar, veik hann þá þangat sínum mönnum. En er Ribbungar kómu í Osló, váru þar engir fyrir Birkibeinar, sneru þeir þá út til Túnsbergs. Arnbjörn kom um kveldit í Osló, er Ribbungar fóru braut um myrgininn. Nikulás byskup var fóstrfaðir Arnbjarnar ok kærr vin. Byskup dvaldi Arnbjörn lengi um daginn ok lézt mundu kenna honum heil ráð. En Birkibeinar sögðu, at byskup vildi dvelja Arnbjörn til þess, at Ribbungar drœgi undan sem lengst. Arnbjörn varð síðbúinn or bœnum, þvíat lið hans var mjök drukkit. Ok er Ribbungar kómu út í Hlíðir, var þar fyrir bóndi einn af Túnsbergi, er hét Reiðúlfr gullkroppr, hann sneri sinni ferð ok bar njósn til Túnsbergs. Þeir Ólafr höfðu hálft þriðja hundrað manna á berginu. Varla var trúat orðum Reiðúlfs. Pálsmessu aptan kómu Ribbungar í bœinn. Eysteinn Hróason komst nauðuliga upp á bergit. Þar féll í kleifinni skutilsveinn konungs, er Reiðúlfr hét, ok þar féll Grímr hvíti. Þar féllu alls 14 menn. Ketill staurr hét hirðmaðr ok Eilífr dvergr gestr, þeir vörðust í loptstofu einni svá drengiliga alla nóttina, at varla finnast dœmi til, at tveir menn hafi betr varizt en þeir, en þó féllu þeir báðir við góðan orðstír.

*Ribbungar brendu skip ok tóku leiðangr konungs.*

116 (119). Um nóttina er Ribbungar höfðu rannsakat bœinn, fóru þeir upp undir bergit ok brendu þar

skip nökkur, eigi færi en 16. Þeir drápu kaupmenn tvá saklausa. Þeir fóru í braut um myrgininn ok vestr á Foldina, ok tóku leiðangra konungs, hvar sem þeir kómu. Arnbjörn kom til Túnsbergs annan daginn eptir, var honum þá sagt, at hann mundi eigi ná Ribbungum, sneri hann þá austr aptr til Valdishólma.

*Liðskipan konungs*

117 (120). Símun kýr ok Bárðr bratti skyldu hafa farit austr í Vermaland með konungi, höfðu þeir orðit of seinir, ok sneru þeir aptr. Konungr kom með öllu liði sínu í Osló, spurði hann þá, hvat Ribbungar höfðu gert í Túnsbergi. Konungr sagði þá liðinu, at hann vill skipta öllu í þriðjunga, skal Loðinn ok Gunnbjörn ok Upplendingar hafa einn þriðjung ok snúa upp á Raumaríki eptir Ribbungum, en ek mun fara við annan þriðjung, sagði konungr, upp í Hakadal ok hit beinsta upp á Haðaland; þessir sveitarhöfðingjar skulu mér fylgja, Nikulás Pálsson, Haraldr stangarfylja, Friðrekr slafsi, en Erlingr hljóðhorn ok Klemet af Hólmi ok nefndarmenn af Foldinni skulu fara sem skjótast til Túnsbergs ok eigi lengra, nema þeir spyri nökkut til Ribbunga.

*Frá njósnarmönnum.*

118 (121). Sendimenn, þeir er fóru á land upp, spurðu, at Ribbungar váru eigi umfarnir, ok því snúa þeir vestr um Ásuskóg. Þá er konungr kom í Hakadal, kómu þar njósnir á mót honum, ok sögðu Ribbunga hafa snúit upp á Hringaríki. Konungr kom snemma á Haðaland, spurði hann þá, at Ribbungar höfðu ekki upp hjá farit, sneri hann þá út eptir bygðum. Hann var um nóttina, þar sem Grattagref heitir. Hann sendi Ögmund Ölmóðsson út í bygðina á njósn við tólfta mann. Um kveldit, er matr bjóst, sagði sá, er við ljórann sat ok vörð hélt, at njósnarmenn hleyptu aptr í garðinn ok

sögðu úfrið vera. Snjór var mikill. Konungr bað menn taka vápn sín ok snúa á hæð, er þar var hjá þeim. Þá kom Ögmundr til konungs ok sagðist mœtt hafa Ribbungum, en eigi vissi hann, hversu fjölmennir þeir váru. Konungr mælti þá styggliga til njósnarmanna, sagði þá fyrr hafa flýit, en þeir þurftu, er þeir vissu eigi sönn tíðindi. Váru þá fengnir fleiri menn Ögmundi. Þá mælti hann: Guð láti mik svá aptr koma, at ek kenna einnhvern Ribbung.

*Frá njósnum Ribbunga.*

119 (122). Þá er Ribbungar fóru af Vestfold, stefndu þeir hit beinsta á Upplönd ok kómu á Hringaríki, ok stefndu hit beinsta í mót Birkibeinum, þvíat þeir höfðu engar njósnir af þeim. Þeir urðu varir við Ögmund, ok sneru þeir aptr ok sögðu Sigurði, at þeir höfðu sét vápnaða menn. Sigurðr sendi þá á njósn Erling rúmstaf við sétta mann, ok er hann kom í bygðina, varð hann varr við Birkibeina. Snýr Erlingr þá aptr til móts við Sigurð ok segir honum um ferðir Hákonar konungs. Sigurðr lét þá saman kalla alla sína menn, váru þeir um nóttina á haugi einum, hann sendi fim menn á njósn, ok mœtti Ögmundr þeim á þeim bœ, er Jafnakr heitir, þar féllu þessir fim menn við kirkjugarðinn.

*Frá konungi ok Ögmundi.*

120 (123). Hákon konungr reið í óttu við öllu liðinu, hann mœtti þá Ögmundi. Konungr spurði, ef hann vissi nökkut til Ribbunga. Ögmundr svaraði: Hér bíðr njósn Ribbunga yðar, herra, fram við kirkjugarðinn. Konungr sagði hann hafa þá vel sýst. Ribbungar sneru nú ofan til vatnsins Týri, þegar þeir urðu varir við Birkibeina. Konungr snýr nú eptir þeim farveg þeira. Ok er Birkibeinar kómu at vatninu, váru Ribbungar yfir komnir. Snjór var mikill, en vegrinn mjár, svá at eigi mátti meir fara en tveir menn jafnfram, en kafhlaup alt hjá.

*Um bréf jarls til konungs.*

121 (124). Konungr stöðvar nú liðit á vatnsbakkanum, var þá eigi meir en tvau hundruð utan sveina. Konungr leitar þá ráðs við sína menn, en flestir löttu þá at fara lengra, váru þá ok móðir faraskjótar þeira. Þá kómu ok menn af Túnsbergi ok sögðu bréf komin norðan frá Skúla jarli, ok því sneri konungr út þannin.

*Sagt af bréfum.*

122 (124). Bréf jarls váttuðu svá, þau er norðan váru send til konungs, at honum þóttu eigi haldin öll einkamál við sik, er konungr var eigi í Björgyn um jólin, ok konungr skyldi gera brullaup sitt eptir jólin, sem mælt hafði verit. Jarl lét ok þat fylgja, at hann mundi bíða konungs til páska, en ef hann kœmi þá eigi, þœtti honum þá eigi haldinn trúnaðr við sik, mundi hann þá gera, sem honum líkaði, hvat hann héldi af sínum trúnaði. Allir vinir konungs báðu hann fara til Björgynjar ok halda alt af sinni hendi. Íslög váru svá mikil um alla Víkina, at engi maðr mundi slík, ok þó at menn géngi á hin hæstu fjöll, þá sá hvergi til vaka, en skip váru víða frosin í ísum, ok mörg hurfu um várit.

*Capitulum.*

123 (125). Hákon konungr sendi Gauta prest í Vettaherað at taka leiðangr sinn, ok innan fára nátta kom hann ríðandi aptr með þrjú hundruð hesta. Var þat sjau náttum eptir miðja föstu. Váru þá enn öruggir ísar um alla Foldina. Konungr lét bœta skip þau, er Ribbungar höfðu brent.

*Capitulum.*

124 (126). Eptir þat er konungr hafði elt Ribbunga af Hringaríki, var þat nökkura stund, at ekki spurðist til þeira. Bœndr slitu þá samnaðinum. Svá er sagt, at þeir váru nökkurir menn á Heiðmörk, at svá váru fagnaðarlausir sér ok konungi sínum, at þeir sendu orð

Ribbungum leyniliga. Fóru þeir þá með öllum herinum upp á Heiðmörk í bygð þá, er Skaun heitir, ok kómu eptir miðja nótt. Sú bygð var skipuð af kirkjum ok góðum bœjum. En þegar sem menn urðu varir við úfriðinn, þá hringðu þeir herklukkunni at höfuðkirkjunni á Stöngum. En fyrir því at Ribbungar váru þá komnir í miðja bygðina, þá var ilt at samna liðinu, því at þeir drápu hvern, er til vildi hlaupa samnaðarins; þeir brendu tvá bœi mikla. Ribbungar lögðu nú undir sik alla bygðina. Hallvarðr byskup kom þá til Ribbunga ok tók grið af þeim til handa bóndum, en konungsmenn fóru út til Túnsbergs. Ívarr af Skeðjuhofi ok Þorgeirr byskupsmaðr sögðu konungi þessi tíðindi, ok þóttu honum allhörð. Báðu þeir konunginn fara upp á Heiðmörk at Ribbungum, en alt ráðit bað hann norðr fara eptir einkamálum þeira Skúla jarls.

*Frá Ribbungum.*

125 (127). Ribbungar lögðu stórgjöld á bœndr á Heiðmörk, ok sættust með því móti. Sneru þeir þá út í Víkina, nökkurar sveitir af þeim fóru svá nær bœnum, at eigi var lengra frá en ein röst Sem konungr spurði þat, nefndi hann níu sveitir or bœnum at fara at Ribbungum. Váru þessir formenn, Gunnbjörn, Haraldr stangarfylja, Ívarr af Skeðjuhofi. Þeir fundu Ribbunga í Oslóarheraði, þar sem Agnleysa heitir, þar féllu níu tigir manna af Ribbungum. Fóru Ribbungar eptir þat firr bœnum í Túnsbergi.

*Bruðlaupsgerð Hákonar konungs til frú Margrétar Skúladóttur.*

126 (128). Þórsdaginn í páskaviku lét konungr draga skip sín um þvert nesit fyrir utan Skeljastein ok svá út í Hundsund. Eptir páskaviku sigldi Hákon konungr norðr til Björgynjar, ok var fim nætr á leiðinni. Skúli jarl var þar fyrir ok fagnaði vel konunginum. Var þá ráðit til brullaupsgerðar Hákonar konungs ok jungfrú

Margrétar, var boðit hinum beztum bóndum um öll Gulaþingslög. Brullaupit var þrenningar messudag ok stóð fim nætr. Konungr veitti í jólahöllinni öllum karlmönnum, en dróttningin var uppi í sumarhöllinni, ok konur við henni; klaustramenn allir váru sér í stofu, ok váru fim ábótar fyrir þeiri sveit.

*Frá sendimönnum konungs.*

127 (129). Fyrir brullaupit sendi konungr upp á Valdres 80 manna, váru þessir formenn, Álfr sandveykr, Gunnarr sámr, skyldu þeir halda vörð, svá at Ribbungar gerði ekki hark. Þeir fundu þar nökkurar sveitir af Ribbungum ok drápu af þeim vel 30 manna ok tvá formenn, hét annarr Úlfr skygnir, en annarr Þórir pæla, höfðu þeir verit hinir mestu illvirkjar í ránum.

*Frá konungi ok erkibyskupi.*

128 (130). Hákon konungr ok Skúli jarl váru lengi um sumarit í Björgyn. Fór konungr austr til Víkr eptir Ólafsvöku við 50 skipa, en jarl fór norðr til Þrándheims. Skyldi hann fara þegar á land upp, er hann kœmi norðr, ok finna konunginn uppi við Mjörs, en sá þeira ráða til skipagerðar, sem fyrr kœmi. Ok er konungr sigldi fyrir Jaðar, kom þar buza ein á mót honum, er á var Jón stál, hann hafði farit til vöku til hins helga Thomas erkibyskups. Konungr spurði eptir erkibyskupi; þeir sögðu hann vera í bunaði á Englandi. Konungr spurði, hverr gerzt hefði. Jón svaraði: Sá sem þér kurut, herra, Pétr á Húsastöðum. Konungr þakkaði þat guði. Konungr gerði um kveldit bréf aptr á mót erkibyskupi, hvar sem hann kœmi, at hann skyldi vera guði vel kominn ok svá konunginum. Ok er konungr sótti inn í Víkina, var honum sagt, at Ribbungar væri austr á Nesjum ok í Skíðunni. Ok er konungr kom austr fyrir Grindhólmasund, skipti hann liðinu, reru sjau skútur inn um Þræla-

berg. Var þar fyrir Ívarr af Skeðjuhofi, géngu þeir þar upp. Konungr reri í dagan inn til bœjarins. Ribbungar váru fyrir í bœnum ok tóku þegar upp or bœnum, er þeir kendu merkit. Þeir Ívarr kómu þar á móti þeim, hljópu Ribbungar þá aptr í bœinn. Konungr var þá kominn upp á bryggjurnar, var þar lítil viðrtaka, féllu þar vel 20 menn, en allir aðrir kómust í kirkjur. Gaf konungr þeim grið um myrgininn. Svá segir Sturla:

Ríkr gaf hlenna hneykir
herþrungit Ribbungum
ógnar skýs í Osló
eitt kveld meginsveitum.

Þegar um kveldit fór konungr út til Túnsbergs.

*Pétr erkibyskup kom í land.*

129 (131). Þá er Pétr erkibyskup kom í land, sendi hann bréf til konungs, þau er pávinn hafði ritat við honum, at konungr væri vin erkibyskups. Í þessu kom bréf til konungs frá jarli ok kórsbrœðrum, ok sögðu þeir svá í sínum bréfum, at Pétr svikarinn var kominn í land, er keypt hafði erkibyskupsnafn með fé hins helga Ólafs konungs, ok báðu konung taka hann sem annan svikara heilagrar kirkju. Þessi sömu bréf sendi konungr erkibyskupi ok þar með sín bréf, ok bauð erkibyskupi austr til sín eða bíða sín í konungsgarði. En er konungr kom til Túnsbergs, kómu þar stórskip hans, ok dróttningin ok konungsmóðir, þá kómu ok til hans sýslumenn ok lendir menn. Bjóst hann þá inn til Oslóar. Þá kom til hans prestr einn danskr frá Sigurði ribbung með bréfum, hann bauð konungi bardagastefnu við vatnit Dröfn. Konungr þóttist eigi mega halda þangat stórskipum. Prestrinn kvað Sigurð bjóða at berjast heldr á Eiðsvelli. Konungr svaraði: Lengra sœkjum vér þá til Birkibeinar, er farit höfum norðan or Björgyn, ok ríðum þá til átta rastir á landi, en þeir fara einar þrjár

vikur skammar eptir einu vatni; en þó ef Sigurðr vill, þá skal hann mega sjá merki mitt á Eiðsvelli, þegar sem guð gefr tíma til.

*Framferð Skúla jarls.*

130 (132). Skúli jarl gerði, sem þeir konungr höfðu rætt sín á millum, at hann fór á land upp, ok við honum margir lendir menn. Hann hafði látit slá skipasaum margan. Ok er jarl kom í Guðbrandsdala, sendi hann undan Kolbein kettuhrygg ok Ívar útvík við tvau hundruð manna. Þeir kómu til Hamars at miðjum degi. Sigurðr var þar fyrir í baði, ok komst nauðuliga undan á skip sitt ok reri út til eyjarinnar, hann sendi Erling rúmstaf á fund Skúla jarls, ok litlu síðar fundust þeir Sigurðr ok jarl við fá menn ok töluðust við-um hríð. Jarl lét reisa þar fim skip ok öll stór, váru ger mjök af skyndingi.

*Frá konungi ok Birkibeinum.*

131 (133, 134). Þá er jarl fór or Þrándheimi, sendi hann grámunk einn við bréfum til Hákonar konungs, fann hann konunginn í Osló. Stóð þat á, at konungr mundi skunda sinni ferð. Nikulás byskup var fyrir í Osló, ok lét, sem hann mundi leita um sættir með Birkibeinum ok Ribbungum. Þá fundust ok bréf þau, er konunginum þótti eigi fullr trúnaðr vera við sik af byskupi. Bað byskup konung vægja sér um þessi mál. Eptir þat fór konungr á land upp við miklu liði. Var konungr hina fyrstu nótt at Gunnars á Bergi, en aðra at Ámunda lögmanns. Um myrgininn fóru Birkibeinar til Eiðs ok hugðu Ribbunga mundu vera þar fyrir. Ok er þeir kómu upp hjá kirkjunni, hleypti allr herrinn ofan eptir brekkunni til árinnar, þvíat þeir hugðu gott til, at Ribbungar mundu þar fyrir vera. En þeir héldu þenna stefnustað, sem þeir höfðu áðr aðra haldit, at engi þeira var þar kominn á mót Birkibeinum. Sneri konungr þá liðinu upp til bæjarins.

Konungr sendi þá menn til jarls ok lét segja, hvar hann var kominn, ok bað hann senda skip á mót sér. Litlu síðar kómu sendimenn frá jarli ok sögðu, at þar váru við honum hirðmenn Sigurðar ribbungs, Erlingr rúmstafr ok Álfr Styrsson, ok vildu hafa grið af Birkibeinum til viðrtals. Konungr kvezt ekki eiga vantalat við Ribbunga. Sendimenn jarls sögðu þetta vera hans ráð at dvelja svá fyrir Ribbungum, meðan skipin væri eigi búin, en eptir fjóra daga mundi öllum vera flotat. Konungr jáði þá, at Ribbungar kœmi í griðum til tals, ok þeir kómu ok sögðu, at Sigurðr bauð sættir ok beiddi skiptis á landi.

*Viðtal konungs ok beiðsla Ribbunga.*

132 (134). Konungr svaraði: Meira kostaði Sverri konung föðurföður minn, ok fleiri vásbúðir hafði hann, en vér höfum enn haft, áðr hann féngi unnit Noreg af sínum úvinum, ok leituðu þó margir á hann jafnan síðan. Lét hann ekki skipti á ganga annat, en bað guð skipta með þeim, eptir því sem hans var miskunn til. Segit þér svá Sigurði, at ekki skipti mun á ganga annat, en guð vill. Vitum vér ok eigi, hvárt Sigurðr er son Erlings, en þat vitum vér, at hann er eigi son Magnús konungs, ok þat var fals eitt, er hann fór með, sem þeir vissu, er nú sitja hér hjá oss, Arnbjörn Jónsson ok Símun kýr. Símun svaraði: Þat er engum manni jafnkunnigt sem mér, at ekki þjónuðum vér þeim Erlingi, sem sat í steinveggnum í Visinsey, en góðr þótti mér sjá, meðan ek var með honum. Þá beiddu Ribbungar, at friðr mundi standa um vetrinn, ok hefði þeir Upplönd. Konungr neitaði. Þá beiddust þeir at hafa Raumaríki ok Heiðmörk. Konungr svaraði: Ef þér sitit í friði til várs, þá dragit þér at yðr margan þjóf ok vændismann. Sneru Ribbungar þá á braut. Konungr lét segja jarli, at hann mátti eigi lengr dveljast á Eiðsvelli en átta nætr, en hinn níunda dag varð hann braut at fara, ok var sá næstr eptir allra heilagra messu.

*Capitulum.*

133 (135). Þá sendi jarl Nikulás Pálsson til konungs, ok sagði, at skipin váru búin, ok hann bað konung senda sér nökkut lið. Konungr sendi honum átta sveitir ok þá formenn, Ívar af Skeðjuhofi ok Saxa blaðspjót. Konungr sendi ok menn með Nikulási eptir nökkurum skipum. Ok er Nikulás kom til jarls, hafði hann flotat skipunum, ok váru þau svá lek, at varla urðu ausin. Ribbungar höfðu þá farit or eynni ok flýit ymsa vega í hólma eða ármynni. Jarl fór þá á Hringisakr, ok lét hann áðr upp höggva skipin eða brenna, síðan sneri hann til Þrándheims við allan her sinn, ok kómu engar orðsendingar til konungs af jarls hendi í því sinni.

*Capitulum.*

134 (136). Konungr beið á Eiðsvelli, svá sem þeir jarl höfðu við mælzt. Fór þá konungr á braut við öllu liði sínu, ok er hann kom á Raumaríki, var honum sagt, at Ribbungar ætluðu at draga skip sín í Tyri. Konungr snýr þá á Haðaland, en mestr þori liðsins snýr út til skipanna. Konungr var hina fyrstu nótt í Hakadal. Þá sömu nótt urðu þeir Ívarr nef varir við Ribbunga, ok féllu nökkurir menn af Birkibeinum. Kom Ívarr um myrgininn til móts við konung ok sagði, at hann hafði flýit á skóginn fyrir Ribbungum.

*Capitulum.*

135 (137). Þá hafði konungr eigi meir en þrjú hundruð manna af þeim fimtán, er hann hafði á land upp. Konungr hélt þá saman liðinu um daginn ok um nóttina. Um myrgininn var konungi sagt, at Sigurðr hefði snúit upp á Haðaland ok ætlaði upp til eyjarinnar með öllu liði sínu. Konungr sá þá, at ekki tjáði at rekast eptir þeim til vatnsins, þar sem hann hafði engi skip, sneri hann þá út aptr.

*Andlát Nikulás byskups.*

136 (138). Nikulás byskup var þá sjúkr mjök, hann sendi þá orð konungi, at hann kœmi til hans. Konungr þóttist þá enn víss orðinn þeira hluta, at honum gazt eigi at við byskup, ok bar þat á hann. Byskup gékk við því ok bað konunginn fyrirgefa sér, ok þat jáði hann honum blíðliga. Konungr beið þar, til þess er guð kallaði byskup af heiminum. Stóð konungr yfir grepti hans. Nikulás byskup hafði verit hinn mesti höfðingi, hann var ok kominn af hinum beztum ættum bæði í Danmörk ok Svíþjóð, ok þó vel ættaðr innan lands, en þótt hann hefði eigi verit vin Birkibeina, þá sagði Hákon konungr þó svá, at varla hefði slíkr maðr verit til veraldar vits sem Nikulás byskup.

*Símun kýr bar vitni um Erling steinvegg.*

137 (139). Hákon konungr fór or Túnsbergi, gaf hann þá heimleyfi Dagfinni bónda, Gaut af Meli ok mörgum öðrum mönnum norðan or landi, en hann bjóst austr til Elfar. Dróttning ok konungsmóðir fóru upp á bergit, ok var Gunnbjörn þar fyrir. Sem konungr var í Konungahellu, kómu þar á mót honum Áskell lögmaðr ok frú Kristín. Lögmaðr sagði, at Svíakonungi hugnaði lítt, er Hákon konungr hafði brent Vermaland. Konungr sagði lögmanni þat kunnigt, hversu opt hann hafði beðit, at Svíakonungr mundi braut reka þau illmenni or sínu ríki. Lögmaðr kvezt þat gerla vita, en sagði konung bernskan, en þá til fá, er honum væri heilráðir. Lögmaðr var í boði konungs, ok fóru allir hlutir vel með þeim. Þá váru margir fornir Birkibeinar með konungi, Loðinn Gunnason, Símun kýr, Hallvarðr bratti. Konungr hafði þat til skemtunar, at hann gabbaði þá um þat, at þeir hefði eigi þjónat réttum konungssyni, þá er þeir váru við Erlingi steinvegg. Margir áttu hlut í þessu. Þá mælti lögmaðr til konungs: Vilit þér, herra,

lofa oss Gautum at eiga hlut í gabbi yðru Norðmanna? Konungr svaraði: Gjarna viljum vér þat, sagði konungr. Lögmaðr mælti: Eigi vilda ek úsatt segja þat, er mér er kunnigt um þat, hverr Erlingr þessi var son Magnús konungs, er Baglar þjónuðu; en þat vissa ek sannliga fyrir guði, at eigi var hann sá Erlingr, er sat í steinvegginum við oss í Viȩinsey, en svá segjum vér, at sá var son Magnús konungs; ok því hafit þér rangt þjónat, en þó mun þetta vita Símun kýr, þvíat þú vart inni byrgðr hjá honum. Konungr mælti þá til Símunar: Seg nú, Símun, þat, er þú veizt sannast fyrir guði um þetta mál. Símun svaraði: Þat veit ek fyrir guði, at ek sat í steinveggnum hjá Erlingi, ok var ekki þessi sá Erlingr, en því þjónuðu vér þessum, at vér vildum fá einnhvern þann, sem móti stœði Birkibeinum. Konungr skírskotaði þessu, er Símun sagði, með hverju falsi þeir höfðu farit.

*Frá konungi ok lögmanni.*

138 (140). Þeir konungr ok lögmaðr skildu nú með blíðu, ok gaf hvárr öðrum sœmiligum gjöfum. Konungr bauð þá enn Knúti frænda sínum at fara við sér í Noreg; en móðir hans réð, er hann fór eigi. Fór konungr þá norðr til Túnsbergs, ok kom þar jólaaptan, ok sat um jólin á berginu. Þessi var hinn níundi vetr konungdóms hans. Eptir jólin fór konungr norðr til Björgynjar; konungr lá sjau nætr í Hvölum. Ok er reisa skyldi tré á konungsskipinu, ok er reist var, féll tréit fram at stafni eptir stokkunum. Konungr stóð undir, er tréit reið; maðr greip undir belti honum ok kipti honum út at borðinu. Gerði guð þar fagra jartein, þvíat engan mann sakaði, en margir urðu undir, þvíat íss hafði verit í stallinum.

*Um sigling.*

139 (141). Þá er konungr sigldi í gegnum Eikundasund, vildi hann at leggja, en Birkibeinar vildu sigla.

Konung kvezt svá dreymt hafa, sem þeim mundi nær hafa; en þó sigldu þeir góðan byr fyrir Jaðar, ok váru í Hrott um kveldit. Um myrgininn var landsynningr hvass, er þeir tóku til segls, konungr hafði fjögur langskip. Ok er þeir kómu or eyjasundunum, þá hvesti svá veðrit, at eigi var váðhæft á konungskipinu; reif þá af þeim seglit, en skipit rak at boða miklum; hétu menn þá stórheitum, engir væntu konunginum lífs né neinum, þeim er á skipinu var. Guð gerði þá enn konunginum fagra jartein, þvíat meðan at leið boðanum, rak skipit, ok svá síðan boðann leið, en meðan skipit fór jafnfram boðanum, rak með öllu ekki. Konungr kom til hafnar í eyjunum Aumum með mikilli nauð. Bátrinn var brotinn, en rifit seglit ok at öllu nökkut bilat. Konungr sigldi þá norðr til Björgynjar ok stefndi til sín lendum mönnum sínum or Gulaþingslögum, segir, at hann vill skjótliga snúa austr í Víkina.

*Frá Sigurði ribbung.*

140 (142). Sigurðr ribbung sat á Upplöndnm. Hann sendi bréf Skúla jarli ok Pétri erkibyskupi ok bað þá leita um sættir við Hákon konung. Eptir þat fóru Ribbungar í Víkina at Birkibeinum, en þeir stukku allir undan norðr til konungs. Fagnaði hann þeim vel, sögðu þeir honum slík tíðindi, sem orðin váru. Konungr fékk þeim átta skip vel skipuð, sneru þeir þá austr aptr. Þá er bréf Sigurðar kom til þeira jarls, þá gerðu þeir önnur bréf austr hit efra, því at þeir hugðu konunginn vera í Víkinni. Var þat á þessum bréfum, at Hákon konungr skyldi taka sætt af Sigurði ribbung, lagði erkibyskup bann við hverjum manni, er nökkurn úfrið gerði, áðr þessi stefna væri reynd. Þessi bréf kómu á mót sýslumönnum austr fyrir Ögðum. Jarlsmenn fóru norðr við bréfunum til konungs, en sýslumenn fóru í Víkina. Váru Ribbungar þá í Osló. Hefði Birkibeinar þá unnit hinn

fegrsta sigr, en þeir kváðust eigi vildu verða fyrir banni erkibyskups ok reiði jarls, ok fóru þeir leið sína.

*Bréfasending.*

141 (143). Þá er þessi bréf kómu til konungs, svaraði hann svá, at ekki mun hann já þessu at svá búnu. Síðan sendi hann norðr önnur bréf til jarls, þau er svá mæltu: Þér rituðut til vár ok hétut oss nökkurum afarkostum, ef vér vildum eigi sættast við Sigurð ok já honum várri föðurleifð. Mun at því koma, sem þér rituðut til vár í haust, er erkibyskup kom í land, at hvárigir váru annarra vinir, at sœkjast sér um líkir, saman skríða níðingar. Þetta megut þér fylla félagar; en guð skipti með okkr Sigurði, en eigi þeir byskupar. Þar var við Erlingr hljóðhorn, hann var nökkut skyldr erkibyskupi, hann svaraði: Þat er eigi undarligt, þótt erkibyskup frændi minn bregði skjótt trúnaðinum, þvíat þat fylgir oss, er af Standhala ætt erum komnir, at vera eigi allskostar tryggvir.

*Konungr spurði andlát Sigurðar ribbungs.*

142 (144). Þat var um várit einn sunnudag, er konungr reið upp til Álrekstaða, sem vani hans var til, at þar kom móti honum maðr einn hlaupandi ofan or fjallinu. Þetta var Ribbungr einn, hann hafði eitt rúnakefli, þat var á þessu kefli, at Sigurðr ribbungr var andaðr, ok þeir váru sumir Ribbungar, at þeir báðu konunginn koma sem skjótast at eyða flokkinum, ok þeir vildu ná Knúti syni Hákonar jarls fyrir flokkinn. Konungr lét þegar gera bréf austr til Knúts frænda síns ok bauð honum góða kosti sem fyrr. Hann skundar nú ok sinni ferð ok kom í Víkina eptir Seljumanna vöku.

*Capitulum.*

143 (145). Sigurðr ribbungr andaðist í Osló. Menn hans leyndu andláti hans ok fluttu líkit á land upp.

Þá senda þeir menn austr í Gautland Álf Styrsson ok Erling rúmstaf til Áskels lögmanns ok frú Kristínar, ok báðu at taka við Knúti fyrir flokkinn, kváðu landit mundu laust fyrir honum liggja. Frú Kristín trúði því ok fékk Knút son sinn í hendr Ribbungum, fylgðu honum margar sveitir af Gautum.

*Frá Knúti jarlssyni.*

144 (146). Þá er Knútr kom á Raumaríki, lét hann taka sik til konungs. Dreif þá lið mikit til hans. Svá segir Sturla:

Flokk tók enn, sá er ekki,
ógnmildr, friðask vildi,
eptir dólgstríði dauðan
dáðfinginn höfðingja.
Knútr réð bág at brjóta
böðhraustr við gram traustan
geystr, þvíat Gautar fýstu
geðbráðir landráða.

Engir bœndr í Víkinni vildu ganga undir Knút. Knútr fór til Oslóar, ok gáfu Ribbungar honum þar konungsnafn. Þeir höfðu þá Oslóarsýslu Guthormr ok Klemet af Hólmi. Bœndr sömnuðust saman ok Birkibeinar, ok fóru á móti Ribbungum. Þeir mœttust fyrir vestan Akr á engjum nökkurum, ok áttu þeir þar hinn fyrsta bardaga. Ribbungar géngu svá hart fram í fyrstu, at þeir drápu Eirík ignarbakka merkismann bónda. Birkibeinar börðust alldjarfliga, ok vánu bráðara flýðu Ribbungar. Féll þá mart af Gautum. Knútr komst á hest við þriðja mann ok hleypti yfir brú nökkura, féll þá hestrinn undir honum, en hann dró sem nauðuligast undan.

*Frá Hákoni konungi.*

145 (147). Hákon konungr sigldi nú austr til Víkrinnar, hann hafði þá drekann mikla. Hann sigldi frá öllum skipum sínum, ok er hann kom til Áreyja, sté hann í bát ok fór yfir til bjárins ok spurði tíðinda. Búandi svaraði: Segi ek tíðindi þau, er yðr munu góð þykkja, en mér þykkja ill, ek átta tvá sonu með Ribb-

ungum, ok eru nú báðir dauðir. Sagði hann þá frá bardaganum á Akri ok allan atburðinn. Konungr beið þá skipa sinna ok sigldi inn til Oslóar.

*Capitulum.*

146 (147). Eptir þat stefndi hann til sín lendum mönnum ok sýslumönnum or Víkinni, ok fór á land upp ok lét draga 13 skip ok 20 or bœnum. Arnbjörn Jónsson ok Símun kýr drógu 15 skip or Elfi. Birkibeinar váru heldr úspakir, ok fékk konungr af því nökkut hallmæli. Lét konungr þá drepa gest einn, þann er úspakastr hafði verit. Um myrgininn er konungr kom til Eiðs, sendi hann fyrir nökkur léttiskip, ok drápu þeir njósnarmenn Ribbunga sjau. Ok er konungr kom til vatnsins með allan herinn, reri hann sjálfr með vestra landi. Tóku þeir konungr eitt skip Ribbunga, en menn allir kómust af. Konungr bauð þat öllum mönnum sínum, at þeir skyldu eigi drepa Knút frænda hans, þótt þeir mætti. Þegar ljóst var, sá Birkibeinar skip Ribbunga, en þeir sneru undan ok at landi ok hljópu upp í bygð þá, er Hunn heitir, en konungr tók öll skip þeira ok vistir ok mikit herfang. Eptir þat fór konungr til Hamars, ok lágu þar margir Ribbungar í sárum, þeir sem barizt höfðu á Akri. Gaf konungr þeim öllum grið. Knútr hafði flýit upp á Haðaland. Konungr sendi til hans Guðleik á Aski ok Arnþór baug, bauð konungr þá enn Knúti til sín ok þar með hina beztu kosti. Ribbungar gættu Knúts, svá at hann mátti eigi frá þeim komast. Fóru þeir aptr til konungs við svá búit.

*Capitulum.*

147. Hákon konungr skipar nú öll Upplönd ok lét öll skipin vera í Mjörs, en hann bjóst þá norðr til stefnu þeirar, er hann hafði gert við erkibyskup ok Skúla jarl. Konungr hafði spurt, at þeir váru komnir; þá sendi

hann norðr Þorstein heimnes merkismann sinn at segja, at þeir biði hans. Þorsteinn var átta nætr á leiðinni. Þat þóttust þeir jarl frétt hafa ok erkibyskup, at konungi mundi eigi allir hlutir hugna við þá, ok tóku þeir þat ráð, at erkibyskup fór heim norðr, en jarl beið konungs. Ok er konungr kom til Portyrju, þá kom þar Þorsteinn heimnes á mót honum, ok hafði verit þrjár nætr á leið norðan en tvær í bœnum, ok sagði, at erkibyskup hefði heitit at bíða konungs, áðr þeir jarl váru á stefnu, en síðan var þat alt, ok bjó þá sína ferð sem ákafast. Þorsteinn kvað ok marga menn komna vestan um haf at finna konung. En er Hákon konungr kom til Björgynjar, var þar fyrir Skúli jarl ok Jón jarl af Orkneyjum, Símun byskup af Suðreyjum ok ábóti af Eynni helgu. Skipaði konungr fyrst þeira málum, er vestan váru komnir, ok öllum við ráð Skúla jarls.

### *Frá herra Knúti.*

148. Herra Knútr flýði alt austr á Vermaland, eptir þat er hann hljóp af skipum í Mjörs. Efldist hann þá af nýju at liði, fór síðan norðr í Noreg ok kom fram í sýslu Arnbjarnar Jónssonar, þar sem Skaun heitir, ok gerði þar mörg hervirki, féllu þar margir góðir drengir af bóndum. Arnbjörn sendi þá bréf til konungs ok bað hann skunda í Víkina, sagði Ribbunga eflast mjök. Sem konungr spurði þetta, fór hann þegar austr í land, en jarl norðr til Þrándheims. En er konungr kom til Túnsbergs, setti hann eptir á berginu Erling hljóðhorn at búa til jólaveizlu, en konungr fór inn til Oslóar ok lá um nóttina við Jarlsey.

### *Fall Guthorms ok Árna.*

149 (148). Þar kom á mót konungi Þorgeirr byskupsmaðr ok Friðrekr slafsi, þeir höfðu sýslu á Haðalandi. Þá höfðu Ribbungar dregit skip austan um Eiðaskóg ok

komit þeim í Mjörs, en þar í eynni váru fyrir sýslumenn Birkibeina Guthormr frændi konungs ok Árni at gæta skipa í vatninu. Ribbungar kómu at þeim úvörum ok feldu þá Guthorm ok Árna ok nær alla sveit þeira. Síðan tóku Ribbungar skip öll á Upplöndum; en er bœndr spurðu þat, gáfu þeir upp bygðirnar ok tóku sér grið af Ribbungum. Konungr átti nú tal við bœndr ok sína menn. Bœndr báðu konunginn sitja í Osló um vetrinn at gæta bygða þeira, en vér viljum, herra, gera yðr allan almenning ok annan hálfan á bak jólum, ok ef yðr þykkir nökkut á vanta, þá viljum vér gefa yðr hálf bú vár ok hálfar allar vistir; en ef þér vilit eigi þenna, herra, þá munum vér taka oss grið af Ribbungum. Konungr sagði nú þessi boð hirðmönnum, en allir löttu hann, at hann sæti í Osló undir trúnaði bónda, sögðu, at Sverri konungi gafst þat eigi vel, þá er bœndr fóru at honum í Osló. Konungr sagði bóndum, at hann mundi sitja á berginu, en setja þar eptir lenda menn at gæta yðars varnaðar. Bœndr buðu at nefna konungi gisla or kirkjusóknum hina beztu menn, ef konungr hefði nökkurn mistrúnað á þeim. Konungr segir þá sínum mönnum, at hann mun hér enskis manns ráð við hafa nema sjálfs síns, kvezt at vísu skyldu sitja hjá bóndum, er þó buðu þeir honum svá góða kosti. Sendi konungr þá norðr til Björgynjar eptir föngum ok svá til Túnsbergs. Konungr sat í garði Hákonar, en jólin hélt hann í byskupsgarði. Þessi var hinn tíundi vetr konungdóms hans. Arnbjörn sat í Valdishólma um vetrinn.

*Konungr gaf Ribbungum grið.*

150 (149). Knútr fór austr í Gautland ok sat þar, meðan hæst var vetrar, en Ribbungar sátu um vetrinn í Mjörs. Konungr sendi um vetrinn bréf til Ribbunga leyniliga ok bauð þeim grið, ef þeir kœmi á hans fund. Þessi grið tók fyrst Erlingr rúmstafr, hann var vaskr

maðr, ok er hann kom á konungs fund, fékk hann góð grið. Konungr sendi um vetrinn nökkurar sveitir í Sóleyjar at leita Ribbunga, ok var Erlingr í þeiri ferð; þar féllu 60 manna af Ribbungum. Eptir þat hélt konungr Erling fyrir tryggvan mann þaðan af.

*Frá Guðólfi.*

151 (149). Um sumarit eptir andlát Sigurðar ribbungs fór Guðólfr frá Ribbungum ok fór heim til bús síns á Blakkastaði ok gætti sín í kirkju nær bœnum. Guðólfr hafði þar margar úspektir í bygðum gert, meðan hann var með Ribbungum. Útryggr hét maðr, er hann hafði bart mjök ok tekit af honum hest góðan; hann átti tvá sonu, hét annarr Ásólfr en annarr Guðleifr, þeir fengu sér sveit manna ok fóru at Guðólfi, þeir tóku stiga ok settu við kirkjuna ok hjoggu ráfit yfir honum, ok hljópu þar inn ok drápu hann. Var Guðólfr lítt harmaðr af mönnum fyrir sinn újafnað.

*Frá sendimönnum Skúla hertoga til Danakonungs.*

152 (150). Um haustit er konungr settist í Osló, sendi Skúli jarl menn til Valdimars konungs, Kolbein kettuhrygg ok Grunda féhirði. En er þeir fóru heim um vetrinn, þá lágu þeir í Máströndum. Knútr var þá í Ljóðhúsum. En er Ribbungar spurðu þetta, kómu þeir at þeim á úvart. Þar lágu margir kaupmenn, ok vildu engir hjálpa þeim, féllu þeir þar báðir ok nær öll sveit þeira.

*Frá Hákoni konungi um íshögg.*

153 (150). Hákon konungr lét höggva ísinn or Osló ok allt út um Sliðhólma. Síðan skipaði hann mörg léttiskip austr til Ljóðhúsa, þessir váru formenn: Loðinn Gunnason, Símun kýr, Hallvarðr bratti. Ok er þeir kómu fram, var Knútr brautu ok allr meginherrinn utan fá menn; sá hét Björn bakki, er fyrir þeim var. Þeir sátu í kastalanum norðr frá bœnum. Var hann þegar

uppgefinn, en þeir fengu grið, er í sátu. Þar tóku Birkibeinar herfang mikit, en þeir brendu kastalann; þeir tóku stórfé af bóndum, fyrir þat er þeir höfðu verit með Knúti. Eptir þat fóru þeir aptr til konungs. Svá segir Sturla:

Vitr lét virki brjóta
valdr norrœnnar aldar
austr, þar er jöfrar treystusk
ógnfúsir, Ljóðhúsa.

Þat veit ek, at galt Gautum
göfugr oddviti jöfra,
þjóð fékk ræsis reiði,
rán, gékk slíkt at vánum.

*Frá Ribbungum.*

154 (151). Ribbungar sömnuðust nú saman í Víkinni. Konungr lét draga skip nökkur or Osló í Elfi, ok váru þessir formenn: Ívarr af Skeðjuhofi ok Saxi blaðspjót, ok er þeir kómu í Elfina, gættu þeir sín á skipum. Ribbungar höfðu þá öll skip í Mjörs, váru þá sumir farnir austr á mót Knúti. Konungr fór or Osló til Eiðsvallar, ok þaðan út á Raumaríki; váru þar engir Ribbungar. Fór konungr þá aptr í Osló. Herra Knútr lét draga skip or Hellisfirði, þar sem aldri höfðu skip fyrr dregin verit, ok kómu þeim upp í Elfi ok á úvart Birkibeinum, ok eltu þá af skipum sínum, ok fóru þeir út til Oslóar á fund konungs.

*Um skipadrátt.*

155 (152, 153). Sem konungr spyrr þetta, lét hann draga hálfan fjórða tug skipa or Osló, ok fylgði sjálfr, hann gerði ok orð Arnbirni Jónssyni ok öðrum lendum mönnum, at þeir drœgi skip upp í Elfina, ok mœtti þeir konungi í Eyjavatni. Þá spurði konungr til Haralds af Lautun, at hann var í Skaun við mörgum Ribbungum. Konungr sendi at þeim nökkurar sveitir; þeir mœttust á skógi nökkurum ok börðust, Ribbungar flýðu ok létu 50 manna. Konungr lét þá draga skipin í Elfi. Ribbungar höfðu þá snúit austr or Elfinni, en Birkibeinar héldu þá eptir, ok drógu skipin austr um Fundueið ok

kómu til þess bœjar, er Fala hét. Konungr gékk þar af skipum ok flest alt liðit. Konungr bað þá á skipunum vera þeim megin vatnsins, sem hann fór. Um myrgininn í lýsing kom konungr jafnfram kirkjunni á Vingri. Þar hét Gunnarr bóndi vinr konungs, hann sagði konungi, at Ribbungar lágu þar öðrum megin gegnt, ok þeir reru hvern dag yfir vatnit at spyrja tíðinda. Konungr bað þá Birkibeina leynast í skógum upp frá bœnum. En er sólin tók at skína, sá Ribbungar, hvar liðit lá í skóginum, sneru þeir þá út skipum sínum þeim megin, sem þeir váru. Konungr skundaði þá sinni ferð. Konungr spurði þá til Ámunda á Folavelli, kómu Birkibeinar at þeim úvörum, váru þar sumir drepnir, en sumir á kaf eltir. Um myrgininn er Birkibeinar kómu fram á árbakkann, spurði Haraldr, hverr fyrir liðinu réði. Haraldr stangarfylja svaraði: Kennast munum vit frændr, en hér erum vér kuslungar. Haraldr svaraði: Sjaldan hafi þér svá mikit lið, eða hvar er Hákon konungr? Hér er hann, sögðu Birkibeinar. Haraldr svaraði: Hví vildi hann taka á sik svá mikla vásbúð at rekast alt á Markir eptir oss? Birkibeinar svöruðu: Meir heldr nauðsyn til þess en ofkæti at stökkva slíkum úaldarflokkum braut or ríkinu. Birkibeinar géngu af skipunum, þar sem konungr hafði ráð fyrir gert, ok fundu þar sveit manna af Ribbungum ok drápu þá alla. Ribbungar skunduðu þá austr aptr sinni ferð. En þar var svá mikill straumr í ánni, þar sem hvárirtveggju fóru, at þeir géngu á land ok leiddu skipin, en sumir stýrðu með forkum, ok ef nökkut reip bilaði á einhverju skipi, var þat þegar í foraði, ok þeir sem á væri. En þar sem áin var mjóst, hvíldust hvárirtveggju, ok eptir þat héldu fram hvárirtveggju sinni ferð. Ok er minka tók strauma í ánni, sté konungr á skip sín. Ribbungar váru þá komnir sínum skipum í eitt lítit vatn, er Vingrsjór heitir, þat gengr alt at Eiðaskógi. Birkibeinar reru þá yfir ána, ok er þeir kómu á miðja, þá höfðu

Ribbungar fylkt fyrir þeim á árbakkanum. Birkibeinum þótti úhœgt at veita þeim atgöngu, þvíat bakkinn var þriggja spjótskapta hár, sá er þeir stóðu á, en leiran fyrir niðri svá blaut, at annarr fótr stóð fastr til knés, þar til er annarr var niðr settr. Birkibeinar reru þó at djarfliga. En er skipin rendu at landi, flýðu Ribbungar. En er Birkibeinar váru uppkomnir, þá váru Ribbungar hvergi nær, sneri konungr þá aptr ok tók öll skip Ribbunga. Þetta var mánadag í gagndögum. Konungr bað þá sína menn snæða, þvíat þeir höfðu ekki etit síz laugardaginn. Konungr sneri þá upp á Heiðmörk ok lét draga skipin um Fundueið ok sva í Mjörs. Hákon konungr skipaði þá öll Upplönd ok setti menn til skipagæzlu, eptir þat fór hann til Oslóar, ok var þar hálfan mánuð, áðr hann bjóst austr til Elfar.

*Um bréf Knúts ok umleitan griða við konung.*

156 (154). Þá er konungr var búinn, kómu honum bréf frá Knúti ok frú Kristínar, ok var Knúti þá leitat griða til konungs, sögðu hann mundu koma á fund hans, þegar konungr kœmi austr. Konungr gerði bréf á mót ok hét Knúti frænda sínum griðum ok sœmdum, ef hann kœmi á hans vald. Ok er konungr kom í Elfina, var honum sagt, at Ribbungar váru uppi í Væni. Konungr sendi þá menn til frú Kristínar at vita, hvárt nǫkkut skyldi haldast af því, sem þau Knútr höfðu mælt. Kristín kvezt mundu koma á fund konungs, ok kvezt sjálf vildu friða fyrir Knúti syni sínum. Konungr sat hálfan mánuð í Konungahellu, ok kómu hvern dag menn til konungs frá frú Kristínar ok sögðu hana mundu koma þá ok þá.

*Um ráðagerð herra Knúts.*

157 (155). Herra Knútr hafði ráð með höndum, þat sem aldri slíkt hafði Hákon jarl faðir hans, hann lét draga skip yfir Eiðaskóg, þar sem aldri höfðu fyrr dregin verit,

ok kómu á úvart at Birkibeinum í ánni Varmá, ok mundi hann þar hafa fyrirkomit miklum styrk konungs, ef eigi væri miklu meiri miskunn guðs en trúleikr Ribbunga. Þar var fyrir Birkibeinum Ívarr af Skeðjuhofi, Jón ketlingr, Erlingr rúmstafr, þeir váru á skipum, bœndr héldu samnaði á Eiðsvelli. Þá féngu Birkibeinar njósn af Ribbungum, þeir höfðu stórskip 13, en Birkibeinar höfðu smæri skip ok fleiri. Þar varð hörð orrosta ok eigi löng, áðr Ribbungar flýðu. Knútr hljóp á kaf ok fékk nauðuliga forðat sér. Þar féll mart vildarlið Ribbunga, en Birkibeinar urðu mjök sárir, þar varð Ívarr bóndi sárr á fœti ok gékk jafnan haltr síðan. Birkibeinar tóku þar öll skip þeira. Eptir þetta dirfðust bœndr mjök við þá ok drápu jafnan mart af Ribbungum.

*Ribbungar beiddust sætta.*

158 (156). En er Ribbungar sá, at mjök þröngði kosti þeira, þá sendu þeir menn til Birkibeina ok beiddust sætta. Birkibeinar tóku því vel, ok sendust gisla á millum. Birkibeinar sendu gislana austr á mót konungi. Þeir fóru með gislunum Guthormr Erlingsson ok Klemet af Hólmi, þeir fundu konunginn í Hornborusundi ok sögðu, hvar þá var komit máli Ribbunga. Konungr tók við gislunum ok sendi þá enn menn á fund Knúts ok hét öllum Ribbungum griðum, ef þeir vildi á hans miskunn koma. Konungr fór þá inn til Oslóar. Þá kom þar til móts við konung Haraldr af Lautun sendr af Knúti ok beiddist þá öruggra gisla til fastra sátta. Konungr lét þá blása til hirðstefnu ok sagði svá: Öllum mönnum er þat kunnigt, hvert vás ok erfiði, fjártjón ok mannalát vér höfum langar stundir af Ribbungum. Nú vilja þeir gjarna sættast við oss; en nú skulum vér þat við því móti gera, at þeir skulu vera klandalausir um alla hluti, þá er þeir hafa við oss misgert, svá sem siðr er til góðra höfðingja, ella jám þeim engum griðum, ok fylgjum þeim nú, þvíat

minkar styrk þeira, ok em ek þess eigi úfúsari, en þó skulu þér nú ráða. Birkibeinar kváðust gjarna vilja fyrirgefa þeim fjárlát ok frænda, heldr en rekast eptir þeim lengr. Sendi konungr þá eptir Knúti ok Ribbungum Eystein Hróason ok Friðrek slafsa. Fór Knútr þá til Oslóar. Skipaði konungr þá öll Upplönd. Ribbungar stukku austr á Markir, þeir sem sér væntu enskis friðar í Noregi. Magnús blaðstakkr hét sá maðr, er þá var fyrir þeim. En er konungr spurði þat, sendi hann austr Harald af Lautun til móts við Magnús. Magnús hafði spurn af þessu ok fór til ok drap Harald. Konungr sendi bréf austr til Verma, bað hann þá gera annathvárt, at reka þessi illmenni braut or ríki sínu, ella kvezt hann mundu gera þeim bakeld engum mun minna en fyrr. Vermum var lítit um þat, tóku þeir Magnús ok festu hann upp ok nökkura menn með honum. Ok lýkr þar æfi Ribbunga.

*Frá Hákoni konungi.*

159 (157). Hákon konungr bjóst þá norðr í land; hann gaf Knúti frænda sínum tvau skip með öllum reiða. Síðan fór konungr norðr í land, ok er hann kom í Seleyjar, kom á mót honum Skúli jarl með mörgum skipum. hann hafði ætlat suðr til Danmerkr; jarl sneri þá til Björgynjar með konunginum. Var þá blítt með þeim mágum, drakk sinn dag hvárr með öðrum til skemtunar. Páll vágaskálm átti son, er Ívarr grettir hét, hann drap eitt kveld fornan Birkibein, er Eiríkr hét, ok þegar sem hirðin vissi þat, herklæddist hon. Þessi tíðindi kómu til þeira feðga Páls ok Nikulás, þeir fóru inn í Nikuláskirkju stöpul ok bjoggust þar fyrir. Þá gékk hirðin at stöplinum ok vildi brjóta. Þá var sagt konungi ok jarli, géngu þeir þá til kirkjunnar. Þá hafði hirðin tekit Ívar nef, hann var frændi Nikulás Pálssonar, ok ætluðu at drepa hann. Konungr tók þegar Ívar á sitt vald, bað hann hirðina ganga frá kirkjunni. Um myrgininn eptir sætti konungr þá, svá at hvárumtveggjum hugnaði. Fór Ívarr grettir or landi.

*Frá konungi ok Skúla.*

160 (158). Skúli jarl bað konung orlofs at fara til Danmerkr á fund Valdimars konungs, lézt hann mundu ríða or Þrándheimi austr til Víkr. Konungr lagði þar lof til. Herra Knútr flutti bónorð sitt við jarl ok bað Ingiríðar dóttur Skúla jarls, ok með konungs ráði festi hann hana. Réðst hann þá til ferðar með jarli norðr til Þrándheims, skildust þeir konungr ok jarl með blíðu. Þá var fœddr Ólafr son Hákonar konungs.

*Andlát Pétrs erkibyskups.*

161 (159). Pétr erkibyskup hafði andazt annat haustit áðr Dionisius messu, var kjörinn í stað hans sira Þórir hinn þrœnzki ok útfarinn. Á þessu ári andaðist Honorius pávi, en Gregorius kom í stað hans. Hákon konungr sat þenna vetr í Björgyn, ok var þessi hinn ellifti vetr konungdóms hans. Um várit í föstu fór hann austr til Víkr, kom hann eptir páskir í Osló; var þar fyrir Skúli jarl ok herra Knútr, Gregorius Jónsson ok margir aðrir vinir Skúla jarls.

*Frá Þóri erkibyskupi ok konungi.*

162 (160). Þá er konungr hafði fár nætr verit í bœnum, kom þar Þórir erkibyskup sunnan frá Róma, fór byskup þegar til konungs. Konungr drakk í þeim garði, er Digriskytningr heitir, en jarl í Skarthælnum. Sá atburðr varð eitt kveld, at einn jarlsmaðr, er Hrói hét, drap handgenginn mann konungs, er Ólafr hvíti hét. Hrói hljóp í garðinn, þann sem konungr ok jarl váru í, ok kallaði at dyrum. Konungr bað upp láta, ok er Hrói kom inn, gaf hann sik í vald hans, ok sagði, hvat hann hafði gert. Konungr svaraði svá: Meðr því móti at þú komt á várt vald, þá skaltu ná griðum af oss, en þeir munu gjalda þessa verks, er enskis eru af valdir. Í þessu var blásit í bœnum, hljóp hirðin at garði þeim, er jarl svaf í.

Ok er jarl varð varr við tíðindin, bað hann konung gefa til nökkut gott ráð. Konungr bað jarl bíða sín þar, en er konungr kom at garðshliðinu, þá var þar sú þröng, at hann komst þar ekki fram, fór hann þá upp á höfuð sínum mönnum ok fór svá út or garðinum til jarlsmanna. Þá lægðist þegar harkit, ok stefndi konungr öllum mönnum norðr til Hallvarðskirkju. Maðr hét Sigurðr, er var með jarli, hann mælti: Þá hefðim vér nökkut fyrir hark þetta, er oss er gert, ef vér dræpim konunginn, mundi oss eigi mikit fyrir verða. Jarlsmenn mæltu: Aumr ertu máls, er þu vildir, at vér níddimst á konunginum, ok er hann kominn til hjálpar við oss. Ok er menn váru allir saman komnir, þá kom konungr á griðum. Gékk konungr þá aptr í garðinn, ok var jarl þar fyrir; sátu þeir þá um hríð ok skemtu sér. Ok er konungr gékk, tók hann í hönd Hróa ok leiddi hann upp til Hallvardskirkju ok bað hann sjálfan gæta sín þaðan af fyrir hirðinni.

*Frá Skúla jarli ok Danakonungi.*

163 (161). Hákon konungr léði jarli þá skip, er hann vildi fara suðr til Danmerkr, ok gaf honum leiðangr or 12 skipreiðum. Síðan fór jarl til Danmerkr ok fann Danakonung í Kaupmannahöfn. Tók konungr vel við jarli, töluðu þeir marga hluti leyniliga. Dvaldist hann um hríð með Danakonungi, gaf konungr jarli stórar gjafir at skilnaði, hann fékk jarli at láni hálft Halland. Fór jarl norðr í Noreg, ok er jarl kom til Túnsbergs, var konungrinn norðr farinn. Herra Knútr ok Gregorius vildu fara norðr til konungs, ok er þeir féngu orlof, stigu þeir báðir á eitt skip, ok er þeir kómu norðr fyrir Hvarfnessodda, sigldu þeir í boða; þar týndist Gregorius, ok nökkurir menn aðrir. Hann þótti göfgastr lendra manna í Noregi ok kominn af hinum beztum ættum, þeim er váru í landinu. Varð þá mjök endir á þeira ættmönnum, váru þat kallat Blindheimsmenn. Herra Knútr komst

nauðuliga til skips ok týndi þar mörgum góðum gripum, fluttist síðan norðr til Björgynjar, ok tók konungr allvel við Knúti frænda sínum.

*Frá sendimönnum Jóns jarls.*

164 (162). Þetta sumar kómu sendimenn vestan um haf frá Jóni jarli með góðum fórnum, er jarl sendi Hákoni konungi. Konungr sendi jarli um haustit langskip gott ok marga aðra góða gripi. Konungr sat þenna vetr í Björgyn, ok var sjá hinn tólfti vetr hans konungdóms. Þetta sumar spurðist úfriðr mikill vestan um haf or Suðreyjum.

*Frá Skotum.*

165 (163). Aleinn hét jarl einn í Skotlandi son Rollants jarls af Galvei; hann var hinn mesti hermaðr, hann herjaði um Suðreyjar. Þá var Ólafr konungr í Mön Guðröðarson, ok hélt hann drengiliga undir Noregs konung. En Suðreyinga konungar, þeir sem af Sumarliða ætt váru komnir, váru mjök útryggvir Hákoni konungi. Þeir váru konungar í Suðreyjum Dugall skrækr ok Dungaðr bróðir hans, faðir Jóns, er síðan varð konungr; þessir váru synir Dungals Sumarliðasonar. Úspakr hét maðr, er lengi hafði verit með Birkibeinum; þat kom upp, at hann var son Dungals. Sumarliði hét frændi þeira, er þá var enn konungr í Suðreyjum.

*Andres fór til Jórsala.*

166 (164). Hákon konungr fór um haustit austr til Víkr. Þenna vetr bjóst Andres skjaldarband út til Jórsala. Reið Andres um vetrinn suðr á Halland ok þá í Sjóland, ok þaðan út pálmaraveg, ok þar sté hann á einn drómund, ok hefir aldri síðan til hans spurzt, ok ritaði Hákon konungr til Friðreks keisara ok annarra vina sinna út í lönd, at þeir skyldu fréttum til halda, hvat af Andresi

hefði orðit. Ingibjörg kona hans var eptir ok Pétr, er kallaðr var son þeira Andres. Nökkuru síðar sagði Ingibjörg, at Skúli jarl væri faðir Pétrs. Tók jarl við frændsemi hans ok tók Pétr til sín ok lagði á hann mikla ást.

*Úspaki gefit konungs nafn.*

167 (165). Hákon konungr sat í Osló um vetrinn, ok var þessi hinn þrettándi konungdóms hans. Um vetrinn er á leið, hafði konungr þing í bœnum, þá gaf hann Úspaki konungsnafn, ok gaf honum nafn Hákonar. Sagðist konungr mundu fá honum lið um sumarit vestr um haf. Þann dag er þingit var, kom til bœjarins austan or Svíaveldi Magnús brokki, son Knúts jarls Birgissonar brosu, frændi konungs. Hann átti Sigríði dóttur Knúts Svíakonungs, ok hét Knútr son þeira. Tók konungr vel við Magnúsi. Um várit í Þrándheimi páskadaginn andaðist Þórir erkibyskup, en í staðinn var kosinn Sigurðr son Eindriða peina ok fór þat sumar or landi.

*Konungr bjó lið vestr um haf.*

168 (166). Um várit fór konungr til Björgynjar, bjó hann þá liðit vestr um haf með Úspaki. Fékk jarl sumt til, váru þessir formenn af hans hendi, Sigurðr sæpill, Sigurðr smiðr, Páll Bálkason, en af konungs hendi var Úspakr konungr, Serkr Sygnakjúka, Ölvir ilteitt, Sveinungr svarti, Páll gás, 12 skip höfðu þeir af Noregi. Sem þeir váru búnir, kómu vestan um haf Ólafr svarti Manar konungr, hann hafði stokkit or Suðreyjum fyrir úfriði - Aleinn hafði samandragit her mikinn - hann hermdi mörg stóryrði eptir þeim vestan til Noregsmanna. Ólafr dvaldist fjórar nætr í bœnum, áðr hann fór vestr. Ólafr fór á skip með Páli Bálkasyni til Orkneyja, en þá fékk Jón jarl honum skip, er Uxinn hét. Þeir höfðu af Orkneyjum 20 skip. Ok er er þeir spurðu þat Bálki ungi son Páls ok Óttarr snækollr, þá fóru þeir fyrir suðr

í Skíð ok fundu þar Þorkel Þormóðarson, ok börðust þar; féll þar Þorkell ok synir hans tveir, en Þormóðr son hans komst undan með því móti, at hann hljóp í ker eitt, er flaut við skip eitt, ok rak þat með hann at Skotlandi fyrir norðan Hattarskot. Eptir þat fóru þeir Óttarr ok Bálki til móts við Úspak konung.

*Dráp Sumarliða.*

169 (167). Þeir kómu nú saman öllum herinum suðr í Ílarsund. Þá váru þar brœðr Úspaks ok Sumarliði frændi þeira, höfðu þeir mikit lið ok frítt; þeir buðu Norðmönnum til veizlu, þvíat þeir höfðu vín sterkt; Norðmenn trúðu þeim eigi. Dungaðr svaf á skipi Úspaks bróður síns. Um myrgininn veittu Norðmenn þeim atgöngu ok drápu Sumarliða ok mart manna með honum. Þeir tóku Dugal höndum ok settu í fjötur. Fátt féll af Norðmönuum. Ekki var Úspakr við þetta, ok er hann varð varr við, skaut hann á braut Dungaði bróður sínum, en Dugal tók hann í sína gæzlu. Þeir sömnuðu nú liði ok skipum um eyjarnar ok fengu 80 skipa ok sigldu suðr fyrir Satíriesmúla, ok svá inn til Bótar. Þar sátu Skotar í kastalanum, ok var stívarðr einn fyrir þeim Skotum. Þeir sóttu at kastalanum, en Skotar vörðu ok heltu út vellanda biki. Norðmenn hjuggu múrinn við öxum, þvíat blautr var. Kertisveinn, er Skagi hét, skaut stívarðinn til bana. Mart féll af Norðmönnum, áðr þeir unnu kastalann. Þar tóku þeir mikit fé ok riddara einn skozkan, er sik leysti út við 300 marka brendra. Þeir spurðu þá, at Aleinn var suðr á nesjum ok hafði nær 200 skipa, þeir sigldu þá norðr undir Satíri. Þar fékk Úspakr konungr sótt ok andaðist, var hann allmjök harmdauði. Var þá Ólafr höfðingi yfir öllum herinum. Sigldu þeir þá til Kaupmannaeyjar, en þá suðr til Manar. Þeir tóku Norðmenn þann mann, er hét Þorkell njáll, ok höfðu hann um hríð í fjötrum. Sigurðr smiðr ok Sig-

urðr sæpill hleyptu Þorkeli í braut, ok líkaði liðsmönnum þat allilla. Um várit fóru Norðmenn á braut, en Ólafr konungr var eptir. Þeir géngu á land á Satíri ok herjuðu þar. Þar kómu Skotar á mót þeim, ok varð þar bardagi, féll þar mart af hvárumtveggjum. En er Norðmenn kómu til skipa, höfðu Skotar drepit matsveina Norðmanna. Norðmenn fóru þá til Ljóðhúsa, var þar fyrir Þormóðr Þorkelsson, stökk hann undan, þeir hertóku þar konu hans ok mikit fé, er hann átti. Sigldu síðan til Orkneyja. Páll Bálkason var eptir í Suðreyjum, ok féll hann fám vikum síðar fyrir Guðröði svarta syni Rögnvalds konungs. Flestir Norðmenn sigldu þegar austr til Noregs, ok höfðu í þessi ferð verit unnar konungsins sœmdir fyrir vestan haf, ok er þeir kómu á fund Hákonar konungs, þakkaði hann þeim vel sína ferð.

*Heimkoma Sigurðar erkibyskups.*

170 (168). Þenna vetr sat Hákon konungr í Björgyn, ok var þessi hinn fjórtándi konungdóms hans. Þetta haust kom Sigurðr erkibyskup í land. Ölvir ilteitt var eptir í Orkneyjum, ok fór hann til Hánefs unga, er þá hafði sýslu í eyjunum. Hánefr var skutilsveinn Hákonar konungs. Þeir váru þrír brœðr Hánefr ungi, Kolbeinn ok Andres.'

*Frá Snækoll.*

171 (169). Maðr hét Snækollr þar í eyjunum ok var Gunna son. Móðir hans var Ragnhildr, dóttir Eiríks stagbrells ok Ingigerðar dóttur Rögnvalds jarls hins helga. Snækollr kallaði þar á bú nökkur í eyjunum, er þeir frændr höfðu átt, en Jón jarl hélt ok vildi eigi laus láta, ok af þessu gerðist fjándskapr millum þeira. Spurði Jón jarl, hvárt hann mundi eigi gera at dœmum Haralds jarls móðurbróður síns ok kalla til Orkneyja í hendr honum. Snækollr svaraði: Ván er mér þess, at

lítils unnir þú mér af Orkneyjum, er þú vill eigi, at ek hafa þat, er ek á með réttum erfðum. Snækollr fór til Hánefs, höfðu þeir þar sveit mikla allir samt.

*Um róg við Jón jarl.*

172 (170) Þeir fóru um haustit hvárirtveggju yfir á Katanes í Þórsá, ok höfðu sín herbergi hvárir. Þat var eitt kveld, er þeir Hánefr sátu ok drukku, at þar kom inn einn maðr fyrir Hánef ok mælti: Hugsa svá ráð þitt, Hánefr, ok þér félagar, at jarl ætlar at veita yðr atgöngu í nótt ok drepa yðr, þvíat hann trúir yðr ekki, ef þér eruzt svá nær, sem nú hefir verit um hríð.

*Dráp Jóns jarls.*

173 (171). Hánefr tekr nú þetta fyrir sannyrði, vilja nú verða fyrri at bragði, hlaupa nú til vápna, ok géngu at þeim herbergjum, er jarl lá í, með eldi ok úfriði. Jarl hljóp í einn undirklefa, ok ætlaði at koma sér svá undan. Þeir féngu njósn af, hvar hann var; hljópu þeir í klefann, Snækollr, Sumarliði Hrólfsson, Ölvir ilteitt, Þorkell ok Hrafn. Snækollr fann jarl við tunnu eina, ok drápu þeir hann þar. Þar féllu nökkurir jarlsmenn. Níu sár hafði jarl. Eptir þat fóru þeir Hánefr út í Orkneyjar, þeir fóru í Vigr ok settust í kastala, er Kolbeinn hrúga hafði gera látit; þeir drógu at sér nóg föng. En er þetta spurðist í Orkneyjar, sömnuðust saman frændr jarls ok vinir, ok fóru út í Vigr ok settust um kastalann. Nú sömnuðust saman frændr ok vinir þeira Hánefs ok fóru til ok leituðu um sættir, ok kómu á griðum. Skyldu þeir vera um vetrinn hvárirtveggju í Orkneyjum, en eptir um sumarit skyldu hvárirtveggju fara til Noregs á fund Hákonar konungs, ok skyldi hann skipa þessum málum. Stóð þá þetta mál kyrt um vetrinn. Um várit fóru þeir Hánefr til Noregs, en frændr jarls fóru á öðru skipi, ok nær allir hinir beztu menn af Orkneyjum.

*Um refsing.*

174 (172). Þessi var hinn fimtándi vetr konungdóms Hákonar. Hann hafði farit um várit austr í Vík, ok var hann eigi austan kominn, er þeir Hánefr kómu til Björgynjar. Skúli jarl var þar firir, átti hann fátt við þá Hánef. Nökkuru síðar kom konungrinn austan. Ok er hann hafði litla hríð dvalzt í bœnum, lét konungr blása til hirðstefnu öllum handgengnum mönnum. Ok er Hánefr kom á stefnuna við sína menn, tóku skutilsveinar þá brœðr Hánef ok Kolbein ok þá Sumarliða ok Andres ok leiddu upp til borgar, ok váru þar innsettir, en Ölvir ilteitt ok aðrir, þeir sem at víginu höfðu verit, váru fluttir út í Töluhólm. Björn hét gestr einn, er verit hafði at víginu, hann var þá kominn gegnt Maríukirkju, er þar hóf upp messu. Hann mælti: Skyldra ætla ek mér at ganga til messunnar en til hirðstefnunnar. Snýr hann þá inn í kirkjuna. Ok er þeir Ölvir fóru út um strætit, mælti Skúli jarl, hann stóð í lopti einu: Drepit þér eigi Þorkel, nema hann sé ofmjök sakaðr. Þá svaraði Sigvaldi frændi Jóns jarls: Hann er því meir sakaðr en aðrir, at hann vann á jarli dauðum. Þar váru hálshöggnir 5 menn, þeir er at vígi Jóns jarls váru.

*Frá Orkneyingum.*

175 (173). Þetta sama haust géngu Orkneyingar nær allir á eitt skip, hinir beztu menn af eyjunum. Þetta skip týndist, ok allir þeir menn, sem á váru. Skúli jarl fór um haustit norðr til Þrándheims. Hánefr var um vetrinn með Páli vágaskálm. Um várit fékk hann sótt ok andaðist. Kolbeinn bróðir hans andaðist í Þrándheimi litlu síðar. Snækollr var lengi með Skúla jarli ok Hákoni konungi.

*Fœddr Hákon Hákonarson.*

176 (174). Þetta sama haust var fœddr Hákon son Hákonar konungs Marteinsmessu nótt, ok sat konungr þann vetr í Björgyn, ok var þessi hinn sextándi konungdóms

hans. Þenna vetr kómu upp margar greinir millum konungs ok Skúla jarls, ok var þat ætlun manna, at þat væri af illum meðalgöngum vándra manna. Jarl hafði þenna vetr skipagerðir miklar. Þá var önduð frú Ingiríðr, er átt hafði Knútr, ok var þá öll þeira vinátta. Knútr hafði þá hálft Rygjafylki ok Sogn, ok þótti þat lén minna, en hugir hans stóðu til. Kærði hann þá fyrir konungi, ok svá lendir menn, at landaskipti þat væri eigi jafnligt, sem verit hafði í Björgyn, ok þat væri nærri helmingi en þriðjungi Noregs, er jarl hafði. Þenna vetr stefndi Sigurðr erkibyskup fund öllum byskupum eptir um sumarit í Björgyn.

*Frá Hákoni konungi.*

177 (175). Hákon konungr fór um várit austr til Víkr; hann sendi orð Skúla jarli, at hann kœmi um sumarit suðr til Björgynjar. En er konungr kom í Víkina, stefndi hann til sín öllum lendum mönnum ok sýslumönnum þeim sem í Víkinni váru, skyldu þeir fara með honum suðr til Björgynjar. Þessir váru þá lendir menn við honum, Arnbjörn Jónsson, Símun kýr, Loðinn Gunnason. En er þeir kómu í Gulaþingslög, þá stefndi hann ok til sín öllum lendum mönnum með stórum sveitum, ok er hann kom til Björgynjar, var þar fyrir fjölmenni mikit, svá at skip váru með endilöngum bryggjum.

*Skúli jarl lét gera Langafrjádag.*

178 (176). Þenna vetr lét Skúli jarl gera skip mikit út á Eyrum, þat hét Langafrjádagr. Jarl varð síðbúinn um sumarit, hann hafði á þriðja tigi skipa. Þessir váru lendir menn við honum, Álfr mágr hans, Ásólfr frændi hans, Páll vágaskálm, Nikulás son hans, Bárðr bratti, ok margir aðrir. Ok er hann kom til Björgynjar, veittu lendir menn Páli vágaskálm stórar átölur, þvíat jarl sendi hann suðr fyrir, kölluðu Birkibeinar þat undarligt, er hann vildi eigi með konunginum vera, ok fyrir-

láta hann en þjóna Skúla jarli. Páll svaraði: Eigi hefi ek verit á mót konunginum, en svá ætla ek flestum gefit lendum mönnum norðan or landi, at þeir munu eigi skiljast við Skúla jarl fyrir sakir ákefðar yðarrar. Páll fann þá konunginn, ok fóru allar rœður vel með þeim. Fór þá Páll á mót jarli ok sagði honum átekjur manna or bœnum, ok skip lægi svá þykt fyrir bryggjum, at engi ván væri, at þeir mætti þar at leggja skipum sínum.

*Frá Skúla jarli ok skipum hans.*

179 (176). Skúli jarl skipaði svá til at leggja at bœnum, at fyrst fór hans skip, en þá tvau, þá þrjú, þá fjögur, ok fór svá í vöxt æ, meðan til vannst. Var þessi skipan allglæsilig á at sjá. Þeir lögðu at við Norðnes út frá Munklífi við Hákarlaströnd. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Orð sendi þá jöfri Þrœnda
afrendr konungr víða lendum;
fólkprúðr keyrði flota breiðan,
flugu borð um haf, stillir norðan.

Fyrðar mæltu á hendr sem harðast,
hófsk önn af því lendum mönnum,
errinn bjó með herskip harri
Hákarlaströnd, frömum jarli.

*Fundr konungs ok jarls í skrúðhúsi.*

180 (177). Þá er jarl hafði verit litla stund í bœnum, fundust þeir konungr ok jarl í skrúðhúsinu í Kristskirkju, gaf konungr honum nökkurar sakar ok veitti honum harðar átölur. Eptir þat var þing sett í Kristskirkjugarði, var stóll settr undir konunginn, ok sátu þar umhverfum lendir menn hans. Gunnarr konungsfrændi sat á bak stólinum, þar váru ok þá allir byskupar. Þá kom jarl á þingit við sínum mönnum. Þeir sá, at jarlinum var ekki rúm ætlat hjá konunginum, settu þeir þá undir hann annan stól. Þá stóð upp Dagfinnr bóndi ok fagnaði konunginum eptir siðvana, talaði hann langt erendi ok snjalt. Þá stóð upp Hákon konungr ok mælti nökkurum orðum ok bar á jarl sakir þær, sem hann hafði áðr tjáð fyrir honum. Ok er því lukti, stóðu upp lendir menn ok báru sakar

á jarl, hverr eptir annan. Ok er því létti, stóð jarl upp ok mælti svá:

Eina kann ek vísu:
ari sat á steini.
Öll er sem ein sé:
ari sat á steini.

Hér er ok svá í dag, sagði hann, hér hefr hverr erendi, ok lúka allir á einn veg, at gefa mér sakar. Eptir þat talaði hann langt erendi ok snjalt ok bar af sér allar sakir, þær sem honum váru kendar; veik hann svá til í ræðunni, at hann væri skyldr at þjóna til konungsins ok vægjast við hann, en þat kvað hann vísa ván, at hann kunni lendum mönnum úþökk fyrir sitt róg ok vánda meðalgöngu. Þá mælti Gunnarr konungsfrændi: Oss þykkir þú því at eins veita konunginum skylda hlýðni, ef þú leggr af þér yfirklæðin ok fellr til fóta honum ok gefr öll þín mál í konungsins miskunn. Þá svaraði Skúli jarl: Þá kunna ek höfðingjum at þjóna, er þú vant annat, Gunnarr!

*Frá Hákoni konungi ok hans mönnum.*

181 (177). Þá stóð upp konungr ok bað þá alla ganga inn í kirkjuna, er sér vildu þjóna. Gékk þá allr múgrinn við konunginum. En jarl var eptir við sínu liði, fór hann þá til skipa sinna. Byskupar allir fóru þá í millum þeira ok féngu sætta þá, eptir því sem konunginum hugnaði. Seldi jarl þar festu til. Svá sagði Ólafr:

Þing stofnuðu jöfrar ungir,
jarl veitti svör ræsi snarla;
hersar báru á-hilmi dýran,
hjaldrs fýstu þeir, sakar kaldar.

Alt lagði þá. frömuðr frægða
fékk sætt af því, stilli rekka
snildar skýrr ok seldi várar
sitt mál í kné lituðr stála.

Erkibyskup kom svá við sinni meðalgöngu, at þá var hvárr í boði annars. En þat hafa menn mælt, at síðan yrði aldri fullr trúnaðr millum þeira mága.

*Ákall konungs á eyna Helgu.*

182 (178). Skúli jarl fór um haustit norðr til Þrándheims, en konungr sat um vetrinn í Björgyn fram um jól, ok var þessi hinn sjautjándi konungdóms hans. Þenna vetr var fœdd frú Kristín. Á mót föstu fór konungr norðr í Sogn, ok þaðan á land upp. Þá hófst sundrþykki með þeim Páli byskupi í Hamri. Konungr kallaði til eyjar þeirar er liggr í Mjörs, er heitir eyin Helga. Þessa ey hafði Ingi, er Baglar kölluðu konung, gefit til staðarins, en Birkibeinar kölluðu heita Þorgils þúfuskít. Konungi þótti hann eigi mátt hafa gefa föðurleifð sína, en byskup vildi eigi upp gefa eyna. Konungr fór til Túnsbergs ok var þar um várit. Páll byskup ritaði um ákall þetta til erkibyskups ok jarls, en litlu síðar fór byskup or landi ok út í Róma.

*Andlát Ingu konungsmóður.*

183 (179). Þetta vár lét Hákon konungr reisaskip mikit í Túnsbergi, er síðan var kallat Súðin. Fór konungr um sumarit norðr til Björgynjar. Þá kom ok jarl norðan, fór þá álitliga með þeim. Þenna vetr andaðist Inga konungsmóðir á mót jólaföstu. Sat konungr um vetrinn austr í Osló, ok var þessi hinn áttjándi konungdóms hans.

*Sturla kom af Íslandi.*

184 (180). Hákarlahaustit kom utan af Íslandi Sturla Sighvatsson, hann fór or landi; kom hann aptr þetta sama haust ok fann Hákon konung í Túnsbergi. Konungr lét illa yfir því, er úfriðr var svá mikill á Íslandi, lét þá mundu verða betr, ef einn réði mestu. Sturla kvað lítit mundu fyrir því at fá einvald á Íslandi, ef sá væri harðfengr ok ráðugr. Konungr spurði, ef hann vildi til ráða. Sturla kvezt mundu til hætta við umsjá konungs, ok eiga þá slíkra sœmda ván af konungi, ef hann kœmi þessu fram, sem hans væri miskunn til. Konungr bað hann

eigi vinna landit með manndrápum, en bað hann taka menn ok senda utan eða fá ríki þeira með öðru móti. Sturla var jafnan um vetrinn fyrir konunginum. Eptir um sumarit fór hann til Íslands ok var um vetrinn á Grund með feðr sínum. Um várit fóru þeir feðgar at Snorra í Reykjaholt með fjölmenni ok vildu, at hann bœtti fyrir Órœkju, er hann hafði hérjat á ríki Sturlu. En Snorri vildi engu bœta, ok stökk hann þá á braut, en Sturla settist þá í Reykjaholt, ok fór eptir þat í Vestfjörðu. Órœkja fór utan þat sumar. Sturla fór þá at Þorleifi í Görðum, ok börðust þeir í Bœ í Borgarfirði. Fór Þorleifr utan sumri síðar en Órœkja; þá fór ok utan Snorri Sturluson, Þórðr kakali, Ólafr hvítaskáld. Sturla sneri þá úfriði á hendr Gizuri ok Kolbeini unga Arnórssyni frændum sínum.

*Um greinir með konungi ok jarli.*

185 (181). Þenna vetr kómu enn upp margar greinir millum konungs ok jarls. Sendi konungr þá enn orð jarli, at hann kœmi um sumarit suðr til Björgynjar. Ok er jarli kómu þessi orð, bar hann þetta fyrir vini sína, tjáði hann þat, at honum þótti fast at sér lagt Hákarlahaustit af konunginum ok lendum mönnum, eru nú ok þeir hlutir í orðnir, sagði jarl, at ek em úfúsari at vera á þeira valdi en fyrr, þvíat nú hafa svarit síðan hirðmanns eið Gregorius Jónsson ok enn fleiri menn konunginum einum, en áðr hafa allir svarit báðum okkr, ok trúi ek þeim mönnum verr en þeim, er beggja okkrir eiðsvarar eru. Fleiri menn jarls eggjuðu hann at fara. Varð jarl síðbúinn, hann hafði vel 20 skip, hann sigldi suðr á Mœri ok lá lengi í Steinavági.

*Liðdráttr Hákonar konungs.*

186 (181). Hákon konungr fór or Víkinni við miklu liði. Þá var framsett Ólafssúðin, þat skip var 6 rúm ok

20. Sem konungr kom norðr í Gulaþingslög, stefndi hann þaðan miklu liði suðr til Björgynjar til móts við sik. Hann sendi orð norðr um haustit til Þrándheims, at hann ætlaði þangat, þegar hann yrði búinn. Konungr fór um haustit or Björgyn ok hafði nær 40 skipa. Þessir váru þá lendir menn við honum, Arnbjörn Jónsson, Loðinn Gunnason, Símun kýr, Eiríkr stilkr, Ívarr nef, Gautr á Meli, Nikulás Pálsson, Pétr í Gizka. Skúli jarl lá í Steinavági, sem fyrr var ritat. Þar kom til móts við jarl Páll vágaskálm, spurði jarl þá, at konungr hafði dregit saman lið mikit ok ætlaði norðr til Þrándheims. Margir menn fýstu jarl at fara suðr á mót konungi, sögðu þá enn mundu nökkurninn vel fara, ef þeir fyndist; þeir váru sumir trúnaðarmenn jarls, er þat kölluðu ráðligra at snúa norðr aptr ok bíða þar konungs. Ok þat var ráðit, at jarl sneri norðr öllu liðinu, ok er hann kom til Niðaróss, sendi hann suðr á mót konungi Pál, mætti hann flota konungsins suðr við Sólskel ok náði konunginum eigi fyrr en um myrgininn, sigldu þeir þá allir saman norðr til Þrándheims. Tók konungr Páli vágaskálm hit bezta.

*Frá konungi ok Skúla jarli.*

187 (182). Þá nótt er konungr lá í Leiröngrum, var Skúli jarl at Meðalhúsum ok ætlaði út til Orkadals, ok síðan suðr um fjall. En þá er jarl kom á Uppdalsskóg, skildust við hann margir vinir hans. Þar váru þessir sveitarhöfðingjar, Andóttr skakalokr ok Eljubjarni, Hreiðarr dyn ok margir aðrir góðir menn. Þá var þetta kveðit:

Hóli gœddusk hirðmenn Skúla,
hrukku lítt, meðan full var skrukka;
drukku þeir af Danmörk rekkar,
drógusk lítt um fjöll ok skóga.

Síðan varð, er slósk í ferðir,
sangran ill ok þunt um stangir,
eiðar rufusk við Inga bróður,
engi vildi fylgja lengra.

Svá segir Hvítaskáld:

Snæfrir drógu enn meðal jöfra,
aldir kváðu varla haldask
öðlings heit við allvald nýtan,
árskaptan grun vinir hvárskis.

Minnigr bjó siklingr sunnan
sunda vigg, en jarl stökk undan,
ýtar brugðusk jöfri mætum,
austr um fjall, með drengi snjalla.

*Skúli jarl skildi við konung.*

188 (183). En er konungr kom til Niðaróss, sendi hann eptir jarli Pál vágaskálm ok Ívar nef. Þeir fundu hann í Uppdal, ok sögðu at konungr vildi, at jarl sneri aptr, ok sæti þeir báðir samt um vetrinn í Þrándheimi. Jarl átti nú tal við sína menn, ok fýstu flestir, at hann fœri aptr, en þeir váru sumir, er þat kölluðu úmerkiligt at skipta svá skjótt um ætlan sína. Jarl svaraði: Sé ek, at þat væri ráðligra at snúa aptr, en þeir munu ráða, er þat vilja, at ek fara suðr. Sneri hann þá upp til fjalls ok svá suðr um fjallit. Er sýslumenn konungs, þeir sem á Upplöndum váru, spurðu, at jarl var norðan kominn, þá tóku þeir skip öll í Mjörs, ok géngu þar á margir sveitarhöfðingjar. Þessir váru formenn, Gregorius Andresson, Hávarðr af Sundbúi, Aslákr smjörstakkr, Jón ketlingr ok margir aðrir.

*Frá ferðum Skúla.*

189 (184). Sem Páll ok Ívarr nef kómu aptr til konungs ok sögðu um ferð jarls, þótti þá mörgum mönnum í úvænt efni komit ok verra en vera skyldi. Erkibyskup bað konung gefa til nökkut gott ráð, at friðr stœði um vetrinn. Konungr sendi þá suðr Björn ábóta með ráði vina sinna til móts við jarl, ok bað konungr svá segja jarli, at hann skyldi um vetrinn hafa þriðjung af öllum sýslum á Upplöndum ok í Víkinni. Þeir ábóti kómu á Heiðmörk ok sendu menn til sýslumanna ok sögðu þeim boð konungs. En er þeir ábóti kómu í Hamar, þá hafði jarl sent Nikulás af Mörs skutilsvein sinn upp á Heiðmörk at taka þar allar konungs skyldir. Sýslumenn höfðu fengit njósn af þessu ok ætluðu at Nikulási, ok ef

þeir ábóti hefði komit tveim nóttum síðar, þá mundi hafa verit brugðit friðinum. Ok er áboti fann jarl, sagði hann honum boð konungs. Jarl tók þá vitrligt ráð, at hann jáði þá þessum kostum. Sneri ábóti þá norðr aptr. Skúli jarl skipaði nú allar sýslur á Upplöndum at þriðjungi, ok svá í Víkinni, hann setti í Borgarsýslu Árna rufu ok Finn knött, en jarl fór þá út til Túnsbergs.

*Tilskipan konungs um landvörn.*

190 (185). Þegar sem konungr kom norðr til Þrándheims, lét hann heim fara alla lenda menn, þá sem or Víkinni váru, ok bauð þeim svá, at þeir verði ríki hans, ef jarl gerði nökkurn úfrið; skyldi Arnbjörn vera fyrir þeim, ok bað þá fylgja honum sem bezt. Skildust lendir menn í Grindhólmasundi, ok fór þá hverr heim, þvíat þeir spurðu alt kyrrligt til Skúla, en Eiríkr fór með bréfum til jarls. Ok er Arnbjörn kom heim í Valdishólma, þá sendi hann orð sýslumönnum jarls, at þeir skyldu á braut fara, ok kvezt fyrir engum manni mundu upp gefa Borgarsýslu, fyrr en hann heyrði orð Hákonar konungs. Jarlsmenn fóru á hans fund ok sögðu honum orð Arnbjarnar. Konungsmenn tóku, þeir sem váru í Túnsbergi, mikit fé or Lafranzkirkju ok færðu honum norðr til Þrándheims. Þeir kómu jólaaptan norðr til Þrándheims ok sögðu konungi, at þeir væri margir með jarli, at þat töldu fyrir honum, at hann væri rekinn af eignum sínum ok réttum bróðurarfi, ok eigi kváðust þeir vita, hvárt friðrinn mundi haldast um vetrinn. Jarl fór eptir jól austr til Elfar ok var mjök lengi í Konungahellu. Þar gorðust honum margir menn handgengnir. Þar kom til hans Álfr af Leifastöðum með sveit manna, Þorgils slyðra, Veseti ungi ok Algauti bróðir hans. Þessa menn kölluðu Birkibeinar Varbelgi. Álfr hafði verit húskarl Arnbjarnar. Þessir menn fýstu mjök jarl úfriðar ok kölluðu konung sitja í hans ættjörðu.

*Sættarboð.*

191. Hákon konungr sat í Þrándheimi um jólin. Var þessi hinn nítjándi vetr hans konungdóms. Erkibyskup bað konung enn gera orðsending til jarls, þvíat honum þótti, sem þá væri enn búit til úfriðar í Víkinni. Eptir þat váru þeir sendir á fund jarls Björn ábóti ok Vilmundr piltr með sættarboðum Ábóti fann jarl austr í Konungahellu um várit í föstu, ok báru fram sín erendi, fluttu þá ok þetta beggja þeira vinir. Svefaðist þá hugr jarls, en áðr var búit til hins mesta váða.

*Frá Skúla jarli ok Arnbirni Jónssyni.*

192 (186). Skúli jarl fór um föstuna til Eiðsbergs. Hann stefndi þar þing, ok þangat stefndi hann til móts við sik Arnbirni Jónssyni. Arnbjörn sótti þingit, ok með honum Eiríkr stilkr (ok) Munan byskupsson, þeir höfðu vel 300 manna. Kómu þeir fyrri til Eiðsbergs en jarl, ok settust utan undir kirkjugarðinn. Sagði Arnbjörn, at þeir skyldu fyrri berjast við jarl en játa neinu því. er þeim væri úsœmd í. Skúli jarl kom á þingit við hálft fjórða hundrað manna; jarl hafði hvítan þófahatt á höfði. Arnbjörn hafði svá mælt við sína menn, at hann skyldi einn svara öllum áköllum jarls. Ok er þingit hafði skamma stund staðit, mælti Skúli jarl: Hví raktu sýslumenn mína or Borgarsýslu? Arnbjörn svaraði: Því at ek em öruggr at láta fyrir engum laust þat lén, sem konungr hefir fengit mér, fyrr en ek vissa með sannleik, at hann vildi af mér taka. Jarl svaraði: Tók þú eigi af mér í fyrstu Borgarsýslu, ok héztu oss þá góðu á móti, hvernin sem þú hefir ent? Satt var þat, sagði Arnbjörn. Jarl svaraði: Eigi var Hákon þá síðr konungr en nú; en þótt þú sér fyrir öðrum lendum mönnum í Noregi, þá þykki mér þat öllum yðr ofrausn at halda því fyrir mér, sem konungr jár mér. at ek skal hafa. Arnbjörn svaraði: Satt er þat, at ek ætla, at engi lendr maðr skal þat af mér taka, er Hákon kon-

ungr fær mér, ok fyrir engum manni ætla ek háls at beygja í Noregi nema Hákoni konungi, ok eigi þeim hinum hvíta hettinum, er nú er hér á þinginu. Þá mælti Björn ábóti, ok sagðist hann hafa þat bréf, er konungr mælti svá fyrir, at þeir skyldu tveir einir heyra, er upp væri lesit, ok bað þá inn ganga í kirkjuna. Ok er þeir kómu inn, inti ábóti upp orðsendingar, þær sem konungr hafði við honum gert til Arnbjarnar ok annarra manna, sagði konunginn einnin hafa upp gefit þriðjung í Borgarsýslu sem öðrum. Fór þá álitliga alt með þeim þaðan ífrá. Tók þá jarl þriðjung Borgarsýslu ok fór síðan norðr í Víkina, en ábóti fór norðr til konungs með sættarboðum, skyldu þeir finnast um sumarit í Björgyn, ok skyldi þá hvárt selja öðrum gisla til þess fundar.

*Gislar konungs kómu til jarls.*

193 (187). Skúli jarl var í Víkinni um sumarit, dró hann þá lið at sér, tók hann skip bónda úlofuð ok lét búa norðr. Hann hafði Borgarþing Margrétarmessu, hann lét taka skip Arnbjarnar Jónssonar ok ætlaði norðr at hafa. Arnbjörn hafði áðr látit bora skipit ok höggva, ok fyldi þegar, sem flotat var; var þat þá uppsett.

Þenna tíma kómu norðan frá Hákoni konungi Sigurðr son hans ok Ingimundr púss gislaðir jarli, en áðr hafði farit til konungs Ásólfr jarlsfrændi ok Jatgeirr skáld. Jarl fór nú til Björgynjar ok lagðist í Konungshöfn. Fóru þá menn millum þeira, sagðist jarl eigi mundu leggja til bœjarins, nema þat væri skilt um þann hlut, sem honum væri skipt af landi, at Pétr son hans tœki eptir hans dag. Konungr neitaði því berliga, sagði hans afspringi aldri skyldu erfa Noreg, nema þat er komit væri af Margrétu. Sigurðr erkibyskup lagði mikinn hug á at sætta þá. Lagði jarl þá til bœjarins. Gékk þá enn saman sættin með góðra manna fyrirtölum, skyldu þeir þá sitja um vetrinn í Björgyn ok halda eitt borð, með því

móti at jarl skyldi leggja fram kost hinn þriðja hvern dag. Fóru þann vetr öll skipti vel með þeim mágum, sem jafnan er þeir váru báðir saman, þvíat þá váru færi lygðir á millum bornar, er þeir máttu þegar prófa. Þetta sumar kom Úrœkja Snorrason af Íslandi ok sagði þaðan mikinn úfrið af Sturlu frænda sínum. Þótti konungi, sem Sturla fœri harðara, en hann hafði honum ráð til gefit.

*Sætt Páls byskups ok konungs.*

194 (188). Þessi var hinn tuttugti vetr ríkis Hákonar konungs. Um várit í föstu fóru þeir konungr ok jarl norðr til Þrándheims, sátu þeir um várit báðir í kaupangi. Þá váru orð ger Páli byskupi í Hamri, at hann skyldi koma til sættarstefnu til móts við konung, ok er byskup kom, sættust þeir með því móti, at konungr tók við eynni ok lagði aðrar eigur á móti til staðarins í Hamri, þær sem konungi líkaði ok byskup jáði at hafa.

*Um róg með konungi ok jarli.*

195 (189). Um várit í Þrándheimi varð einn lítill hlutr, er sjá mátti, hve nær umspillendr váru millum þeira mága. Þá var með konungi Gunnarr frændi hans, hann hafði skilt á við gesti jarls, ok þóttust þeir hafa fengit harðleikit af honum. Litlu síðar fór Gunnarr út á Nes í sýslu sína, ok um nóttina er Gunnarr var brautu, var konungi sagt, at jarl hefði sent eptir honum gesti sína ok látit drepa hann. Konungr lét þegar kalla lúðrsveininn ok klæddist sjálfr. Hljópu þá allir konungsmenn til vápna ok út í garðinn ok settu upp merki. Jarl svaf í öðru herbergi skamt þaðan, hann vaknaði við gnýinn ok hljóp út í svalirnar. Hann sá, at dróttningin stóð í garðinum. Jarl spurði hana, hverju gegndi. Hon sagði, hvat títt var. Jarl bað hana vera káta ok sagði ekki mundu saka. Jarl klæddist þá; kom til hans Sigurðr konungsson, géngu þeir þá báðir út, var þá ok víst orðit, at þetta var hégómi.

*Skúla gefit hertuga nafn.*

196 (190). Þetta sama vár hafði Hákon konungr þing út á Eyrum, ok kom þar mikit fjölmenni, ok á því þingi jók hann nafnbót Skúla ok gaf honum hertuga nafn. Þat tignarnafn hafði engi fengit fyrr í Noregi af réttkristnum konungi. Svá segir Ólafr:

Snjallir fóru mága í millum
menn; seldusk þar gisla tvenna,
sýnni tók þá sætt, er funnusk,
snarir bragningar her at magna.

Nafnbœtr jók, sá er Noregs gætir
niðjum prýddr, ok, sikling skrýddi
björtu heiti böðvar fljótan
blíðs hertuga, gjöfum fríðum.

Með þessarri nafnbót gaf konungr hertuganum margar góðar gjafar. Hófst þá enn af nýju blíða með þeim mágum.

*Frá sendimönnum keisara til Noregs konungs.*

197 (191). Þá er þeir réðu Noregi Hákon konungr ok Skúli hertugi, var keisari yfir Rómaborgar ríki Friðrekr son Friðreks keisara; hann var ágætr höfðingi. Keisari sendi menn norðr í Noreg á fund Hákonar konungs ok Skúla hertuga. Þetta var miklu fyrr. Sá hét Vilhjálmr er fyrir þeim var. Fórnuðu þeir konungi ok jarli margar presentur, en þeir sendu á móti þá hluti, er með keisara váru torugætir. Hófust þá upp sendiferðir á millum þeira, fór sá maðr af konungs hendi, er hét Guðleikr af Aski, síðan fór Nikulás Pálsson, ok var lengi í keisara garði ok þá af honum stórar sœmdir, ok engi maðr var jafnvel tekinn af Norðmönnum sem hann í þann tíma. Nökkuru síðar fóru þeir út Hrói konungsfrændi ok Bárðr bróðir Ísaks í Bœ; var Bárðr af jarls hendi, ok þótti Hróa hann eigi flytja af skynsemi eða sannendum um skipti þeira konungs ok jarls. Eptir þat fór út sá maðr, er hét Heinrekr, hann var fœddr upp í Noregi en þýðverskr at ætt, fór hann margar sendifarar á millum með ágætum sendingum. Varð af þessum hlutum hin mesta vinátta með þeim Hákoni konungi ok keisaranum.

*Frá konungi ok jarli.*

198 (192). Um várit er þeir konungr ok jarl sátu í Þrándheimi, höfðu þeir sýslu uppi á Heiðmörk Bárðr Ísaks bróðir af hertuga hendi ok Hákon dúfa, þvíat þá var svá skipt öllu landinu, at hertugi hafði þriðjung af öllum sýslum um allan Noreg. Þar varð illr atburðr með því móti, at Bárðr tók konu nauðga, en hon var eiginkona Þórðar sonar Friðreks slafsa, en í vitand ok ráði hafði verit Hákon dúfa. Þetta fréttu þeir konungr ok jarl ok létu illa yfir, sem ván var, hafði hertugi eigi færi orð um opinberliga.

*Dráp Hákonar dúfu.*

199 (193). Þeir konungr ok hertugi bjoggu ferð sína um sumarit suðr til Björgynjar; ok áðr þeir fóru, sendi konungr Jón prófastson á land upp við sveit manna. Fóru þeir konungr ok hertugi suðr um sumarit, ok er þeir kómu til Björgynjar, höfðu áðr bœjarmenn gefit Suðrmönnum mikit slag, drepit suma en rekit suma á kaf, en margir váru særðir. Þat hafði til orðit, at Suðrmenn höfðu lagt kuggum at bryggjum, þar sem bœjarmönnum líkaði eigi, höfðu þeir brotit skip nökkur fyrir bœjarmönnum, ok er konungrinn kom, sætti hann þá. Jón prófastson fór á land upp, ok er hann kom á Heiðmörk, drap hann Bárð Ísaks bróður. Þetta sumar drap Þórðr Friðreksson Hákon dúfu í Túnsbergi. Þessi tíðindi kómu til konungs, ok lét Skúli sér fátt um finnast, en þat höfðu menn fyrir satt, at honum hugnaði þessi verk allilla.

*Frá konungi ok hertuga.*

200 (194). Um sumarit fóru þeir konungr ok hertugi í Vík austr ok sátu þar um vetrinn, ok var þessi hinn fyrsti hins þriðja tigar ríkis Hákonar konungs. Eptir jólin hélt sinn hjúkólf hvárr þeira, ok drukku þó jafnan báðir samt á kveldum. Skúli hertugi bjóst norðr til

Þrándheims um várit, kom hann norðr fyrir páskir. Skyldu þeir konungr finnast um sumarit í Björgyn, því at þeir féngu þat skilt, at þá fór jafnan betr með þeim, er þeir váru báðir saman. Þeir frændr Skúli hertugi ok Ásólfr á Austrátt urðu missáttir, ok skildi þá á um eigin á Austrátt, því at frú Sigríðr abbadís, systir hertuga, er átt hafði Jón á Austrátt, kallaði þat tilgjöf sína, en Ásólfr kallaði föðurarf konu sinnar Baugeiðar dóttur Jóns. Urðu þeir um þetta ekki ásáttir, ok þetta skildi þeira vináttu. Snerist Ásólfr þá til Hákonar konungs í sínum trúnaði. Konungr sat um várit í Túnsbergi, þá var fœddr Magnús son hans ok skírðr krossmessudag. Síðan fór konungr norðr til Björgynjar ok sat þar um sumarit. Um haustit kom norðan Skúli hertugi, fór þá enn vel með þeim en eigi sem blíðast. Hertugi lá jafnan á skipum, varð hann eigi fyrr búinn en at Marteinsmessu. Hróaldr hét maðr, bróðir Ásólfs stryks, hann hafði orðit fyrir konungs reiði fyrir sakir úspektar sinnar, ok vildi konungr ekki, at hann væri í landinu, var hann í kirkju í Björgyn. Annarr maðr hét Sigurðr kærir, hann hafði vegit víg á Hálogalandi, ok sat hann í Kristskirkju. Hertugi gékk út um Kristskirkju, áðr hann lagði or bœnum. Þá gékk Sigurðr or kirkjunni, ok út á skip með hertuga. Þá var ok Hróaldr þar kominn. Fóru þeir þá báðir norðr með hertuga. Sem hertugi kom til Þrándheims, gerðu hans menn mikil orð á því, at lendir menn Hákonar konungs hefði þá enn verit miklir umspillamenn með þeim hertuga, ok eignuðu þat mest Gauti Jónssyni. Hertugi spurði einn dag Snorra Sturluson í skemtan, hvárt þat væri satt, at þér segit at Óðinn, sá er átti saman fornkonungum, héti Gautr öðru nafni? Satt er þat, herra, kvað Snorri. Yrk nú vísu, sagði hertugi, ok seg, hversu mjök þessi glíkist þeim. Snorri kvað:

Herfanga bauð Hringi
hjaldrs einsköpuðr galdra,
Gautr hvatti þrym þróttar
þann, ok Hilditanni.

Oflengi veldr yngva
úsætt, en vel mætti,
herstefnandi, hafna
hjörðóm völundr rómu.

*Frá Hákoni konungi.*

201 (195). Hákon konungr sat þenna vetr í Björgyn. Var þessi annarr vetr ok tuttugti konungdóms hans. Hann sendi orð um vetrinn norðr til hertuga, at þeir skyldu finnast um sumarit í Björgyn, ok bað hann fara með léttiskipum ok úhœgja eigi bóndum til þessar ferðar. Íslenzka menn, þeir sem með hertuga váru, bað hann enga út fara sumarlangt. Hákon konungr fór um várit austr í Vík ok dvaldist lengi í Túnsbergi. Hafði konungr þá fréttir norðan or landi, honum var sagt, at hertugi hefði gefit Snorra Sturlusyni ok Úrœkju syni hans orlof ok Þorleifi til Íslands, ok fengit skip þat er hann átti hálft en hálft Guðleikr af Skartastöðum. Þegar sem konungrinn varð þessa varr, þá sendi hann norðr bréf ok bannaði, at þeir fœri. Þessi bréf kómu til þeira, er þeir lágu út við haf, ok fóru þeir eigi at síðr í banni konungs.

*Capitulum.*

202 (195). Þá er Hákon konungr sat í Túnsbergi, kom norðan frá hertuga Björn ábóti sendr af honum. Spurði konungr, hvárt hertugi mundi koma norðan. Björn ábóti kvað hann koma mundu. Þá var spurt, hversu fjölmennr hann mundi vera. Ábóti kvezt þat eigi vita. Ábóti dvaldist lengi með konungi, meðan búin váru bréf þau sem konungr sendi norðr. ok er ábóti var búinn, þá kom norðan Ásólfr bóndi ok sagði hertuga hafa flotat mörgum stórskipum; hann hafði ok útboð mikil um allan Þrándheim. Var þat orð á, at hann mundi fara til Björgynjar ok eiga eigi alt undir öðrum. Dvaldist nú ferð ábóta, þvíat nú váru ger önnur bréf, en þau sem áðr váru búin.

*Capitulum.*

203 (195). Hákon konungr gerði þá orð Arnbirni Jónssyni ok öðrum lendum mönnum ok lét segja þeim, at hertugi dró saman lið mikit um allan Þrándheim. Jók konungr þá stórum útboðit, dróst þar saman mikill herr. Skúli hertugi hafði norðan or Þrándheimi 20 skip ok öll stór, hann hafði mikit lið ok frítt, hann kom til Björgynjar um sumarit ok lá í Flóruvágum. Þá spurði hann þau tíðindi, at konungr bjóst or Víkinni við öllum lendum mönnum sínum ok hafði 50 skipa. Átti hertugi nú stefnur við sína menn, hvárt hann skyldi bíða konungs eða skyldu þeir fara norðr undan; tóku nú þat ráð, at þeir sneru norðr aptr við öllum herinum.

*Frá konungi ok Sigurði erkibyskupi.*

204 (196). Hákon konungr kom til Björgynjar litlu síðar en hertugi fór norðr, ok fann þar Sigurð erkibyskup. Bað erkibyskup þá konunginn gera fyrir nökkut gott ráð, þvíat honum þótti þá í úvænt efni komit. Var þat þá afráðit, at erkibyskup setti grið millum þeira um vetrinn, tók þá erkibyskup umboð konungs til þessa máls. Ritaði erkibyskup þegar til hertuga ok bað hann eigi brjóta friðinn. Eptir þat fór erkibyskup í sýslu sína suðr á Mœri. Hákon konungr gaf þá heimleyfi lendum mönnum, þeim sem austan váru ok norðan. Þessir fóru norðr í sýslur sínar, Sigurðr son erkibyskups, Ásólfr á Austrátt, Pétr í Gizka, Þórir á Borri, Ögmundr krœkidanz, Árni blakkr, ok mun enn sagt verða frá þeim síðar.

*Frá Skúla hertuga.*

205 (197). Þá er hertugi kom norðr, lét hann upp setja öll stórskip sín. Kom þá lið mikit til hans af landi ofan ok austan or Vík, eptir því sem hann hafði ráð fyrir gert. Hélt hann þá mikinn kost fyrir sakir fjölmennis, lét hann þá gera útboðabréf inn um Þrándheim, en bœndr

þóttust eigi vera viðlátnir; féngu hertuga menn ekki af þessum útboðum. Hertugi sjálfr fór þá inn á skipum í Þrándheim ok lagði at við Vágsbrú. urðu bœndr þá at gjalda stórfé, sumir mörk, sumir tvær, sumir aleigu.

*Taldir lendir menn.*

206 (198). Skúli hertugi fór eptir þat til bœjarins ok átti jafnan tal við sína menn. Þessir váru þá lendir menn með honum, Álfr af Leifastöðum, Álfr af Þornbergi, Ívarr af Sundbúi, Bárðr bratti, Bárðr vargr, Ólafr af Vígdeild, Erlingr ljóðhorn, Veseti litli, Klemet faðir, Guthormr af Suðrheimum. Hertugi sagði mönnum, at hann vildi láta gefa sér konungsnafn. Stundum lét hann þá tala við sér eina saman, ok vildi hann svá verða víss hvers þeira tillögu. En þar váru hvárirtveggju, sumir eggjuðu hann til rangenda ok sögðu hann réttan arfa bróður síns eptir Inga konung til allra hluta. Jafnan talaði hann um þetta við kórsbrœðr, váru þeir sumir, er hann kölluðu réttkominn til konungdóms í Noregi. Jafnan hafði hann við sér nökkurn af kórsbrœðrum, sumir lásu bœkr fyrir honum til þessa hégóma, ok hans vili stóð til, því at hugr hans samþyktist þeim, sem únýtt tölðu fyrir honum. Ok með ágirni hans en fortölum hans manna lét hann stefna Eyraþing ok sendi orð öllum hinum beztum bóndum um allan Þrándheim.

*Frá Skúla hertuga ok Eysteini súra.*

207 (198). Sunnudag eptir allra heilagra messu, þat var Leonardus messudagr, þá er hringt var til messu, gékk fólk upp til kirkju eptir siðvanda. Ok þá er upp hóf messuna, kom meistari Bergr í kirkjuna, klerkr hertuga, ok skygndist um, sem hann njósnaði nakkvat, ok þá er lesit var, kom hertugi í kirkjuna, ok mart manna við honum. Hann gékk þegar upp á kór ok lét kalla til sín kórsbrœðr. Var þá staðr á messunni, meðan þeir

töluðust við á kórnum. Í þenna tíma var blásit í bœnum bóndum ok kaupmönnum ok allri alþýðu til Eyraþings. Eysteinn súri hét sá kórsbróðir, er fyrir var skipaðr af hendi erkibyskups. Hertugi beiddi leyfis, at út væri borit skrín hins helga Ólafs konungs. Þeim varð staðr at, ok þóttust sjá, til hvers ætlat var. Hertugi spurði, hví þeir veittu svá sein andsvör. Þeir létust áðr vilja tala einir saman sín í milli. Géngu þeir þá suðr á kórinn, ok kunnu vér fátt frá þeira tali at segja annat, en þeir báðu syngva messuna. Hertugi spurði, hví þeír svaraði eigi hér um. Eysteinn svaraði ok bað þetta mál bíða erkibyskups. Sumir af kórsbrœðrum vildu, at út væri borit skrínit. Hertugi mælti: Hví viltu, Eysteinn, jafnan standa á mót mínum málum ok várri sœmd ok vilja annarra brœðra þinna? Eptir þat gékk hertugi heim í konungsgarð. Þá kom Pétr hertugason ok Arnfinnr Þjófsson við nökkura menn, þeir géngu til ok vildu ofan taka skrínit. Ok er sira Eysteinn sá þetta, gékk hann fyrir háaltarit ok mælti: Þat viljum vér, at allir menn viti, at vér köllum þá menn í banni, er út bera skrínit utan vára samþykt brœðra. Pétr svaraði: Svá þykkir mér, sem nú bjóðir þú oss til mjaðardrykkju, ok mæl heill; ok takim nú ofan skrínit. Ok er þeir tóku til, var fast. Þá hljóp Pétr upp á altarit ok skaut á knjóm sínum ok fœrði svá skrínit or stað; síðan tóku þeir umbúnaðinn ok bjoggu um eptir siðvenju. Þá var ok útborinn kross, sá er í var lignum domini, ok öx ok spjót hins helga Ólafs konungs, ok váru at þessu fremstir Pétr hertugason ok Arnfinnr Þjófsson, en flestir aðrir váru í nökkurum kúrhuga.

*Um þat er Skúli var konungr kallaðr.*

208 (199). Nú váru þessir helgir dómar útbornir ok ofan á strætit til konungsgarðs. Kom þar hertugi á mót við alla hirðina alvápnaða, ok fóru svá út á Eyraþing.

Sá maðr stóð fyrst upp er Ámundi remba hét, hann fagnaði hertuga ok hirðinni ok talaði langt erendi. Þar næst talaði Arnfinnr Þjófsson, ok þótti þat ekki mjök sannligt. Þá taldi Erlingr ljóðhorn ætt hertuga til hins helga Ólafs konungs, ok þat at hann var í annarri erfð eptir Inga konung bróður sinn, en Hákon konungr í hinni elliftu. Þar eptir váru þeira fleiri rœður. Þá stóð upp sjálfr hertugi ok sagði, hversu mikla skömm ok svívirðu hann hafði haft fyrir sinn góðvilja af Hákoni konungi, ok hann hefði léð honum lönd ok þegna, en konungr ömbunaði honum nú svá, at hann vildi taka af honum þann þriðjung, sem honum hafði ætlaðr verit. Þá stóð upp enn Arnfinnr Þjófsson ok taldi þá enn ætt hertuga, síðan lauk hann svá sínu máli, at hann einn væri réttkominn til Noregs, ok þar með gaf hann honum konungsnafn, lönd ok þegna með öllum skattlöndum, þeim sem undir Noregs konung liggja, ok því orði lauk hann á, er honum var lítit gagn í, at þat gerði hann svá, at honum kvezt bezt þykkja. Síðan stóð upp Skúli, er þá kallaðist konungr, ok talaði þá nökkurum orðum, gékk síðan til skrínsins ok lagði á hönd sína ok sór eið, at hann skyldi halda lög hins helga Ólafs konungs ok réttendi sem góðr konungr við sína þegna. Síðan nefndi hann fram lenda menn sína ok lét sverja sér trúnaðareiða, þá skutilsveina, þá hirðmenn ok gesti, síðarst bœndr or öllum fylkjum. Ok er lykt var þinginu, fylgði Skúli heim skríninu. Engi processía var á móti ger ok eigi hringt. Tveir kórsbrœðr kómu á mót skríninu gegnt Ólafskirkju. Minna úþokka þóttust menn finna á kórsbrœðrum til Skúla, en ván þœtti. Ok er þessu starfi var lokit, fór hverr heim, en Skúli veitti þann dag sveitungum sínum. Svá segir Ólafr:

Flárœði kom fram um síðir,
friðbann hóf þá öfund manna;
eigi má við örlög bægjask
jöfra sveit, þóat ráðug heiti.

Stórr var harmr þar er stríddu herrar,
stála hregg því at æ mun beggja
rausnar kapp ok ríki uppi,
ramri þjóð, meðan jörð heldr flóði.

Haukønjallr tók þá hersa stillir
hæra nafn en mundang væri;
Þrœndir efldu þengil reyndan,
þungr magnaðisk agi bragna.

Sturla segir svá:

Þat er skröklaust,
at Skúli var
frægðarmaðr
í frömu lífi,
þó at hvarbrigð
á hann sneri
aldar gipt
auðnu hveli.

Ok enn segir hann svá:

Þá er ofrausn
öfgu heilli
randa rjóðr
reisa knátti,
ok úlágt
jöfra bagi
öðlings nafn
á Eyrum tók.

*Frá Grími keikan.*

209 (200). Fáir hirðmenn Hákonar konungs váru innan bœjar, er þingit var. Grímr keikan hét hirðmaðr Hákonar konungs, er þá var í bœnum. Grímr reið út i Gaulardal, þar sem hann átti bú, ok fann þar lögunaut sinn, er í því hafði bundizt, ef þeir yrði við nökkura nýlundu varir, þá skyldu þeir fara á fund Hákonar konungs ok bera honum njósn. Þessi vill nú eigi fara, en Grímr fór ok kom fram í Súrnadal ok svá til Þingvallar, ok fann þar Ásólf bónda ok bað hann vara sik. Þá fór hann til Árna blakks ok bar honum njósn, þaðan til Pétrs í Gizka.

*Um sendimenn Skúla hertuga.*

210 (201). Eptir þat er Skúli lét gefa sér konungsnafn, átti hann tal við sína menn ok spurði, hvat líkast væri til ráðs. Sumir vildu, at hann fœri suðr at konunginum; sumir mæltu, at hann mundi fara á land upp ok vera þar, meðan hæst væri vetrar; sumir eggjuðu, at hann skipti liði sínu ok sendi alla vega frá sér ok léti drepa alla konungsmenn, þá er þeir féngi. Ok þetta

var haft, þvíat þessa var hann fúsastr. Þessir sveitarhöfðingjar fóru norðr á Hálogaland, Algauti, Páll fótr, Sigurðr pattinn. Þessir fóru á land upp, Ívarr í Sundbúi, Álfr af Leifastöðum, Veseti litli, Guðini geigr, Sigurðr Tólason, Sigurðr hít, Úlfr fari, Eilífr gullvægr, ok höfðu þeir fim hundruð manna. Þessir fóru suðr at konunginum, Ólafr af Vígdeild, Guthormr af Suðrheimum, ok með þeim alt hit frœknasta liðit.

*Frá hirðmönnum konungs.*

211 (202). Hákon konungr hafði um haustit gert hirðmenn sína tvá norðr til hertuga við bréfum, hét annarr Ívarr korni, en annarr Gunnarr mirman. Þeir váru beggja þeira þjónostumenn. Þeir váru með hertuga nökkurar nætr í góðu yfirlæti, en þegar þeir váru búnir, fóru þeir út til Fólsknar ok dvöldust þar at konungsbúi nökkurar nætr.

*Fall Gunnars ok Ívars.*

212 (202). Þann dag sem hertugi lét gefa sér konungsnafn, sendi hann bréfasveina sína á skútu út at þeim Ívari, var þar fyrir Gautr varbelgr. Þeir kómu at þeim Ívari úvörum, ok feldu Gunnar inni í stofunni, en Ívarr komst út í línklæðum einum ok hljóp til kirkju, en hon var læst. Stigi stóð við kirkjuna, ok hljóp hann upp eptir stiganum ok svá upp á kirkjuna, ok var þar um nóttina, en þeir sátu umhverfis. Um myrgininn var Ívarr drjúgum dauðr af kulda, hann bað griða, ok fékk eigi. Eptir þat hljóp maðr upp í stigann ok lagði hann með spjóti. Hrapaði Ívarr þá ofan dauðr, en blóð hans ok innyfli lágu eptir á kirkjunni. Þetta var hit þriðja sumar síðan Hákon konungr hafði vígja látit kirkjuna. Eptir þat fóru þeir suðr til Lyxu. Þar váru fyrir tveir hirðmenn beggja þeira, þeir váru kallaðir Lyxusveinar, þeir váru inni í stofu, er Varbelgir kómu. Þeir sóttu stofuna,

en hinir vörðu. Þar féllu þrír menn af Varbelgjum, enda féllu þeir við góðan orðstír. Varbelgir ræntu þar hvívetna, eptir þat fóru þeir inn til bœjar.

### *Fall Þóris af Borri.*

213 (203). Skúli hafði fengit njósn af, at Þórir af Borri bróðir Vegarðs veradals hafði farit sunnan. Hertugi hafði fengit sýslu suðr á Mœri Sigurði petli ok Eysteini á Aurum; hertugi bað þá drepa Þóri, hvar sem þeir stœði hann. Ok er þeir kómu til Flaðka, skiptu þeir svá með sér, at Eysteinn fór með suðrlandinu, en Sigurðr sneri út til Rauðabjarga. Þórir hafði farit með norðrlandinu, Sigurðr mœtti honum við Rauðabjörg. Féll þar Þór :ok[illegible] annarr hirðmaðr, er Heðinn hét, váru þeir þó knúskaðir aðrir mjök. er á skipinu váru. Þeir tóku skipit ok alt þat er á var ok Þorberg son Þóris. Fóru síðan inn til bœjar, ok fékk Þorbergr grið við margra manna bœn, ok var síðan með hertuga. Sigurðr erkibyskup hafði engi tíðindi or Þrándheimi, fyrr en hann kom í Leirangra, þótti honum þá í verra efni komit, en hann hugði. Gerði hann þegar bréf til Hákonar konungs at segja honum þessi tíðindi, en hann fór inn til bœjar.

### *Frá Algauta.*

214 (203). Nú er at segja frá þeim er fóru á Hálogaland. Algauti fór hit iðra um Eldueið, en Páll ok Sigurðr fóru hit ytra á skipi. Þeir drápu fyrst þann mann, er Jón hét, annan Jón svarta. Ok er þeir kómu í Torgar, ræntu þeir þar skútu, aðra tóku þeir or Brunneyjum; þá fóru þeir til Tjolgarheims ok tóku upp alt fyrir Jóni silki. Húsfreyja hans gerði honum orð út í Veigu. Jón fór þegar til Guthorms í Bjarkey, hann hafði sýslu af konungs hendi, hinn syðra hlut Hálogalands, ok fundust þeir í Hereyjum. Guthormr trúði þessu varla. Þeir fóru um kveldit til Sandness, þeir sátu þar í stofu um kveldit,

kom þar inn njósnarmaðr Varbelgja. Guthormr sló hann öxarhamars högg, ok komst hann við þat í braut. Síðan fóru þeir í kirkju ok ætluðu at vera þar um nóttina. Um dagsetrs skeið kómu Varbelgir ok kringdu þegar um kirkjuna, ok báðu þá út ganga ok hétu Guthormi griðum slíkum, sem hinn helgi Ólafr konungr hafði sett heilagri kirkju, ok við þat gékk hann út. Páll fótr tók þegar í hönd honum, ok er hann kom or kirkjunni, var hann þegar drepinn. Jón komst út um sönghúsit, féll hann fyrir austan kirkjuna. Þeir tóku þar mikit fé ok þrettánsessu, er Guthormr hafði átt. Síðan fóru þeir í Sanda ok drápu þar sunu Páls Ólaf dálk ok Pál sylgju hirðmenn konungs, ok tóku alt þat er þeir áttu. Í Arney drápu þeir Ásbjörn skutilsvein konungs ok rændu þar fé öllu. Þaðan fóru þeir norðr til Leirness, þar bjoggu þeir er Bollasynir váru kallaðir, þeir váru eigi heima. Þat sama kveld kómu þar sveitungar Ívars Pétrssonar, Eiríkr hvíti ok Þórðr, váru þeir báðir drepnir. Þar var ok særðr kaupmaðr, er Jón smæðra hét. Svá bjoggu þeir búin Bollasona, at þeir tóku þar byrðing ok hlóðu þar á öllu góz því er þeir áttu. Annan dag eptir fóru þeir í Hamarey ok ætluðu at drepa Hákon rauð. Þeir mættu ferju einni, ok sögðu þeir, at Hákoni hefði komit njósn, fóru þeir þá aptr til Leirness ok váru þar um nóttina.

Þegar er Hákoni hafði komit njósnin, skar hann upp herör ok stefndi til sín liði, höfðu þeir 7 skútur ok kómu í dagan til Leirness. Hákon bað þá róa at mannliga; en er Varbelgir heyrðu þetta, mælti Páll fótr: Flýjum vér nú undan, hér eru komnir Salptverir ok vilja hefna Guthorms. Algauti var þá til kominn, ok lá hann öðrum megin nessins á þrettánsessu, ok þar lá byrðingr Bollasona. Hljóp Páll á skip til þeira. Fóru þeir Hákon þá á brautu. Eptir þat fóru orð á millum þeira Varbelgja ok Bollasona, ok tóku þeir sér grið, ok skyldi Ívarr Bollason fylgja þeim suðr til Niðaróss, ok kómu þar fyrir

jólin. Hertugi lét sér mislíka, er þeir höfðu drepit Guthorm ok Jón ok teygða þá or heilagri kirkju, ok lét setja þá í járn. Hertugi tók undir sik nær alt féit, þat er þeir höfðu rænt. Ívarr Bollason sættist við hertuga með því móti, at hann skyldi gjalda 12 merkr gulls um þat fram, sem hann hafði áðr ræntr verit.

*Frá Álfi af Leifastöðum.*

215 (204). Álfr af Leifastöðum ok þeir félagar fóru á land upp við 500 manna, ok er þeir kómu austr um fjall, drápu þeir Ólaf Fríðuson ok son hans ok Ívar veg. Flestum konungsmönnum hafði þá komit njósn, ok gættu sér í kirkjum eða skógum. Ok er þeir kómu austr í Dali, skildist við þá Sigurðr Tólason, ok veik hann í Eystridali ok drap þar þá menn, er Leifssynir váru kallaðir, en aðrir sveitarhöfðingjar váru farnir út til Oslóar, ok var fyrir þeim Bárðr bratti lendr maðr hertuga. Varbelgir gerðu Bárði orð, at hann dræpi sem flesta konungsmenn, en Bárði fór þat vel, at hann sendi konungsmönnum orð, at þeir geymdi sín í kirkjum ok væri varir um sik. Varbelgir kómu í bœinn um nótt á úvart ok drápu þessa menn, Sæpilgrím Ásólf lepp ok 6 menn aðra. Veseti fór austr í Vík ok hafðist þar við um hríð, en því drap hann þar enga menn, at hann ugði, at bœndr mundu fara at honum. Með Veseta hafði farit norðan prestr einn íslenzkr til herra Knúts með innsigli því, sem átt hafði Hákon jarl faðir hans, ok þar með merki, ok bauð (hertugi) honum at vera jarl hans, sem honum þóttu þeir áðr hafa rœtt sín í millum. Herra Knútr vildi ekki þat ok bað prestinn braut fara. Ok er Símun kýr spyrr til Veseta, ferr hann at honum ok drepr af þeim 7 menn ok 20.

*Frá mönnum Skúla hertuga.*

216 (205). Nú er at segja frá þeim mönnum, er suðr váru sendir at konunginum, Ólafi ok Guthormi.

Þeim byrjaði seint, ok kom víða njósn fyrir þá, ok er þeir sá, at þeir mundu ekki sigla rakleitt, fóru þeir inn í fjörðu, þar sem þeir vissu, at konungsmenn váru fyrir. Þeir tóku alt búit fyrir þeim Árna ok Eindriða á Drómunesi, síðan sneru þeir inn um nesit ok kómu til Árna blakks ok ræntu hann, ok svá tóku þeir upp fyrir Ögmundi rostung ok Andresi á Sjaumælingum. Þaðan fóru þeir suðr í Raumsdal ok hjoggu hvervitna bú konungsmanna, en hvergi náðu þeir mönnum, þvíat allir váru suðr farnir undan.

*Frá konungi ok erkibyskupi.*

217 (205). Nú skal hér standa um athæfi Varbelgja en þar til taka, er þeir hittust um haustit konungr ok erkibyskup; þar váru ok þá komnir sendimenn hertuga Björn ábóti ok Jatgeirr skáld. Settu þeir þá frið um vetrinn, sem fyrir var ráðit. Gaf þá konungr heimleyfi lendum mönnum, fóru þeir þá norðr hit ytra. Lagði erkibyskup þá við bann þeim, er eigi héldi friðinn. Urðu lendir menn eigi fyrr varir við úfriðinn, en Varbelgir váru komnir suðr um, var þá engi kostr aptr at snúa. Ögmundr krœkidanz skyldi hafa sýslu í Orkadal, ok sneri hann inn í Surnadal ok sökti þar niðr skútu sinni. Árni blakkr skyldi hafa sýslu í Raumsdal, sneri Árni suðr til konungs, ok svá Sigurðr byskupsson. En þeir konungsmenn, sem váru á byrðingum, váru flestir drepnir. Pétr Pálsson var þá kominn til Borgundar, er hann spurði úfriðinn, sneri hann þá suðr sem skjótast, ok er hann kom norðan at Hereyjum, lágu Varbelgir þar fyrir 3 skútum. Ok er þeir Pétr kómu fyrir höfnina, lét hann blása í lúðr, ok þegar sem Varbelgir heyrðu þat, ráku þeir af sér tjöldin ok reru á braut. Var þetta misjafnt virt fyrir Pétri, sumir sögðu, at hann léti því blása, at hann vildi gera njósn Varbelgjum ok vildi engan úfrið hafa við menn hertuga, ok fyrir þat héldi hann heilum híbýlum sínum um vetrinn í Gizka.

### *Frá Grími keikan.*

218 (206). Hákon konungr sat í Björgyn mjök fámennr, þótti honum kynligt, er engar orðsendingar kómu norðan frá hertuga, var honum grunr á, at eigi mundi alt vera trygt, ok því gerði hann skútu norðr á Sognsæ, en aðra lét hann fljóta hverja nótt við Holdhellu, váru þar á kertisveinar, þat hét Vætan, skipa skjótast; reru þeir inn um daga en út á kveldit. Þat var eina nótt, er þeir váru á þessum verði, at þeir urðu varir við at teinæringr einn reri norðan með landi, þeir reru fyrir þá ok hugðu, at þat mundu þeira menn, en þar var á Grímr keikan; hann bað þá fylgja sér til konungs, lézt hafa mikil tíðindi at segja honum. Þeir reru at konungsbryggjum ok géngu þegar upp; þá mundi vera eptir þriðjungr nætr. Þeir kölluðu at herberginu ok létust vilja finna konung. Hann stóð þegar upp ok klæddist ok gékk inn í málstofu, var þar Grímr fyrir ok heilsaði konungi. Konungr bað hann vel kominn, ok spyrr hann tíðinda. Grímr svaraði: Tíðindi mikil eru, herra, Skúli hertugi mágr yðarr hefir látit géfa sér konungsnafn ok sagt í sundr öllum friði. Konungr mælti: Njóti hann sem hann fékk. Grímr mælti: Hann hefir ok sent lið alla vega frá sér at láta drepa menn yðra, hvar sem staddir væri; hann hefir ok sent at yðr 14 skútur ok þar á lenda menn sína. Segist þetta, herra, með engu móti aptr, þvíat ek reið þá út um Gaularás, er Skúli var á Eyraþingi, en síðan dvöldumst ek í skógum, þar til er ek vissa sannliga þessor tíðindi. Nú hefi ek verit 9 nætr á leiðinni norðan. Konungr spurði at sýslumönnum sínum. Grímr lézt fundit hafa alla aðra en Þóri, ok váru þeir heilir, ef nú gæta þeir sín héðan frá, en Þórir var um farinn, ok þykki mér mjök hættligt hans mál.

### *Frá konungi um ráðagerðir.*

219 (207). Fátt var manna hjá konunginum, er

hann spurði þessi tíðindi. Hann þagði nökkura stund ok mælti síðan: Guð sé lofaðr, er ek veit, hvat ek skal at hafast héðan af, þvíat þetta var fyrir löngu ætlat, sem nú er fram komit. Konungr lét þegar lesa sér tíðir. Síðan leitaði hann við ráðgjafa sína, hvert ráð þeir gæfi til. En þat var ráðs tekit, at skorin var upp herör ok send alla vega frá Björgyn ok þangat stefnt almenningi. Konungr sendi ok orð öllum lendum mönnum sínum. Þann sama dag átti konungr þing í Kristskirkjugarði ok sagði öllum mönnum þessi tíðindi ok bað menn eigi vera í kúrhuga, þvíat honum lézt svá hugr um segja, at hér mundi nökkurnin vel verða. Um myrgininn átti konungr vápnaþing ok kannaði lið sitt, ok sagði at sú skipan skyldi á vera, at kaupmenn skyldu liggja hverr í sinni stofu með alvæpni, en konungsmenn skyldu liggja í konungsgarði. Síðan lét konungr fram setja öll stórskip sín, ok lestist Hugróin, var hon þegar upp aptr sett ok bœtt. Skip konungs lágu öll fyrir endilöngum bryggjum. Þá kómu hversdagliga lendir menn konungs ok sýslumenn með stórum sveitum. Hertugi skipaði allar sýslur um vetrinn fyrir norðan Staði.

*Frá Hákoni konungi ok lendum mönnum.*

220 (208). Hákon konungr gerði þessa sveitarhöfðingja norðr at þeim Varbelgjum, Pétr or Gizka, Ásólf bónda, Gunnar frænda sinn með 5 skipum ok 20. Konungr bað þá fara norðr svá langt, sem þeim væri vel fœrt, hann bað þá vel halda kirkjugrið ok kvennafrið, svá sem alt hans forellri hafði gert fyrir honum. Síðan fóru þeir, ok er þeir kómu til Borgundar, váru þar fyrir margir Varbelgir, Ólafr kábeinn, Snækollr ok Andres. Þar féllu nökkurir menn, en aðrir kómust í kirkjur; þar tóku þeir leiðangr mikinn, er Varbelgir höfðu saman dregit, en þeim váru gefin grið til konungs fundar. Þá kvað Snækollr þetta:

Skal ek aldri
þótt ek ey lifa,
sýslu beiðask
á Sunnmœri,
þvíat fluttu mik
fjándmenn þaðan
Björgynjar til
at boði hilmis.

Þeir Pétr spurðu, at hertugi sat í Þrándheimi við miklu fjölmenni, sneru þeir þá aptr til Björgynjar með fé ok mönnum er þeir höfðu tekit. Konungr gaf öllum mönnum grið, þeim er á hans vald kómu. Konungr sendi Klemet af Hólmi suðr á Agðir at þeim Varbelgjum, sem þar váru. Hann drap þar Ólaf Þóruson. Bárðr í Hestbœ hafði sýslu í Rygjafylki af hertuga hendi, ok þegar sem hann spurði, at hertugi hafði látit gefa sér konungsnafn, fór hann þegar á fund Hákonar konungs ok gafst þegar í vald konungs, en konungrinn gaf honum góð grið.

*Frá Hákoni konungi ok lendum mönnum.*

221 (209). Hákon konungr átti jafnan tal við lenda menn sína; fýstu þeir, er norðan váru komnir, er látit höfðu frændr sína ok fé, at fara norðr at Skúla; en allir þeir, sem fyrir sunnan Stað váru, báðu konunginn sitja í Björgyn, meðan hæst væri vetrar, ok var þat ráðs tekit. Þá var við konunginum Nikulás Pálsson, hann var yngstr allra lendra manna ok þótti manna vænstr til vits ok fremdar, hann lagðist sjúkr ok af þeim sama sjúkleika andaðist hann. Um daginn fyrir jólaaptan var lík hans náttsett. Um myrgininn var Hugróin fram sett, þvíat hon hafði verit bœtt, sem fyrr sagði, ok meðan sungnar váru tíðir, lét konungr búa skipit. Ok er fólkit var til komit skipsins, þá hafði konungrinn alt í einni rœðu, at hann sagði fyrir skipinu ok setti grið milli manna. Var þá skipit fram sett. Eptir þat gékk konungr á mót líki Nikúlás ok þakkaði sjálfr söng á grafarbakka. En meðan líkit var niðr sett, var reipat tréit á konungsskipinu. Eptir þat átti konungr hirðstefnu, hafði konungr mikit erfiði þann dag.

*Frá Ögmundi krœkidanz.*

222 (210). Ögmundr krœkidanz var með konunginum í Björgyn um jólin fram um átta dag. Þá fékk konungr honum sveit mikla, fór þá Ögmundr inn í Sogn ok svá upp um fjall. Váru engir Varbelgir í dölum. Þar kom til móts við Ögmund Munan byskupsson, fóru þeir þá út til Oslóar. Þar váru fyrir margir konungsmenn. Eptir þat fóru þeir Munan ok Ögmundr á land upp ok dvöldust um hríð norðr í Dölum.

*Frá Skúla.*

223. Árni byskup hafði sent klerk einn norðr til erkibyskups um haustit, áðr úfriðrinn hófst, með bréfum. Hertugi lét taka öll bréf þessi ok fékk honum í hendr sín bréf ok bað hann fœra byskupi. Ok er klerkrinn kom suðr, komst Hákon konungr at þessum bréfum ok varð víss alls þess, sem á var til hans ok hans manna.

*Sén kometa.*

224 (210). Konungr lét búa til virðiligrar jólaveizlu í Björgyn. Sat hann þá við miklum kostnaði, ok var þessi hinn þriði vetr ok tuttugti hans konungdóms. Hann hafði sent austr í Vík eptir landskyldum sínum, ok kom ekki austan. Lét hann þá at hinum átta degi brjóta í sundr gersimar sínar, silfrker ok silfrdiska, ok gerði hirðmönnum hin beztu skil. Níu nóttum eptir jól gékk konungr út um kveldit, ok var heiðviðri á. Menn sá undarliga stjörnu miklu meiri en aðrar, ok sem skapt væri á. Konungr lét kalla til sín meistara Vilhjálm, ok er hann kom ok sá stjörnuna, mælti hann: Guð gæti vár, þetta er mikil sýn; þessi stjarna heitir kometa, ok sýnist hon fyrir fráfalli stórra höfðingja ella fyrir stórum bardögum. Þessi stjarna var sén á mörgum löndum um vetrinn.

*Knúti gefit jarlsnafn.*

225 (211). Þegar á bak jólum kurruðu lendir menn illa ok vildu gjarna norðr fara. Hafði konungr af þessu nökkut ámæli, ok kölluðu hann nú mundu sanna nafn sitt, er Varbelgir kölluðu hann Hákon svefn. Konungr lét sem hann vissi slíkt eigi. Litlu eptir jólin hélt konungr á búnaði sínum ok stefndi til sín öllu liði, því sem hann fékk, hann hafði 40 skipa ok öll stór ok vel búin. Þessir váru lendir menn við honum, Gautr Jónsson, Pétr Pálsson, Ásólfr jarlsfrændi, Gunnarr konungsfrændi, Ísakr í Bœ. Ok áðr konungr fœri or bœnum, lét hann dróttningina fara upp í borgina ok junkherra Magnús ok 40 hirðmanna ok mart fólk annat. Hákon konungr hafði gert áðr um vetrinn bréf austr í Víkina til herra Knúts ok Arnbjarnar, ok var þat á, at Arnbjörn skyldi láta gefa herra Knúti jarlsnafn, síðan skyldu þeir verja Víkina ok Upplönd fyrir Varbelgjum.

*Frá Hákoni konungi ok hertuga.*

226 (212). Þá er Hákon konungr fór or Björgyn, lét hann fara fyrir norðr nökkur skip; þessir váru þar formenn, Gunnarr konungsfrændi, Ásólfr ok Sigurðr byskupsson. Ok er þeir kómu norðr fyrir Raumsdalsmynni, spurðu þeir, at Finnr knútr var inn í Véeyju með sveit sína, hann hafði þar sýslu af hertuga hendi; sneru þeir þangat ok drápu Finn við nökkura menn. Hákoni konungi hafði engi njósn komit norðan um vetrinn, svá var gætt allra vega, ok er konungr kom norðr fyrir Söndólfsstaði, var konunginum sagt, at hertugi mundi hafa snúit á land upp ok viljat eigi bíða konungs. Konungr lét fara fyrir norðr 15 skip, ok váru þeir þar fyrir Ásólfr af Austrátt ok Gunnarr, sigldu þeir rakleitt til bœjar um nóttina. Bergþórr tamr hét maðr hertuga, hann sigldi fyrir þeim léttiskipi ok bar njósn til bœjarins, ok er þeir Gunnarr kómu, var nær alt fólk komit í kirkjur, þó drápu þeir þar nökkura menn.

*Frá Skúla hertuga.*

227 (213). Skúli hertugi hafði farit or bœnum laugardag at níu vikna föstu. Var hann um nóttina at Meðalhúsum ok fór þaðan út til Orkadals. Hann hafði sett eptir í bœnum at gæta skipa sinna Klemet föður ok Guthorm af Suðrheimum, höfðu þeir 200 manna. Hertugi fór suðr um fjall við 500 manna. Þá váru þeir í Guðbrandsdölum Munan ok Ögmundr, en er þeir spurðu, at hertugi var norðan kominn, þá sneru þeir út á Heiðmörk. Ok er þeir kómu á Hringisakr, þá var þar fyrir Álfr af Leifastöðum, ok varð honum svá nær ekit, at hann hleypti inn í kirkju ok allir hans menn. En þeir Munan settust um kirkjuna ok sátu þar lengi um daginn. En með því at hertuga var at ván, þá sneru þeir út til Oslóar til þeira konungsmanna, sem þar váru; gerðu þeir þá njósn Knúti jarli ok Arnbirni Jónssyni ok öllum lendum mönnum í Víkinni, ok drógu þeir saman mikinn her.

*Frá konungi ok erkibyskupi.*

228 (214). Hákon konungr sigldi inn eptir Þrándheimi ok lagði at við Hólm. Honum var sagt, at Varbelgir váru þar fyrir, Klemet faðir ok Guthormr, sátu þeir nú trúfastliga í kirkjum. Varbelgir sendu menn til konungs ok báðu griða. Konungr átti þá tal við sína menn ok reri síðan inn til bœjarins. Erkibyskup gékk á mót konungi ok kórsbrœðr ok fögnuðu honum vel. Þeir töluðu jafnan konungr ok erkibyskup. Þeir váru nökkurir vinir hertuga, er þat mæltu, at þeir mundu sættast konungr ok hertugi með því, at hálft ríki hefði hvárr þeira ok báðir konungsnafn. Konungr sagði þat eigi verða svábúit. Hertugi hafði sent upp til Helgisetrs í kirkju frú Ragnhildi ok frú Ragnríði ok margan annan sinn varnað. Erkibyskup bað þeim griða af konungi. Hann svaraði svá, at þó mundi hann gefa grið, at aðrir menn væri komnir í kirkju en þær, sagði því heldr skyldu þær grið

hafa, at allir Varbelgir skyldu þeir grið hafa, er í kirkjum sátu. Fóru nú sumir til konungs, en sumir til búa sinna. Hertugi hafði svá farit or Þrándheimi, at bú þeira manna, er honum fylgðu, stóðu kyrr, ok því kómu menn or öllum fylkjum or Þrándheimi, þeir er gættu búa Varbelgja, ok báðu miskunnar, at konungr léti eigi upp taka. Konungr lét þá blása til þings ok lýsti því fyrir öllum mönnum, at bú Varbelgja skyldu kyrr standa til sumarmála, ok freista, ef þeir vildi koma ok biðja sér miskunnar.

*Frá Sigurði erkibyskupi ok Birni ábóta.*

229 (215). Sigurðr erkibyskup varð reiðr Birni ábóta í Hólmi um haustit, þá er hertugi hafði látit gefa sér konungsnafn, bæði fyrir þær sakir, er hann hafði sjálfr til gert, ok svá þat er hann hafði verit í ráði með hertuga, ok fyrir alt jafnsaman bannsöng erkibyskup ábóta. Þetta hugnaði honum stórilla. Báru þeir hertugi ok ábóti nú ráð saman, ok tók ábóti fé af hertuga, en setti staðinn Hólm at veði. Tók ábóti við erendum hertuga ok bréfum til annarra landa, Danmerkr ok þýðverska lands ok svá út í kuriam. Fór ábóti or Þrándheimi um vetrinn fyrir jól, ok er hann kom yfir fjall, fór hann tómliga ok lét alt kyrt yfir sér. Munan byskupsson hafði spurn af ferðum ábóta, ok því tók hann ábóta ok alt þat er hann fór með, fékk til hirðmenn fjóra ok fjóra menn aðra, fóru þeir með ábóta ofan í Sogn ok svá til Björgynjar. Var hann uppi í borg með dróttningu, þar til er Hákon konungr kom norðan.

*Frá Skúla hertuga.*

230 (216). Skúli hertugi hafði sent með bréfum Jatgeir skáld austr í Jamtaland ok svá til Svíþjóðar. Ok þegar sem konungr spyrr þetta, gerði hann Gunnar frænda sinn austr eptir honum. Hafði Gunnarr mikla nauð í þessi ferð. Gunnarr fór við fimtánda mann, hann

drap þann mann í Jamtalandi, er Þórir hrísbítr hét, hann hafði haft þar sýslu af hertuga hendi. Hann fór austr eptir Jatgeiri ok stóð hann í Helsingjalandi ok tók þar bréf, þau sem hann hafði af hertuga hendi, ok gersimar, er hertugi hafði sent mönnum sínum. Jatgeirr komst undan sem nauðuligast. Fékk Gunnarr í þessi ferð állmikinn sóma, fann hann Hákon konung í Niðarósi.

*Frá Skúla hertuga ok Knúti jarli, bardaga stefna.*

231 (217). Þá er konungr var í Þrándheimi, kómu þar menn austan um fjall ok sögðu herra Knút jarl ok lenda menn hafa lið mikit, eigi færa en fim hundruð ok 20, ok létu allvígliga. En hertugi var með sínu liði á Heiðmörk. Þá kom til hertuga Veseti litli austan af Mörkum. Hertugi fór or Hamri á annarri viku langaföstu, hann gerði á njósn Álf af Leifastöðum; þeir fundust um nóttina ok njósnarmenn Knúts jarls, ok féngu þeir tekit svein einn af Álfi ok færðu hann jarli. Þar var fyrir sá maðr, er sakar átti við hann ok gerði hann hálshöggvinn. Ok er hertugi fór af Eiðsvelli, kom á mót honum prestr einn danskr við nökkura menn, ok kvezt vera sendr af Knúti jarli til hertuga, at jarl vildi, at þeir fyndist þar sem Leiruvellir heita, ok héldi orrostu, bjoggist hvárirtveggju við sem bezt ok træði ser gadd, en hvárigir stælist á aðra. Hertugi bað svá segja Birkibeinum, at þenna kost vill hann. Annan dag eptir kom þessi sami prestr á fund hertuga ok sagði, at jarl vildi at þeir skipaði til um fylkingar sínar, ok hverjar sveitir á mót skyldi gangast, bað hertuga láta fara sitt merki á mót jarls merki, en hann sagði kertisveina mundu hafa gult merki, ok skyldi þar á móti kertisveinar hertuga, gesti kvað hann mundu hafa svart merki, skyldi þar á móti gestamerki hertuga. Prestrinn bað hertuga senda með sér mann til jarls at heyra þessi orð af hans munni. Hertugi sendi þann mann, er Kári einhendi hét. Hertugi

var um nóttina á þeim bœ, er á Láku heitir. En er þeir prestr ok Kári váru skamt komnir yfir einn lítinn skóg, þá fór merki Birkibeina á mót þeim. Prestr sagði þá jarl vera skjótara, en hann hugði, ok bað þá Kára aptr snúa til móts við hertuga ok láta hann þá vita, hvar komit væri. Hertugi fór þá fram af skóginum á ána Leiru, fóru þá hvárir móti öðrum eptir árísinum. Þeir fóru þá fyrstir af hertuga mönnum, Bárðr vargr lendr maðr hertuga ok Bárðr af Guðreksstöðum son Þorsteins kúgaðs. Ok er þeir kómu fram fyrir Leirnes, þá kómu Birkibeinar á mót þeim, Arnbjörn posi ok sveit manna við honum. Vildu Varbelgir þá aptr víkja, en er Bárðr sneri um hestinum, féll hestrinn undir honum, ok fékk Arnbjörn posi tekit Bárð, en Bárðr af Guðreksstöðum komst undan ok fékk mikit spjótlag millum herðanna, ok hlífði honum góð brynja, er hann varð ekki sárr. Hertugi veik af ánni ok upp á nesit ok bjóst þar um, en Birkibeinar sneru af annan veg. Þeir skutust á um hríð um kveldit, ok fékk af því banasár Jón paris af hertuga mönnum.

*Frá Birkibeinum.*

232 (217). Bárðr vargr fór til Eiriks stilks mágs síns, hann kvezt þar hafa eigi klæði sín ok bað hann fá sér menn út á ísinn, at hann mætti kasta rúnakefli út á ísinn til félaga sinna. Eiríkr gerði svá, ok er þeir kómu á ísinn, fór Bárðr þeira skjótast. Sveit hans var þar öðrum megin árinnar, ok kendu hann ok runnu á mót honum. Bárðr hefr þá á rás, en Birkibeinar snúa aptr. Skúli hertugi var þrjár nætr á Leirnesi ok fór þaðan snemma frjádags kveldit í annarri viku langaföstu. Þat var hinn 7 idusdag Martii mánaðar. Sneri hann þá aptr til Láku, ok tráðu Varbelgir sér þar gadd. Birkibeinar sneru nú ok þangat. Varbelgir váru uppi á brekkunni hjá húsunum. Var þar fyrir niðri dalr einn, en hæð nökkur öðrum megin. Hertugi fylkti þá liðinu uppi á brekkunni.

*Frá bardaga á Láku.*

233 (218). Birkibeinar fóru til þess er þeir kómu á Láku ok fylktu þar öðrum megin á dalverpinu. Knútr jarl ok Arnbjörn Jónsson féngu til margar sveitir at veita Varbelgjum bakfall. Var fyrir þeim Loðinn Gunnason ok Hákon gríss ok Jón prófastson, hann var fyrir kertisveinum, ok bar Þórir knapr merki þeira. Var nú bœrinn meðal þeira, ok er hertugi sér þetta, skipar hann sínum mönnum á mót bakfallinu. Var þar fyrir Álfr af Leifastöðum, Álfr af Þornbergi, Ólafr af Vígdeild, Veseti litli. Ok er þeir mœttust, varð þar harðr bardagi, var Birkibeinum úhœgt atgöngu við at koma fyrir snjó. Ok er þeir jarl ok Arnbjörn þóttust vita, at bakföllin mundu saman koma, þá létu þeir fram bera merki sín ok géngu í dalinn ok upp í brekkuna undir fylking hertuga. Hertugi bað sína menn vera eigi of veiðibráða ok láta þá ganga áðr langt upp undir. Varbelgir steyptust nú ofan á Birkibeina, svá at þeir viku skjótt aptr, þar sem þeir höfðu staðit; féll þar einn maðr af þeim.

*Fall Birkibeina.*

234 (219). Nú er at segja frá bakföllunum. Hákon gríss var í fyrra lagi, ok er þeir höfðu litla hríð barizt, sneri mannfallinu í lið Birkibeina. Þar féll Hákon gríss, Jón prófastson, Guthormr heggr ok margir aðrir ágætir menn; flýðu þá Birkibeinar, féll mart í flóttanum. Loðinn Gunnason hljóp í skot kirkju við sveit manna. Varbelgir féngu tekit merkin ok fœrðu þau hertuga. Urðu þeir jarl ok Arnbjörn þá varir við, at Birkibeinar höfðu flýit, þeir sendu þá til hertuga þann mann, er hét Eilífr kýr, með nökkurri sættaumleitan. Ok er hann kom aptr, ok þeir menn sem hertugi hafði sent með honum, þá stóðu þar skildirnir í fönninni, sem þeir höfðu staðit, en menn allir váru á brautu. Flýðu þeir Arnbjörn ok jarl út til Túnsbergs, en sumir í Höfuðey ok sátu þar í klaustri.

Kolbeinn bróðir Álfs af Þornbergi féll af Várbelgjum ok fáir menn aðrir. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Hilmir fór með herskap stóran
hildar borðs á Upplönd norðan,
merki skárusk ljós á Láku,
lá ferð vegin skörpum sverðum.
Þunnum reið til Þrándheims sunnan
þingfrækn jöfurr völum stinga,
herskip brendi hilmir grundar
hyggju gegn en líf gaf þegnum.

Svá kvað Sturla:

Stóð úfriðr
af afarmenni
innan lands
öllu folki,
þá er ynglingr
austr á Láku
sverða seið
of samit hafði.
Ok vígálfr
vaxanda lét
úlfa ár
ok ara ferðar
valdan vetr
til vápnþrimu
of vígskátt
vísa ríki.

*Frá griðagjöfum Skúla hertuga.*

235 (220). Skúli gaf grið Loðni Gunnasyni ok öllum þeim mönnum, er honum fylgðu. ok fór eptir þat inn til Oslóar ok lét sik þar til konungs taka. Hann gaf þar grið þeim mönnum öllum, er í klaustrum sátu. Géngu þá margir Birkibeinar til handa honum, sat hann þá um hríð í Osló.

*Frá konungsmönnum.*

236 (221). Hákon konungr sat í Þrándheimi, sem fyrr er ritat. Þat var siðr konungsmanna at ganga upp til Helgisetrs um daga til frú Ragnhildar ok manna hertuga, er þar váru. Ok einn dag er konungsmenn kómu, þá hló alt fólk við þeim, þat er þar var, sem þeir gerði gys nökkurn, ok vildu engi tíðindi segja þeim. Þeir sögðu þetta konungi, at víst var nökkur nýlunda með Varbelgjum, sú er þeim hló hugr við. Ok þann sama dag kom austan gestr til konungs. Konungr spurði tíðinda. Gestrinn stóð ok þagði. Konungr bað hann segja slík tíðindi, sem guð vildi at orðin væri. Hann svaraði:

þat er skjótt at segja, at Knútr jarl ok lendir menn yðrir í Víkinni fundust ok Skúli hertugi á Raumaríki ok áttu þar bardaga, ok höfðu yðrir menn betr hinn fyrra daginn, en hinn síðara flýðu þeir, ok féllu þar margir ágætir menn af Birkibeinum, ok sagði konungi sem farit hafði. Konunginum mislíkaði þetta mjök. Jafnan síðan skorti eigi gabb af mönnum hertuga, svá kölluðu Varbelgir hafa þat austan spurt, at nær væri öll hirð konungs niðr höggvin, sú er í Víkinni var, ok þar væri farit nær öllum hans styrk. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Tjón höfum Birkibeina,
böðhraustr! fregit austan;
brátt mun bng þann rétta
bragningr, ef vel hagnar.

Virðendr munu verða
vápnglyms Finna ymsir,
veit ek at vart hefir Knúti
vegnat, brögðum fegnir.

*Frá erkibyskupi ok konungi.*

237 (222). Hákon konungr segir nú sínum mönnum, at þeir skulu búa ferð sína sem skjótast. Einn dag fundust þeir erkibyskup ok konungr í Nikuláskirkju, þá mælti erkibyskup: Vér höfum spurt, at þér hafit fengit skaða mikinn í láti yðarra manna í Víkinni fyrir hertuga, ok því þœtti oss ráðligt, at enn væri leitat um sættir á millum yðar hertuga; viljum vér gjarna mœða oss til þessarrar ferðar, ef yðr þykkir þannin betr, kann vera at því síðr nái góðum sættum af honum, sem síðar er um leitat.

*Frá Hákoni konungi.*

238 (222). Hákon konungr svaraði: Guð þakki yðr, herra, yðarn góðvilja, er þér birtit í þessu; má þat jafnan finna, at þér vildit at vel fœri fram. En þótt vér hafim fengit nakkvat manntjón, kann vera at meira sé af sagt, en satt sé, en þótt satt sé, þá segjum vér með guðs miskunn, at þat er várr hinn mesti styrkr í landinu sem sjálfra vár föruneyti er. Ok því viljum vér eigi gera

sætt við hertuga, fyrr en meir er reynt af várum viðskiptum, þvíat mið höfum enn eigi fundizt sjálfir né barizt undir várum merkjum. En ef við finnumst, ok hafi guð svá fyrir sét ok hinn helgi Ólafr konungr, at ek fá hinn lægra hlut, má þá leita um sættir okkar í milli, en með engu móti líkar oss svá búit at sættast at úreyndum okkrum fundi, ok sjást skulu við mágarnir ok vita, hvárt betr vili vegna, eða þá er aðrir berjast af várri hendi. Skildu þeir at svá mæltu konungr ok erkibyskup.

*Hákon ungi var til konungs tekinn.*

239 (222, 223). Þá lét konungr rannsaka eptir skipum hertuga, tók hann þau til sín, sem honum þóttu sér bezt fallin, en öll önnur váru brend eða höggvin. Þá er konungr var albúinn, lét hann blása til Eyraþings. Var þá út borit skríu hins helga Ólafs konungs ok kross sá er í var lignum domini; þat var sunnudag, hálfum mánaði fyrir páskir. Var þá gefit Hákoni unga konungsnafn; gaf honum sá maðr, er hét Einarr smjörbakr, er síðan var erkibyskup. Konungr hinn ungi sór eið at skríninu eptir réttri siðvenju, þá lendir menn, þá hirðstjórar, ok átta bœndr or hverju fylki. Eptir þat talaði Hákon konungr sjálfr ok sagði svá, at bœndr höfðu gert meira styrk á mót honum, en hann lézt vara, ok þeir ætti at gera við sinn konung, en þó kvezt hann þat þeim eigi mjök mundu kenna at sinni. Þenna dag var erkibyskup í boði konungs, ok gaf hvárr öðrum góðar gjafir.

*Tala Hákonar konungs.*

240 (224). Týsdaginn lagði konungr út til Hólms, en eptir þat gaf honum hœgja byri; suðr kom hann týsdaginn eptir pálmadag til Hegraness. Eptir um myrgininn var blásit öllu fólki til landgöngu. Konungr talaði þá fyrir herinum ok mælti svá: Vér höfum heyrt kurr nökkurn um hríð, at mönnum leiddist rekstr þessi, er

vér höfum haft í vetr; svá eru menn ok nakkvat óttafullir, síðan þér spurðut atburði or Víkinni. Man þat þó flestum mönnum kunnigt, at opt hafa menn meira rekstr haft ok vásbúðir fyrir konungi sínum, allra helzt er eigi hefir enn einn maðr skeinu fengit af öllum várum mönnum. Mundi slíkt þykkja forðum daga lítil þraut, er hér hefir enn í gerzt, ok eigi mundu fornu Birkibeinar skiljast við sinn konung at svá komnu; ok því er sú bœn mín til allra manna, at þér hafizt vel við ok skilizt eigi við oss svá búit, þvíat þat mun údrengiligt þykkja yðarrar handar; en þat mun ek segja yðr, sem vér væntum at sannast mun, áðr en héðan sé liðinn mánaðr, þá skal sumum vera rýmra um hendr innan hirðar, en nú er. Bóndi einn gamall stóð upp á þinginu ok mælti: Ek var í þrimr bardögum með Sverri konungi föðurföður þínum, ok ef hann mælti svá, þá mundi mönnum eigi mikil raun í þykkja at fylgja honum; er þat ok mitt mál, at sá verði allra manna armastr, er nú skilst við sinn konung, þótt meiri raun væri, en nú er. Konungr bað menn þá ganga á skip sín. Ok þegar sem konungr kom til Björgynjar, var ger processía á mót honum, ok urðu allir fegnir hans kvámu.

*Um bréf Bjarnar ábóta.*

241 (225). Þá er konungr kom til Björgynjar, lét hann rannsaka bréf þau er Björn ábóti fór með. Var þar bréf til páva ok keisara ok margra höfðingja út í löndum af hertuga hendi, ok svá var þar mart á, at varla mundi nökkurr maðr trúa, at slíkr maðr skyldi svá mart vilja segja satt ok logit, sem Skúli hafði rita látit. En þó gaf konungr ábóta grið, ok fór hann austr með honum. Margir lendir menn báðu konunginn sitja í Björgyn um páskana ok á fram várit, ok únáða sik eigi svá mjök né sína menn. Konungr svaraði: Með öllu móti sýnist mér þat ekki ráð, þvíat ef vér sitjum hér í vár, er þá sá margr

brautu á skamri stundu, er nú er hér; munum vér eigi kaupa þann styrk svá dýrt ok vána þó til, at vér fám or Gulaþingslögum, svá sem vér þurfum. Mun ok várr styrkr því minni í Víkinni, sem vér komum síðar, ok því skulum vér fara sem skjótast með því liði, sem nú höfum mér, ok þó skulum vér nú fara, þótt vér farim einskipa; en láti guð oss svá langhenda verða, at vér fáim ömbunat hverjum eptir sinni tilstundan. Konungr kvað skyldu endrnýja konungsnafn unga konungs; öllum líkaði þat vel. Var þá blásit til þings skíriþórsdag út í Kristskirkjugarði. Var þá enn gefit Hákoni konungsnafn, sóru þá bœndr or Gulaþingslögum. Konungr sagði þá liðinu, at menn skyldu braut leggja or bœnum langafrjádag, lagði þeim við landráð, er þá dveldist eptir. Lögðu menn út skipunum í Flóruvága ok váru þar um nóttina. Konungr fór um myrgininn inn til bœjar ok hafði þar tíðir, fór síðan til skipanna ok lagði suðr í Grœningasund ok hafði þar eigi meir en 10 skip, ok lá þar páskadaginn. Lét konungr þar reisa tvau landtjöld ok lét veita tíðir sem sœmiligast. Þar váru predikarar ok höfðu rœðu langa um skriptir manna. Sunnanveðr var á hvast, ok sögðu flestir menn svá, at eigi mundi vel byrja, meðr því er konungr vildi eigi dveljast í bœnum slíka hátíð. Af þessu varð konungrinn nakkvat hryggr, er menn drápu þannin dómi á um hans tiltœki, ok er sungnar váru messur, kallaði hann nökkura menn til sín ok sýndi sik vera blíðligan ok bað menn vera í góðum hug, sagði guð mundu vel greiða þeira ferð.

*Frá Skúla hertuga.*

242 (226). Nú er at segja frá Skúla hertuga, at hann sat í Osló ok fór or Víkinni fyrir pálmadag ok austr í Valdishólma. Hann sendi ok skip nökkur austr til Borgar. Var þar fyrir Vilhjálmr or Torgum ok Þórir mjóbeinn. Ok er þetta spurðist til Arnbjarnar Jónssonar,

þá skaut hann skipum á vatn ok fór austr yfir Foldina. Ok er hann kom austr til Borgar, fann hann þar Varbelgi þá, er á skipunum váru. Þar féllu nökkurir menn, en Arnbjörn tók skipin. Ok með því er hann hafði haft erfiði mikit, en Arnbjörn var á efra aldri, þá fékk hann sjúkleika ok lá skamma stund, áðr hann andaðist; ok þótti þat hinn mesti mannskaði, þvíat þat var einmælt, at í þann tíma þótti engi lendr maðr, þvílíkr í Noregi sem hann. Skúli hertugi sat skamma stund um Valdishólma, áðr hólminn var upp gefinn. Fór hann aptr fyrir páskana til Oslóar; þótti mönnum sem þá mundi engi hlutr við honum standa. Petr hertugason var uppi um páskana á Heiðmörk við mikla sveit manna.

*Frá Hákoni konungi.*

243 (227). Ok er konungr lá í Grœningasundi, sem fyrr er ritat, kom þar skúta páskadaginn, ok réð fyrir Guðleikr eðlungr, ok sagði konungi andlát Arnbjarnar Jónssonar ok þat með, at menn mundu vera mjök tvídrœgir í Víkinni, ef konungr kœmi eigi skjótt. Annan dag páska gékk konungr á land snemma ok einn sveinn við honum. Þá var á veðr lítit af landsuðri. Konungr bað menn klæðast ok róa á fjörðinn Harðsæ. Óx þá veðrit. Konungr sté þá á skútu ok reri suðr til Sandtoðru ok hlýddi þar messu, síðan fór hann aptr til skipanna. Tóku menn þá til segls á skipunum. Byrr var góðr þann dag, ok sigldu í Hvítingseyjar um kveldit. Svá segir Sturla:

Lagði rösk
en risu laukar
hilmis hirð
hendr at reipum
en hunskriptr
hreggi blásnar
fylkis ferð
til frama greiddu.

Ok úfár
austr með landi
snekkju brandr
svífa knátti
gulli glæstr
und göfugmenni;
varat auðligr
allvalds floti.

Um myrgininn eptir hlýddi konungr messu ok sigldi þann dag fyrir Jaðar. Ok er þeir kómu fyrir rifit, þá

brast stýrit á konungsskipinu, ok gékk af blaðit alt náliga. Váru þá teknar bryggjur ok árar ok stýrt þar með suðr um nesit. Ok er menn kómu til hafnar um kveldit, var upp lagt þat er eptir var af stýrinu, ok þótti mönnum miklar jarteinir, er með slíku skyldi vera stýrt jafnmiklu skipi. Óðinsdaginn sigldu þeir til Esjunesseyja ok lögðu þar at um myrgininn snemma, ok þá sigldu þeir inn í Víkina. Ok er þeir kómu á Grenmar fyrir sunnan eyna Aur, þá kom móti þeim landsynningr með miklum stormi. Lögðu skipin þá öll aptr til hafnar, þau er eigi féngu beitt. Konungr komst undir land í þá höfn, er Sláttunes heitir. Lá konungr þar um nóttina. Þar spyrr konungr þat, at Knútr jarl lá við Jarlsey ok lendir menn hans, en sumir Birkibeinar váru í Túnsbergi. Hákon konungr sendi Eindriða Bersason til Túnsbergs at segja Birkibeinum, at konungr var kominn í Víkina. Konungr var uppi snemma um myrgininn ok bað menn klæðast. Menn brugðu seint við. Þá mælti konungr: Skjótara munu Varbelgir klæðast í dag, ef þeir fara út til Túnsbergs at lögunautum yðrum, en þér klæðizt nú. Birkibeinar stukku upp sem skjótast ok lögðu or höfninni, ok er þeir kómu jafnfram eynni, rann á byrr, ok tóku þeir til segls. Konungr hugði, at öll skipin mundi um sigld, ok er lýsa tók, þá sigldu utan skipin, hverir sem búnir váru. Lagði konungr þá at Másundum ok beið liðsins, ok hét þar heitum sínum bæði fyrir sér ok sínum mönnum, at allir Birkibeinar skyldu vatnfasta fyrir Ólafsmessu fyrri en fasta hina siðari eða leysa 15 peningum vegnum. Héldu flestir menn vel þessi heit hina fyrstu tólfmánaði en verr síðar.

*Frá Hákoni konungi ok liði hans.*

244 (228). Konungr sigldi þaðan inn til Grindholmasunda. Kom þar á mót honum Gunnbjörn bóndi ok Munan, Ívarr af Skeðjuhofi; þeir sögðu konungi, at Knútr

jarl lá undir Jarlsey ok báðu konung þar at leggja. Hann svaraði: Með því at guð hefir gefit oss þenna byr, þá mun þetta vera sigrbyrr, ok öllum oss til sœmðar munum vér nú þessa neyta með guðs miskunn. Svá segir Ólafr hvítaskáld:

Norðan rendi næst þá er spurðisk
nafnkunnr jöfurr skíðum stafna,
bárur léku bröndum hæri,
brodda hríð fyrir Noregs síðu.

Þrútin lágu veðr á vatni
vinda ript né gramr bað svipta;
snarr yngvi kvað sigrbyr fenginn
sinni ferð at hjaldri stinnum.

Konungr sigldi þá inn eptir sundum, ok er þeir kómu gegnt Jarlsey, lét konungr blása í lúðr sinn. Ok þegar sem Birkibeinar heyrðu lúðrinn, ráku þeir af sér tjöldin ok sigldu inn eptir konunginum, hverir sem búnir urðu. Svá segir Sturla:

Skriðu hafrökn
und höfuðsmanni
inn í botn
Oslu fjarðar,

þar er vegstórr
fyrir vígliði
Skúla öld
of skipat hafði.

Veðrit minkaði, svá sem á leið daginn. Lögðu þeir at um kveldit við Nesodda.

*Konungr skipaði til atlögu.*

245 (228). Þá átti konungr tal við sína menn ok sagði mönnum fyrir um atlöguna. Gunnbjörn bóndi ok Pétr Pálsson ok nökkurir aðrir sýslumenn skyldu róa fyrir vestan Höfuðey ok leggja at við Gyljanda ok ganga austr móti Frysjubrú. Knútr jarl ok þeir Víkverjar Símon kýr ok Eiríkr stilkr skyldu leggja undir bryggjur ok ganga þar upp, en konungr sjálfr ok hirðin skyldu ganga upp við Eikabergsstöð ok koma svá sunnan at bœnum. Skyldu allir jafnsnemma róa undan Höfuðey, ok þó þeir fyrstir, er at bryggjunum skyldu róa. Konungr hafði gert njósn inn til Höfuðeyjar. En fyrir því at honum þóttu þeir seinni en hann vildi, sté hann á skútu eina við nökkura menn ok ætlaði inn til eyjarinnar.

En er þeir koma á miðjan fjörðinn, gerði svá mikit sjómyrkr, at eigi sá stafna í milli, ok því fór konungr aptr til liðsins. Í þessu hafði njósnin um farit ok fundit eigi konunginn. Vissu menn þá eigi, hvar hann mundi vera, ok brast þá sú skipan, sem áðr var ætluð um atlöguna, því at þeir reru ekki norðr, sem ætlat var at ganga upp við Gyljanda. Hákon konungr ungi var þá þar. Konungr lét hann fara á skútu þá, er skjótust var, er hét Kúfinhetta, ok með honum marga góða menn, Vilhjálm kapalín sinn, Ingimund Kolbeinsson ok marga aðra. Þar váru ok eptir tvær skútur aðrar með unga konungi. Konungr bað róa fyrir vestan Höfuðey ok hafa njósn í höfðanum ok sjá þau tiðindi, sem gerast í bœinn, ok ef guð hefir svá fyrir sét, segir konungr, at vér farim úsigr, þá róit út þegar or firðinum ok stundit ekki á Víkverja. Farit til Björgynjar, hvat ráða sem guð leggr þá fyrir yðr. Konungr talaði þá mörgum fögrum orðum fyrir unga konungi, áðr þeir skildu. Eptir þat reru þeir inn, ok lagði konungr at við Eikabergsstöð. Eptir honum sneri Knútr jarl. Ok er konungr kom á land, mælti hann fyrir mönnum sínum á þann hátt, sem fyrrum hafði gert Sverrir konungr. Hann sagði svá:

*Tala konungs.*

246 (229). Flestir munu heyrt hafa getit ok mörgum mun kunnigt vera um skipti vár Skúla. Hafa þau verit mörg ok ýmislig, mörg góð ok mörg til meðallags. Mun hér þó vera, sem mælt er, at sjaldan veldr einn, ef tveir deila. Nú hér á ofan lét hann gefa sér konungsnafn. Síðan sendi hann menn alla vega frá sér ok lét drepa eiðsvara ok sverðtakara beggja okkra, hvar sem staddir váru, ok níddist svá á þeim, er jafngjarna vildu þjóna honum sem mér ok með öllu váru saklausir, ok eigi héldu þeim heldr kirkjur en fjós. Ok enn á þetta ofan sendi hann suðr at oss 14 skútur at láta

drepa mik eða inni brenna, ef þeir kœmi því heldr við, ok sonu vára, ef guð hefði þat lofat honum. Nú hefir hann fengit svá mikinn framgang síðan, at varla finnast dœmi til, at nökkurr hafi þvílikan fengit við jafnmiklum rangindum, allra helzt eptir fund þann, er var á Láku, ok vér létum þar marga góða menn. Nú biðjum vér alla menn þá, sem hér eru komnir,. at þér haldit manndóm við oss, ok nú minnist menn frændaláts ok fjár ok þann skaða, er Varbelgir hafa gert oss, þvíat svá segir oss hugr um, ok þess væntum vér af guði, at nú mun nakkvat at skapast várum skiptum. Minnizt þér nú, hvers þér eigit at hefna, ok hversu rangliga á oss er gengit, ok hversu einarðliga vér eigum at verja frélsi vár ok fé. Minnizt ok þess, þótt Skúli hafi góða drengi við sér, þá höfum vér þó hit bezta mannval, er til er í landinu, ok er því meiri vanvirðing, at várir úvinir fái nökkurn bug á oss eða aptrhnekking, þvíat vér eigum at vera yfirmenn þeira í öllum stöðum. Eptir þat sagði hann dœmisögu þá, er Sverrir konungr var vanr at segja af einum bóndasyni, er fór frá feðr sínum. Nú spyrr karl son sinn: Hversu muntu duga, ef þú kemr í orrostu ok veiztu þat víst, at þar skaltu deyja? Karlsson svarar: Hvat þarf þá annat en berjast sem bezt ok falla með sœmd ok góðum orðstír. Nú væri svá, segir karl, at þú vissir, at þú skyldir braut komast. Sveinn svarar: Mundi þá eigi höfuðnauðsyn at duga sem drengiligast? Nú megum vér þat sjá, góðir vinir, sagði konungr, at þessir tveir eru fyrir hendi, ok engi er til hinn þriði. Síðan bað hann þá geyma, at þeir berðist eigi sjálfir ok kendist sem bezt, ok höfum þat ákall sem Birkibeinar eru vanir: Fram Kristsmenn, krossmenn ok hins helga Ólafs konungs menn!

*Frá konungi ok Skúla hertuga.*

247 (230). Þá er konungr kom fram á brekkuna ok í sýn við bœinn, þá tók at lýsa. Var alt kyrt í bœnum.

Þá mælti konungr: Þat uggi ek nú, at Varbelgir sé braut or bœnum. Þá rendu skipin undan Höfuðey ok var þá hringt herklukkunni í bœnum. Þóttist konungr þá vita, at hertugi mundi vera innan bœjar. Varbelgir sváfu í ymsum stöðum, ok hljópu flestir í konungsgarð, þar sem hertugi svaf. Ok er honum var sagt, at úfriðr mundi vera, klæddist hann ok væpndist. Sneri hann þá upp til Hallvarðskirkjugarðs. Kom þar þá mart hans manna. Sögðu menn þá, at vera mundi Knútr jarl ok lendir menn. Var þá blásit öllu liðinu á Mörtustokka. Varbelgir kváðu þat vera skömm at flýja bœinn fyrir lendum mönnum. Skipti hertugi þá liðinu. Hann skipaði Ólafi af Vígdeild ok nökkurum sveitarhöfðingjum með honum á hit vestra strætit, en hertugi ok mestr þori liðsins sneri ofan móti Hallvarðskirkjugarði. Hertugi sendi Hallvarð stutt ok menn með honum at taka af Geitabrú. Árni rúfa bar merki hertuga.

*Frá konungi ok liði hans.*

248 (231). Þá er konungr var á brekkunni fyrir ofan bœinn, fóru Birkibeinar þá mikinn. Þorsteinn Heimnes bar merki Hákonar konungs. Konungr bað Þorstein eigi fara svá ákafliga, sagði þeim eigi hlýða, er minnr váru fœrir í liðinu. Þá var páskadagr hinn fyrsti sumarsdagr; var þá mjök allr þeli or jörðunni, en svá var blautlent, þar sem Birkibeinar géngu, at leirit tók til knés. Var þeim því þunggengt. Ok er þeir kómu af brekkunni, kómu menn á mót þeim ok sögðu af brúna. Þorsteinn bað þá snúa upp með ánni. Konungr kvað þat ekki ráð. Viku þeir þá at brúnni. Varbelgir tóku þá af þau lög, er næst váru bœnum. Þeir stukku þegar frá, er Birkibeinar kómu at, ok máttu vel hafa 10 menn varit, svá at engi kœmist yfir. Lágu þá yfir 2 ásar. Konungr nefndi til 50 manna at ganga fyrir merkinu. Síðan fór Þorsteinn með merkit, ok mátti ekki öðruvís

ganga en styðja sik við spjótsoddi við annan ásinn, er maðr gékk eptir öðrum. Ok er þeir kómu yfir, stóðu þeir á millum eyrastrætisins ok Nikuláskirkju. Þorsteinn bað þá skunda ferðinni, svá at þeir yrði eigi skjótari, er af skipunum fóru. Konungr bað bíða til þess, er lið kœmi meira yfir brúna. Var þá ok skamt at bíða hans manna. Géngu þeir þá upp eptir strætinu með fylktu liðinu. Ok er þeir kómu jafnfram garði Guthorms Erlendssonar, þá kom Guthormr þar á mót þeim ökulskúaðr ok hafði kápu yfir sér, ok mælti: Guð gæti yðar, herra! mjök fari þér nú háskasamliga svá fámennir. Varbelgir eru hér upp frá yðr með fylktu liði sínu, ok vildi guð nú, at ek væra jafnvel fœrr, sem þá er ek fór í Vermaland með yðr. Konungr svaraði: Haf guðs þökk fyrir þinn góðvilja ok gakk nú aptr, skjótt mun koma lið alla vega til vár. Ok í þessu kom Sigurðr son Hákonar konungs á mót þeim við sveit manna, hafði hann farit dagfari ok náttfari. Var konungi mikil þökk á hans kvámu. Géngu þeir þá allir samt fram eptir strætinu.

*Bardagi.*

249 (232). Uppi við garð Asbjarnar kopps var fyrir Árni rúfa við merki hertuga ok allr þori hins bezta liðsins. Hákon konungr bað þá lúðrsveininn blása. Hann blés tysvar ok heldr lágt. Konungr mælti: Betr blés bikkjuhvelpr þinn í vetr á Björgynjar bryggjum, er þú tókt silfr af mönnum. Hann blés þá hit þriðja sinn, svá at gall í hverjum steinvegg. Konungr bað þá fram bera merkit. Var hann þá nær fremstr sinna manna. Svá segir Sturla:

Gékk allvaldr
und ýgis hjálmi
meginmildr
merkjum fyrri,
en gullsett
gnæfa knáttu
vísa vé
of vala fólki.

En þar fram
fylgja knátti
ræsis hirð
rómu stýri
hildar fús
á hliðar báðar
í gagnför
greypra vápna.

Varbelgir váru sumir uppi í kirkjugarðinum. Skorti þá eigi grjóthríð, hvárirtveggju skutu ok sem máttu. Svá segir Ólafr:

Hallgeislat rauð hvatt í Oslu
hildar tungl með skata mildum,
ræstir þrungu jöfra œstum,
járnfaldit lið, saman hjaldri.
Bröndum blóðgar skífðusk randir,
bleikir féllu menn at velli;
hlífarlauss vá gramr með gæfu,
gyltar sungu hjalta tungur.

Eptir þat brast flótti í liði Varbelgja, því er fyrir utan stóð kirkjugarðinn. Árni rúfa var fyrir mönnum í kirkjugarðinum, Vilhjálmr or Torgum ok mestr þori liðsins. Var nú allhörð hríð, sóttu nú hvárir sem máttu.

*Frá Álfi af Leifastöðum.*

250 (232). Álfr af Leifastöðum sá nú, at þeir mundu verða inni byrgðir. Svá segir Sturla:

Ok inndrótt
elda kyndi
böðvar týs
við bauga renni,
svá at eggfars
eisur stukku
of ilflet
örnis spjalla.

Álfr hleypr nú um garðshliðit ok barðist alldjarfliga. Hann komst ofan til árinnar. Birkibeinar hljópu eptir honum. Álfr féll í ánni, ok er þat flestra manna sögn, at sú hafi vörn ein verit drengiligust, er hann varðist, áðr hann féll. Konungr sneri þá fyrir austan kirkjugarðinn eptir þeim Varbelgjum, er þangat flýðu. Í því bili féll Eysteinn sundrammr ok margir Varbelgir.

*Orrosta á strætinu.*

251 (233). Á stræti því, er hertugi hafði skipat Ólafi af Vígdeild, kómu Birkibeinar á mót honum, þeir er af skipunum gengu. Var þar allhörð orrosta. Margir Varbelgir váru í kastala byskups ok báru stórt

grjót ofan á Birkibeina. Var þat mjök mannhætt, en þó lauk með því, at Varbelgir létu undan, ok sneru sumir inn í kirkjugarðinn. Ólafr af Vígdeild fór upp fyrir norðan kirkjurnar við sinni sveit, Arnfinnr Þjófsson stallari hertuga hljóp norðr til nunnusetrs ok þar í kirkju. Konungr snýr nú upp fyrir norðan kirkju með sitt merki. Váru þar fyrir margir Varbelgir. Þar var sá maðr fyrir, er Grímr á Sandi hét. Váru sumir á húsunum en sumir á smiðjubúðunum, ok grýttu hvárirtveggju á Birkibeina. Þar féll af Birkibeinum Bjarni hestr, hann var bróðurson Karls svanga. Þar urðu margir Birkibeinar sárir, sem Sturla segir:

Flugu hræleiptr  
at hjarar leiki  
geigurlig  
á Gauts himin;  
en randálfr  
rífandi fór  
böðvar ský  
blóðs eldingum.

*Þeir fundust konungr ok jarl.*

252 (234). Þá er konungr kom jafnfram kórsbræðragörðum, þá var þar fyrir Skúli hertugi á hesti ok mart manna, ok er þeir mœttust, réðu hvárigir á. Stóðu Birkibeinar í veisu nökkurri ok þó neðarmeir. Kirkjugarðshliðit var at baki Birkibeinum, ok var þat fult af Varbelgjum. Undir konungsmerkinu var lítit um 20 menn. Var konungr þá háskasamliga kominn, er hertugi var fyrir ofan. Gerði guð þá enn miskunnsamliga við konunginn, er hvárigir réðu á hann, þvíat þá hefði hann verit skjótt í foraði, ok þeir menn, sem með honum váru. Konungr vísaði þá sínum mönnum at garðshliðinu, en hann sneri með merkit á mót hertuga. Þá var mikill vápnaburðr fyrir garðshliðit af grjóti ok skotum, er Birkibeinar báru inn í kirkjugarðinn en Varbelgir út á mót. Svá segir Ólafr:

Snörp bitu járn sem ísmöl yrpi  
óða straumr; með heitu blóði  
herstefnir rauð hamri ofna  
hildar serki framar merkjum.  
Grimmum stóð á Göndlar himni  
grár regnbogi Hnikars þegna,  
harðar lustu fylking fyrða  
fáreldingar meginsára.

Varbelgir þolðu nú eigi lengr vápnaburðinn ok ráku nú aptr hurðina.

*Skúli hertugi flýði.*

253 (235). Skúli hertugi sér nú þessi tíðindi. Hét hann þá á sína menn, at þeir skyldu fram sœkja. Þá svaraði Sóni sikr: Hér er nú merki Hákonar konungs ok hér er hann sjálfr undir. Hertugi svaraði: Eigi skal nú fram at síðr, ok sló hestinn sporum. Þá tók Sóni í taumana ok hélt aptr hestinum. Birkibeinar skutu þá at hertuga nökkurum spjótum, ok kómu engi á. Svá segir Sturla:

Var laushendr
lofða stýrir
á blóðorms
beinu skapti,
en haldsamr
at hjarar leiki
á geirtýs
grœnni málu.

Hertugi snýr þá undan ok allir þeir, sem með honum váru. Svá segir Ólafr:

Aldri börðusk afli stœrðir,
ógnsveipinna blóðgum greipum
hirð sótti þar hvöss at garði,
herrar tveir af drengskap meira.
Undan reið sá er fremstr var fundinn
fyrða gramr at jöfnum burðum;
Sverris ætt fékk sigr at réttu,
svá vildi guð framiðr mildi.

Konungi dróst þá liðit, ok þá bað hann Þorstein snúa eptir hertuga með merkit. En hann kvezt eigi vilja skiljast við garðshliðit, fyrr en þar væri svá skipat, at þaðan væri eigi baksletta ván. Hertugi snýr nú upp eptir götum, kom þá mart til hans Varbelgja. Vánu bráðara kom til konungs Gunnarr frændi hans við sína sveit. Skipuðu þeir þá menn til at sœkja garðshliðit. Fóru menn þá upp á hús við bogum sínum ok skutu sem tíðast. Í því kom Gautr Jónsson við sína sveit. Þá kom ofan frá Þorsteini Ásólfr strykr, ok sagði Þorstein vera of fámennan undir merkinu. Konungr sendi þá Gaut upp undir merkit við sínum mönnum ok mörgum öðrum.

*Frá konungi ok hans mönnum.*

254 (235). Hertugi hafði þá snúit upp á Mörtustokka. Varbelgir féllu þá í götunum hér ok hvar. Þar féll Algauti, en Veseti varð sárr bróðir hans. Ólafr af Vígdeild var þar kominn, ok hljóp hann inn í Lafranzkirkju. Féllu af honum nökkurir menn við kirkjugarðinn. Gautr spurði, ef Ólafr vildi grið. Ólafr lézt gjarna vilja. Gautr bað hann vera í kirkjunni ok treystast eigi meir þeim griðum. Skúli hertugi var nú á Mörtustokkum ok mart hans manna, ætlaði hann þá at snúast á mót Þorsteini, ok í því kom Gautr Jónsson. Sneri hertugi þá á land upp við því liði, sem þá var með honum. Þar váru þá þessir lendir menn, Bárðr vargr, Bárðr bratti, Erlingr ljóðhorn, Veseti litli. Hertugi reið upp til Hofs til Ámunda lögmanns ok át þar mat.

*Atsókn Birkibeina.*

255 (236). Nú sækja Birkibeinar at kirkjugarðinum, svá at nú mega Varbelgir engir út komast. Höfðu þeir ok skipat svá fyrir innan, at Birkibeinar kómust hvergi inn. Ok er konungr sér þetta, þá gékk hann inn í kórsbræðragarð ok þaðan í predikaragarð. En á millum Ólafskirkju ok kórsbræðragarðs var sterkr skíðgarðr en eigi steinmúrr. Lét konungr þar bera á svörðu ok stór reip, ok var niðr feldr skíðgarðrinn; ok í því er garðrinn féll, æptu Birkibeinar. Varð þá við brestr mikill. Varbelgir óttuðust nú ok stukku frá öllum garðshliðunum. Náðu Birkibeinar þá inngöngu. Féll þá mart af Varbelgjum. Svá segir Sturla:

Þar baugsegl
í brímis vindi
branda byrr
blása knátti,
en hrælögr
af hjarar borðum
geigurliga
glymjandi féll.

Ok enn segir hann svá:

Reið blóðlaukr
á berum knerri
örvar áss
járni slunginn,
en gandreið
grœnna skjálda
svölnis vegg
sleit á lopti.

Ok þar félt
feigum hausi
gjallar mans
greypri hendi
Fenris nipt
fylkis dólga
í hjargöll
heiptar blóði.

Vilhjálmr or Torgum var suðr við garðshliðit. Ívarr dýri kallaði á hann ok spurði, ef hann vildi grið. Hann svaraði: Ek veit eigi enn, hvárr okkarr þarf meir annars griða, ok sló Ívar með steini mikit högg á kinnina. Þá mælti Ívarr: Með því at þú kýss hit verra, þá skaltu þat hafa. Féll þar Vilhjálmr. Margir Birkibeinar kendu þar félaga sína, ok féngu sumir eigi grið, þótt bæði, en sumir vildu eigi, þótt boðin væri. Varbelgir sneru þá til suðrdyranna, ok kómu svá margir at senn, at eigi kómust út um hliðit. Féllu Varbelgir þá svá þykt, at 5 eða 6 lágu á þyktina. Var þá unninn sigrinn, sem Sturla kvað:

Þar sigrljóð
syngja knáttu
harða hvell
hvössum munni

í herför
of höfuðmanna
Högna mans
hlýrna dísir.

Í þenna tíma náðu þeir inngöngu Knútr jarl ok Birkibeinar, er váru fyrir vestan kirkjugarðinn. Vestan or kastala byskups váru göng nökkur í kirkjuna, báru Birkibeinar þar á svörðu ok kaðla ok feldu göngin. Váru þar í margir Varbelgir. Þar var í Hákon laukr hirðmaðr hertuga ok enn fleiri, ok létust allir, þá er göngin féllu.

*Konungr hélt eptir hertuga.*

256 (237). Þá er konungr sá, at allir Varbelgir váru komnir í kirkju, þeir sem upp stóðu ok eigi váru grið gefin, þá sneri konungr or kirkjugarðinum ok hljóp á hest einn svartan. Þeir menn leituðu at hestum,

er honum fylgðu, en sumir runnu. Konungr reið upp or bœnum ok var gyrðr sverði, en hafði annat sverð í hendi blóðugt. Hann hafði þá við sér 300 manna. Reið hann þá nökkura hálfa röst, ok féngu þeir enga hesta. Konungr gaf grið öllum þeim mönnum, sem þeir fundu. Þá nam konungr stað ok mælti: Ef Skúli mágr minn hefir hér undan riðit, þá mun hann hafa svá fyrir búit, at oss mun vera ekki gott til hesta, en þessir nú móðir, sem nú ríðum mér. En í bœnum var þat títt, sem þér vissut, at Varbelgir váru komnir í kirkju, ok em ek hræddr um, hversu várir menn halda kirkjugriðin. Munu vér nú snúa aptr til bœjar, en skipti okkur mága fara sem guð hefir fyrir sét. Ferr þá konungr aptr í bœinn. Varbelgir höfðu borit við kirkjuhurðirnar innan, svá at eigi mátti upp brjóta, en Birkibeinar báru utan at viðu, svá at eigi mátti út komast. Konungr fór fyrst til byskups ok tók lausn af honum, ok allir hans menn. Eptir þat lét byskup matbúa konungi, ok snæddi hann þar um hríð. Þeir sátu þá báðir saman at mat Þorsteinn Heimnes ok Árni rúfa. Var konungr þá svá til Árna, sem hann hefði honum jafnan þjónat, ok svá grimmr, sem konungr hafði verit um daginn at fyrirkoma sínum úvinum, þá var hitt ok eigi minnr frá, hversu miskunnsamr hann var þá öllum Varbelgjum. Þar féllu aukin 300 manna ok margir góðir drengir or Þrœndalögum, Bárðr af Guðrekstöðum, Pétr systurson Ívars, Vilhjálmr or Torgum, Grímr af Sandi ok margir aðrir ágætir menn.

*Hákon konungr átti þing eptir bardaga.*

257 (237). Sunnudaginn átti konungr þing í konungsgarði. Lýsti hann þá því, at allir Varbelgir skyldu grið hafa, þeir sem í kirkjum sátu. Fóru Birkibeinar þá til kirkna, ok lęitaði hverr at sínum hugðarmanni. Var þeim þá skipt í sveitir eptir því, sem konungr sá ráð fyrir. Eptir þat var skipt herfangi því öllu, er átt höfðu Varbelgir, eptir siðvenju liðsmanna.

*Frá konungi ok liðsmönnum hans.*

258 (237). Nökkurum 7 nóttum eptir bardagann sendi konungr norðr í land Birkibeina á skútum. Var þar fyrir Ásólfr ok Ívarr Pétrsson, Árni blakkr, Klemet af Hólmi, Ólafr kiðlingsmunni, Bárðr Gróson. Höfðu þeir 15 skútur. Fóru þeir norðr til Þrándheims, en konungr dvaldist í Víkinni at erendum sínum. Konungr hafði fengit sýslu á Raumaríki Gregorio syni herra Andres, en nökkuru fyrir úfriðinn gaf Gregorius upp sýsluna ok fór suðr til Danmerkr við sveinum sínum, ok var með Valdimar konungi vel virðr. Hákoni konungi þótti þessi ferð undarlig, ok um vetrinn er Skúli lét gefa sér konungsnafn, þá sendi konungr suðr til Danmerkr Bjarna Moysesson til móts við Gregorium ok bað hann fara aptr í Noreg, ok hét honum sœmdum, sem hann reyndi trúnað hans til. Fór Gregorius þá aptr í Noreg ok kom til Birkibeina við sveit manna fyrir bardagann á Láku. Hann var ok í Osló með konunginum. Lagði konungr nú á Gregorium hinar mestu mætur ok fékk honum Borgarsýslu. Ok er á leið várit, fór konungr norðr til Björgynjar ok kom þar fyrir hvítasunnudag.

*Frá Skúla hertuga.*

259 (238). Nú er at segja frá Skúla hertuga, at hann reið til Eiðsvallar frá Ámunda, ok svá upp á Heiðmörk ok út í eyna Helgu; var þar fyrir Pétr son hans. Hertugi hafði þá tal við sína menn ok leitaði ráðs, hvat upp skyldi taka. Veseti litli ok Þorgils slyðra báðu hertuga fara austr á Markir ok í Vermaland, sögðu hann þar eigi mundu hafa verit um hálfan mánað, at hann skyldi þá hafa eigi færa lið, en áðr hann barðist í Osló. Erlingr ljóðhorn ok Bárðr bratti ok þeir menn, sem norðan váru or landi, sögðu hertuga ekki hent at rekast um fjöll ok skóga, ok báðu hann fara norðr til Þrándheims til vina sinna ok ráða þar til skipa, sögðu

þat Norðmanna hátt at vera á skipum, ef menn halda úfrið. Var þat af tekit, at þeir sneru norðr, en Þorgils ok Veseti skildust frá ok fóru í átthaga sinn. Hertugi sneri þá norðr í Dala; hafði hann þá níutigi manna. Ok er hertugi kom í Hringabú, þá spurðu þeir, at Birkibeinar váru þar fyrir þeim, Ögmundr krœkidanz, Oddr Eiriksson. Þeir sátu þar við brúna. Hertugi var á litlum bœ skamt þaðan. Varbelgir riðu at fram ok létu kveða við lúðra; kom þá ok hertugi at í því. Birkibeinar hugðu mundu vera liðit Varbelgja meira, en svá sem var, ok stóðu eigi allnær brúnni. Varbelgir fóru þá yfir brúna. Sveif þeim þá saman. Þar féllu tveir hirðmenn Hákonar konungs Ívarr hálmhauss ok Björn. Hertugi reið hvítum hesti, er hét Fótr. Birkibeinar hopuðu upp í fjallshlíðina; 20 menn skutu at hertuga, ok var sem skjöldr hans væri skúfaðr af örum. Hestrinn hafði 7 broddskot, svá at öll stóðu uppi á reyrböndum. Hertugi var ok skotinn í gegnum fótinn við öklat. Birkibeinar hófust undan upp í hlíðina. Ásvarðr harmr hét sá Varbelgr, er fletta vildi Ívar hálmhaus. Þá kom at Árni lági sveinn Pétrs hertugasonar ok hugði Ívar mundu oflítt sáran ok hjó til hans, ok kom höggit á hönd Ásvarði, svá at nær tók af. Þeir fluttu hann með sér norðr til Steigar, en riðu eptir þat leið sína. Var hertuga fenginn hestr annarr, er hét Gautstafr. Þeir fóru nú þar til, er þeir kómu til Þrándheims. Þeir drápu í Uppdal hirðmann konungs, er Halldórr hét. Birkibeinar fóru eptir þeim norðr til fjalls; þá tóku þeir af lífi Ásvarð. Skúli hertugi fór til Niðaróss, ok er hann kom þar, þóttist hann finna, at snúit var skaplyndi manna til hans. Báru þar til margir hlutir: þat fyrst, at þeir þóttust hafa fengit mannalát mikit í Osló, þat annat, at þeir þóttust hafa nú aðrar rœður heyrt sannligri en þær, sem verit höfðu á Eyraþingi, þá er Skúli lét gefa sér konungsnafn, þeir þóttust nú ok enga uppreist sjá hertuga á mót konungi.

Hertugi sat í Niðarósi um várit, en hélt borð í Breiðastofu, en var lengstum í herbergjum sínum ok átti fátt við flesta menn. Hertugi var í krossgildi 3 nætr ok heldr fámálugr. Vinir hans báðu hann gæta sín ok fara varligar. Hertugi kvað Birkibeina eigi mundu fara á skammri stundu millum Þrándheims ok Víkr. Þeir sögðu, at Hákon konungr hefði skemmr farit en líkligt þœtti, ok má enn at svá sé. Var þá send skúta út á fjörðinn.

*Frá Skúla hertuga.*

260 (239). Mánadags myrgin í gagndögum kómu þeir Ásólfr til Niðaróss á úvart. Lagði Klemet at yfir við Bakka við tvær skútur, en Ásólfr lagði til bœjar öllu liðinu. Skúli hertugi vaknaði við úfriðinn. Hljóp hann þá í klæðin ok tók vápn sín, ok allir þeir menn, sem í garðinum váru. Sendi hann þá sveina sína út í bœinn ok bað sína menn alla koma til sín í konungsgarð, en er sveinarnir kómu aptr, höfðu þeir fengit menn enga. Tveim sinnum sendi hann út í bœinn ok fékk ekki af mönnum. Sögðu þeir svá, er sendir váru, at menn allir hljópu í kirkjur. Skúli hertugi lét þá flota skútu, er stóð í konungsgarði, þvíat hann vildi eigi í Kristskirkju. Pétr hertugason var fyrir ofan konungsgarð. Hertugi lét þá kalla Pétr til skútunnar. Sneru þá þangat sumir menn Pétrs ok fluttust yfir ána með hertuga, en Pétr sneri inn í kirkjuna. Bárðr bratti hljóp í Kristskirkju. Hertugi gékk á land upp við Skellingarhellu. Hann bað sína menn sœkja upp til Erlendshaugs, en engi lét sem heyrði. Sóttu þeir þá upp á brekkurnar ok létu skóginn gæta sín.

*Dráp Pétrs hertugasonar.*

261 (239). Pétr hertugason fór or Kristskirkju ok til Predikarakirkju; þeir buðu honum upp á náðir sínar, en Pétr bar eigi traust á þat. Fór hann þá í byskups-

garð ok 4 sveinar við honum. Þeir féngu þar bát einn ok fluttust yfir ána ok fóru til efra Helgisetrs. Fór Pétr þar í hús eitt, er konur váru í bakstri, ok fékk sér vánd klæði, ok duldist. Birkibeinar kómu í bœinn ok rannsökuðu. Váru Varbelgir þá komnir flestir í kirkjur, þeir sem innan bœjar váru. Birkibeinar höfðu af njósn um ferð Pétrs ok fóru upp til efra Helgisetrs ok sendu inn mann í bakstrhúsit, er Jón köttr hét. En er hann kom út, sagði hann þeim, at Pétr var þar inni. Eptir þat leiddu þeir hann út ok drápu. Hann hafði verit meðalmaðr vexti ok þykkr, meir í móðurætt sína yfirsýndar. Hann var vel mentr maðr, klerkr góðr ok trúmaðr; ekki þótti Varbelgjum hann góðr til úfriðar sem hans forellrar höfðu verit. Lík Pétrs var borit til graptar. Fóru Birkibeinar þá aptr í bœinn. Váru þá gervar njósnir alla vega, hvat til hertuga spurðist eða hans manna.

*Frá Skúla á skóginum.*

262 (240). Skúli hertugi var nú á skóginum. Varð hann nú þess víss, at alla vega var njósnum til haldit umhverfum skóginn, svá at hann kœmist eigi á braut. Drifu menn þá frá honum, þeir sem honum höfðu fylgt, svá ok þeir, sem hann sendi braut, kómu engir aptr. Erlingr ljóðhorn fór inn í Tautru ok tók þar við kufli. Hertugi var tvær nætr á skóginum, en óðinsdaginn, er kanokar géngu með krossum, váru hertuga fœrðar kórkápur af klaustrinu, ok gékk hann svá inn í klaustrit með brœðrum. Fór þá hertugi upp í stöpulinn við sínum mönnum. Var þeim þá borinn matr. Þar var þá ok ger hvíla hertuga, ok ætlaði hann at sofa, þvíat hann var allmjök syfjaðr.

*Um dráp Skúla falskonungs.*

263 (241). Birkibeinar féngu njósn af, at menn géngu af skóginum í kórkápum til Helgisetrs. Birkibeinar

hljópu þá til vápna ok féngu sér skip ok fluttust yfir ána. En er þessa varð varr Sigurðr erkibyskup, fór hann til Helgisetrs við marga kennimenn. Þegar sem Birkibeinar kómu at klaustrinu, skutu hertuga menn at þeim or stöplinum, ok er erkibyskup kom, bannaði hann Birkibeinum at ganga at klaustrinu eða gera nökkurn úfrið. Birkibeinar svöruðu ok sögðu svá klaustrit skipat, at nauðsyn var til at gera þar úfrið. Erkibyskup bauð fé fyrir hertuga, at hann fœri í griðum á fund Hákonar konungs. Birkibeinar vildu þat eigi, nema legði at veði stað hins helga Ólafs konungs, ef þat endist eigi, sem hertugi héti. Sumir váru svá ákafir, at þegar lögðu eld í klaustrit; sumir vildu þá slökkva eldinn; tók þá at magnast. Ok er hertugi sá, at þeir vildu brenna klaustrit til hans, rœddi hann um við sína menn, at þeir skyldu út ganga; hljópu þeir þá til dyranna. Gékk hertugi þá út ok hafði buklara fyrir andliti sér. Hann mælti þá: Höggvit þér eigi í andlit mér, þvíat þat er eigi siðr við höfðingja at gera. Eptir þat báru þeir vápn á hertuga ok alla þá, er út géngu með honum, Sóni síkr, Eysteinn orri, Aslákr dyntill, Hallkell á Rygini, Hávarðr kollr, Brúsi dyttr, Árni matjarl. Meistari Bergr var særðr til úlífis ok varð þó grœddr, sem Sturla segir:

Nú mun frægt,
nökkvi síðar
í náreið
á Niðarbakka
við leygför
leggja knátti
rausnar líf
ríkr hertugi.

Ok þar gékk
á Gjallarbrú
ræsis mágr
fyrir riðusóttum
bauga bliks,
er boðar féllu
elda vers
of afarmenni.

Þegar sem hertugi var fallinn, vildu menn slökkva eldinn, en því varð ekki á leið komit, ok brann mjök klaustrit.

*Um gröpt Skúla hertuga.*

264 (242). Lík hertuga var borit á skildi til bœjarins.

Stóð líkit uppi í Nikuláskirkju. Um myrgininn váru Birkibeinar leystir af erkibyskupi, svá at þeir skyldu vera mannværir, til þess er konungr væri fundinn. Var þá búin líkferð hertuga, ok var hon hin sœmiligsta. Var hann jarðaðr í Kristskirkju fyrir sunnan þar undir niðri, sem hann hafði búit um leg Inga konungs bróður síns uppi í steinveggnum. Stóð þar yfir Sigurðr erkibyskup ok allir kórsbrœðr ok mart annarra kennimanna ok nær alt bœjarfólk. Ártið Skúla hertuga er hinn 9 kal. Junii. Hann hafði þá vetr ok fimtugt. Hann var mjök harmdauðr sínum mönnum, þvíat hann var af þeim allvinsæll. Hafði hann marga hluti til þess, fyrst blíðu ok góðar viðrvistir, þar með mildi ok örleik, svá at hann sparði nær ekki við sína menn. Mörgum gaf hann nafnbœtr eða fékk góð kvánföng eða kom til nökkurs þroska, þeim er til hans stunduðu. Varð hann af slíkum hlutum mjök vinsæll. Skúli hertugi gaf bœinn á Reini föðurleifð sína til klaustrs ok lét þar reisa ágætt steinmunstari, ok setti þar nunnuklaustr ok gaf þar stórfé til, ok margan annan höfðingskap hafði hann ágætan. Skúli var heldr hár maðr ok grannvaxinn, ljósjarpr á hár, hærðr manna bezt, réttleitr ok ljóss í andliti, eygðr vel, manna kurteisastr ok hœverskastr, snjallr í máli, vel talaðr á þingum; flesta hluti hafði hann þá með sér, er fríddi góðan höfðingja, ok þat mundi mælt hafa verit, ef eigi hefði þat úgiptuár yfir hann gengit, er hann lifði síðarst, at eigi hefði sá maðr fœzt í Noregi, er betr hefði mannaðr verit, þeira sem eigi váru komnir af langfeðgatali sjálfra konunganna. Hertugi átti engan son eptir, svá at menn vissi þat við sannindum, en þess er at vænta með guðs miskunn, at lengi mun Noregr prýðast af hans ætt ok afkvæmi.

*Frá Birkibeinum.*

265 (243). Eptir þat fóru Birkibeinar braut or Þrándheimi, þeir norðr í Hálogaland, sem þar áttu heima.

Steffán Tumasmágr hét sá maðr, er tók við bréfum Ásólfs, þeim sem hann sendi konunginum. En er Steffán kom til Björgynjar, fann hann Hákon konung í þeiri sömu stofu ok um vetrinn, er Grímr keikan kom með sín tíðindi. Ok er konungr hafði yfir lesit bréfin, þá mælti hann: Á bréfi þessu eru mikil tíðindi tvenn, ok eru þat ill tíðindi, er klaustrit er brunnit á Helgisetri, en þau eru önnur, er Skúli mágr minn er dauðr. Var þá blásit til hirðstefnu ok sagði konungr þá tíðindin allri hirðinni.

*Frá Hákoni konungi.*

266 (243). Hákon konungr sat í Björgyn um sumarit ok efnaði þar til vetrsetu. Þessi var hinn 4 vetr ok 20 hans konungdóms. Um várit á föstu andaðist Valdimarr konungr í Danmörk, son Valdimars konungs Knútssonar, er þann tíma var ágæztr konungr á Norðrlöndum. Hann hafði verit konungr í Danmörk vetri fátt í fjóratigi. Eiríkr son hans tók þá konungdóm; hann hafði áðr verit konungr 5 vetr.

*Drepinn Sigurðr hít.*

267 (243). Um várit fór Hákon konungr austr til Víkr. Hann sendi norðr til Þrándheims Jón tvískafinn. Hann drap Sigurð hít. Hann hafði ekki sæzt við konunginn. Um vetrinn drap Gautr Jónsson Arnfinn Þjófsson; þat sama vár drap Bjarni Moysesson Játgeir skáld í Kaupmannahöfn. Ok er konungr kom austr til Borgar, var þar fyrir Gregorius son herra Andres. Hann vakti þá bónorð sitt ok bað Ceciliu dóttur hans. Konungr tók því vel, ok þat ráð varð framgengt nökkuru síðar. Hákon konungr fór þaðan til Konungahellu ok vildi finna Eirík Svíakonung. Hann sendi til móts við Hákon konung Birgi mág sinn, er þá átti Ingibjörgu systur Eiríks konungs. Þá er Hákon konungr kom í Konungahellu,

kom til hans sá maðr, er Matheus hét, sendr af Friðreki keisara með mörgum ágætum gjöfum. Með honum kómu utan 5 blámenn. Hákon konungr fór um sumarit norðr til Björgynjar ok sat þar nökkura hríð um haustit. Á þessu ári andaðist Gregorius páfi, en í hans stað kom Innocentius. Þetta sama haust tók Gizurr Þorvaldsson af lífi Snorra Sturluson á Íslandi í Reykjaholti. Hákon konungr fór um vetrinn norðr til Þrándheims ok sat þar um vetrinn. Þessi var hinn 5 ok 20 ríkis hans.

*Herra Gregorius gerði brullaup sitt.*

268 (244). Um várit kom sunnan um fjall herra Gregorius, ok gerði þá brullaup sitt ok fékk frú Ceciliu konungsdóttur. Veitti konungr þá sœmiliga veizlu. Eptir þat fór hann suðr til Björgynjar. Þat haust kom af Íslandi Úrœkja Snorrason, ok höfðu þeir tekit hann Kolbeinn ok Gizurr. Ok er hann kom á vald Hákonar konungs, gaf hann honum upp reiði sína, fyrir þat er hann fór út í banni hans, en þó sagði konungr, at hann væri betr til fallinn at deyja en faðir hans, ok eigi mundi Snorri hafa verit drepinn, ef hann hefði komit á minn fund. Var Úrœkja með konungi um vetrinn. Þessi var hinn 6 ok 20 ríkis hans. Hann ætlaði um haustit austr til Víkr, ok er hann kom suðr fyrir Rogaland, þá sneri hann inn í Stafangr; lögðust þá á stormar ok hörð veðrátta. Sneri hann þá aptr til Björgynjar ok sat þar um vetrinn, ok var þessi hinn 7 ok 20 ríkis hans.

*Frá Hákoni konungi ok Skotakonungi.*

269 (245). Þá er Hákon konungr réð Noregi, var Alexandr konungr í Skotlandi son Vilhjálms Skotakonungs. Hann var höfðingi mikill ok œrit ágjarn. Hann sendi menn vestan af Skotlandi til Hákonar konungs, byskupa tvá í fyrstu. Þeir höfðu þat erendi at forvitnast, ef konungr vildi gefa upp ríki þat, sem Magnús konungr

berbeinn hafði unnit í Suðreyjum með nökkurum újafnaði af Melkólfi Skotakonungi frænda hans. Hákon konungr svaraði því svá, at hann lézt vita, at þeir Magnús konungr ok Melkólfr konungr höfðu þat samit alt með sér, hvat ríki Norðmenn skyldu hafa í Suðreyjum; en ekki vald kvað hann Skota þá hafa í Suðreyjum, er hann vann þær af Guðröði konungi, ok kallaðist Magnús þó ganga eptir sínum erfðalöndum. Þá sögðu byskuparnir, at Skotakonungr vildi kaupa löndin með brendu silfri. Konungr kvezt þá eigi vita svá bráða nauðsyn til silfrs, at hann þyrfti þar til löndin selja. Fóru sendimenn við þat á braut. Jafnan sendi Skotakonungr orð um þetta kaup til Noregs, ok fengu Skotar hér engan annan orskurð en þann, sem nú var sagðr.

*Gizurr Þorvaldsson kom af Íslandi.*

270 (246). Þat sama vár, er nú var frá sagt, ok konungr sat í Björgyn, þá kom af Íslandi Gizurr Þorvaldsson á fund Hákonar konungs. Þat sumar fór Þórðr kakali til Íslands, ok átti hann þá miklar deilur við Kolbein Arnórsson þá 3 vetr, er hann sat í Vestfjörðum. Þá er Hákon konungr hafði setit 2 vetr í Björgyn, fór hann um várit norðr til Þrándheims. Þat vár kom Björn ábóti aptr í land. Hann sendi menn fyrir sér til konungs ok bað, at hann mundi í friði vera, ok lézt hafa góð tíðindi fram at bera. Konungr jáði honum þat blíðliga, ok bað hann til sín koma, þegar honum líkaði. Ok er hann fann konung, bar hann honum kveðju páfans ok blezan við bréfi ok með svá fögrum orðum, at varla hefir komit jafnfagrt bréf í Noreg af páfanum. En er á leið, fór konungr norðr; fór þá Björn ábóti við honum. Konungr fór alt í Vík austr. Þat haust andaðist Ormr byskup í Osló. Hákon konungr sat um vetrinn í Víkinni, en Björn ábóti komst eigi lengra með konunginum en í Selju ok andaðist þar í eynni.

*Frá konungi ok byskupum um bréf til páfa.*

271 (247). Þessi var hinn 8 ok 20 ríkis hans. En er konungr hugsaði eptir um bréf þat hit fagra, er páfinn hafði sent honum, þá sendi hann orð Sigurði erkibyskupi ok öðrum byskupum. En er þeir fundust, bað konungrinn byskupana rita með sér til páfa ok biðja orlofs at kóróna konunginn. Byskupar tóku þessu vel ok létust gjarna vilja rita við honum, með því at hann gæfi þeim góðar réttarbœtr. Þeir létu ok þat fylgja, at hann skyldi þann sama eiðstaf hafa undir kórónu, sem Magnús konungr Erlingsson hafði, þá er hann var kórónaðr. Þá svaraði Hákon konungr: Svá framarla hafa konungar áðr ját yðr réttarbótum, at varla megum vér á þat auka. En þó hafit þér enn framar nýttar, en gefnar hafa verit. En ef vér sverjum slíkan eið, sem Magnús konungr hefir svarit, þá virðist oss svá, sem minkaðist vár sœmd í því, heldr en yxi, þvíat Magnús konungr hirti ekki, hvat hann vann til, ef hann féngi þat, er hann var ekki til kominn. En með guðs miskunn þá þykkjumst vér þat eigi þurfa af yðr at kaupa, er guð hefir oss réttliga til kosit eptir várn föður ok forellri. Ok þat skulu þér vita sannliga, at með guðs miskunn skal ek svá frjálsliga at kórónu komast ok án allra afarkosta, svá at vér megim hana frjálsliga bera sem aðrir réttir konungar, ella skal hon aldri á várt höfuð koma. Nökkuru síðar sendi Hákon konungr menn til páfans ok beiddist af honum, at hann sendi sinn kardinála at gera á konungi þá sœmd at vígja hann undir kórónu.

*Viðbúnaðr konungsvígslu.*

272 (248). Hákon konungr sat í Björgyn um vetrinn, ok var þessi hinn 9 vetr ok 20 hans konungdóms. Þetta sumar kómu þeir af Íslandi Gizurr ok Þórðr ok höfðu þá fest í konungs dóm öll sín mál. Konungr fór um haustit norðr til Þrándheims, ok efnaði þar til vetrsetu. Þenna

vetr kómu orðsendingar utan af páfagarði af sendimönnum konungs, ok sögðu, at á því sama ári mundi koma einnhverr kardináli í landit ok gera alla sœmd konungs sem mesta eptir boði páfa. Konungr bað erkibyskup senda eptir öllum byskupum ok ábótum ok öllum hinum skynsömustum lærðum mönnum. Konungr sendi ok orð eptir lendum mönnum ok lögmönnum, hirð sinni ok hinum beztum bóndum. Skyldu þeir koma allir til Björgynjar á því sumri. Hákon konungr sendi ok skip vestr til Englands ok til annarra landa at afla þeira hluta, sem hann kvað á. Knútr jarl var þá í Þrándheimi, ok hafði hann þar setit 4 vetr. Hann hafði þar 4 fylki.

*Kardináli kom í Noreg.*

273 (249). Um várit fór Hákon konungr or Þrándheimi, Knútr jarl ok margir aðrir göfgir menn; þá hafði hann konungr verit 30 vetra. Ok er hann kom til Björgynjar, hugsaði hann með vitra manna ráðum, hversu hann skyldi fyrir búast þess, sem sœmiligast væri. En um ferð kardinála er þat at tala, at hann kom um várit sunnan í England, ok fagnaði Heinrekr konungr honum sœmiliga. Honum var þat sagt af enskum mönnum fyrir sakir öfundar við Norðmenn, at hann mundi engar sœmdir fá í Noregi ok eigi nær mat ok engan drykk utan vatn. Þeir ógnuðu honum hafinu ok grimmleik fólksins. Kardináli svaraði: Þá er ek var firr Noregi, en nú em ek, þá heyrða ek betr um þat fólk talat en svá sem nú, er mér er sagt með sannleik, at þar sé góðr konungr ok skynsamr ok vel kristinn; erkibyskup þeira hefi ek sét, ok trúi ek hann vera góðan höfðingja. Ek hefi til þeira tvau erendi, er ek vænti at öllum góðum mönnum skal vel at getast, þat annat at birta þeim Jesum Krist sannan guðs son, annat at kóróna konung þeira með guðs miskunn ok páfans forsjá. En því kvíði ek eigi, at mik skorti þar mat né drykk. Eptir þat sté kardináli á skip ok ætlaði til Noregs.

*Kardináli kom til konungs.*

274 (249). Vilhjálmr kardináli kom til Noregs Bótólfsvökudag utan at ey þeiri, er Síri heitir. Váru þá konunginum orð ger um ferð kardinála; var þat mjök alt í senn, at konungi kómu orðin ok kardináli kom á váginn. Þat var síð dags. Konungr sendi menn á mót honum ok lét bjóða honum alla hluti sem sœmiligast, en hann kvezt vildu konungs forsjá á sínum ferðum. Um myrgininn er sungnar váru tíðir, þá sté konungr á skip sitt Drekann við hirð sína, en allir sýslumenn, þeir sem í váru bœnum, stigu á sín skip, ok lögðu út til skips kardinála; hann hafði þar eina snekkju enska. Konungr sté á skip kardinála, ok váru þar blíðligar kveðjur; fóru síðan inn at bryggjum. Fögr processía var ger á mót kardinála af byskupum ok lærðum mönnum. Hér eptir lét konungr blása til þings út í Kristskirkjugarð, ok er kardinálinn kom á þingit, þá hóf hann erendi sitt á þessa lund.

*Tala kardinála.*

275 (250). Ek vil öllum mönnum kunnigt gera, at með guðs miskunn ok páfans forsjá kom ek í þetta land at boða mönnum nafn himnakonungs ok kóróna konung yðarn. Eru þessi mín erendi tvenn. Eigi sendi hann til þess einn prest eða lærðan mann með litlu valdi, nema mik, einn af kardinálum sínum með byskups valdi, ok svá miklu, at binda ok leysa öll mál, sem sjálfr páfinn væri, þvíat hann vildi, at þetta væri svá gert, sem konunginum væri mest til sœmdar. Eptir þat talaði hann margfalda trú fyrir fólkinu, ok síðan blezaði hann alt liðit. Eptir þat töluðu þeir jafnan konungr ok kardináli. Erkibyskup kom síðarst allra byskupa, en eptir þat, er þeir erkibyskup ok kardináli höfðu við talazt, þá þóttist konungr finna nökkurn drátt í tali kardinála um vígslugerðina meira en fyrrum.

*Beiðsla kardinála ok svör konungs.*

276 (251). Þat var einn dag, er þeir váru á tali í Kristskirkju konungr ok kardináli, þá mælti kardináli: Með því, herra, at þér ætlit at taka meiri sœmd af heilagri kirkju en aðrir konungar fyrir yðr í Noregi, þá væntum vér, at þér munit játa vilja heilagri kirkju því, sem aðrir hafa ját fyrir yðr, ok með góðu enn um bœta; svá munu þér ok slíkan vilja eið vinna, sem vann Magnús konungr Erlingsson, er fyrstr var kórónaðr í landinu. Hákon konungr svaraði: Ek finn nú, at þessi orð eru, herra, eigi minnr af annarra manna orðum en sjálfra yðar. En þeim réttarbótum viljum vér gjarna já heilagri kirkju ok hennar þjónostumönnum, at hon hafi slíkt frelsi hér sem í þeim löndum, er henni er skipat sitt frelsi, ok hefir þó hvárt sína sœmd heilög kirkja ok konungdómrinn. En þótt nökkurr konungr hafi því ját, er hann átti ekki vald á, er yðr skjótt satt at segja, herra, ef þér vilit oss nökkurskonar kaupmála kórónu gefa, at fyrr viljum vér enga kórónu bera, en nökkut úfrelsi á oss at taka. Kardináli svaraði: Herra, látit þér yðr þetta eigi mislíka, þvíat svá skal vera, sem þér vilit. Eptir þat talaði kardináli við alla byskupana ok sagði svá: Ek talaða við konunginn þeim orðum, sem þér báðut, ok sýnist mér hann hafa sannara í sínu máli, ok því vil ek, at þér vitit, at ek mun kóróna hann frjálsliga, svá sem konungligri tign byrjar.

*Frá konungi ok kardinála.*

277 (252). Margar nauðsynjar rœddi konungrinn fyrir kardinála af hendi þegna sinna, ok fékk konungr þat alt, sem hann beiddi. Hann vígði Postolakirkju í konungsgarði, þá er Hákon konungr hafði gera látit, ok gaf þar mikla aflausn æfinliga. Ok þá er um var rœtt, hvern dag konung skyldi vígja, þá sagði kardináli, at þat mundi vera gert einhverja postolamessu. En með

því at konungr var í ættartölu við hinn helga Ólaf konung, þá vildi hann helzt á hans hátíðardegi þá sœmd taka. Þann tíma var um sumarit regn mikil, svá at engan umbúnað mátti úti hafa. Hákon konungr hafði látit gera eitt mikit hús út undir Knörrum, er til nausts var ætlat. Þat var níræætt at lengð, en 60 álna á breiðann. Þat var einn dag, er þeir gengu þannin konungr ok kardináli, þá mælti konungr: Meðr því, herra, at vér höfum eigi stór hús, sýnist yðr nakkvat, at vér gerim hér veizlu vára, til þess at hér megi fleira fólk hjá oss vera? Kardináli svaraði: Þat þykki mér hit bezta af þeim, sem til eru. Síðan lét konungr þat búa með hinum beztum efnum.

*Frá mannvali í Noregi.*

278 (253). Vígsla þessi var ætluð á Ólafsvökudag. Þar váru við þessir höfðingjar: Vilhjálmr kardináli, Sigurðr erkibyskup, Heinrekr byskup af Hólum, Árni byskup af Björgyn, Áskell byskup af Stafangri, Þorkell byskup af Osló, Páll byskup af Hamri; þessir leikmanna höfðingjar: Hákon konungr ungi ok gamli Hákon konungr, Knútr jarl, junkherra Magnús, Sigurðr konungsson; þessir lendir menn: Gautr Jónsson, Loðinn Gunnason, Pétr Pálsson, Gunnarr konungsfrændi, Munan byskupsson, Finnr Gautsson, Brynjólfr Jónsson, ok margir aðrir. Þar váru 10 ábótar, kórsbrœðr af öllum byskupsstöðum, 5 lögmenn, stallarar konungs ok hirðstjórar, öll hirðin ok hinir beztu bœndr or hverju fylki. Þá var tjaldat með grœnum klæðum ok rauðum millum konungsgarðs ok Kristskirkjudyra bæði yfir uppi ok tveim megin utan at. Í konungsgarði váru landtjöld, ok mátti svá til herbergja ganga, at eigi kendi vætu.

*Um tilskipan konungsvígslu.*

279 (254). Ólafsvökuaptann var á sunnudegi. Messudaginn sjálfan váru sungnar tíðir um allan bœinn, ok

eptir messu var blásit öllu fólki út í Kristskirkjugarð; 80 hirðmanna váru herklæddir, skyldu þeir rýma veginn. Þessi var skipan konungsins til kirkju: Fyrst gékk hirðin, sú er rýmdi veginn; þar næst géngu tveir merkismenn við tveim merkjum, þá skutilsveinar ok sýslumenn við góðum klæðum, þar næst lendir menn með búnum sverðum, þar næst 4 menn, ok báru mikit taflborð millum sín ok þar á konungsskrúðann ok vígsluklæðin. Þá géngu þeir Sigurðr konungsson ok Munan byskupsson, ok báru 2 ríkisvöndu af silfri; gullkross var á öðrum, en á öðrum ari af gulli. Þar næst gékk Hákon konungr ungi ok bar kórónu, þá Knútr jarl ok bar vígslusverð. Erkibyskup ok aðrir byskupar tveir leiddu Hákon konung millum sín. Þar næst við portit í konungsgarði kómu á móti byskupar ok ábótar með processíu ok hófu upp responsorium Ecce mitto angelum, ok géngu svá til kirkju. Kardináli stóð í kirkjudyrum ok við honum 2 byskupar, ok hófu þar upp söng, ok fylgðu svá konungi til altaris. Eptir þat var messa sungin, ok fór vígsla fram, eptir því sem boðit er. Ok er messu var lokit, fylgði erkibyskup ok kardináli ok allir aðrir byskupar konungi heim til herbergis, syngjandi lof guði. Eptir þat afklæddist konungr vígsluklæðum ok fór í konungsbúnað ok bar kórónu þann dag.

### *Um mannskipan.*

280 (254). Eptir þat gékk konungr í herbergi, þar er veizlan var búin, með öllu fólki sínu. Húsit var tjaldat með steindum klæðum ok góðum kultum með pellum gullskotnum. Hinum nyrðra megin við innstafina sat konungrinn, kardináli á hœgri hönd honum, þá erkibyskup, þá byskup af Björgyn, ok þá hverr at öðrum byskupa. Á hœgra veg til sjóvarins sátu ábótar, priores ok prófastar ok aðrir lærðir menn. Í miðri höllinni jafnfram hásætinu var gert annat hásæti, ok sat þar Hákon kon-

ungr ungi ok Knútr jarl, Sigurðr konungsson, ok út ífrá þeim lendir menn. Dróttning sat á vinstri hönd konunginum, ok þá frú Margrét móðir hennar, þá frú Kristín, þá frú Cecilia, þá frú Ragnríðr, þá abbadísar, þá aðrar konur. Við hinn syðra vegginn sat hirð konungs. Var þar tvískipat. Út ífrá þeim sátu gestir. Allir váru skipaðir sessar eptir endilöngu húsinu. Fjöldi var í tjöldum umhverfum hjá herberginu. Hinn fyrsta rétt báru inn þessir lendir menn: Munan byskupsson, Brynjólfr Jónsson, Gunnarr konungsfrændi, Sigurðr byskupsson. Hit fyrsta ker skenkti Hákon konungr ungi feðr sínum, Knútr jarl kardinála, Sigurðr byskupsson dróttninginni, Munan byskupsson erkibyskupi. Eptir þat géngu þeir til sætis síns við öðrum mönnum.

*Tala kardinála.*

281 (255). Þá er menn váru varla mettir, þá lét kardinâli kalla til hljóðs. Hann talaði þá heilaga trú fyrir mönnum. Síðan mælti hann svá: Lofaðr sé guð, at ek hefi nú þat gert, sem ek hefi umboð til af hendi heilagrar Rómaborgar ok herra páfans. Er nú konungr yðarr kórónaðr, er betr er. Þess sé ok guð lofaðr, er ek aptraði eigi ferð minni higat, svá sem ek var eggjaðr. Mér var sagt, at ek munda fá menn sjá, en þótt ek sæ nökkura, þá mundi þat vera líkara dýrum en mönnum í sinni atferð. Nú sé ek hér marga menn ok vel siðaða, hér er ok mikill herr útlenzkra manna ok mikill fjöldi skipa, svá at ek hefi eigi sét fleiri skip í einni höfn, ok trúi ek, at öll munu með miklum gœðum hafa hingat komit. Mér var sagt, at ek munda hér lítit brauð fá ok engan drykk utan vatn, en nú sé guð lofaðr, at ek sé hér alla hluti góða ok betra at hafa en missa. Nú gæti guð konunga várra, dróttningarinnar ok byskupa, lendra manna ok alls fólks, ok gefi mér þat erendi hingat, at yðr sé til fagnaðar ok öllum oss, bæði nú þessa heims

ok annars. Síðan gékk kardináli á braut ok hans menn. Svá kvað Sturla:

Sú kom gipta
af guðs syni
yfir Hákoni
heilli góðu,
er allvald
öflgrar kristni
fyrirmaðr
til friðar vígði.

Ok geðstórr
á grams höfuð
konungligt
kórónu lét;
ok kom kappsnúinn
kardináli
í Björgyn
at boði páfa.

Ok enn segir hann svá:

Frægjan lét þik Vilhjálmr vígja
varbáls hötuðr kardináli;
engi valdist jafngóðr hingat
aldar gramr af páfa valdi.

Kórónu lét kristni stýrir,
kynprýddr jöfurr! yðr um skrýdda,
ramri grund hafit, ríkisvandar
reiðivaldr! með frægðum haldit.

Hákon konungr sat, þá er kardináli gékk.

*Konungr fagnar fólkinu*

282 (255). Ok er drukkit er Maríu minni, fagnar konungr fólkinu. Í þessu sama herbergi var veitt 3 daga með öllum hinum beztum föngum. Eigi skorti þar góðan borðbúnað, ok alls var þar vel til fengit; sem hér segir:

Þar gullker
geiga knáttu
víni full
í vina greipum,
en inndrótt
allra meina
heilivágr
til hjarta féll.

Skaut vínfars
vísa mönnum
á gómsker
gyltu borði,
hilmis hirð
en hunangs bára
í geðknörr
glymjandi féll.

Síðan veitti konungr 5 daga í sjóvarhöllunni í konungsgarði. Þessi veizla stóð 8 daga með fullum veg sínum. Þeir váru hvern dag á tali konungr ok kardináli, byskupar ok lendir menn ok lögmenn, ok ræddu um nauðsynjar landsins. Byskupar ræddu þat fyrir kardinála, at

konungr mundi gefa nakkvat af leiðöngrum sínum heilagri kirkju. Kardináli svaraði: Með því at konungr er yfir öllu landinu, ok hans er alt ríkit, ok vili þér, at hann minki nakkvat af sínum réttum við fólkit, þá skulu þér ok gefa, hverr af sínum tekjum eptir sínum ríkdómi, bæði landsskyldir ok af öðrum tollum þeim, sem þér takit. Síðan gat þessa máls engi maðr optar. Þá kærðu bœndr mjök um, at byskupar tóku tíundir af kirkjum ok aukuðu með veizlur sínar, eða tóku sjálfir til sín. Kardináli sagði þat vandliga af ok kvað kirkju skyldu frjálsliga halda tíundum sínum ok öðrum tekjum, svá sem byskupar sínum. Þá kærðu lærðir menn, er byskupar tóku veizlur eða lausnir af prestum, þótt þeir kœmi eigi í fylkit. Kardináli kvað þat vera bæði móti guðs lögum ok heilagrar kirkju, ok sagði þá engar taka skyldu, ef þeir fœri eigi, nema þeir væri sjúkir eða fœri til konungs eða erkibyskups. Bœndr kærðu þat, er þeir guldu fyrir, ef þeir byrgi föngum sínum á helgum dögum, eða tœki fiska, ef guð gæfi þeim. Kardináli gerði þá skipan á, at menn skyldu bjarga heyvi sínu ok korni ok fiskja síld, ef guð gæfi, utan hæstu hátíðir. Kardináli fyrirbauð járnburð ok sagði, at þat bar eigi kristnum mönnum at sœra guð til nökkurs vitnisburðar um mál manna. Margar skipanir gerði kardináli þær, sem eigi fær hér allar ritaðar.

*Um misþykki brœðra í Danmörk, Eiríks ok Abel.*

283 (256). Svá er sagt, at í þann tíma réð Eiríkr konungr Valdimarsson Danmörk. Gerðist þá sundrþykki með þeim brœðrunum ok hertuga Abel, er þá var yfir Jótlandi. Danir héldu þá ok stríð við Lybikumenn. Var þýðverskum mönnum þá eigi siglanda í gegnum Danmörk. Í Grœningasundi váru rænt nökkur Norðmanna skip af Dönum, svá ok af Lybikumönnum, sumar þat er kardináli var í Björgyn. Þá hafði Hákon konungr látit taka öll skip þau, er váru af Danmörk, tekit var ok fé af

nökkurum kuggum, er þýðverskir menn áttu. En þeir menn, er fyrir þessu urðu, báðu kardinála miskunnar, at hann mundi biðja konunginn, at þeir næði fé sínu. Kardináli flutti þetta við konunginn ok bað hann miskunna þeim fyrir sakir hans ok lét þess meiri ván, at þessir væri eigi sakaðir. Konungr svaraði svá, at hann mundi fyrir orð kardinála láta þá ná fé sínu, en þess kvað hann enga ván, at hann mundi jafnan þola Dönum þann újafnað, er þeir veittu jafnan Norðmönnum. Tóku kaupmenn við fé sínu ok hugnaði þeim vel við konung ok kardinála. Þetta sama sumar var vígðr Heinrekr Karlsson til byskups til Hóla á Íslandi.

*Orðsending kardinála til Íslands.*

284 (257). Þá fór ok sú skipan til Íslands með ráði kardinála, at Íslendingar þjónaði til Hákonar konungs, þvíat hann kallaði þat úsannligt, at land þat þjónaði eigi undir einnhvern konung sem öll önnur í veröldinni. Fór þá út Þórðr kakali með Heinreki byskupi. Skyldu þeir flytja þetta við landsfólkit. Þetta sumar fór til Grœnalands Ólafr byskup. Gizurr Þorvaldsson var eptir í Noregi. Þeir byskup kómu til Íslands um haustit. Þórðr fór þegar til Borgarfjarðar ok tók undir sik ríki þat alt, er átt hafði Snorri Sturluson föðurbróðir hans. Hann tók ok undir sik af konungs valdi ríki Þorleifs í Görðum, fyrir þat er hann hafði út farit í banni konungs, sem fyrr sagði. Ok er Þórðr kom norðr um vetrinn, þá höfðu þeir menn, er helzt váru úvinir Þórðar, kært sín mál fyrir byskupi, ok hafði hann tekit þeira mál á sinn varnað, ok af þessu spiltist þeira vinátta Þórðar ok byskups, ok lauk svá, at þeir urðu á engan hlut sáttir. Var byskup 2 vetr á Íslandi ok fór eptir þat utan á fund Hákonar konungs, ok var hinn mesti úvin Þórðar jafnan síðan, en þeir slógu sér þá saman byskup ok Gizurr Þorvaldsson.

*Um skilnað konungs ok kardinála.*

285 (258). Nú eru sögð nökkur tíðindi, þau er gerðust á fundi þeira Vilhjálms kardinála ok Hákonar konungs. En mörg var sú skipan þeira á millum, er mönnum var til nytsemdar. Kardináli gaf hér fyrir bréf sitt ok innsigli ok lagði við bann ok guðs reiði hverjum, er eigi héldi. Kardináli beiddist þá orlofs or landinu, ok konungr gaf honum gott orlof. Konungr lét þá búa tvítugsessu ok 2 skútur ok byrðing einn. Fór kardináli við þessum skipum á braut. Fékk konungr til Gunnar frænda sinn til skipstjórnar með honum. Konungr gaf kardinála stórar gjafir ok öllum hans mönnum. Hann gaf ok erkibyskupi ok öllum byskupum ok svá lendum mönnum sínum ok öllu hinu bezta mannvali hinar sœmiligstu gjafar. Svá segir Sturla:

Ok þar sat
seggja dróttinn
gulli grimmr
á gjafstóli;
þá hverr maðr
af hringskata
þat er urþjóð
œskja kunni.

Þar sjóðmjöll
svífa knátti
bauga brjóts
af boga fjöllum
harða hrein
hári þjóðu
of gaglfárs
geigurandra.

Þar rann upp
allri þjóðu
mundar dagr
á mergs himin;
skein armsól
jöfra stýris
vísa ferð
of vala grundir.

Ok hafleyg
hauka ferjur
herðimenn
hlaðnar fluttu
dáðum rakks
ok digulsköflum
af allvalds
óskafundi.

Konungr fylgði kardinála út í Flóruvága með öllum skipum sínum, ok skildu þeir þar með hinum mesta kærleik. Fór kardináli þá til Túnsbergs, þá til Oslóar, ok í öllum stöðum skipaði hann málum manna Or Osló fór hann til Konungahellu, ok þar hafði hann almenniligt þing. Kómu þar margir menn af Gautlandi á mót honum.

Var hin sama rœða hans sem fyrr, at hann þakkaði guði þat, er hann kom í Noreg. Síðan fór hann upp í Svíþjóð ok þaðan út til páfa.

*Frá Hákoni konungi ok Haraldi Manar konungi.*

286 (259). Hákon konungr fór um haustit austr til Víkr. Þá kom vestan af Suðreyjum Haraldr Manar konungr son Ólafs Guðröðarsonar. Hákon konungr sat um vetrinn í Osló, ok var þessi hinn 11 vetr ok 20 ríkis hans. Í þenna tíma var konungr í Svíþjóð Eiríkr Eiríksson systurson Valdimars konungs í Danmörk. Úlfr jarl fasi var mestr landráðamaðr í Svíþjóð með konungi. Hann var son Karls jarls daufa, hann var mikill vin Hákonar konungs ok allra Norðmanna. Herra Birgir son Magnús minniskjaldar, er átti Ingibjörgu systur Eiríks konungs, var hinn þriði mestr höfðingi í Svíþjóð. Þenna vetr, er konungr sat í Osló, kom austan af Svíþjóð Ívarr af Dali. Var hann sendr af Svíum at spyrja eptir, hvern orskurð konungr vildi gefa Svíum fyrir úfrið þann, er hann hafði gert í Vermalandi. Konungr svaraði svá, at hann kallar sér enga ofkæti hafa tilgengit at brenna Vermaland, kallast hann eigi mundu hafa komit austr um Eiðaskóg, ef eigi hefði Vermar efldan margan úaldarflokk í Noreg til rána ok manndrápa. En með því, sagði konungr, at hvárirtveggju telja á aðra, þá sé ek þann veg helzt til, at vér finnimst sjálfir ok talim um vár mál. Mun ek þenna fund sœkja austr til landsenda, þar sem mœtast ríkin, þótt nú vili þér þegar í sumar. Ívarr fór nú við þenna orskurð aptr, ok kómu þau orð austan, at Svíar mundu sœkja þessa stefnu. Þá er Hákon konungr sat í Vikinni, flutti Haraldr konungr bónorð sitt ok bað frú Ceciliu konungsdóttur, er átt hafði herra Gregorius. Konungr tók þessu vel, ok með því at þess varð auðit, þá festi hann sér Ceciliu, skyldi brullaup vera um sumarit í Björgyn. Fór konungr þá til Björgynjar ok stefndi til

sín þeim mönnum, sem hann vildi, at fœri með honum um sumarit í þenna stefnuleiðangr. Þá kómu þeir vestan um haf Jón Dungaðarson ok Duggall son Ruðra, ok stunduðu báðir til þess, at konungr gæfi þeim konungsnafn yfir nyrðra hlut Suðreyja. Váru þeir með konungi um sumarit.

*Um bæjar bruna.*

287 (260). Fjórtán nóttum fyrir Jónsvöku urðu mikil tíðindi í Björgyn. Þá varð eldr lauss nær í miðjum bœnum í þeim garði, er Straumrinn heitir. Áðr höfðu gengit mikil þurrviðri, ok lék eldrinn skjótt. Konungr kom til fyrir innan Pétrskirkju, ok ætluðu menn þar at verja eldinum. En þá var svá mikill eldsgangrinn, at menn máttu þar ekki vera. Þá kastaði upp í borgina sumum eldinum. Fór þá konungrinn þannin til ok þá mart manna með honum. Brunnu þar margir menn inni, áðr alþýðan komst út. En er konungr kom aptr í bœinn, þá varði fólkit út við Sandbrú. Kom konungr þar í mikla mannrann, þvíat þá var sem jafnan, ef nökkurs þurfti við, at hann var jafnan fremstr af sínum mönnum. Þar flutu fyrir bryggjum kuggar margir, er komnir váru af Gotlandi. Konungr fór í bát út til kugganna ok fékk þar marga stóra katla. Þeir váru fyldir af sjó ok fluttir svá upp á bryggjurnar. Var síðan sjónum steypt í eldinn, ok varð svá slöktr með guðs miskunn ok konungs giptu. Þar í Björgyn varð ok undarligr hlutr fám dögum síðar, at þar gékk reið með eldingu, ok laust í þekju þess lopts, er junkherra Magnús var inni son Hákonar konungs, ok reif ráfit af um nökkura faðma. En eldingunni laust út á váginn ok kom í siglutré á kjól einum, er flaut fyrir bœnum, ok tók tréit í sundr í smár flísir, svá at nær sá enga staði. Einn hlutr af trénu varð at skaða einum manni, er kominn var á kjólinn. Bœrinn var allr brunninn fyrir innan Sandbrú utan fá garða inn við Vágsbotn.

*Veizlugerð.*

288 (260). Nökkuru eptir bœjarbrunann veitti konungr ríkuliga veizlu í konungsgarði ok gipti Ceciliu dóttur sína Haraldi Suðreyjakonungi. Þá váru ok komnir til konungs þeir menn, sem hann vildi við sér hafa; bjó hann þá ferð sína. Ok þá er hann lá í Salteyjarsundi, þá gaf hann konungsnafn Jóni Dungaðarsyni, ok sat Jón konungr eptir í Björgyn um vetrinn, en Duggall var með Hákoni konungi.

*Lát Haralds konungs ok Ceciliu konungsdóttur.*

289 (261). Haraldr konungr fór um haustit or Björgyn ok frú Cecilia kona hans. Þau höfðu eitt skip, ok var á mart manna. Þat skip týndist um haustit í Dunröst fyrir sunnan Hjaltland, svá at engi maðr komst af. Rekinn kom sunnan á Hjaltland. Þótti Suðreyingum þat hinn mesti skaði, er þeir mistu svá skjótt slíks höfðingja, svá giptusamliga sem nú hafði hans ferð orðit.

*Andlát Úlfs jarls.*

290 (262). Hákon konungr fór um haustit austr til Víkr. Hann lá lengi í Dyngey ok beið Sigurðar erkibyskups. Konungr hafði þá vel 30 skipa. Eiríkr Svíakonungr reið um sumarit í vestra Gautland við miklu liði. Var þar við honum Úlfr jarl ok herra Birgir mágr hans. Þeir kómu til Ljóðhúsa. Var þá Hákon konungr eigi kominn, ok með því at Svíar höfðu litla vist flutt eptir sér, máttu þeir ekki bíða Norðmanna ok riðu upp aptr í Svíþjóð. Þat bar ok til, at Úlfr jarl var nakkvat sjúkr, ok þat sama haust andaðist hann, ok þótti Svíum þat mikill skaði. Eiríkr konungr gaf þá Birgi jarlsnafn. Gerðist hann þá hinn mesti höfðingi; hafði hann þá öll landráð með konunginum. Litlu síðar létu þeir Eiríkr konungr ok Birgir jarl taka af lífi Hólmgeir son Knúts konungs langa, frænda Úlfs jarls ok annarra Folkunga.

En þá fór útlægr af Svíþjóð herra Philíppus, hann átti Elenu dóttur Pétrs Strangasonar. Philippus var dótturson Philippus jarls, er féll í Osló, skyldr frændi Hákonar Noregs konungs.

*Capitulum.*

291 (263). Hákon konungr kom til Konungahellu litlu síðar, en Svíar váru braut. Konungr sendi þá upp í Svíþjóð Einar smjörbak ok Ólaf prófast á fund Birgis jarls at forvitnast af honum, hversu Svíar ætlaði til. Höfðu þeir ok fleiri erendi til jarls.

*Hákon konungr lét setja grundvöll til kirkju.*

292 (264). Hákon konungr fór þá norðr í Víkina ok gaf þá heimleyfi lendum mönnum sínum, en hann ætlaði at sitja í Víkinni um vetrinn. Þetta sumar hafði andazt Þorkell byskup í Osló. En um haustit, er þeir konungr ok erkibyskup váru í Víkinni, var vígðr til Oslóar Hákon, er þar var áðr skólameistari. Fór þá erkibyskup heim norðr. Þetta sumar hafði hann látit setja grundvöllinn til kirkju svá langt vestr, sem nú er. Þessi var annarr vetr hins fjórða tigar ríkis Hákonar konungs. Þenna vetr kómu þeir austan Einarr ok Ólafr af Svíþjóð, ok sögðu jarl vel hafa tekit þeira erendum. Vildi jarl, at þeir konungr fyndist eptir um sumarit í Elfinni ok byndi sætt sína með vináttu. Þeir Einarr höfðu flutt þat mál fyrir jarli, at hann mundi gipta Rikizu dóttur sína Hákoni konungi unga, ok mönnum sýndist þat vænst til friðar, ef mægðir tækist. Tók jarl því vel, ok var síðan í öllum málum linari en áðr.

*Um tíðinda sögn.*

293 (264). Þessi tíðindi spurðust nú til Noregs, at Haraldr konungr ok frú Cecilia höfðu týnzt í hafi. Hugsaði konungr þá um, at eyjarnar váru höfðingjalausar. Hann sendi þá orð norðr til Björgynjar, at Jón konungr

skyldi fara vestr sem skjótast ok vera fyrir eyjunum, þar til er hann gerði annat ráð fyrir. Fór Jón konungr þá vestr um haustit við sínum mönnum.

*Frá Skotakonungi.*

294 (265). Alexandr Skotakonungr ágirndist mjök ríki í Suðreyjum ok sendi jafnan menn til Noregs at fala löndin. Þetta sumar dró Skotakonungr her saman ok býr ferð sína í Suðreyjar, gerir þat bert fyrir sínum mönnum, at hann ætlar eigi fyrr frá hverfa, en hann hefir unnit alt Noregs konungs ríki þat, sem hann kallar sér fyrir vestan Sólundarhaf. Alexandr konungr sendir orð Jóni konungi, at hann vill finna hann, en sá fundr varð eigi fyrr, en 4 jarlar af Skotlandi seldu honum trú sína til þess, at hann skyldi fara í griðum af þeim fundi. En er konungarnir fundust, beiddi Skotakonungr, at Jón konungr mundi upp gefa Bjarnaborg í hans vald ok 3 aðra kastala, er hann hélt af Hákoni konungi ok þat ríki annat, sem Noregs konungr hafði skipat honum; kvezt Skotakonungr mundu fá honum miklu meira ríki í Skotlandi ok þar með vináttu sína. Þessa eggjuðu allir Jón konung, en hann vildi fyrir engan mun rjúfa eiða sína við Noregs konung. Fór Jón konungr við þat á braut. Þá er Alexandr konungr lá í Kjarbareyjarsundi, dreymdi hann draum, at honum þóttu koma at sér 3 menn. Þótti honum einn vera með konungligu skrúði; sá maðr var mjök úhýrligr, rjóðr í andliti ok digr vexti. Annarr maðr sýndist honum hár ok grannvaxinn ok ungligr, manna fríðastr ok tiguliga búinn. Hinn þriði var miklu mestr vexti ok allra þeira úfrýnligastr. Sá var mjök framsnoðinn. Sá mælti við konung ok spurði, hvárt hann ætlaði at herja til Suðreyja. Hann þóttist svara, at þat væri víst. Draummaðrinn bað hann aptr snúa ok kvað honum eigi annat hlýða skyldu. Konungr sagði drauminn, ok báðu menn hann aptr hverfa, en hann

vildi þat eigi, ok litlu síðar tók hann sótt ok andaðist. Rufu Skotar þá leiðangrinn ok fluttu lík konungsins upp í Skotland. Suðreyingar segja þessa menn hafa verit, er konungi sýndust í svefninum, hinn helgi Ólafr konungr af Noregi ok hinn helgi Magnús jarl af Orkneyjum ok hinn helgi Kolumba. Skotar tóku nú til konungs Álexandr son Alexandrs konungs. Hann fékk síðan dóttur Heinreks Englakonungs ok gerðist mikill höfðingi.

*Um ferðir Hákonar konungs.*

295 (266). Hákon konungr bjó ferð sína um várit or Osló ok ætlaði austr til móts við Svía, eptir því sem mælt var. Hann hafði mikit lið ok frítt. Konungi byrjaði seint. Þá var með honum herra Philippus son Lafranz frændi konungs. Konungr lét vanda mjök róðr á skipum sínum út eptir Elfinni. Var þá við slegit öllum búnaði ok farit með öllum prís. Svá segir Sturla:

Mjök er þat frægt
er fara vildi
sigri sœmdr
til Svía fundar
grundar vörðr
góðu heilli
á Randvers
remmiskíðum.

Var leiðangr
sem logi væri
gulli glæstr
af grams flota,
þar er böðtungl
blíkja knáttu
yfir háreið
hvert við annat.

En elding
ifla foldar
langa leið
lýsa knátti,
þá er loflig
litum skipti
himna sól
við hafrauðul.

Þá er Hákon konungr kom til Konungahellu, spurði hann til sanns, at Svíakonungr hafði austan komit ok svá Birgir jarl ok margir aðrir höfðingjar. En er þeir spurðu til ferða Noregs konungs ok þat, at hann hafði fjölda skipa, þá vildu Svíar fyrir engan mun bíða ok fóru upp í Gautland, en jarl var eptir í Ljóðhúsum. Þá

er konungr kom í Elfina, kom til hans sá maðr, er Matheus hét, er síðan varð úsáttr við jarl. Matheus gékk fyrir konung ok heilsaði honum ok sagði, at Birgir jarl var riðinn upp í Gautland, ok hugði hann, at þetta skyldi hafa verit, herra, friðarfundr, ok skyldi þér hafa talat mál yður, en nú, er hann spurði, at þér höfðut her mikinn, nú vissi hann eigi, hvat þér vildut. Matheus flutti eigi lengra, ok fór braut eptir þat.

*Frá sendimönnum milli konungs ok jarls.*

296 (267). Hákon konungr sendir nú Gunnar frænda sinn ok Þorlaug bósa upp í Gautland. Bað konungr þá eigi tala lengra við jarl, en Matheus hafði talat við hann. Síðan fóru þeir ok fundu jarl í Gautlandi. Jarl var heldr stirðr í rœðunni ok talði at því, er konungr hafði svá mikit lið. Gunnarr sagði, at honum gékk eigi útrúnaðr til þess, heldr var þat vani hans at fara með stórum skipum ok vel búnum. Bað Gunnarr þá til Birgi jarl at koma til móts við Hákon konung, sagði Svía eiga þar öll ráð, sem hann var. Eiríki konungi var svá háttat, at hann var fámæltr ok klessmæltr, lét hann því aðra tala jafnan. Birgir jarl gaf þann orskurð, at konungr biði hans fram um annan sunnudag; þetta var laugardagr. Fóru þeir Gunnarr ok Bósi aptr til konungs með þessum orðum, at konungr skyldi fara upp til Ljóðhúsa. Ok er konungi kómu þessi orð, þá bjó hann ferð sína með ráði vina sinna ok fór upp til Ljóðhúsa við öllu liði sínu. Svá segir Sturla:

Svá var Elfr frægðar fólk,
öll at líta er flota þeysti
glæsilig, lofsæll konungr
sem á gull sæi Ljóðhúsa til.

Mikils þótti Gautum um vert, er þeir sá svá mörg skip ok stór ok vel búin, ok mjök váru þeir hræddir, ef

höfðingjarnir sættist eigi, at Noregs konungr mundi gera stór hervirki í landi þeira, sem hér segir:

Var geðsteinn
gauzkum manni
styrjar stund
í stall drepit,
áðr ógnstórr
játat hafði
Svía gramr
siklings boði.

*Frá Heinreki byskupi.*

297 (268). Hákon konungr lagði at Þorskabakka ok beið þar, til þess er jarl kom. Síðan fóru menn millum þeira. Var þá talat bónorð unga konungs ok margir hlutir aðrir. Sendust þeir þá gisla á meðal, ok eptir þat fundust þeir sjálfir með því móti, at jarl fór yfir ána á fund Hákonar konungs, ok töluðu þeir þá sín í milli. Gerðu þeir þá samtekit, at friðr skyldi standa millum landa, ok hvárigir úvinir annarra skyldu eflast í annars ríki, ok hér með festi Hákon konungr ungi jungfrú Rikizu dóttur jarls, ok skyldu þau ráð takast, þá er þeim konungi ok jarli þætti tími til vera. Eptir þat skildust þeir með vináttu. Fór jarl upp í Svíþjóð, en Hákon konungr létti eigi fyrr, en hann kom til Björgynjar. Þat haust kom utan af Íslandi Heinrekr byskup ok sagði Þórð engan hug á leggja konungs mál á Íslandi. Sat konungr um vetrinn i Björgyn, ok var þessi hinn þrettándi ok 20 ríkis Hákonar konungs.

*Um greinir með Svíum.*

298 (269). Um várit kómu menn austan or Svíaveldi með þau tíðindi, at Eiríkr Svíakonungr var andaðr. Var þá grein mikil með Svíum um konungstekjuna. Var þat flestra manna hugsan, at næst væri son Birgis jarls, systurson Eiríks konungs. Philippus son Knúts konungs þóttist nær kominn. Knútr son Magnús brokka þóttist enn standa nær, hann var dótturson Knúts konungs. En þegar Birgir jarl kom til, lét hann engu öðru við koma, en Valdimarr son hans var til konungs tekinn. Váru Svíar ok þess flestir fúsastir.

*Abel tók Eirík konung með vél ok lét drekkja.*

299 (270). Þetta sumar urðu mikil tíðindi í Danmörk. Þá tók Abel með vél Eirík konung bróður sinn ok lét taka hann af lífi Lafranzvöku aptan. Síðan lét hertugi sik til konungs taka yfir Danaveldi ok gerðist ríkr höfðingi. Hákon konungr fór um sumarit norðr til Þrándheims. Þetta haust kómu' þeir utan af Íslandi Sigvarðr byskup ok Þórðr kakali ok fundu konung í Þrándheimi. Var þar þá mart íslenzkra manna: Heinrekr byskup, Gizurr Þorvaldsson, Þorgils skarði, Jón Sturluson, Finnbjörn Helgason, Sæmundarsynir Philippus ok Haraldr, ok var með þeim hinn mesti sveitardráttr, þvíat hvárirtveggju vildu gjarna út fara. Heinrekr byskup flutti þat, at Gizurr Þorvaldsson fœri út, þvíat hann stóð mest á móti Þórði. Þenna vetr kom austan af Svíþjóð herra Knútr, son Magnús brokka, frændi konungsins. Var hann um vetrinn í Þrándheimi ok flutti þat fyrir konungi, at Birgir jarl vildi engar sœmdir til hans gera, eptir því sem hann þóttist til kominn vera.

*Hákon konungr bar kórónu átta dag jóla.*

300 (270). Hákon konungr lét þá hafa um vetrinn mikinn viðrbúnað á mót jólum, þvíat hann hafði mikit fjölmenni. Hinn átta dag bar konungr kórónu. Hafði hann þá í boði sínu alla hina beztu menn, er í váru bœnum. Þessi var hinn fjórði vetr hins fjórða tigar ríkis hans. Um vetrinn fóru orðsendingar millum þeira Abels Danakonungs ok Hákonar konungs. Sendi Hákon konungr suðr Bjarna Moysesson með bréfum, en Abel konungr sendi aðra menn sunnan á móti með sínum bréfum. Var þat mælt, at þeir skyldu finnast um sumarit við landamæri ok semja þá hluti, er Hákon konungr taldi á við Dani.

*Frá sendimönnum Hólmgarðskonungs.*

301 (271). Þenna vetr kom austan or Garðaríki sendimenn Hólmgarðskonungs. Hét sá Mikjáll, er fyrir

þeim var. Kærðu þeir um þá hluti, er við áttust sýslumenn Hákonar konungs norðr á Mörk ok Kirjálar þeir, sem skattgildir váru undir Hólmgarðskonung. Áttust þeir jafnan úfrið við í ránum ok manndrápum. Þeir höfðu ok þat erendi at sjá frú Kristín dóttur Hákonar konungs, þvíat Holmgarðskonungr hafði þat boðit þeim, at þeir skyldu leita eptir, ef konungr vildi gipta frúna syni Alexandrs konungs. Hákon konungr gerði þat ráð, at hann sendi menn or Þrándheimi um várit austr til Holmgarðs með sendimönnum Alexandrs konungs. Var fyrir þeiri ferð Vígleikr prestsson ok Borgarr. Kómu þeir austr um sumarit, ok tók Holmgarðskonungr vel við þeim. Settu þeir þá frið at sinni millum skattlanda sinna, ok hélzt sú sætt eigi lengi. Í þenna tíma var úfriðr mikill í Hólmgarði. Géngu Tattarar mjök austan á ríkit. Var því ekki litit á bónorðit. Kómu sendimenn austan um vetrinn með góðum gjöfum, er Holmgarðskonungr sendi Hákoni konungi; fundu þeir konung í Víkinni.

*Um einkamál með konungi ok jarli.*

302 (272). Hákon konungr fór um várit suðr til Björgynjar ok sat þar um sumarit; þar var þá fjölmenni mikit. Herra Knútr fór norðan með konungi til Björgynjar. Þeir kómu ok þá til Björgynjar herra Philippus ok annarr herra Philippus son Knúts konungs langa. Beiddu þeir Hákon konung mundu fá þeim styrk nökkurn, ef þeir mætti ná ríki í Svíþjóð. En Hákon konungr vildi þat fyrir engan mun at efla úfrið upp á Svía. Váru ok þat einkamál með þeim Birgi jarli, at hvárgi skyldi efla annars úvini. Eptir þat fóru þeir herrarnir suðr til Vindlands ok efldust þaðan at liði, bæði Vindum ok þýðverskum mönnum, ok fóru þaðan upp í Svíaríki ok reistu úfrið móti Birgi jarli.

*Frá Heinreki byskupi ok Gizuri.*

303 (273). Þetta sumar var mart íslenzkra manna með Hákoni konungi. Váru þar margar stefnur at áttar,

hverja skipan út skyldi gera. En þat var af gert, at þeir fóru út Heinrekr byskup ok Gizurr ok Þorgils skarði, ok váru þeim skipuð þau ríki á Íslandi, er konungr hafði þá heimildum á tekit. Sæmundarsynir fóru út á öðru skipi, ok gáfu þeir upp konungi með handfestu, þat manna forráð, er þeir áttu. Skip þat, er Sæmundarsynir váru á, þat týndist ok kómust af 4 menn, en þeir byskup ok Gizurr urðu aptrreka ok brutu skipit ok váru í Þrándheimi um vetrinn.

*Um ferðir Hákonar konungs.*

304 (273). Hákon konungr fór um haustit austr til Víkr ok ætlaði til móts við Danakonung, sem þeir höfðu rœtt. Þat hafði ok verit mælt, at þeir mundu gera tengðir sín á milli, ok mundi junkherra Magnús fá dóttur Abels konungs. Ok er konungr kom til Elfar, váru Danir ekki þar komnir. Fór Hákon konungr þá alt austr til Mustrarsunds. Spurði hann þá, at Danakonungr mundi ekki koma til móts við hann. Sneri hann þá aptr sínu liði ok fór um haustit inn til Oslóar ok efnaði þar til vetrsetu.

*Um úfrið í Svíþjóð.*

305 (274). Þetta haust var úfriðr mikill í Svíþjóð. Höfðu herrarnir þá her mikinn. En er þeir tímar váru komnir, er þeir höfðu á kveðit Hákon konungr ok Birgir jarl, at ungi konungr skyldi drekka brullaup sitt til dóttur jarls, en fyrir úfriði þeim, er hann átti í Svíþjóð, þóttist hann eigi mega þessa stefnu sœkja, tók jarl þat ráð, at hann sendi austan dóttur sína með vegligu förneyti. Váru þar við henni 2 byskupar, Lafranz byskup af Skörum ok Magnús byskup, herra Karl ok margir aðrir ágætir menn. Var þessi ferð búin hit vegligsta. Þetta fólk fann Hákon konung í Osló, ok tók hann við þeim með hinum mestum kærleikum. Svá segir Sturla:

Austan sendi gulli glæsta
Gauta stýrir megindýrum,
seima þollr! með sœmdum öllum
sína dóttur arfa þínum.

Völdugr, tóktu af mestri mildi
málma skerðir! Svía ferðar,
aldir dýrka yðart veldi,
einarsamt við brúðför þeiri.

### *Bruðlaup Hákonar konungs unga.*

306 (274). Nú lét Hákon konungr gera veizlu mikla í Osló. Var nú veitt brullaup unga konungs ok frú Rikizu. Var at þessi veizlu bæði fjölment ok góðment. En er veizlunni var lokit, fóru Svíar heim, ok leysti konungr þá út með sœmiligum gjöfum. En meðan þeir váru í Noregi, urðu mikil tíðindi í Svíþjóð. Þeir höfðu barzt við Hervaðsbrú Birgir jarl ok herrarnir, ok kómu þeir allir á vald jarls, en hann lét hálshöggva þá alla ok marga menn aðra; settist þá úfriðr í Svíþjóð. Um þessi verk váru misjafnar rœður til jarls.

### *Frá Hákoni konungi ok Friðreki keisara*

307 (275). Svá er sagt, at með þeim Hákoni konungi ok Friðreki keisara var hinn mesti félagskapr. Fóru jafnan menn millum þeira með ágætum sendingum. Hákon konungr hafði ritat til keisara, at Norðmenn höfðu eigi frið at sigla til Libiku af þeim ránum, sem fyrr var frá sagt, en keisari hafði vald yfir staðnum. En sumar þat, er Eiríkr konungr var svikinn í Danmörk, kómu utan bréf frá keisara, þau er váttuðu, at keisari hefði sent sín bréf til Libiku með því, at þar skyldu Norðmenn hafa hinn bezta frið. Þat stóð ok á bréfum keisara, at hann mundi gera því meiri sœmd Hákonar konungs en nökkurs manns annars á Norðlöndum, at hann mundi staðinn í Libiku gefa upp í vald Hákonar konungs, svá at hann væri þar frjálsliga yfir bæði herra ok höfðingi, ok kvezt þar mundu setja fyrir sitt innsigli, ef konungr vildi sœkja láta. Hákon konungr sendir nú menn bæði til keisara ok svá til Libiku á vit þessara hluta. Fór þannin Bjarni Moysesson, en til keisara fór sira Askatín ok Ámundi.

Þeir kómu at hinum þrettánda degi í Fenidi ok spurðu þar þau tíðindi, at keisari hafði andazt út á Púli fyrir jól. Hurfu þeir þá aptr ok ætluðu í Svafa á fund herra Konráðs sonar keisara, ok í þeiri ferð váru þeir teknir ok inn settir. Váru þeir í þeiri prísund þar til, er Konráðr spurði, ok hann sendi menn til at frelsa þá. Ok er þeir fundu Konráð, tók hann þeim sœmiliga, en eigi féngu þeir þau erendislok, sem þeir mundu, ef keisari hefði lifat. Er þat mál manna, at hann hafi göfgastr verit af keisörum í hinni síðari æfi. Hann var keisari vetri miðr en fjóratigi vetra. Eptir þat féll niðr keisaradómrinn, svá at engi hefir verit síðan. Fóru þeir Askatín norðr í Noreg, ok fundu Hákon konung í Björgyn ok sögðu honum slík tíðindi, sem váru. Þótti konungi hinn mesti skaði at um keisara. Bjarni kom aptr Moysesson, hafði hann þá gert frið við Libikumenn. Váru þeir jafnan síðan vinir Hákonar konungs.

*Andlát Páls byskups í Hamri.*

308 (276). Hákon konungr sat um vetrinn í Osló eptir brullaup unga konungs. Þá andaðist áðr um várit Páll byskup í Hamri. Var þessi hinn 5 vetr ok 30 ríkis hans. Um várit í föstu andaðist Sigurðr erkibyskup 2 nonas Martii. Í stað hans var kosinn sira Sörli, var hann kórsbróðir í Hamri. Fór hann þetta sumar or landi á fund Innocentii páfa ok fékk vígslu af honum. Sörli erkibyskup vígði 2 byskupa á páfagarði, annan Pétr byskup til Hamars, hann var áðr predikari, annan Rikarð byskup til Suðreyja.

*Fundr Hákonar konungs ok Birgis jarls.*

309 (276). Um várit fór Hákon konungr austr til Elfar ok fann þar Birgi jarl. Kærði Hákon konungr þat fyrir jarli, hvert lausmæli Abel konungr hafði sýnt við hann, er hann hafði rofit stefnuleiðangr við hann.

Jarl sagði ok á mót, at Danir höfðu gert Svíum hinn mesta skaða í ránum ok manndrápum, er þeir höfðu eflt þá herrana. Þeir gerðu nú þat ráð, at þá 12 mánaði skyldu þeir búa her af hvárutveggja ríkinu. Skyldi Hákon konungr hafa skipaher af Noregi, en jarl skyldi hafa 5 þúsundir af Svíaveldi. Skyldu þeir finnast um várit við Elfina. Skyldi Hákon konungr sigla skipaherinum í Eyrasund, en Birgir jarl skyldi ríða suðr um Halland. Skyldu þeir þá finnast suðr í Eyrasundi ok gerà þá ráð sín.

*Frá Heinreki byskupi ok Gizuri jarli.*

310 (276). Eptir þetta skilja þeir, ferr jarl upp í Svíþjóð, en Hákon konungr fór um sumarit til Björgynjar. Þetta sumar fóru þeir til Íslands Heinrekr byskup ok Gizurr ok Þorgils ok Finnbjörn. Tóku þeir þau ríki á Íslandi, sem konungr hafði þeim skipat. Gerðist þá brátt úfriðr mikill á Íslandi, ok brátt urðu í greinir með þeim byskupi ok Gizuri, ok lauk svá, at byskupi þótti Gizurr enga hluti halda þá, sem konunginum váru til sœmdar, ok hann hafði honum heitit. Þeir Gizurr ok Þorgils kómu sér ok eigi saman, þótti Þorgilsi Gizurr eigi halda fullan trúnað við konunginn. Þetta sumar fékk konungr Þórði sýslu í Gaulardal, ok fór hann þannin. Þórðr kakali sendi til Íslands Kolbein grön frænda sinn, ok þótti hann ekki mikill manna sættir, er hann kom til Íslands.

*Um stríð af Abel við Frísi.*

311 (277). Þetta sumar hélt Abel konungr stríð víð Frísi. Vildi hann meiri tolla á þá leggja, en fyrr höfðu verit. Frísir höfðu nökkurn samnað ok létu skógā gæta sín, ok er Abel konungr leitaði eptir þeim, var hann lostinn öru; fékk hann af því bana. Tóku Danir þá til konungs Kristofara bróður Eiríks konungs ok Abels. Tók hann þá undir sik alla Danmörk.

*Um útboðabréf konungs.*

312 (277). Hákon konungr lét búa til vetrsetu í Björgyn. Þessi var hinn 6 vetr hins fjórða tigar ríkis hans. Ok er vára tók, gerði hann útboðabréf um allan Noreg ok bauð út miklu liði með vistum ok skipabúnaði; ætlaði hann her þeim at halda til Danmerkr. Kom þar saman mikit lið um sumarit. Hélt konungr fyrst til Víkrinnar, en hverir sigldu til móts við konunginn, sem búnir váru. Ok er konungr kom til Túnsbergs, lét hann þar eptir frú Margrétu dróttningu ok Rikizu dróttningu, en hann sigldi austr um Foldina. Hákon konungr hafði þá Ólafssúðina, ungi konungr Drekann. Mörg önnur höfðu þeir stórskip. Konungr lagði at í Hermdarsundi; kom þá til hans mestr þori liðsins. Konungr fór þaðan inn í Hrafnholt. Þar stóð skip þat hit mikla, er Gunnarr konungsfrændi hafði gera látit eptir fyrirsögn konungsins, er eitthvert hefir mest gert verit í Noregi. Konungr lét þá fram setja skipit, ok áðr talaði konungr snjalt erendi ok gaf nafn skipinu ok kallaði Krossúðina. Lét konungr þá búa skipit, en hann fór þá til móts við herinn ok sigldi suðr í Ekreyjar ok lét flestan herinn þar liggja. En konungarnir géngu þá á léttiskip ok flestir lendir menn ok lögðu til Elfarinnar ok lágu við Lindishólma. Spurði Hákon konungr, at Birgir jarl var kominn með Svíaher, eptir því sem ætlat var.

*Frá Magnúsi ok Hákoni konungi.*

313 (278). Hákon konungr sendi þá eptir Krossúðinni junkherra Magnús son sinn ok Gaut á Meli. Skyldu þeir sigla henni til Ekreyja. Ok er þeir kómu til skipsins, bjoggu þeir þat at því, sem úbúit var. Þá talaði junkherra Magnús hit fyrsta sinn fagrt erendi, ok fannst mönnum mikit um, hversu snjalt erendi þat var ok úbernsliga fram borit. Ok eptir þat héldu þeir skipinu til Ekreyja. Ok er þeir kómu í höfnina ok köstuðu

akkerum, þá varð svá mikit svif at skipinu, at eldr kom í dokkuna, er þeir brugðu um kaðlinum. Hugðu menn þá, at strengrinn mundi þá brenna, ok tóku tjald eitt ok vættu ok ætluðu at slökkva eldinn. En junkherra Magnús varð því skjótari ok betri fangaráðs, at hann tók byttu eina fulla af drykk ok steypti yfir dokkuna ok kœldi svá eldinn. Þá er Krossúðin kom í lægi hjá öðrum skipum, þá bar jafnhátt borðin á henni ok tjaldásana á Ólafssúðinni. Borðit var 9 alna á Krossúðinni fyrir ofan sjó. Þat var mál manna, at eigi hefði sét jafnmörg stórskip í einum leiðangri. Þótti mönnum sem ekki vætta mundi standa við her Hákonar konungs. Svá segir Sturla:

Öldum segi ek hve úfrið guldut,
unnviggs skipuðr! Dönum sunnan;
víða settu þínar þjóðir
þunnar skeiðr af fyrihlunnum.
Stórir höfðu útboð œrin
yðrir þegnar. rána hegnir!
ýtum þóttit leiðangr lítill
langa stund fyrir víðri grundu.

Framla dreif til hverrar hömlu
hilmis þjóð hins mærðar fróða;
síðan héldut suðr með láði,
seima stiklir! flota miklum.
Hræddar urðu Hallands ferðir,
hringa baldr! af þínu valdi;
engi maðr var Jóta þengils
óttalauss við Noregs dróttin.

*Frá Hákoni konungi.*

314 (279). Hákon konungr hafði með sér marga góða menn. Þar váru tveir konungar, Knútr jarl, junkherra Magnús, herra Sigurðr. Þá er konungr lá í Ekreyjum, kom þar Sörli erkibyskup, var hann þá kominn utan fra páva; en áðr var við konungi Árni byskup af Björgyn, Áskell byskup af Stafangri, Hákon byskup af Osló ok margir aðrir ágætir kennimenn.

*Frá sendiboðum Dana.*

315 (280). Þá er Hákon konungr lá við Lindishólma, var Birgir jarl við Gullbergseið. Hafði hann 5 þúsundir manna. Hákon konungr ungi fór or Lindishólma, Pétr or Gizka ok fleiri göfgir menn, ok váru í boði Birgis jarls. Sunnudag fyrir Jónsvöku fór Birgir

jarl með unga konungi á fund Hákonar konungs, ok töluðu þeir marga hluti með sér. Sagði Birgir jarl konunginum, at sendimenn Danakonungs váru sunnan komnir ok lágu í ánni við Gullbergseið, byskupar 2 af Danmörk ok riddarar 15 ok mart annarra manna, eru þeir sendir til þess at sættast á þær sakir, er Norðmenn telja á Dani. Hér töluðu þeir um mart konungr ok jarl. Jónsvökudag fundust þeir allir samt með viðrtali, ok þótti Norðmönnum Birgir jarl meir flytja mál Dana, en þeir ætluðu. En þá sætt tóku Danir, sem konungr kvað á með hinna vitrustu manna ráði. En sú var sætt, at Danir skyldu fá Hákoni konungi svá mikit fé, sem prófaðist, at Norðmenn hefði engan skaða af þessum úfriði, er þeir höfðu fengit af Dönum. Dœmt var ok nakkvat fé á hendr Hákoni konungi fyrir þat, er Danir töldu at við Norðmenn, ok skyldi þat fé koma fram um haustit, ok svá nökkurr hlutr af því fé, er Danir skyldu gjalda. En fyrir þat, sem eptir stœði, skyldi Halland liggja at veði. En ef Kristofari konungr vildi eigi þetta, þá skyldu sumir riddarar fara með Hákoni konungi, en sumir með Birgi jarli, ok sitja þar, til þess er þeir væri út leystir. Ok er þessi sætt var sett ok samið, váru þar eptir ger bréf ok sett fyrir innsigli byskupanna ok annarra dugandi manna or hvárutveggja ríkinu; sem Sturla segir:

Rán galt randa týnir
rógstríðr Dönum síðar,
fyrst, kom fura lestir
fleyvangs til Ekreyja.

Öld hét gnógu gjaldi
gullstríði þá síðan,
lönd tók lofðungr Þrœnda,
liðbáls, at veðmáli.

Eptir þetta raufst leiðangrinn. Sneri Hákon konungr norðr til Túnsbergs, en jarl fór upp í Svíþjóð. Konungr kom norðr nær Pétrsmessu; gaf hann þá öllum sínum mönnum heimleyfi.

*Um ferð Hákonar konungs.*

316 (281). Hákon konungr fór or Túnsbergi, þegar hann var búinn, ok til Björgynjar ok sat þar um sumarit.

Ok er á leið, sendi hann Áslák gust austr til landsenda með fé þat, sem hann skyldi gjalda Dönum. Ok er Áslákr kom til Elfarinnar, þá kómu þar engir menn af Danmörk at taka við fénu, ok engir at greiða þat fé, sem mælt var. Áslákr fann Birgi jarl, ok sagði jarl honum svá, at Danakonungr vildi, at engi fégjöld fœri fram á því hausti, en hann vildi, at þeir fyndist sjálfir at sumri ok semdi þá alla hluti sín í milli. Jarl var þessa mjök fýsandi. Ok eptir þat fór Áslákr heim. Hákon konungr bjó ferð sína norðr í land ok sat í Þrándheimi um vetrinn. Þessi var hinn 7 vetr hins fjórða tigar konungdóms hans. Um várit í Þrándheimi andaðist Pétr bóndi í Gizka. Hákon konungr bjóst norðan í föstunni ok suðr til Björgynjar. Þetta vár hit sama andaðist Sörli erkibyskup í Þrándheimi tveggja postola messu Philippi ok Jacobi.

*Einarr smjörbakr kosinn til erkibyskups.*

317 (281). Eptir andlát erkibyskups áttu kórsbrœðr tal sín í milli, ok kom þat á samt með þeim, at þeir kuru til erkibyskups Einar smjörbak son Gunnars grjónbaks, en hann var út í París. Fóru þá út meistari Hákon ok meistari Óttarr með bréfum at segja þenna kosning. Ekki höfðu þeir ráð Hákonar konungs við þetta. Hákon konungr fór alt austr til Elfar til móts við Danakonung. Lagði Hákon konungr austr til Lindishólma, en Birgir jarl var við Gullbergseið. Þar kom ok Kristofari Danakonungr, ok var mjök hans traust þar, sem jarl var. En er um sættir var talat, fannst þat á, at Danakonungi þóttu byskupar hit fyrra sumarit hafa miklu frekara tekit, en svá sem þeim hafði boðit verit. Urðu konungar á ekki sáttir, en Birgir jarl vildi öllu halda til þess, at þeir semdi. Þótti Norðmönnum hann alt halla eptir Dönum. Fundr lyktaðist með því, at Danakonungr reið á braut með engum sættum. Reið hann suðr eptir Hallandi ok

lét af taka hverja brú, sem hann kom yfir. Hákon konungr fór norðr aptr í Víkina.

*Andlát Sigurðar konungssonar.*

318 (282). Þetta vár andaðist herra Sigurðr konungsson ok Áskell byskup af Stafangri. Þetta sumar fór til Íslands Sigvarðr byskup at flytja konungs mál. Sigurðr silkiauga fór ok út með byskupi at skynja, hversu einarðliga byskup fœri í konungs málum. Þeir höfðu mörg bréf til Íslands. Váru þar á utanstefningar við Gizur Þorvaldsson ok enn fleiri menn. Ok er þeir kómu til Íslands, höfðu þar orðit mikil tíðindi. Höfðu þeir brent inni sonu Gizurar 3, Eyjólfr Þorsteinsson ok Kolbeinn grön ok margir aðrir menn höfðu at verit með þeim. Gizurr hafði um vetrinn drepit Kolbein grön ok þá 7, en um sumarit drap Oddr Þórarinsson Hrana í Grímsey ok þá 4. Sigvarðr byskup fann Gizur fyrir sunnan land, ok var hann í stórmælum af Heinreki byskupi. Ok er Heinrekr byskup spurði skipkvámuna, reið hann suðr um heiði, ok herðu þeir þá báðir byskuparnir at Gizuri, svá at hann rézt þá þegar utan, en skipaði Oddi Þórarinssyni Skagafjörð, en Þóri tott fékk hann föðurleifð sína. Skyldi hann vera til styrktar við Odd móti brennummönnum. Gizurr kom til Björgynjar. Var Þórðr kakali þar fyrir; var með þeim engi vinafundr. Fór Gizurr þegar austr til Víkr ok fann þar Hákon konung.

*Búin vetrseta á Berginu.*

319 (283). Þetta sama haust lét Hákon konungr búa til vetrsetu á Berginu. Var þessi hinn 18 vetr ok 20 ríkis hans. Þá var Gizurr þar í bœnum um vetrinn, en Þórðr sat á Berginu. Konungr fór um várit til Björgynjar. Þetta sumar kom í land Einarr erkibyskup, fór hann norðr til Þrándheims. Konungi þótti undarligt, er erkibyskup hafði eigi fundit hann. Um sumarit sendi

konungr til Íslands Ívar Englason at flytja erendi sitt á Íslandi með atveizlu byskupanna. Konungr fékk þeim sýslu Gizuri ok Þórði, Gizuri í Þrándheimi, en Þórði í Skíðunni. Þá er Ívarr kom til Íslands, þá höfðu þeir Eyjólfr ok Hrafn drepit Odd Þórarinsson, ok þetta sumar höfðu þeir barizt á Þveráreyrum Þorvarðr Þórarinsson; féll þar Eyjólfr Þorsteinsson. Ívarr var um vetrinn í Skálaholti, ok þótti honum byskup leggja á minna hug konungs erendi, en hann hafði heitit. Fór Ívarr um várit norðr til móts við Heinrek byskup ok Þorgils ok flutti konungs mál fyrir þeim. Höfðu þeir almenniligt þing í Skagafirði ok fluttu konungs mál með Ívari. Kom þá svá, at Eyfirðingar ok Skagfirðingar játuðu at gjalda skatt konungi, ok mestr þori bónda í Norðlendinga fjórðungi, þvílíkan, sem þeir urðu á sáttir. Ívarr fór utan um sumarit, ok þótti honum orðit sitt erendi minna, en hann hugði, ok kendi hann þat mest vinum Gizurar ok fóstbrœðrum ok enn vinum Þórðar kakala.

*Einarr erkibyskup kom til stóls síns.*

320 (284). Þegar er Einarr erkibyskup kom til stólsins, spurði hann þat, at konungi mislíkaði, er hann hafði eigi fundit hann. Fór erkibyskup suðr um sumarit til Björgynjar ok fann þar Hákon konung. Tók konungr honum vel, er þeir fundust. Töluðu þeir marga hluti sín í milli; fóru allar rœður vel með þeim. Erkibyskup var hinn mesti ástvin unga konungs, þvíat hann hafði gefit honum konungsnafn. Erkibyskup beiddi konunginn, at hann mundi nökkut landaskipti gera milli sona sinna at sér lifanda. Konungr átti hér um tal við vini sína; lögðu menn þar allmisjafnt til, sumir vildu, at Magnús hefði þriðjung af landi ok þar með hertuganafn, sumir vildu, at landi væri skipt í helminga, þótt Hákon bæri konungsnafn. Þeir váru enn sumir, er þat mæltu, at engir hlutir mundi misjafnaðir með þeim brœðrum. Kon-

ungr tók hér öllu vel um, en kvað þat mundu bazt gegna, at guð skipti með þeim, ok lyktist með því. Fór erkibyskup heim norðr, ok skildust þeir konungr með vináttu.

*Frá Hákoni unga.*

321 (284). Hákon konungr ungi hafði þetta sumar gert sendimenn út í Spania til konungs af Kastél. Var Elis prestr fyrir þeim sendiboðum. Höfðu þeir hauka nökkura at fœra konunginum ok enn fleiri hluti aðra. Ok er þeir kómu út í Spania, tók konungr þeim allvel ok svá þeim presentum, er honum váru sendar. Váru Norðmenn þar um hríð í góðum fagnaði.

*Bréfasending til Danmerkr.*

322 (285). Þenna vetr sat Hákon konungr í Björgyn, ok var þessi hinn nítjándi ok 20 ríkis hans. Um várit sendi Hákon konungr suðr til Danmerkr Þorlaug bósa ok nökkura menn með honum. Skyldu þeir fara á fund Jacobus erkibyskups. Sendi konungr bréf til hans, skyldi hann senda menn til Danakonungs ok forvitnast, hvárt hann vildi nakkvat halda af sættum þeim, sem gervar váru, þá er konungr lá í Ekreyjum hit fyrra sumarit. En er Þorlaugr fann erkibyskup, fékk hann þar góðar viðtökur. Byskup sendi þegar sína menn á fund Danakonungs. Ok er Danakonungr vissi þeira erendi, hélt hann byskupsmönnum með sér, en sendi sína menn upp á Skáni at taka sendimenn Noregs konungs. Erkibyskup fékk njósn af þessu, fékk hann þá Þorlaugi hesta, ok riðu þeir upp í Svíaríki, en sumir váru eptir með byskupi á laun. Þeir Þorlaugr léttu eigi fyrr, en þeir kómu at hvítadegi til Björgynjar á fund Hákonar konungs, ok sögðu honum frá sínum ferðum ok þau byskups orð, at Danakonungr vildi enga hluti halda, þá sem samdir höfðu verit millum Norðmanna ok Dana. Konungr lét sér fátt um finnast, en vánu bráðara lét konungr flota skipi sínu Ólafssúðinni

ok lét, at hann mundi fara norðr til Þrándheims. En er skipit kom út undir Fenhring, lézt hann mundu fara til Víkr austr. Hann sendi menn austr fyrir sér með bréfum til sýslumanna ok kaupmanna, þeira sem vanir váru at sigla til Danmerkr. Fyrirbauð konungr neinum at sigla lengra en til Ekreyja. Konungr sigldi nú austr til Víkr. Gerði hann þá þegar útboðabréf um alla Víkina ok stefndi til sín öllum lendum mönnum ok sýslumönnum. Dróst þar saman mikill herr ok fjöldi skipa. Hélt konungr her þeim öllum suðr til Ekreyja. Var þar þá komit nær 300 skipa. Svá segir Sturla:

Eigi sátut, jöfra hneitir
ættum góðr! at rofnar sættir,
stirðar bjoggu hirðmenn harðir
herskips stengr, í kyrðum lengi.

Mætum hélt fyrir Elfi utan,
auðit léztu flotnum dauða,
nauða vissu nýjar súðir,
Norðmanna gramr! fyriborðum.

Konungr sendi þá suðr fyrir Halland sumt liðit ok bað þá herja landit ok eyða bæði með eldi ok vápnum. Sumir fóru alt suðr til Glaumsteins; var þar fyrir Ögmundr krœkidanz, Arnbjörn posi, Páll gás, Ámundi Haraldsson. Þriðjung liðsins lét hann ganga upp í Geitkjörrum. Var þar fyrir Jón dróttning, Jón Loðinsson, Þórðr kakali ok enn fleiri sýslumenn or Víkinni. Þeir sigldu allir samt til Mustrarsunds. Svá segir Sturla:

Sníða létu þínar þjóðir
þunnar skeiðr und búnu reiði,
Gautar spurðu leiðangr ljótan,
lunda völl at Mustrarsundi.

Síðan leit er seglum hlóðu,
snarfeugr konungr! yðrir drengir,
lýsa tók af herskips hausum,
hrygðar fólk í Dana bygðum.

Þá er konungr kom í Mustrarsund, váru þar drepnir nökkurir menn af Dönum.

### *Hernaðr í Danmörk.*

323 (286). Bartholomeusmessudagr var á þórsdegi. Þá skipuðust Norðmenn til uppgöngu á Hallandi, en Jón hvártveggi fór inn í Bárðfjörð, ok brendu þar eina kirkjusókn. Síðan héldu þeir suðr til Geitkjarra. Var þar

fyrir nökkurr samnaðr. Féll þar mart af Dönum. Svá segir Sturla:

Allvaldr! réttu því er ýtar héldu
ógnarbráðs at fylkis láði,
prúðar náðu sveitir síðan,
sóknarstrangs, á land at ganga;
stórir létu Halland herjat
hirðmenn þínir, frelsi sínu
víða týndu virða kindir
vægðarlaust fyrir Geitkjörr austan.

Norðmenn géngu víða yfir landit ok drápu menn en brendu bygðir. Svá segir Sturla:

Syngja létu snarpir drengir
sóknar gífr í fleina drífu,
brandar hleyptu ört or undum
œrnu blóði danskrar þjóðar;
víða féllu vegnir þollar,
vígadrótt, í reknum flótta,
faldin gékk þar fast at hildi,
frægra málma, ægishjálmi.

Ok enn:

Styrkir géngu menn und merkjum
málma lunds á víðri grundu,
valgammr sleit at vápna móti
varma bráð, at þínu ráði;
sjálfri skipti örn við úlfa
ógnarbáru höfuðsára
gylðir stóð yfir greypra hauldа,
grimmrar þjóðar, meginblóði.

Þeir Ögmundr krœkidanz géngu ok á land Bartholomeus messu við Glaumstein ok féngu enga mótstöðu, en drápu mart af Dönum. Þeir fóru alt til ár þeirar, er Eiðre heitir, ok brendu þar kaupþorp mikit. Laugardaginn sneru þeir til skipa, ok brendu þá allar bygðir, en fólkit flýði undan. Svá segir Sturla:

Hæstan kyndu hirðmenn traustir
heitan eld á Danaveldi,
skœriligr gékk húsum hæra
hallar gandr á sviðnu landi.
Víða fór um búkarls búðir
birkisótt, en hræddar dróttir,
bragnar eyddu báli slegnu,
brunnit land til skógar runnu.

Um nóttina fyrir sunnudaginn kom á stormr mikill, ok rak nökkur skip frá þeim, en þeir sjálfir géngu á þau, er fest váru með grunnfœrum.

*Um samnað Dana.*

324 (286). Sunnudaginn kómu Danir ofan við mikinn samnað. Þeir drápu nökkura sveina Norðmanna, er þeir fundu á landi. Síðan tóku þeir skip Norðmanna, þau er

frá þeim hafði rekit, ok gerðu á bál stór, ok ætluðu, at þat skyldi reka út at skipum þeira. Norðmenn reru þegar á mót þeim ok kómu á stafuljám á sum skipin ok drógu þau at sér. Varð þeim ekki mein at þessu Litlu síðar brendu þeir staðinn í Aranesi, sem Sturla segir:

Gneistum bratt fyrir Elfi austan
elris garmr í ræfrit varma,
síðan féllu hávar hallir,
hrygðar stund í Dana bygðum.

Hákon konungr lá í Ekreyjum, til þess er herrinn kom sunnan; skiptu þeir þá herfangi sínu. Konungr hugsaði þá við sínum mönnum, hvert ráð þeir skyldu taka, ok var þat af ráðit, at menn váru sendir á fund Danakonungs. Fóru þeir Símun predikari ok bróðir Sigurðr, ok er þeir fundu Danakonung, tók hann þeim seinliga. Lét hann sér mikit um finnast, er Noregskonungr hafði herjat ríki hans; en engan féngu þeir orskurð af Danakonungi, hvárt hann vildi sættast eða halda stríð við Norðmenn. Fóru þeir við þat á fund Hákonar konungs ok sögðu honum allar ræður Danakonungs.

*Frá sendimönnum konungs af Spania.*

325 (287). Hákon konungr fór or Ekreyjum, en hann setti eptir við Elfina Hákon konung son sinn með 10 stórskipum, ok lá hann í Straumsundi. Þessir váru þar skipstjórnarmenn með unga konungi: Ögmundr krækidanz, Veseti, Símun staurr, Loðinn Gunnason, Helgi prestr rauði. Hákon konungr fór þá norðr í land, ok er hann kom á Austragðir, þá kom þar til hans Elis prestr, er ungi konungr hafði sent út í Spania. Sagði hann, at í landit váru komnir sendimenn konungs af Spania, ok hét sá sira Ferant, er fyrir þeim var. Sagði hann þá hafa mörg tíðindi til Hákonar konungs, ok svá, at konungr af Spania vildi vera vin hans ok binda þat með hinum sterkustum tengdum. Sagði þá sendimennina

liggja þar fyrir konunginum í Randarsundi. Ok er konungr kom þar, fundu sendimenn hann ok sögðu honum sín erendi. Konungr bað þá sitja í Noregi um vetrinn, bað hann þá vera í Túnsbergi ok bíða þar, til þess er hann kœmi norðan um várit, ok hann veitti þá orskurð þeira erendum. Kom konungr þá um haustit til Björgynjar ok efnaði þar til vetrsetu. Þat haust kom utan af Íslandi Ívarr Englason ok sagði slík tíðindi, sem gerzt höfðu í hans ferðum.

### *Hákon ungi lagði fégjald á Dani.*

326 (288). Hákon konungr ungi lá um haustit í Straumsundi, sem fyrr er ritat, ok stóð Dönum mikil ógn af honum. Konungr gerði orð um haustit á Halland í þau heruð, sem eigi váru brend, ok lagði á þá mikit fégjald ok kvað á, hversu mörg hundruð nauta þeir skyldu fá honum, ella kvezt hann mundu koma til móts við þá ok gera þeira kost engum mun betra en hinna, er alt var brent fyrir um sumarit. Danir géngu undir öll álög, þau sem konungr lagði á þá. Guldu þeir honum mikinn fjölda nauta, en sumt gjaldit leystu þeir við vaxi ok léreptum ok brendu silfri. Konungr lá í Straumsundi alt til Marteinsmessu. Ungi konungr fór þá til Túnsbergs, en setti þar fyrir Ögmund krœkidanz ok þá, er sýslur höfðu austr þar. Ungi konungr fór eptir jól af Túnsbergi, ok fékk mikit vás, áðr hann náði höfninni í Spjörr fyrir austan Foldina. Gékk konungr þar á land ok fór at veizlum, en hann lét sigla skipunum austr hit ytra. Kom konungr fyrri í Konungahellu en skipin. Sat hann þá í hólmanum í borg við Konungahellu. Var hann þar til föstunnar, en þá kómu bréf til hans frá gamla konungi, at hann skyldi fara til Oslóar ok bíða þar þess, er konungr kœmi þar, ok þeir gæfi þá orskurð um þau mál, er utan váru komin af konungsins á Spania, at konungr mundi gipta Kristín dóttur sína einhverjum

brœðra hans. Hákon konungr ungi kom til Oslóar nær miðri föstu, ok litlu síðar kómu til hans bréf austan or Gautlandi frá Birgis jarls mágs hans, at hann skyldi koma austr sem skjótast til móts við hann. Ok með því at faðir hans var eigi norðan kominn, þá fór hann til Túnsbergs; eptir þat sigldi hann austr til Elfarinnar ok kom til Konungahellu í efstu viku föstu. Þaðan fór hann til Ljóðhúsa, ok var þar fyrir hann Valdimarr konungr mágr hans. Fagnaði hann Hákoni konungi með hinni mestu blíðu. Riðu þeir þá báðir samt upp í Gautland. Ok er Birgir jarl spurði, at Hákon konungr mágr hans var kominn, átti hann tal við sína menn, bað hann alla menn taka við honum sem bezt ok lagði svá ríkt við, ef nökkurr maðr tœki Norðmönnum við spotti eða kallaði bagga eða öðrum hæðyrðum, at hann skyldi engu fyrir týna nema lífinu. Þeir mágar váru allir samt um páskana í Vestra Gautlandi, þar sem heitir í Leinum. Páskadaginn at messu þá leiddi Valdimarr konungr ok Birgir jarl Hákon konung til altaris ok veittu honum alla hina mestu sœmd. Fóru ok allir hlutir sem blíðast með þeim mágum; sat Hákon konungr millum þeira. Skildu þeir við hinni mestu vináttu. Fór Hákon konungr þá ofan til Konungahellu með hinum beztum gjöfum, reið síðan norðr í Víkina. Hann reið jafnan við haukum eða hundum ok skemti sér; ok einn dag, er hann fór austr yfir ána í Gulleyna at skemtan, ok er hann kom þaðan hina næstu nótt eptir, fékk hann sótt. Var þá ok búin ferð hans, fór hann þá á skip ok byrjaði vel. Ok er hann kom at Foldinni, herði sóttin at honum, gékk hann þá á skútu eina ok lét róa með sik til Túnsbergs. Var hann fœrðr upp til munklífis ok lá þar. Kom þá til læknir, sá er farit hafði utan með sira Ferant, ok lagði ráð til um sóttarfar hans. En sóttin þyngði æ því meir, ok andaðist konungr, ok er ártíð hans 2 nóttum eptir krossmessu. Þetta þótti öllum mönnum mikill skaði, þvíat

Hákon konungr var allvinsæll. Hann var örr af fé, heldr hár meðalmaðr, vel vaxinn, fríðr sýnum, hærðr vel, eygðr manna bezt, vel styrkr maðr, manna fimastr, allra manna bezt hestfœrr. Lík Hákonar konungs var fœrt inn til Oslóar; var hann jarðaðr í Hallvarðskirkju hjá Sigurði konungi Jórsalafara.

*Frá Hákoni konungi.*

327 (289). Hákon konungr sat þenna vetr í Björgyn; var þessi hinn fertugundi vetr ríkis hans. Konungr gerði þá útboðabréf um Noreg. Váru minstar nefndir um Hálogaland, en því meiri sem sunnar váru. Hann sendi orð erkibyskupi ok öllum lýðbyskupum, at þeir kœmi á hans fund sem skjótast. Þá lét hann flota Maríusúðinni, er hann hafði gera látit, ok er hon var fram sett, hraut eldr or hlunnunum. Svá segir Sturla:

Hrinda réð út herskips bröndum
hilmir frægr á saltan ægi,
eldi hrauð fyrir œsiköldum
unnar meið or dregnum hlunni.

Almenningr varð út at sinna,
ógnar lundr! á þinni grundu;
mildir höfðu herboð hauldar
harða sveld or Noregs veldi.

*Hákon konungr spurði andlát Hákonar sonar síns.*

328 (290). Hákon konungr hélt þá austr til Víkr, ok er hann kom fyrir Agðir, frétti hann andlát Hákonar konungs sonar síns. Þótti honum þat, sem var, mikil tíðindi ok þungr skaði. Fór hann þá fyrst til Túnsbergs ok stefndi þangat öllum byskupum ok hinum vitrustum mönnum til ráðagerðar, hversu svara skyldi þeim erendum, er sendimenn af Spania höfðu til hans ok jungfrú Kristínar. Öllum vitrum mönnum sýndist þetta sœmiligt gjaforð, ef gipta vildi fylgja. Var þat konungs atkvæði með vina sinna umráði, at já sendimönnum því, at hann mundi jungfrú Kristín dóttur sína senda út í Spán, eptir því sem konungrinn hafði orð til sent, með því móti at jungfrú skyldi kjósa sér til manns af brœðrum hans þann,

sem henni líkaði ok þeim beztum mönnum, sem Hákon konungr féngi til fylgðar ok föruneytis með henni út. Eptir þat lét konungr búa ferð þeira ok ætlaði menn til ferðar við henni. Var þar fyrir Pétr byskup af Hamri, Símun predikari ok enn fleiri lærðir menn, Ívarr Englason, Þorlaugr bósi, Loðinn leppr, Ámundi Haraldsson ok margir aðrir ágætir menn. Þar váru ok margar konur af þinum beztum ættum. Konungr lét ok fara með henni svá mikit gull ok silfr ok skinnavöru hvíta ok grá ok í öðrum dýrgripum, at engi maðr vissi dœmi til, at þvílíkt fé hefði greitt verit með nökkurri konungsdóttur fyrr af Noregi. Konungr lét búa þeim eina snekkju mikla; váru þar ger í herbergi, á annat borð jungfrú, en annat borð váru ger sira Ferant, þvíat hann mátti ekki uppi vera fyrir sjóverk. Svá segir Sturla:

Errinn sendi ungan svarra
út í lönd á geima þrútinn,
aldri frétti jöfra dróttins
œðri ferð af heimangerðum.

Allir tóku yppiþollar
unnartams fyrir lægi sunnan
árablakks, sem allvaldr væri,
innan lands við dóttur þinni.

Þau létu í haf, þegar þau váru búin, ok tóku land við Járnamóðu í Englandi.

*Um liðdrátt.*

329 (291). Hákon konungr dró nú saman lið mikit í Víkinni. Svá segir Sturla:

Norðan héldu alt of öldur,
auðar lundr! við þik til fundar,
húfar treystu drifnar dúfur,
dygðar menn or Finna bygðum.

Svífa léztu or hverju hrófi
hlaðnar skeiðr á vatnit breiða,
sandi jós um stálin steindu
storðar gandr, fyrir Elfi norðan.

Þá er konungr var í Túnsbergi, kom sunnan af Danmörk Absalon predikari, er provincialis var af öllum predikaraklaustrum í norrœnni tungu. Hann var sendr af Danakonungi á fund Hákonar konungs þeira erenda, at Danakonungr vill, at þeir finnist ok sættist með hinna beztu manna ráði. Konungr bar þetta fyrir vini sína, ok þótti

mörgum þat eigi mega fyrir alvöru taka, er Danir mæltu. Konungr gaf þann orskurð bróður Absalon, at hann mundi sigla suðr til Danmerkr með spekt ok friði, ok kœmi þá Danakonungr þar til móts við hann, ef hann vildi. Fór Absalon suðr til Danmerkr við þenna orskurð, ok með honum Sigurðr príorr, er jafnan hafði þar á millum farit.

*Um sigling Hákonar konungs.*

330 (291). Eptir þetta fór Hákon konungr af Túnsbergi. Hann hafði Maríusúðina, þat var dreki þrítugr at rúmatali, allra skipa bezt þeira, sem ger hafa verit í Noregi. Höfuðin váru gulli lögð ok svírarnir. Mörg hafði Hákon konungr önnur stórskip. Seglit var sett með fögrum skriptum; svá þótti at sjá í sólskininu, sem eldar brynni af höfðunum. Svá segir Sturla:

Digla eldr var sénn í segli,
sviptilundr! á dýrðarskriptum,
rísa tóku roðnir hausar,
Rínar loga, yfir dreka þínum.

Unnar, þóttu eisur brenna
Ullar fars af slegnu gulli,
fasti rauð, yfir flota glæstum,
flesta rönd á skeiða bröndum.

Þá er konungr sigldi austr um Foldina, sigldu Harðengrir Þórir Grípsson ok Bárðr Gróson á skip Einars erkibyskups ok af stafninn í kinnvangnum, ok fauk alt senn á sjóinn, stafninn ok skildirnir, þeir sem við váru. Veðrvitana festi í seglinu þeira Þóris, ok sigldu þeir á braut með þá. Erkibyskup lét taka stafninn ok skjölduna; lét síðan setja í skipit ok festa sterkliga ok skjalda um. Síðan sigldi hann til Ekreyja ok fann þar konunginn. En þegar konungr vissi, at skip erkibyskups var brotit, þá mislíkaði honum þat mjök, en sumir mæltu, at miðr væri brotit, en byskupsmenn sögðu. Byskup lét þá taka frá stafninn, ok rak hann þar um strandir. Erkibyskup var ekki margr við alþýðuna.

*Ráðagerðir Hákonar konungs.*

331 (291). Þá er Hákon konungr lá í Ekreyjum, átti hann jafnan tal við sína menn. Talaði hann um

skaða þann, sem hann hafði fengit í fráfalli unga konungs, en þó höfum vér enn góð efni í váru máli, sagði konungr, ef þér vilit, at vér takim til konungs junkherra Magnús í stað þess, er nú er fráfallinn. Allir menn gerðu at þessu góðan róm ok létust þat gjarna vilja. Þá mælti konungr: Herra erkibyskup, þá er vér áttum at tala um landaskipti með sonum mínum, váru þér mjök fýsandi, at Hákon skyldi einn bera konungsnafn eptir minn dag, en junkherra Magnús skyldi vera hertugi. Þótti yðr þat kynligt ok mörgum öðrum, er ek vilda ekki skipti á gera opinberliga, en mér þótti vant at mismuna með þeim jafnbornum. Skaut ek þá sem jáfnan mínu máli til guðs, at hann skyldi skipta með þeim. En nú er svá til borit, at sá er frákallaðr, er allir vildu hefja, en hinn lifir eptir, er þér vildut ok enn fleiri aðrir minni sœmdar unna, en hann var til kominn. Erkibyskup svaraði: Játa ek því, herra, at ek vilda, at einn væri senn konungr yfir Noregi, unna ek þess engum manni jafnvel sem Hákoni. En með því at guð hefir hann nú kallat frá oss, ann ek nú engum manni jafnvel konungstignar sem Magnúsi syni yðrum. At þessu gerðu menn allmikinn róm, þvíat þat þótti mörgum varligra, at landit væri eigi konungslaust, meðan Hákon konungr væri suðr til Danmerkr.

*Magnús Hákonar konungs son til konungs tekinn.*

332 (292). Jónsvökudag átti Hákon konungr almenniligt þing í Ekreyjum. Var þá til konungs tekinn junkherra Magnús. Gaf honum konungsnafn Einarr erkibyskup. Eptir þat sór hann lög ok réttindi öllu landsfólki at ligno domini. Síðan sór Knútr jarl eið Magnúsi konungi, þar eptir lendir menn, stallarar ok skutilsveinar, eptir þat 12 bœndr or fylki hverju. Þann dag veitti Magnús konungr öllum hinum beztum mönnum. Hann gaf erkibyskupi skip hálfþrítugt at rúmatali, hinn bezta grip, ok margar

aðrar gjafir; hann gaf öllum hinum beztum mönnum sœmiligar gjafir. Tók hann sér þá mikla sveit ok þá flesta, er þjónat höfðu Hákoni konungi bróður hans. Skyldi hann þá vera eptir í Noregi til landsgæzlu.

*Frá konungi ok Magnúsi konungi, er hann fór til Túnsbergs.*

333 (293). Þá er þessir hlutir váru skipaðir, lagði Hákon konungr braut herinum or Ekreyjum, en Magnús konungr fór til Túnsbergs ok sat þar um sumarit. Hákon konungr hafði til Danmerkr 300 ok 15 skip. Þessi floti þótti allglæsiligr. Svá segir Sturla:

Œrin var sem elding væri,
inn um borð, á legi norðan,
öldum varp, er húfum héldut,
hilmis kundr! til jörmungrundar.

Víða þurðu vísa ferðar
veglig flaust und búnu segli;
geiga létuð gyltar sýgjur,
grundar vörðr! at Eyrasundi.

Konungr hélt herinum til Eyrasunds. Svá segir Sturla:

Renna þótti upp á unnum
alla leið af flota breiðum
hilmis frægs, þar er herskip lágu,
himna eldr, í Danaveldi.

Þengill kom þar engi annarr
innan lands, svá at dœmi finnisk,
ræsir! stýrðut rétt til jarðar
ríkilátr, með afla slíkan.

Hákon konungr kom til Kaupmannahafnar týsdaginn, en Danakonungr kom í staðinn frjádaginn; hann hafði her mikinn ok marga herra; þar var Jacob erkibyskup af Lund ok 3 lýðbyskupar. Fóru menn þá í millum þeira, ok var þar langt máls á millum konunga, ok vildu Norðmenn þá herja, en Hákon konungr hafði gefit Dönum 6 nátta grið, at hann mundi eigi herja á þá. Svá kvað Gizurr Þorvaldsson, er þá var með konungi:

Snjallr bauð örgrant öllum
allvaldr griðum halda
naðrs glóstrætis njótum
nætr sex ok frið gæta.

Einarr erkibyskup gékk mest eptir sættaumleituninni ok margir aðrir við honum, en hvárum þótti sinn skaði meiri. Var þá þat mælt, at hvárr konunga dœmdi sinn

skaða ok sinna manna, ok er þat kom í, vildi Kristofari konungr fyrri dœma sinn skaða. Hákoni konungi hugðist svá, at sá réði öllu málinu, er síðar dœmdi, ok því játaði hann því. Danir váru mjök fúsir sátta, þvíat þeim sýndist mikill afli Norðmanna. Svá segir Sturla:

Öllum þótti, Egða stillir!
œgiligt, hinn víða frægi,
gunnar logs fyr grœði sunnan
geigurþing við yðr at eiga.

Sætta báðu, Sygna dróttinn!
snjallráðan þik Danir allir
fyrða gram, þvíat fegnir urðu
fjándmenn þínir lífi sínu.

Þá er Danakonungr hugsaði þetta mál fyrir sínum mönnum, þótti honum stórvandi í at gera eða skipa nökkura sætt við Norðmenn. Tók hann þá vitrligt ráð með vina sinna umráði, ok gaf upp Hákoni konungi alla þá hluti, sem Norðmenn höfðu af gert við Dani, ok með þessu fundust konungar sjálfir. Ok er Hákon konungr heyrði þenna orskurð, þá gékk hann hvergi úframar af sinni hendi, ok gaf hann upp Dönum allan úfrið ok mótgang þann, sem þeir höfðu gert Norðmönnum. Hér lögðu allir menn gott til; urðu margir fegnir sættinni. Eptir þat drakk Hákon konungr með Danakonungi, en síðan var Danakonungr í boði Hákonar konungs. Með þessi sætt bundu þeir fullkomliga sína vináttu, svá at Danakonungr skyldi vera Hákoni konungi í sonar stað, en Hákon konungr honum í föður stað. Skyldi ok hvárr veita öðrum sinn styrk, hvern tíma sem hvárr þœttist þurfa. Eptir þat gaf hvárr öðrum góðar gjafir. Hákon konungr bauð Kristofara konungi, hvárt hann vildi þiggja af honum skipit Maríusúðina eða 3 önnur, þau sem hann köri or öllum herinum. Danakonungr játaði gjöfinni, en vildi kjósa síðar. Eptir þat fóru allir hlutir sem blíðast með konungunum, ok skildu með hinum mesta kærleik.

*Capitulum.*

334 (293). Konungr fór nú aptr í ríki sitt. Svá segir Sturla:

Veitti virða dróttinn
víkelds gjafir ríkjum,
gullsviptir hlaut giptu,
göfugr Skánunga jöfri;
heim kom hilmir Rauma,
hvatir fundu þat skatnar,
ár með öflgum tíri
úlestr ok með veg mestum.

Hákon konungr fór fyrst til Túnsbergs ok fann þar Magnús konung. Fóru þeir þá báðir norðr til Björgynjar; veitti Hákon konungr þá Magnúsi konungi Rygjafylki. Eptir þat fóru þeir norðr til Þrándheims ok ætluðu at sitja þar um vetrinn eptir.

*Um ferðir konungsdóttur frú Kristínar.*

335 (294). Nú er at segja frá ferð frú Kristínar, at þau fóru af Englandi suðr um sjó. Ok er þau kómu þar, keyptu þeir 9 tigi hesta umfram þá, sem áðr höfðu þau. Fóru þeir Ferant ok Þorlaugr bósi á fund Frakkakonungs, ok tók hann vel erendum Noregs konungs. Ok er hann vissi um ferð konungsdóttur, lagði hann þat til, at þau skyldu eigi fara hit vestra um Gaskún ok fara heldr um sitt ríki, ok fékk þeim mann með sínu bréfi til alls forbeina, þess sem þau þurftu. Fór þessi maðr með þeim út í Narbon, sá liggr út við Jórsalahaf. Þaðan fóru þau í Kataloniam, þat er konungs ríki af Aragun. Var þar allvel við þeim tekit. Þaðan fóru þau um stórfjöll ok harðar götur fram með Jórsalahafi. Jungfrú hafðist vel við í ferðinni. Þau fóru til þess staðar, er Gerun heitir. Réð þar fyrir einn jarl. Hann reið á móti jungfrú við 200 manna 2 mílur, ok er hon kom í staðinn, tók jarl í beisl hennar ok leiddi hana í staðinn með hinum mesta prís. Þá er jungfrú reið til Barzalon, reið konungr af Aragun móti henni við 3 byskupum ok útalígum her meir en 2 mílur, ok tók sjálfr í beisl hennar ok leiddi hestinn undir henni í staðinn, ok hélt henni kost ok öllum mönnum hennar 2 daga. Jungfrú kom 2 nóttum fyrir jól í Sarri í Kastel. Kom þar á mót henni Liovis bróðir konungsins af Kastel ok byskupinn af Storga.

Þau kómu jólakveldit í Burgs; höfðu þau herbergi at munkaklaustri því, sem konungs systir var í, frú Beringer. Höfðu þau þar messu hinn þriðja dag jóla, ok ofraði jungfrú einu miklu borðkeri, en öðru hafði hon ofrat í Rothemadum. Af slíkum hlutum ok öðrum þvílíkum varð hon lofanlig af alþýðunni, ok svá hugsa menn eptir, at eigi hafi sú ferð verit farin af Noregi, er jafnvirðuliga hafi tekin verit sem þessi af útlendum höfðingjum, síðan er fór Sigurðr konungr Jórsalafari. Hinn fjórða dag jóla riðu þau af staðnum Burgs með ráði konungsins af Kastel, þvíat hann vildi, at jungfrú kœmi til hans hit 7 kveld. Frú Beringer gaf konungsdóttur 7 kvennsöðla ok alla vel búna ok þar með baldikinn, er sjálf hon skyldi hafa. Þann sama dag reið konungrinn or Palenz með mikinn her móti jungfrú ok fagnar henni, sem hann mundi sinni dóttur, ok tók sjálfr í beisl hennar ok leiddi hana í staðinn virðuliga. Hinn 10 dag reið konungr með henni til Valdelikt. Kom þá á mót henni son konungs með útalligum her. Konungr lét fá jungfrú ágæt herbergi í staðnum, ok hvert sinn, er konungr vildi finna hana, eða dróttning, þá leiddu þau hana til sætis. Eptir þetta sendir konungr af Aragun bréf til konungs af Spáni mágs síns ok til dróttningar dóttur sinnar ok beiddi þess, at konungr mundi gipta honum jungfrú. Konungr bar þetta fyrir Norðmenn, ok með því at konungr var á efra aldri, þá fundu Norðmenn þat við um gjaforðit. Var þessa ok ekki meir leitat. Hér eptir taldi konungr upp brœðr sína. Sagði hann vera Friðrek elztan, lét hann vera riddara vaskan ok mikinn veiðimann ok sagði hann hafa skarð í vörr. Heinrek bróður sinn kvað hann vera beztan riddara af öllum brœðrum sínum, en ekki kvað hann þurfa um hann at tala, þvíat hann stríddi á mót honum. En Sanctius erkibyskupsefni sagði hann vera duganda mann vel skapaðan til klerks, en Philippus erkibyskupsefni kvað hann ekki mundu vilja vera klerk,

heldr at fara með skemtan, haukum ok hundum, ok kvað hann vera hinn mesta einvígismann at björnum ok villisvínum, jafnan glaðr ok kátr, mildr ok lítillátr ok hinn bezti félagi, hann er ok sterkastr af öllum várum bræðrum. Af vexti hans ok fríðleik sagði hann ekki, þvíat þat máttu Norðmenn sjá jafnliga. Þessi féll jungfrúnni bezt í þokka ok svá öllum Norðmönnum, ok því kaus hon þenna sér til manns með vina sinna ráði. Svá segir Sturla:

Ríða frá ek or borgum breiðum
bragna fjölð, af þínu magni
víða glöddusk valskar þjóðir
varrar eld, á móti svarra.

Síðan kaus um sœmdar fúsa
snildar brúðr þann er eiga vildi,
öðlings brœðr af yðru ráði
œztra manna, göfugr svanni.

Þat var öskuóðinsdag, er herra Philippus festi jungfrúna með guðs miskunn ok ráði konungs af Kastel ok sjálfrar hennar vilja. Sú var hin fyrsta bœn hennar, at hon bað þess Philippum, at hann skyldi láta gera kirkju Ólafi konungi, ok þat jáði hann henni með fullum góðvilja, ok hvers sem hon bað, þá var þat sýst. Svá var mælt, at brullaupit skyldi vera dróttinsdag í páskaviku. Ok er sú stund kom, var þat veitt við hinni mestu sœmd, er vera mátti. En óðinsdag eptir brullaupsveizluna kom í Spaniam sveinar Hákonar konungs Þóraldi ok Bjarni ok sögðu frá ferðum Hákonar konungs. Ok eptir þat bjuggust Norðmenn á braut ok fóru aptr í Noreg, Pétr byskup, Andres Nikulásson, Ámundi Haraldsson. En þeir sneru út í Jórsalaheim Ívarr Englason, Þorlaugr bósi ok enn nökkurir aðrir, ok andaðist Ívarr í þessi ferð.

*Frá Hákoni konungi.*

336 (295). Þenna vetr hinn næsta eptir sætt þeira Danakonungs sat Hákon konungr í Þrándheimi. Paðan fóru konungar á land upp. Þá hafði Hákon verit konungr 40 vetra ok einn vetr. Margrét dróttning fór á skipi, er hét Sauðarvömbin. Ok er hon kom til Björgynjar,

tók hon Maríusúðina ok hélt henni austr til Víkr; fann hon þar Hákon konung. Erkibyskup fór því eigi norðan, at þeir konungr höfðu skilit með engri blíðu. Hákon konungr fór austr til Elfar, ok svá Magnús konungr, til móts við Birgi jarl. Þá hafði Danakonungr sent orð í Noreg ok til Svíþjóðar, at þeir mundu koma til liðveizlu við hann, þvíat þá var úfriðr mikill í Danmörk af hernaði þeim, er Jarmarr gerði í Sjólandi, en synir greifa Álfs herjuðu Jótland, ok varð af þessum úfriði hinn mesti hernaðr í Danmörk.

*Fundr konunga ok jarls.*

337 (296). Þeir konungar ok Birgir jarl fundust í Elfi. Töluðu þeir marga hluti sín á milli um orðsendingar þær, sem Danakonungr hafði gert til þeira, ok réðu þeir þat með sér, at þeir skyldu búa her af hvárutveggja ríkinu þau misseri ok veita lið Danakonungi móti hans úvinum. Skyldi hvárr þeira hafa 40 hundraða. Þá fór ok upp í Svíaveldi frú Rikiza með Birgi jarli föður sínum, ok leysti Hákon konungr hana vel af hendi. Junkherra Sverrir var með konungi eptir; unni konungr honum mikit. Hákon konungr sendi þá suðr Danakonungi Maríusúðina, ok tók hann við þessi sending allvingjarnliga ok svá þeim orðsendingum, er til hans kómu, at Hákon konungr ok Birgir jarl mundu koma til liðveizlu við hann, þegar sem hann þættist þurfa. Hákon konungr fór þá norðr í Víkina, eptir þat er þeir jarl váru skildir, ok svá norðr í land, ok kom til Björgynjar um vaknaskeið, ok dvaldist þar um sumarit ok skipaði þar mörgum hlutum við sínum mönnum.

*Capitulum.*

338 (296). Þetta sumar kómu þeir heim í land, er fylgt höfðu jungfrú Kristín, þeir bróðir Símun ok Loðinn leppr ok Ámundi Haraldsson, ok höfðu þeir farit skipaleið

utan af Spán á einum kugg, en Pétr byskup fór landveg í Flandr. Þeir kunnu at segja konungi mörg tíðindi utan or löndum. Þeir sögðu ok mikit frá, hversu konungr af Spania hafði fagnat jungfrú Kristín dóttur hans ok öllu hennar föruneyti, ok hversu höfðingliga hann hafði þá af höndum leyst. Þeir sögðu þat eigi minna fé en til 800 marka skírra, er hann gaf þeim umfram þat, er þeir þurftu til kostnaðar at hafa. Þeir sögðu hann ok vera ástvin Hákonar konungs, ok sagði honum heimula skyldu vera sína liðveizlu við hvern, sem hann þyrfti, utan Frakkakonung ok konunginn af Aragun. Spánalands konungr bjó þá her sinn út í heiðnina. Fýsti hann mjök Hákon konung at fara með sér ok leysa svá kross þann, er hann hafði tekit, þvíat þar til var páfa leyfi, at þar skyldi krossinn leysast, sem til Jórsala væri farit. Pétr byskup kom þetta sumar í Noreg, ok þá af konungi hinar beztu gjafar, ok skilðu þeir með hinum mesta kærleik.

*Um skipan Hákonar konungs til Íslands.*

339 (297). Hákon konungr sat þetta sumar í Björgyn. Hann gerði þá skipan til Íslands, at hann sendi Gizur út ok gaf honum jarlsnafn. Hét Gizurr þá at friða landit ok láta alla bœndr gjalda skatt konungi. Konungr gaf honum margar sœmiligar gjafir ok leysti hann vel af hendi. Hann sendi ok út með honum Þóralda hvíta hirðmann sinn. Skyldi hann skynja, hversu jarl fœri með erendum Hákonar konungs.

*Gizurr fékk jarlsnafn.*

340 (297). En er Gizurr kom til Íslands, þá hélt hann því vel upp, hverja sœmd konungr hafði veitt honum sem engum manni öðrum á Íslandi. Sagðist hann þessa nafnbót með því fengit hafa, at hann hefði hér engum hlutum konungi á mót heitit; sagði þá ok skyldu hafa

þvílíkar nafnbœtr í Noregi af Hákoni konungi, sem honum gerðust handgengnir á Íslandi hirðmenn eða skutilsveinar. Urðu af því margir góðir menn til at sverja honum trúnaðareiða. En litlu síðar urðu menn þess vísir, at þat var fals ok hégómi. Eru þar um miklar frásagnir, hversu fór með Gizuri jarli ok Íslendingum um vetrinn. Áðr Gizurr kom út, tók af lífi Þorvarðr Þórarinsson Þorgils skarða, fyrir þat er konungr hafði skipat honum sveitir fyrir norðan Öxnadalsheiði, þær sem konungr kallaði sér, en Þorvarðr þóttist heimildir til hafa áðr af Steinvöru mágkonu sinni.

*Frá Hákoni konungi ok lendum mönnum.*

341 (298). Hákon konungr sat þenna vetr í Björgyn; þessi var annarr vetr hins fimta tigar ríkis hans. Honum kómu orð um várit af Danakonungi, at Noregskonungr mundi koma við liði sínu um sumarit til liðveizlu við hann, svá sem hann hafði heitit. Hákon konungr stefnir nú at sér lendum mönnum sínum ok hafði nefndir or landi. Fór síðan austr með landi, ok er hann kom fyrir Jaðar, kómu mót honum 2 riddarar af Danmörk, ok sögðu honum þau tíðindi, at Kristofari konungr var andaðr, ok þat með, at dróttning ok aðrir höfðingjar sendu einkannliga orð Hákoni konungi, at hann skyldi koma til hjálpar við þá. Konungr bar þetta fyrir vini sína, ok tók konungr þat af með ráði vina sinna, at hann hélt fram ferðinni ok lagði fyrst til Túnsbergs. Dróst þar saman mikill herr í Víkinni. Hélt konungr þá til Danmerkr við miklu liði til Kaupmannahafnar ok fann þar dróttningina. Birgir jarl kom ekki, ok er konungr var kominn, höfðu Danir sæzt við sonu greifa Álfs. Þóttust þeir þá eigi þurfa liðveizlu Norðmanna. Drottning gaf Hákoni konungi góðar gjafar, ok svá konungr henni. Þá er Hákon konungr lá í Kaupmannahöfn, lét hann taka kugg einn við Málmhauga, er átti herra Jón bróðir Jakobs erkibyskups. Þar váru á þeir menn, er verit höfðu með

Jarmari. Konungr lét Dani til koma at kenna, hvárt þetta höfðu verit ránsmenn eða kaupmenn. Þeir sögðu skjótt, at þetta væri hinir mestu ránsmenn; váru þá sumir hálshöggnir, en sumum var skriptat öðruvís. Fór konungr þá norðr í Noreg; en Danir tóku til konungs Eirík son Kristofara konungs, ok var hann þá barn at aldri.

*Capitulum.*

342 (299). Hákon konungr fór norðr til Björgynjar ok sat þar um vetrinn; þessi var hinn þriði hins fimta tigar konungdóms hans. Þá andaðist Pétr byskup í Hamri, ok þótti þat mikill skaði. Þá töluðu kórsbræðr þar um byskupskosning ok gátu engan kjörit, áðr kosningr hvarf undan þeim ok til erkibyskups. En hann gaf þeim aptr kosning, en nefndi til þann kórsbróður, er Loðinn hét, en hann var ekki mikill vin Hákonar konungs.

*Fastmæli Hákonar konungs ok Birgis jarls.*

343 (300, 301). Konungrinn sat í Björgyn um vetrinn ok hafði spurt af Íslandi, at Gizurr jarl hafði lítinn hug á lagt at flytja hans mál við Íslendinga. Sendi hann þá bréf til landsins, hversu mikinn skatt hann vildi hafa. Með þessum bréfum fór Ívarr Arnljótarson ok Páll línseyma hirðmenn konungs. Þeir kómu út fyrir alþingi ok fóru til þings. Var Gizurr jarl þar fyrir. Þá váru flutt bréf Hákonar konungs, ok var þar mikil manndeild á, hversu þeim var tekit. Flutti Gizurr jarl konungs erendi, en þó með öðrum útveg, en á bréfinu stóð. En Sunnlendingar, þeir sem mestir jarls vinir váru, mæltu í mót skattinum, ok svá þeir, sem komnir váru austan yfir Þjórsá. Féllu þær lyktir á, at erendi þeira Ívars varð ekki; fóru þeir hit sama sumar á konungs fund. Var þat ætlun margra, at Sunnlendingar mundu eigi svá djarfliga hafa nítat skattinum, ef þat hefði verit þvert í móti jarls vilja. Hákon konungr fór or Björgyn austr

til Víkr ok alt til Elfar, ok með honum Magnús konungr son hans. Þar kom til móts við þá Birgir jarl. Fór þá allblíðliga með þeim; var jarl í boði konungs ok synir hans hinir ungu. Bundu þá enn fastliga sína vináttu, svá at hana skyldi ekki skilja, meðan þeir lifði. Þeir skyldu ok finnast annat vár eptir. Fór konungr þá norðr í Víkina. Þá var með honum Heinrekr byskup af Hólum af Íslandi, ok hafði þá fylgt konunginum lengi. Ok er þeir kómu austan at Foldinni, tók byskup sótt, en í Túnsbergi andaðist hann ok var jarðaðr at Ólafskirkju. Konungr sjálfr talaði yfir leiði hans mörgum fögrum orðum til lofs við byskup.

*Hákon konungr ok Magnús konungr fóru til Björgynjar.*

344 (302, 303). Eptir þetta fór Hákon konungr ok Magnús konungr norðr til Björgynjar ok ætluðu þaðan til Þrándheims at Ólafsvöku. Ok er þeir kómu til Niðaróss, var þar fyrir Einarr erkibyskup. Þar var kominn Loðinn kórsbróðir af Hamri ok kjörinn til byskups í móti konungs vilja, ok því hafði hann stygð á erkibyskupi. En er konungr lagði í ána, sveif skipi konungsins á eyrina gegnt Bakka ok festi þar. Erkibyskup reri til ok bauð, at allir menn skyldu til fara, þeir sem kœnastir væri, at koma skipinu af grunninu. En konungr vill eigi þiggja at honum. Síðan lét konungr setja skorður undir skipit, at eigi mætti hallast, er fjaraði. Lögðu þá konungarnir til bœjarins, ok gerði erkibyskup í mót þeim fagra precessionem ok mintist við Hákon konung. Sira Loðinn gékk undir hönd erkibyskupi ok mintist til konungsins ok ekki mjök einarðligr. Ok er konungarnir höfðu litla hríð verit í bœnum, höfðu þeir stefnu við erkibyskup um byskupskosning í Hamri. Vildi erkibyskup ekki annat, en Loðinn væri byskup, en konungr mælti í mót þverliga. Hér af sló með þeim í hina mestu deilu. Kom því máli svá, at Hákon konungr appellaði erkibyskup

út til páfa, ok varð erkibyskup við þat hinn styggvasti. Gékk þá Magnús konungr í milli þeira, at þeir semdi; taldist þá ok Loðinn undan at vera byskup, er hann vissi forþokka konungs. Konungr vildi, at Gillibert, er þá var klerkr hans, en verit hafði erkidjákn í Hjaltlandi, væri kosinn. Lauk svá þessi stefnu, at erkibyskup kaus Gillibert, en Loðinn gaf upp af sinni hendi. En með því at áðr var til páfa skotit málinu, sendu þeir Gillibert út til páfa. Rituðu þeir konungr ok erkibyskup með honum, at þetta var beggja þeira vili; fór hann við þetta á páfa fund. Konungarnir fóru suðr til Björgynjar eptir þetta, ok sat Hákon konungr þar um vetrinn, en Magnús konungr í Stafangri. Þetta sumar kom af Íslandi Ívarr ok Páll, ok sögðu konunginum sitt erendi. Konungrinn veitti jól í Björgyn, ok var þessi hinn 4 vetr hins fimta tigar ríkis hans. Um vetrinn eptir tók junkherra Sverrir sótt, þá er hann leiddi til bana, ok þótti konungi þat hinn mesti skaði ok mörgum öðrum.

*Af sendiboðum Hákonar.*

345 (304). Hákon konungr ok Magnús konungr höfðu sent um sumarit bróður Nicholaum suðr til Danmerkr at flytja bónorð Magnús konungs við jungfrú Ingibjörgu dóttur Eiríks konungs hins helga, ok skyldi Nicholaus fara suðr í Saxland til fundar við hertugann móðurföður hennar ok vita, hvat hann legði til þessa máls, þvíat hann var hinn mesti höfðingi ok einn af þeim 7 mönnum, er kjósa skulu keisarann, ok hann skal vera dróttseti keisarans hvert sinn, er hann er fyrir norðan fjall. Ok er sendimenn kómu til hertugans, fluttu þeir þetta erendi fyrir honum. Tók hann lítinn af ok sagði, at hans dótturdóttir var dönsk at föðurætt, ok Danir höfðu ráð fyrir hennar gjaforði. Síðan lét hann leiða í sýn við þá tvær dœtr sínar harðla vel búnar ok mælti: Fyrir þessum mínum dœtrum hefi ek ráð, hverr sem þeira vill biðja. Eptir

þetta fóru sendimenn konungs aptr í Danmörk ok svá til Noregs á fund Hákonar konungs.

*Frá Hákoni konungi.*

346 (305, 306). Eptir andlát junkherra Sverris fóru þeir Hákon konungr ok Magnús konungr norðr í Sogn ok svá til Upplanda. Kom þar til móts við þá Einarr erkibyskup ok fór með þeim suðr í Vík, ok fundu bróður Nicholaum í Túnsbergi. Sagði hann þeim sín erendislok. Síðan sendu þeir sira Askatín ok bróður Nicholaum suðr til Danmerkr. Skyldu þeir fara á fund dróttningar ok greifa Ernest ok þeira annarra, er svör höfðu fyrir jungfrú, ok vita, hverr útvegr verða skyldi á þessu máli. En meðan þeir váru í þessi ferð, fóru konungarnir ok erkibyskup austr til Elfar ok ætluðu at finna Birgi jarl. En jarl kom eigi. Fóru þeir þá aptr í Víkina ok sátu í Túnsbergi, þar til er Askatín kom or Danmörk; Nikulás var eptir suðr þar. Hann sagði þau orð dróttningar ok greifa Ernest ok jungfru, at konungarnir skyldu senda í mót henni vegligt föruneyti. En þau hétu at búa hana sœmiliga í brott. Síðan sendu þeir í mót jungfrú herra Hákon byskup, Ögmund krœkidanz, Borgar son hans, Pál gás ok Loðin staur. Þeir höfðu 7 skip ok flest stór. Byskup hafði tvítugsessu, en Ögmundr dreka mikinn, ok annan Páll gás. Þeir höfðu frítt lið ok vel búit. Ok er þeir váru búnir, fóru þeir suðr til Danmerkr ok kómu til Hrossaness á Jótlandi á þeim stefnudegi, sem Danir höfðu þeim lagit, en þat var hálfum mánaði fyrir Ólafsvöku. Ok er þeir kómu þar, fundu þeir þar engan mann hvárki af dróttningar hendi né greifans, þann er þeim gerði orskurð um sitt erendi. Síðan gerðu þeir menn upp til klaustrs þess, er jungfrúin var í, ok létu spyrja, ef nökkut ráð væri fyrir gert ferð hennar til Noregs. Hon sagði svá, at alls ekki ráð væri fyrir gert, svá at hon vissi. Ok eptir þat sendi hon svein sinn til dróttn-

ingar ok spyrr, ef hon vildi nökkut ráð fyrir gera hennar ferð. En dróttning veitti þau andsvör, at hon mátti ekki ráð fyrir henni gera svá skjótt fyrir sakir þess stríðs, er hon hafði við hertugann. Nú lét jungfrúin þetta segja Norðmönnum. Ok er þeir vissu, at dróttningin vildi ekki ráð gera fyrir jungfrúnni ok þeir menn, er þar skyldu fyrir sjá at búa hennar ferð til Noregs, þá fór Hákon byskup ok þeir menn, sem til ferðar váru fengnir með honum, upp til klaustrsins at finna jungfrú ok töluðu við hana ok báðu hana skjóta sínu máli á guðs vald ok Noregs konungs. Jungfrú hafði fyrst hér mart á móti, ok því næst sagðist hon vera fangafá allskostar svá skjótt á braut at fara, en byskup kvað þat alt til reiðu með sér, þat sem hon þurfti at hafa, ok svá luku þau sinni rœðu, at Hákon byskup handfesti jungfrú Ingibjörgu Magnúsi konungi til handa. Eptir þat lögðu þeir stefnudag við jungfrú, nær Norðmenn skyldu koma eptir henni, en hon skyldi þeim til skips fylgja. Í þessu bili lá Birgir jarl í Eyrasundi við Svía her, ok er hann spurði til Norðmanna, sendi hann þeim orð, at hann vildi finna Norðmenn. En þeir Hákon byskup hvötuðu sinni ferð ekki því minnr, því at þeir vissu, at Birgir jarl hafði beðit jungfrúnnar, ok vildu þeir þenna trúnað ekki undir honum eiga. Ok er stefnudagr kom, bjoggu Norðmenn sik til uppgöngu með öllum vápnum, en settu menn til at geyma skipa sinna, því at þeim var mikill grunr á Dönum, en höfðu sjálfir afla lítinn í svá miklu landi. Ok er þeir kómu til klaustrsins, þá báðu þeir jungfrú efna orð sín ok fylgja þeim. Rézt hon þá til ferðar með Norðmönnum ok við henni tveir riddarar með mörgum konum ok sveinum. Príorrinn af klaustrinu lagði hér fátt til, því at honum var mikill ótti at Norðmönnum. En þetta rézt svá skjótt, at engi þeira Dana vissi fyrr, en jungfrú var komin á veginn. Norðmenn lögðu þegar á braut skipum sínum af Danmörk, ok kómu til Túnsbergs Ólafsvökuaptan.

*Frá sendimönnum Skotakonungs.*

347 (307). Eptir þat er þeir Hákon byskup váru farnir suðr til Danmerkr, en konungarnir váru norðr farnir, kómu vestan af Skotlandi sendimenn Skotakonungs erkidjákn einn ok riddari, sá er Missel hét. Þeir fóru meir með fagryrðum en trúnaði, at því er konungi virðist, ok þeir fóru svá braut, at engi maðr vissi fyrr, en þeir undu segl sitt. Þá sendi Hákon konungr Brynjólf Jónsson eptir þeim ok höfðu þá aptr við sér. Sagði konungr þá skyldu vera í Noregi þann vetr, fyrir þat er þeir vildu fara orlofslaust framar en aðrir sendimenn.

*Frá mönnum Hákonar byskups með bréfum til konungs.*

348 (308). Hákon byskup gerði menn við bréfum til Hákonar konungs ok sagði alt um ferðir sínar ok svá þat, at jungfrú var komin í Noreg á guðs náðir ok konungs, lét hana ok því svá fámenna, at þeir vildu engan trúnað eiga undir Dönum at bíða þar til, er jungfrú mætti búa sína ferð svá sœmiliga, sem hennar tign byrjaði. Þetta bréf kom til Hákonar konungs í Björgyn, ok þótti honum vel, þegar jungfrúin var komin í landit með sjálfrar sinnar vilja. Lét konungr þá við búast kvámu jungfrúnnar. Stefndi hann þá til sín öllum hinum beztum mönnum í landinu, Knúti jarli ok svá kennimönnum. Konungr sendi menn á mót þeim byskupi ok konungsdóttur, þvíat Magnús konungr hafði þat kosit, at sem skjótast skyldi at snúa brullaupsgerðinni. Þeim byskupi byrjaði heldr seint, váru þau nökkurar 3 vikur á leiðinni. Þau kómu nökkurum nóttum fyrir Maríumessu hina síðari ok lögðu fyrst í Laxavág.

*Jungfrú Ingibjörg kom til konunga.*

349 (308). Þeir konungarnir váru fyrir í bœnum ok géngu þegar til skipa sinna, ok allir hinir beztu menn með þeim, ok ætluðu at róa á mót þeim, en veðr var svá

hvast, at þeir fengu hvergi róit. Annan dag eptir reru þeir á mót jungfrú konungar ok allir byskupar. Fögnuðu konungar henni með hinni mestu blíðu ok öllu hennar föruneyti. Þá var þat ráð fyrir gert, at jungfrú skyldi ekki koma í konungsgarð fyrr, en brullaupit skyldi vera. Fór hon upp til Mikjálskirkju ok Hákon byskup við henni, ok váru þar nökkurar 7 nætr. Hákon konungr mælti svá, þegar hann hafði séna jungfrúna: Þat hafða ek ætlat, sagði hann, at fagna vel jungfrú, er hon kœmi í Noreg, en svá giptusamliga lízt mér á hana, at ek skal nú hvar meiri stund á leggja hennar mál. Hákon konungr bauð Magnúsi konungi kost á, hvárt hann vildi heldr gera láta veizluna í nausti, því er hann var vígðr í, eða í konungsgarði. Magnús konungr sagði eigi skorta hin beztu herbergi í konungsgarði. Váru þar þá búnar 3 hallir með hinum beztum föngum alls konar, er til váru í landinu.

*Pausuð jungfrú Ingibjörg Magnúsi konungi.*

350 (309). Sunnudaginn eptir Maríumessu síðari var jungfrú pausuð Magnúsi konungi með mikilli sœmd. Váru báðir konungarnir í steinhöllinni, byskupar allir, Knútr jarl ok flestir lendir menn ok hirðstjórar ok hit bezta mannval. Frú Margrét dróttning var í tréhöllinni ok jungfrú Ingibjörg ok alt hennar föruneyti, konur ok karlar, ok alt klaustrafólk ok mart annarra góðra manna. Í jólahöllinni var Ögmundr krækidans, Erlingr Álfsson, kaupmenn ok útlent fólk ok bœjarmenn. Sextán hundruðum manna var veitt utan sveinum. Hákon konungr mælti svá fyrir í þeiri höllinni, sem hann var, at hverr maðr skyldi kjósa, hvat hann vildi drekka, því at eigi var vín úgnœgra en annarr drykkr. Var þat vitra manna mál, at eigi mundi slík brullaupsveizla hafa ger verit í Noregi sem þessi. Konungr átti þá tal við sína menn, hvárt Magnús konung skyldi vígja undir kórónu eða eigi. Lögðu menn þar allmisjafnt til. Sumir mæltu, at Magnús

konungr mundi stœrast með kórónunni ok mundi vilja hafa hirð aðra, ok væri þat greina vænt með konungum. En Hákon byskup ok þeir menn, sem farit höfðu með honum, sögðu konunginn því heitit hafa, at þau skyldu bæði kórónuð vera. Fluttu þetta margir vinir þeira, ok svá kom þessu, at menn vissu eigi, hvernin verða mundi. Gékk þá Magnús konungr til ok flutti sitt mál fyrir konunginum ok mælti svá: Eigi skulu þér, herra, trúa þeira manna orðum, er þat segja, at ek muna nökkura stœrð upp taka, þótt þér veitit mér þá sœmd, sem engi Noregskonungr hefir veitt sínum syni, þvíat þér vitut þat sjálfir, minn herra, at ek hefi yðr mjúklyndr verit. Vænti ek, at enn skal svá vera, þótt þér veitit mér þessa sœmd. Hákon konungr mælti: Satt er þat, Magnús konungr, at þér hafit ástsamliga til vár gert. Er þat ok úmakligt, at ek unna yðr eigi hinnar hæstu tignar, eptir því sem framast er guðs vili til. Brullaupsveizla stóð 3 daga.

*Krúnaðr Magnús konungr Hákonarson.*

351 (310). Krossmessa var óðinsdaginn. Lét konungr þá um búast af nýju í garðinum, þvíat Magnús skyldi vígja þann dag undir kórónu. Var þá sungit árla í bœnum, ok at lyktum tíðum sótti út fólkit alt í konungsgarð. Váru þá allir hlutir líktir eptir því, sem þá var, er Hákon konungr var vígðr. Var svá öllum hlutum skipat sem þá: fyrst fóru þeir, er rýmdu veginn, þar næst þeir, er merkin báru, þá sýslumenn, eptir þat lendir menn. Þá géngu 4 lendir menn ok báru mikit taflborð milli sín yfir höfði sér ok þar á konungsskrúð ok vígsluklæði. Þar næst géngu þeir Erlingr Álfsson ok Brynjólfr Jónsson ok báru 2 ríkisvöndu af silfri ok mjök gulli búna. Þar næst gékk Knútr jarl ok bar kórónu, ok leiddu hann 2 stallarar, þvíat hann var mjök sjúkr; jafnfram honum gékk Gautr Jónsson ok bar vígslusverðit. Þar næst váru leiddir konungarnir. Við garðshlið í kon-

ungsgarði kómu í mót byskupar, ábótar ok lærðir menn með processione, ok hófu upp söng ok géngu svá til altaris. Eptir þetta var messa sungin, ok fór vígslan allvel fram, eptir því sem heilug kirkja býðr. Missel riddari, sá er konungr af Skotlandi hafði sent til hans, stóð uppi á kórinum ok undraðist mjök atferli vígslunnar, þvíat þat er ekki siðr í Skotlandi at kóróna konunga. Honum fannst svá mikit til vígslunnar, at hann klökk, áðr en þeir sögðu honum, er hjá stóðu. Ok þá er Magnús konungr var klæddr, ok Hákon konungr ok Einarr erkibyskup ok aðrir 3 byskupar lögðu um hann vígslusverðit, þá tók riddarinn skozki til orða: Þat var mér sagt, at hér væri ekki riddarar dubbaðir í þessu landi; en ek sá engan riddara jafnvel dubbaðan, þar sem 5 hinir ágætustu höfðingjar í þessu landi leggja um hann sverðit. Þá er Magnús konungr var skrýddr, leiddi erkibyskup hann til sætis. Síðan vígðu þeir dróttninguna. Þá gékk Hákon konungr at stólinum, er Magnús konungr sat í. Magnús konungr vildi þá upp standa í móti honum. Hákon konungr tók hendinni á öxl honum ok mælti: Eigi skulu þér upp standa í móti mér, frændi, þvíat þér skulut nú halda yðr sem tiguligast ok hneigja engum manni þenna dag. Er nú ok sá dagr kominn, er ek vilda gjarnast, er ek sé mitt hold svá mjök tignat, sem nú er hér í dag, heldr en ek munda fyrirmuna yðr þessar tignar. En því leitaða ek ráðs hér um, at ek vilda vita hér um annarra manna tillögur, ok váru þeir hinir sömu, er mik löttu þessa, ok eigi hafa áðr verit umbótamenn með mér ok hinum fyrrum yðrum frændum, sem guð fyrirláti þeim. Þá er messu var lokit, fylgði erkibyskup ok aðrir byskupar konunginum heim til herbergis, sem fyrr syngjandi lof guði. Þá afklæddist konungrinn vígsluklæðum, ok veitti erkibyskup honum alla þjónostu, er vígslunni átti at fylgja. Eptir þat fór hann í allan konungsbúnað ok bar kórónu þann dag. Eptir þat géngu konungarnir til

borðs, ok var þann dag hin fegrsta veizla með miklum fagnaði Magnúsi konungi til sœmdar ok frú Ingibjörgu dróttningu ok öllum þeira vinum, sem Sturla kvað:

Ungr tóktu, jöfra þengill
ægr! við vígslu frægri,
kynnísk kapp þitt mönnum,
konungs nafn á þik, jafnan;
ok, sókngœðir! síðan,
snjallmæltr, hlutut allrar.
her lýsi ek veg vísa,
vald fram komit aldar.

Ok enn:

Heilags hafit hála,
hraustr þengils sonr! fengit,
þik reifir guð gæfu
gnótt, þjóðkonungs dóttur.
Snjallr má Eiríkr öllu,
alldýrr konungr! stýra,
yðvarr þroski gengr óskum
einart, við guð hreinan.

At þessi veizlu gáfu konungarnir margar sœmiligar gjafir, fyrst erkibyskupi ok öðrum höfðingjum. Magnús konungr gaf öllum sveitungum sínum gjafir ok mörgum öðrum. En eptir veizluna hafði hann alla danska menn í boði sínu, þá sem frú Ingibjörgu höfðu sunnan fylgt, ok leysti þá alla höfðingliga af höndum, ok fóru þeir heim til Danmerkr, en eptir váru með dróttningu konur þær ok sveinar, sem henni líkaði.

*Andlát Knúts.*

352 (311). Knútr jarl var mjök krankr um veizluna; litlu síðar lagðist hann í rekkju ok andaðist. Hákon konungr gerði líkferð hans vegliga; hann var jarðaðr í Kristskirkju hjá Hákoni feðr sínum. Jarl var manna kurteisastr um alla hluti, klerkr góðr, manna örvastr af fé, hár maðr vexti ok vel yfirlits, drykkjumaðr of mikill, ok þar af fékk hann vanheilsu. Þetta haust kómu utan af Grœnlandi Oddr af Sjöltum, Páll Magnússon ok Knarrarleifr. Þeir höfðu verit brottu 4 vetr. Þeir sögðu, at Grœnlendingar höfðu gengit undir skattgildi, svá at öll manndráp skyldi bœta við konunginn, hvárt er væri norrœnir eða grœnlenzkir, ok hvárt sem þeir váru drepnir

í bygð eða norðrsetu, ok alt norðr undir stjörnuna skyldi konungr þegngildi taka, sem Sturla kvað:

Norðr líkar þér alt at auka
yðvart vald um heiminn kalda,
gegnir munu því fyrðar fagna,
fjörnis álfr! und leiðarstjörnu.

Þengill hefir þar annarr engi
allvaldr en þú ríki haldit;
lengra telja þjóðir þangat
þína dýrð en röðull skíni.

Þetta sumar sendi Hákon konungr til Íslands Hallvarð gullskó at flytja sitt erendi við jarl, at hann endi sín einkamál. Hallvarðr kom í Hvítá ok fór at finna jarl ok flutti djarfliga konungs erendi. Jarl tók því vel ok kvast svá skyldu gera, sem konungr hafði orð til sent. Hallvarðr fór til Reykjaholts ok sat þar um vetrinn. Þeir jarl fundust um vetrinn öndverðan, ok sóru þá nökkurir bœndr konungi trúnaðareiða, þeir er áðr höfðu mót staðit. Jarl sat um vetrinn fyrir norðan land ok leitaði ráðs við bœndr, hverju svara skyldi. Buðu bœndr at leysa jarls vegna við konungsmenn sumir 200, sumir 100, sumir 12 aurum. Þá er Hallvarðr spurði þetta, kvað hann konung ekki vilja, at bœndr væri pyndir til svá stórra fégjalda, kvað hann vilja hafa mátuligan skatt af almenningi, ok hét í mót réttarbótum. Hallvarðr flutti konungs mál við Vestfirðinga, ok hétu þeir at koma til Þórsnesþings um várit ok sverja þar konungi land ok þegna. En er jarl varð þessa víss, stefndi hann bóndum til Hegranesþings ok lét þar nökkura menn sverja konungi land. En Hrafn Oddsson kom eigi til Þórsnesþings, ok því kom Hallvarðr ekki. Var þá skotit til alþingis. Drógu allir hinir stœrstu menn í fjörðum vestr stórflokka, er at leið þingstefnunni. Þeir sendu menn á fund sona Steinvarar ok Andréssona, at þeir skyldu ríða til þings með öllum afla sínum fyrir austan Þjórsá. Þorvarðr Þórarinsson hafði heitit at koma með Austfirðinga. Gizurr jarl kom til alþingis með miklu liði. Jarl flutti þá konungs mál bæði við Norðlendinga ok Sunnlendinga ok bað þá til með góðum orðum, en kallaði fjörráð við sik, ef

þeir mælti í mót. Eptir þat var skipuð lögrétta, ok sóru flestir hinir beztu bœndr or Norðlendinga fjórðungi ok Sunnlendinga fjórðungi fyrir utan Þjórsá Hákoni konungi land ok þegna ok æfinligan skatt. Síðan reið jarl af þingi ok suðr í Laugardal ok hélt þar saman flokkinum um hríð. Sigvarðr byskup ok Hallvarðr riðu á Þverárþing; géngu þá Vestfirðingar undir hlýðni. Sóru fyrst Hrafn Oddsson, Sturla Þórðarson, Sighvatr Böðvarsson, Einarr Þorvaldsson, Vigfúss Gunnsteinsson, ok þrír bœndr með hverjum þeira. Þrír bœndr sóru fyrir Borgfirðinga. Þá höfðu allir Íslendingar gengit undir skatt við Hákon konung utan Austfirðingar frá Helkunduheiði ok til Þjórsár í Sunnlendinga fjórðungi.

*Frá Magnúsi konungi.*

353 (312). Hákon konungr sat um vetrinn í Björgyn, en Magnús konungr fór suðr í Stafangr. Einarr erkibyskup leiddi hann til skips ok mælti svá: Jafnan hefir mér fyrir þótt at skilja við yðr utan nú, þvíat þat gleðr mik nú, at ek hefi veitt yðr alla þá þjónostu, sem ek má yðr til tignar gera; fyrst gaf ek yðr konungsnafn, eptir þat pausaða ek yðr við dróttningina, síðan vígða ek yðr undir kórónu ok svá dróttningina. Er nú þat eitt eptir, sem guð láti mér eigi auðit verða, at standa yfir grepti yðrum. Magnús konungr þakkaði byskupi bæði orð ok þjónostugerð. Magnús konungr dvaldist í Stafangri um hríð. Hann fór norðr aptr fyrir jólin, ok sátu þeir Hákon konungr báðir samt um jólin í Björgyn, ok var þessi hinn 5 vetr hins fimta tigar konungdóms hans. Snemma um várit bjoggu konungarnir ferð sína austr til Víkr ok ætluðu alt til Elfar at finna Birgi jarl, hefjandi sína ferð eptir því sem áðr höfðu orð í milli farit, ok skyldu þeir gera ráð um eignir þær, sem dætr Eiríks konungs áttu í Danmörk, þvíat þeir áttu þá þar heimtingar Magnús konungr ok Valdimarr Svíakonungr, þvíat

hann hafði þá fengit Sophíu dóttur Eiríks konungs systur Ingibjargar dróttningar. Þá er konungarnir fóru or Björgyn, var eptir frú Margrét dróttning ok Ingibjörg dróttning, þvíat hon var með barni. Konungarnir fundu sendimenn Birgis jarls í Túnsbergi. Sögðu þeir, at jarl mætti eigi finna þá fyrir fjölskyldu sakir, en gaf þat ráð, at menn væri sendir til Danmerkr ok vita, hvat hver þeira systra ætti Ingibjörg ok Sophía eða þær 2, sem úgiptar váru, ok skipta síðan með jafnaði.

*Frá Hákoni.*

354 (313). Magnús konungr ok Hákon konungr sendu menn suðr til Danmerkr. Pál gás, Andres plytt ok Þorlaug bosa, ok skyldu þeir yfir sjá þetta skipti af hendi Magnús konungs ok frú Ingibjargar. Ok er þeir kómu til Danmerkr, var þar Aðalbrikt hertugi af Brúnsvík ok hafði ráð öll með dróttningu. Dvöldust þeir Páll með hertuga um sumarit ok fengu engan orskurð sinna erenda. Hákon konungr fór til Oslóar, en Magnús konungr austr til Borgar at sjá um þau lén, er Hákon konungr hafði veitt frú Ingibjörgu. Í þessarri ferð fékk Magnús konungr sjúkleika, af því er hann hafði riðit svá mikinn, ok sneri hann þá til Oslóar, ok var þá nökkuru léttara. Gékk hann þá til kirkju, ok gerði byskup processionem í mót honum; héðan af bættist honum. Síðan fóru konungarnir norðr til Björgynjar, ok kómu norðr um vakna skeið. Þá sendi Hákon konungr þá or landi Loðin lepp ok Hákon eysil. Þeir fóru út til Soldans konungs til Serklands með mörgum fálkum ok torgætum gripum. Tók Soldann þeim vel, sem Sturla kvað:

Allvaldr dýrkask út með Serkjum
innanlands af mildi sinni,
þjóðum líka þínir haukar
þaðra alt með Blálands jaðri.
Víða hrjóta veglig mæti
vægðarlaust af yðrum frægðum;
hollar prýði heiminn allan
hnossir þínar, mærðar tínir!

Þetta sumar kom utan af Íslandi Hallvarðr gullskór ok

sagði, at svarinn var skattr Hákoni konungi á Íslandi. Með honum kom Sighvatr Böðvarsson, Sturla Hrafnsson. Þá kom ok Brandr ábóti Jónsson at orðsendingu erkibyskups ok fór til móts við hann. Þorlaugr bosi kom til Hákonar konungs í Björgyn ok sagðist ekki geta sýst; en þeir váru eptir Páll gás ok Andres plyttr. Þetta sumar var fœddr í Björgyn Ólafr son Magnús konungs ok Ingibjargar. Um haustit fóru konungarnir norðr til Þrándheims ok dróttningar, en junkherra Ólafr var eptir at nunnusetri. En er þau kómu norðr, gerði erkibyskup fagra processionem í mót þeim. Sátu þeir þenna vetr í Þrándheimi. Andres plyttr kom sunnan af Danmörk ok sagði ekki skipti vera gert með frú Ingibjörgu, en vita kvazt hann, hversu miklar eignir váru ok svá hvar lágu.

## *Útboð.*

355 (314, 315). Hákon konungr sat um jólin í Þrándheimi ok hafði mikinn kostnað. Brandr ábóti var með honum, ok var konungr vel til hans. Einarr erkibyskup var sjúkr um vetrinn, gékk hann lítt at finna konung, en þó fóru allir hlutir vel með þeim. Dró Magnús konungr þar ok alla hluti til. Um sumarit kómu bréf vestan af Suðreyjum frá konunginum. Hann kærði mjök þann úfrið, er jarl af Ros ok Kjarvakr son Machamals ok aðrir Skotar gerðu í Suðreyjum, þá er þeir fóru í Skíð, brendu bœi ok kirkjur, drápu bæði karla ok konur ok létu smábörn sprökla á spjótaoddum. Þeir sögðu, at Skotakonungr ætlaði undir sik at leggja allar Suðreyjar, ef honum ynnist líf til. Þetta fékk konunginum mikillar áhyggju. Bar hann þetta mál fyrir vini sína. En hvat sem hverr lagði til, þá var þat ráð tekit, at konungr sendi bréf um allan Noreg ok bauð út leiðangri bæði at vistum, skipum ok liði. Stefndi hann öllum þessum her til móts við sik í Björgyn. Einarr erkibyskup átti tal við kórsbrœðr um byskupskosning á Íslandi, ok

kjöru þeir Brand ábóta með samþykki beggja konunganna. Þá var ok utan komit af curia sira Gillibert. Hann sýndi bréf páfa, at hann gaf í vald erkibyskups byskupskosning í Hamri, ok skyldi hann þó kjósa Gillibert, eptir því sem konungs vili var til. Hinn 4 dag nonas Martii mánaðar vígði Einarr erkibyskup þá báða til byskupa, Gillibert til Hamars, en Brand til Hóla; váru þar við Pétr byskup af Björgyn ok Þorgils byskup af Stafangri.

*Hákon konungr byrjaði herferð til Skotlands.*

356 (316, 317). Hákon konungr fór or Niðarósi nær miðri föstu út til Orkadals ok svá suðr um fjall ok hit efra austr til Víkr ok svá austr til Elfar, eptir því sem orð höfðu í milli farit þeira Birgis jarls, at þeir skyldu finnast í Ljóðhúsum í páskaviku. Ok er Hákon konungr kom til Ljóðhúsa, var jarl í brottu. Litlu síðar fór Magnús konungr or Þrándheimi ok dróttningar báðar. Hann hafði tíðir páskadag í Frekeyjarsundi; hann fór suðr til Stafangrs. Hákon konungr kom krossmessu dag í Björgyn, dvaldist þar um várit ok hélt á búnaði sínum. Þá er Magnús konungr hafði gert ráð fyrir útboðum ok skipabúningi í Rygjafylki, þá fór hann til móts við Hákon konung. Eptir þat samnaðist lið hversdagliga til bœjar, bæði lendir menn ok sýslumenn ok flestir handgengnir menn í landinu. Hákon konungr hafði almenniligt þing uppi á Bökkum. Lýsti konungr því, at hann ætlaði at halda her þeim öllum til Skotlands ok hefna þess úfriðar, sem Skotar höfðu gert ríki hans. Magnús konungr bauð at vera fyrir herinum, en Hákon konungr þakkaði honum ástsamliga, en sagðist sjálfr fara vilja. Hann fékk öll landráð í hendr Magnúsi konungi. Hann gaf upp bóndum, at engar sakir skyldu sýslumenn sœkja, meðan hann væri í brottu, utan þær er stœrstar væri. Hákon konungr hafði skip hit mikla, er hann hafði gera látit í Björgyn, ok ætlaði sér til útfaraskips; þat var 7 rúm ok 20 ok

gert af eik einni; þat var með drekahöfðum öllum gulllögðum, ok búnir svírarnir. Um várit hafði Hákon konungr sent vestr um haf Jón Langlífarson ok Heinrek skot at fá leiðsögumenn. Þeir fundu Duggál konung ok sögðu honum, at hersins var austan ván. En þat orð lék þar á, at Skotakonungr mundi herja í eyjarnar um sumarit; en Duggáll laust þá upp, at austan væri komit af Noregi 40 skipa, ok heptust Skotar þá.

*Frá Hákoni konungi.*

357 (318). Áðr nökkuru en konungrinn væri búinn, sendi hann átta skip vestr fyrir sér. Þessir váru þar formenn, Rögnvaldr urka, Erlingr Ívarsson, Andres Nikulásson, Hallvarðr rauðr ok enn fleiri. Þeir lágu um hríð út við haf ok byrjaði eigi. Þá er Hákon konungr hafði búit skip sitt, lagði hann or bœnum ok mestr hluti hersins. Konungr lagði til Eiðsvágs, ok síðan fór hann inn til bœjar ok dvaldist þar um hríð, ok fór síðan út til skips ok sigldi út í Herðluver. Kom þar saman allr herrinn bæði norðan or landi ok sunnan, ok var þat stórmikill herr, sem hér segir í Hrafnsmálum, ok Sturla kvað:

Sóttu sóknhvattar
sveitir hálcitan
geira glymstœri
glyggs or Finnbygðum;
alt brá jarðbeltis
austan sigrflaustum
gjálfr af Gautelfi
gætis hásæta.

Ok enn:

Öngr sá ormvengis
ótti vígdróttir
fleiri flugstœris
fleins í stað einum;
lukti lómblekkir
landa útstrandir
hríðar herskíðum
harðr ok ranngarði.

Hákon konungr lá með herinum öllum í Herðluveri, var þat allmikit lið ok frítt. Mörg hafði konungrinn stórskip ok vel búin, sem hér segir:

Glumdi á gjálfrtömdum
gestils skeiðhestum
eldr of allvaldi
ægis nafnfrægjum;
skein af skautvönum
skeiðum brynreiðar
sól um sigdeili
snotran úþrotlig.

Nökkurum nóttum síðar en Hákon konungr kom í Herðluver, sigldu þeir í haf Rögnvaldr ok Erlingr með þeim skipum, er þeir höfðu, ok skildust í hafi, ok kom Rögnvaldr til Orkneyja með sumum skipunum, en Erlingr ok Andres ok Hallvarðr rauðr sigldu fyrir sunnan Hjaltland ok síðan vestr fyrir Barreyjarfjörð, ok sá ekki land fyrr en Sulnasker vestr af Orkneyjum. Síðan sigldu þeir inn undir Skotland ok kómu við Dýrnes, ok géngu þar upp ok brutu kastala einn, er þar var, en menn þeir, er þar váru, flýðu undan. Síðan brendu þeir meir en 20 bœi, ok þá sigldu þeir í Suðreyjar ok fundu konunginn af Mön.

*Hákon konungr fór af Noregi.*

358 (319). Þrim nóttum fyrir Seljumannavöku sigldi Hákon konungr í Solundarhaf með öllum herinum. Þá hafði hann verit konungr at Noregi 40 vetra ok 6 vetr. Var þá allgóðr byrr ok fagrt veðr. Var flotinn allglœsiligr at sjá, sem hér segir:

Laust af liðföstum
ljósum valdrósar
brims á bjarthimna
blómum vegljóma;
ferð var friðskerðis
flokka áþokkuð
heims um hafstranma
hringa eldingum.

Hákon konungr hafði mjök valit lið á skip sitt. Þessir váru í fyrirrúmi, Þorleifr ábóti af Hólmi, síra Askatín, prestar 4 ok aðrir klerkar konungs; þessir leikmenn. Áslákr guss, stallari konungs, Andres af Þyssisey, Andres Hávarðarson, Guthormr Gillason ok Þorsteinn bróðir hans, Eiríkr skota Gautsson ok enn fleiri. Þessir váru í krapparúmi, Áslákr Dagsson, Steinarr herka, Klemet langi, Andres gums, Eiríkr son Duggáls konungs, Einarr lungbarðr, Arnbjörn svæla, Sighvatr Böðvarsson, Höskuldr Oddsson ok Jón hóglífi, Árni slyngr. Í þriðja rúmi var Sigurðr son Ívars rófu, Helgi son Ívars af Loflói, Erlendr skósveinn, Dagr af Suðrheimum, Brynjólfr Jónsson, Guðleikr sneis ok enn fleiri herbergismenn konungs.

Andres plyttr var féhirðir konungs. Þessir váru í stafni, Eiríkr kífa, Þorfinnr Sigvaldason, Kári Eindriðason, Guðmundr Jónsson ok enn fleiri skutilsveinar. Víðast váru 4 menn í hálfrými. Með Hákoni konungi fór or Björgyn Magnús jarl af Orkneyjum, ok gaf konungr honum gott langskip. Þessir lendir menn fóru með Hákoni, Brynjólfr Jónsson, Finnr Gautsson, Erlingr Álfsson, Erlendr rauði, Bárðr í Hestbœ, Eilífr í Naustdali, Andres pottr, Ögmundr krœkidans. Þeir sigldu fyrir, Rögnvaldr urka ok Erlingr Ívarsson; Jón dróttning var eptir í Björgyn, ok enn fleiri skipstjórnarmenn, þvíat þeir váru eigi búnir. Gautr af Meli ok Nikulás or Giska váru eptír með Magnúsi konungi. Margir váru aðrir ágætir skipstjórnarmenn með Hákoni konungi, þeir sem enn verðr getit. Hákon konungr fékk hœgjan byr ok var 2 nætr í hafi ok tók Hjaltland með hlut hersins, þar sem heitir Breiðeyjarsund, sem Sturla kvað:

Leysti langrastar
landa stýrandi
héldum háfaldar
húfum bláðúfur;
lýstisk hrein hæstum
höfn af skipstöfnum
eldi álfoldar
auðar glóðrauðum.

Hákon konungr lá í Breiðeyjarsundi nær hálfum mánaði, ok sigldi þaðan til Orkneyja ok lá um hríð í Elliðarvík, þat er nær Kirkjuvági. Þar hafði Hákon konungr tal við ráð sitt ok lýsti því fyrir þeim, at hann vildi skipta herinum ok senda suman suðr til Breiðafjarðar at herja þar, en hann sjálfr vildi bíða með Orkneyingum með stórskipunum ok mesta hluta hersins. En bœndr ok leiðangrsfólk gerðu sik bera á mót at mæla at fara nökkur nema með konunginum sjálfum, ok því eyddist þessi ferð. Ólafsvökudagr var. á sunnudegi, ok lét Hákon konungr syngja hátíðliga tíðir í landtjaldi ok veitti um daginn almúganum á skipi sínu. Eptir Ólafsvöku sigldi Hákon konungr or Elliðarvík suðr fyrir Múla fyrir Rögnvaldseyjar með öllum herinum. Var þá til konungs kominn Rögnvaldr utan or Orkneyjum með þeim skipum, er

hánum höfðu fylgt. Hákon konungr lagði herinum í Rögnvaldsvág ok lá þar um hríð. Þá gerir hann menn yfir á Katanes, ok lagði á þá gjald, en hét þeim í mót friði, ef þeir géngi undir, ella afarkostum. Katnesingar játtuðu gjaldi, ok fékk Hákon konungr þar menn til viðtöku, svá sem hér er kveðit:

Fyst tók fjörleystum
fróðr af Nesþjóðum
gjald hinn griðmildi
gætir norðsætra;
öll var ógnfallinn
öld á störvöldum
hrædd við herklæddan
herði höðgerðar

Þá er Hákon konungr lá í Rögnvaldsvági, dró myrkr mikit á sólina, svá at hringr lítill var bjartr um útan, ok hélzt þat stund dags. Hákon konungr hafði spurt ill tíðindi or Suðreyjum, þvíat Jón Langlífarson hafði komit til konungs á Hjaltlandi, er konungr hafði vestr siglt, ok sagt þau tíðindi, at Jón konungr í Suðreyjum mundi hafa um skipt sínum trúnaði ok snúizt til Skotakonungs. En Hákon konungr vildi því ekki trúa, fyrr en hann reyndi. Lafranzvökudag sigldi Hákon konungr or Rögnvaldsvági yfir Petlandsfjörð. Hann hafði þá spurt, at þeir váru þá komnir í eyjarnar Jón dróttning ok Kolbeinn Áslákssson ok þau skip, er austan var ván ok eptir höfðu dvalizt. Hákon konungr sigldi öllum herinum til hafnar þeirar, er heitir Ásleifarvík, ok þaðan til Ljóðhúsa ok svá til Rauneyja ok þaðan í Skíðsund, ok lá þar, sem heitir Kerlingarsteinn. Þar kómu til hans Magnús konungr or Mön ok þeir mágar Erlingr Ívarsson ok Andres Nikulásson, Hallvarðr ok Nikulás tartr. Þeir sigldu allir saman ok Jón dróttning ok skildust í hafi. Nikulás hafði hvergi við land komit fyrr en í Ljóðhúsum, síðan hann sigldi af Noregi. Þann dag er Hákon konungr sigldi or Skíðsundi, kom Duggáll konungr til hans á léttiskútu ok bað Hákon konung skynda sem mest eptir sér. Konungr sigldi þaðan í Mylarsund, en þaðan undir Kjarbarey, ok kom þar saman allr herrinn,

bæði Duggáll konungr ok Suðreyingar. Hákon konungr hafði þá á öðru hundraði skipa, ok flest stór ok öll vel skipuð bæði at mönnum ok vápnum.

*Hákon konungr sendi til Satíris.*

359 (320). Þá er Hákon konungr lá í Kjarbarey, sendi hann suðr til Satíriseiðs 50 skipa. Váru þessir þar fyrir Duggáll konungr, Magnús af Mön, Brynjólfr, Rögnvaldr urka, Andres pottr, Ögmundr krœkidanz, Vígleikr prestsson. Hann gerði 15 skip til Bótar; váru þar fyrir Erlendr rauðr, Andres Nikulásson, Símon stuttr, Ívarr ungi, Eyfari ok Guthormr Suðreyingar á sínu skipi hvárr. Hákon konungr sigldi í Guðey fyrir Satíri. Þar kom til hans Jón konungr; fór hann á skip Þorgils byskups. Hákon konungr bað hann fylgja sér, eptir því sem hann var skyldr til, en Jón konungr taldist undan ok sagðist hafa svarit eið Skotakonungi ok halda meira ríki af honum en Noregskonungi, ok bað Hákon konung gera ráð fyrir því ríki, er hann hafði honum fengit. Hákon konungr hafði hann með sér um hríð ok ætlaði at mýkja skap hans til trúnaðar við sik. Margir lögðu þungt til hans mála.

*Frá Hákoni konungi.*

360 (320, 321). En er Hákon konungr lá í Guðey, kom til hans ábóti einn af grámunka klaustri ok bað friðar stað sínum ok varnaði heilagrar kirkju, ok þat veitti konungr honum. Þá kómu menn frá Duggáli konungi ok sögðu, at Margaðr ok Engus af Satíri vildu gefa upp þau lönd, er þeir héldu, ok veita konungi sína fylgð. En konungr hafði þau andsvör, at hann mundi eigi þar herja, ef þeir kœmi á hans vald um daginn eptir fyrir hádegi, ella kvezt hann mundu herja. Um morgininn eptir kom Margaðr ok lagði alt í konungs vald. Litlu síðar kom Engus ok gerði slíkt hit sama. En konungr

hét at koma þeim í sætt við Skotakonung, ef þeir sættist. Seldu þeir konungi gisla ok sóru eiða. Konungr lagði gjald á ríki þeira 10 hundruð nauta. Konungr skipaði Engus eyna Íl; sem segir í Hrafnsmálum:

Hélt hinn hraðmælti
Hringa viðþingaðr
leiðir langskíðum
leygs í Suðreyjar;
upp gaf allkeppnum
Engus herfengna
Íl fyrir ítrbóla
eyði dalreyðar.

Ok enn segir svá:

Stóð af stórráðum
stýri brimdýra
ógn of úrþvegnar
jarðir vestrgarða;
fœrðu hjálmhirða
hausa friðlausir
jöfrar úsvífrum
ótta rándróttar.

Sunnan á Satíri er einn kastali, er hélt einn riddari. Hann fór á fund Hákonar konungs ok gaf í hans vald kastalann, en konungr skipaði hann Guthormi bakkakólf. Bróðir Símon hafði legit sjúkr um hríð; hann andaðist í Guðey, ok grófu grámunkar hann at kirkju sinni á Satíri ok breiddu yfir leg hans kögur ok kölluðu hann helgan. Þeir sem fóru til Satíriseiðs, brendu þar bygðir, tóku slíkt af fé, sem þeir féngu. þar til er þeim kom boð Hákonar konungs, at hann bannaði þeim at herja. Sigldu þeir þá út undir Guðey til móts við Hákon konung, sem hér segir:

Géngu geðstrangir
gætis vegmæta
sárs um Satíri
sunnan logrunnar;
söddu svartklædda
snóka dúnbróka
bragnar byrgegnir
brands á Skotlandi.

Hákon konungr gerði Andres pott suðr til móts við menn sína til Bótar. Þeir höfðu fengit einn kastala, ok höfðu þeir tekit grið af Norðmönnum. Þar var með Norðmönnum einn skipstjórnarmaðr, er Ruðri hét; hann þóttist ættborinn til Bótar. Hann var útlægr af Skotlandi; hann hafði gert Skotum margan úfrið, en þeir váru brott farnir. Síðan lagðist eyin Bót undir Hákon konung, sem hér segir:

Ferð vann friðskerðis
fræg ok úvægin
Bót af baugnjótum
breiða guðleiðum;
hreyfði hjör kleyfðan
hrafn á valtafni,
féllu fjándr stillis,
fleygr, í Suðreyjum.

Þeir fóru or Bót ok inn á Skotland ok brendu bœi nökkura. Ruðri gerði þat ilt, er hann mátti, sem hér segir:

Brunnu búmanna
bygðir údygðar,
heitr var hafsætra
hallar lífgalli;
féllu fleinþollar
feigir svanteigar
suðr af sæskíðum
sóttir herdróttum.

*Hákon konungr herjaði í Suðreyjum.*

361 (322, 323, 324). Þá er Hákon konungr kom í Suðreyjar, kómu þau orð af Írlandi, at þeir buðust undir hans vald ok þóttust mjök þurfa, at hann kœmi af þeim úfrelsi enskra manna, þvíat þeir héldu þá alla hina beztu staði með sjónum. Konungr sendi þá út Sigurð Suðreying at skynja, með hverju Írar byði honum þangat. Eptir þat sigldi Hákon konungr til Hereyja. Þenna tíma kómu jafnan sendimenn Skotakonungs til hans, predikarar eða hinir berfœttu brœðr, ok leituðu um sættir. Þá lét Hákon konungr Jón konung lausan ok bað hann fara í friði, hvert er hann vildi, ok gaf honum margar góðar gjafir. En hann hét at draga alt til sætta með þeim Skotakonungi ok finna Hákon konung, ef hann sendi honum orð. Hákon konungr sendi menn á fund Skotakonungs at vita um sættir, Gillibert ok Heinrek byskup af Orkneyjum ok Andres Nikulásson, Andres plytt ok Pál súr. Þeir fundu Skotakonung ok töluðu um sættir. Lét konungr yfir því líkliga, at hann vildi sættast, ok kvazt mundu senda til Hákonar konungs þau sættarboð, sem hann vildi vera láta; fóru sendimenn aptr, en Skotar kómu litlu síðar. Hafði Hákon konungr skrát upp allar þær eyjar fyrir vestan Skotland, er hann kallaði sér, en Skotakonungr hafði nefnt þær, er hann vildi eigi lausar láta, var þat Bót ok Herey ok Kumreyjar. Gékk

því eigi saman sættin. Skutu Skotar meir í langbakka ok fóru með því aptr til konungs síns. Síðan hélt Hákon konungr inn undir Kumreyjar öllum herinum. Var þá enn fundr lagðr til sætta inn á Skotlandi; sendi Hákon konungs þangat byskupa ok lenda menn, en til móts við þá kómu riddarar nökkurir ok klaustramenn. Töluðu þeir mart um sættir, ok kom mjök í sama stað niðr sem fyrri. Ok er á leið daginn, sömnuðust Skotar margir af landi ofan. Þóttu Norðmönnum þeir ekki trúligir, ok fóru til skipa sinna ok fundu konung ok sögðu honum viðtal þeira, ok fýstu flestir, at upp væri sagt friðinum. Hákon konungr sendi þá til Skotakonungs hirðmann sinn, er Kolbeinn riddari hét. Hann fór með friðarbréfi því, er Skotakonungr hafði sent Hákoni konungi, en skyldi aptr hafa með sér þat friðarbréf, er Hákon konungr hafði sent Skotakonungi. Hér með skyldi hann segja svá, at konungarnir fyndist með öllum sínum her; yrði þeir þá sáttir með guðs miskunn, þá væri vel, en ef þess yrði eigi auðit, bauð Hákon konungr Skotakonungi at berjast með öllum herinum, hefði sá gagn, er guð vildi. Þessu tók Skotakonungr ekki úlíkliga at berjast, en varð engi orskurðr á. Fór Kolbeinn aptr til konungs, ok þótti honum hans erendi lítit. Svá segir í Hrafnsmálum:

Bauð hinn böðfróði
bragna sigrmagnaðr
austan orrostu
optar spjótsköptum;
þorðut þrekstirðan
þegnar úfegnir
bjórs við blikrýri
berjask útverja.

Þá var lokit öllum griðum. Hákon konungr sendi 60 skipa inn í Skipafjörð; var þar fyrir Magnús konungr af Mön ok Duggáll konungr ok Aleinn bróðir hans, Engus ok Margaðr, Vígleikr prestsson, Ívarr hólmr. Þeir eyddu bygð alla umhverfis vatn þat, er heitir Lokulofni, þat var jarlsríki eitt, er hét Lofnard. Mikill fjöldi eyja var í vatninu, ok eyddu þeir þær allar ok drógu til báta sína, sem Sturla kvað:

Drógu dynsveigis
darra flugskjarrir
báta baugnjótar
breiðar strandleiðir;
eyddu úhræddir
eyjar geirþeyjum
vægðar í víðbygðu
vatni herskatnar.

Aleinn bróðir Duggáls gékk yfir þvert Skotland, feldi mart manna ok tók mörg 100 nauta ok gerði hit mesta hervirki, sem hér segir:

Herðu herferðir
hryggs í stórbygðir
víða vargfœðis
virðar geðstirðir;
fékk hinn fólkrakki
felli gunnspelli
öldum úsjaldan
Aleinn lífdvalar.

Nökkur 10 skip braut fyrir þeim í Skipafirði. Ívarr hólmr tók sótt ok andaðist. Mikjálsmessa var á laugardegi, en mánadagsnóttina eptir kom á stormr mikill með élum ok hreggi. Kölluðu þeir þá, er strengvörð héldu á konungsskipi, ok sögðu, at kugg einn rak framan at festum. Hlupu menn þá upp, en stögin á kugginum festi á konungsskipinu á höfði skipsins ok tók af nasarnar. Síðan rak kugginn aptr með borði, til þess er akkerit tók við ok festi í strenginum. Tóku þá akkerin at kraka. Konungrinn bað þá höggva akkeristrenginn á kugginum, ok svá gerðu þeir. Rak hann þá út á eyna, en konungsskipit hélzt, ok lágu tjaldlausir til dags. En um morgininn, er flœddi, flaut kuggrinn, ok rak hann þá upp á Skotland. Vindrinn tók at vaxa, svá at eins neyttu menn þá grunnfœra þeira, er til höfðu. Þá var felt hit fimta akkeri á konungsskipi, en konungr fór í bát ok reri út til eyjarinnar ok lét syngja sér messu. En skipit rak inn á sund. Var þá tekit aðalakkerit ok sett fyrir, ok rak eigi at síðr. Nökkur 5 skip rak inn at landi. Þá hrifu við akkerin á konungsskipinu, váru þá 8 fyrir með því, er þeir höfðu átt á kugginum. Menn féngu þar hina mestu vásbúð, sem hér segir:

Mœtti margfréttinn
miklum framstiklir
auðar úþjóða
Inga gerningum;
leysti lábrostinn
lögr hin skautfögru
flaust or frónlæstum
festum bauglestis.

Ok enn segir svá:

Blés á böðfúsa
bragna fjölmagnat
hregg á herbygðum
hríðar brimskíðum;
upp rak alkepna
öld með herskjöldum
grundar gjalfrundit
grand at Skotlandi.

*Frá Skotum ok Hákoni konungi.*

362 (325, 326). Þá er Skotar sá, at skipin váru rekin, sömnuðust þeir saman ok fóru ofan at Norðmönnum, en þeir vörðust vel á kugginum. Konungr sendi inn menn á bátum at hjálpa þeim, er á landi váru, sem hér segir:

Sendi snarlynda
sverða blikskerðir
sveit hinn sigrmæti
síð til brynhríðar;
drap hina dulgreipu
drengja lof þengils
drótt sá er dalgauta
dœmdi herr sœmda.

Síðan fór konungr út á kertisveina skútu með Þorlaugi bosa. Þegar konungsmenn kómu á land, flýðu Skotar, en Norðmenn váru á landi um nóttina. En Skotar fóru at kugginum um nóttina ok tóku í brottu fé, sem þeir máttu. Um myrgininn lét konungr ryðja kugginn ok fœra út til skipa. Þá kom herr Skota. Ögmundr krœkidanz var á haugi einum ok sveit manna með honum, ok sóttu Skotar at þeim gletting þann. En er meginherrinn nálgaðist, báðu þeir konung róa til skipa ok senda þeim lið. Konungr bauð at vera á landi með þeim, en þeir vildu eigi leggja hann svá í hættu, ok reri hann til liðs síns. Þessir váru lendir menn á landi, Ögmundr krœkidanz, Erlingr Álfsson, Andres pottr, Erlendr rauðr, Andres Nikulásson, Páll súrr, Þorlaugr bosi, Andres plyttr. Alls váru þeir 8 hundruð manna. 200 váru á hauginum með Ögmundi, en annat lið var á mölinni niðri. Þá dróst Skotaherr at þeim mjök margr ok vel búinn at hestum ok vápnum. Þat var ávarp manna, at vera mundu 5 hundruð riddara en fjöldi fótgönguliðs, ok höfðu þeir mest boga ok spörður. Þeir

Ögmundr fóru þá ofan af hauginum til kumpána sinna. Skotar sóttu þá fast at með grjóti ok skotum, en hinir fóru undan á hæli ok hlífðu sér. En er þeir kómu á neðstu brekku, fór hverr öðrum harðara. Ok er þetta sá þeir, er niðri váru, hugðu þeir Norðmenn flýja. Hlupu þá margir til báta ok svá frá landi. Flestir bátar sukku niðr. Týndust nökkurir menn, sumir hljópu í kugginn. Hinir kölluðu, at þeir skyldu aptr snúa. Sneru þá aptr nökkurir menn ok þó fáir. Þar féll Hákon af Steini ok 2 menn aðrir. Þá var bardagi hinn harðasti ok þó mjök újafnligr, þvíat 10 váru Skotar um einn Norðmann. Þessir váru formenn, Ögmundr krœkidanz, Andresar tveir, Þorlaugr bosi. Þá féll einn riddari skozkr, er Perus hét, ok enn fleiri. Svá kvað Sturla:

Hlóðu hugprúðir
hrings í brynþingi
værir vegstórum
virðar baugnirði;
fyldusk fjörseldum
frammi valgammar,
hverr mun hringþverris
hefna, auðstefni.

Meðan bardaginn var, þá var svá mikill stormr, at Hákon konungr sá eigi efni á at koma herinum á land. En Rögnvaldr ok Eilífr kómu til bardagans við nökkura menn ok fóru alldjarfliga ok þeir Norðmenn, er á bátana höfðu gengit. En Rögnvaldr hrökk út aptr til skips síns, en Eilífr fór allkarlmannliga. Þá tók Norðmönnum at samnast lið, ok létu Skotar þá undan upp á haugina, ok var þá glettusókn milli þeira um hríð með skoti ok grjóti. Ok er á tók at líða á daginn, veittu Norðmenn atgöngu Skotum upp á hauginn ok sóttu þá hit djarfligsta, sem segir í Hrafnsmálum:

Kvöddu kappstudda
kæris Norðmœra
haulda hervaldir
hersar gunnversum;
gékk hin geðrakka
gætis hássæta
hjaldri járnfaldin
hirð at hjörstœrðum.
Beit at brynmóti
brún í rauðtúnum
egg um údyggvar
aldir gunntjalda,
áðr en egghríðar
undan víglundum
skundu skýþundar
skozkir alþroskins.

Skotar flýðu þá af hauginum, hverr sem mátti, í fjöll í brot. Ok er Norðmenn sá þat, fóru þeir til bátanna ok reru út til skipa, ok kómust nauðuliga fyrir stormi. En um myrgininn eptir fóru menn eptir líkum þeira manna, er fallit höfðu. Þessir féllu þar, Hákon af Steini, Þorgils gloppa, þeir váru hirðmenn Hákonar konungs. Þar féll góðr bóndi or Þrándheimi, er Karlshöfuð hét, annarr bóndi or Fjörðum, er Áskell hét. Þar létust 3 kertisveinar, Þorsteinn bátr, Jón ballhöfuð, Hallvarðr bunjarðr. Úgerla máttu Norðmenn vita, hvat féll af Skotum, þvíat þeir tóku hvern, er féll, ok fluttu til skógar. Hákon konungr lét flytja lík sinna manna til kirkju.

En fimtadaginn eptir lét Hákon konungr taka upp akkerin ok flytja skip sitt út undir eyna, ok þann dag kom sá herr til hans, er inn hafði farit í Skipafjörð. En föstudaginn eptir var veðr gott; sendi konungr á land gesti at brenna skip þau, er upp hafði rekit, ok þann sama dag sigldi konungr undan Kumrey ok út til Melanseyjar ok lá þar nökkurar nætr. Þar kómu til hans þeir menn, er hann hafði sent til Írlands, ok sögðu, at Írar vildu halda allan herinn um vetrinn, til þess at Hákon konungr frelsaði þá undan valdi enskra manna. Hákon konungr var mjök snúinn á þat at sigla til Írlands, en alþýðunni var þat mjök í móti skapi. Ok með því at eigi byrjaði út þangat, þá átti konungr þing við lið sitt ok lýsti því, at hann vildi gefa öllum orlof at sigla til Suðreyja, þvíat herrinn hafði vistafátt. Þá lét Hákon konungr flytja lík Ívars hólms inn til Bótar, ok var hann þar jarðaðr. Eptir þat sigldi Hákon konungr undan Melansey ok lá um nóttina undir Herey, ok þaðan undir Sandey ok svá til Satírismúla ok kom um nóttina norðr undir Guðey. Þaðan sigldi hann út í Ílarsund ok lá þar 2 nætr. Hann lagði gjald á eyna 300 nauta; þat skyldi gjalda sumt í mjöli ok osti.

Hákon konungr sigldi þaðan sunnudaginn í vetrnóttum

ok fékk svá mikinn storm með myrkri, svá at fá ein héldu seglum sínum. Þá tók konungr höfn í Kjarbarey. Fóru þá menn í milli þeira Jóns konungs, en þó varð ekki af fundi þeira. Þá spurði konungr, at menn hans höfðu höggit strandhögg mikit í Myl, ok þar váru drepnir nökkurir menn af Mylverjum ok enn 2 eða 3 af Norðmönnum. Þaðan sigldi Hákon konungr inn til Mylarkálfs ok lá þar nökkurar nætr. Þar skildist Duggáll konungr frá ok Aleinn bróðir hans, ok skipaði konungr þeim þat ríki, er Jón konungr hafði áðr haft. Magnús konungr ok aðrir Suðreyingar höfðu fyrr frá skilizt. Ruðra skipaði hann Bót, en Margaði Herey, Duggáli konungi gaf hann kastala þann á Satíri, er Guthormr bakkakólfr hafði í setit ok unnit af Skotlandi. Í þessi ferð gat Hákon konungr aptr unnit ríki þau öll, sem Magnús konungr berbeinn hafði unnit af Skotlandi ok Suðreyjum, sem hér segir:

Öll vann Egða stillir
aptr geirbrúar hapta
skjótt af skozkum dróttum
skattlönd megingrönduðs;
reisti öngr við yngva,
úlest fyrir haf vestan
rógsœkis varð ríki,
rönd veðrboði göndlar.

*Frá Magnúsi konungi.*

363 (327). Hákon konungr sigldi or Mylarkálfi til Rauneyjar. Þar lá fyrir honum Balti bóndi af Hjaltlandi ok þeir menn, sem hann hafði sent til Orkneyja, ok þeir er hann hafði gefit orlof til Noregs. Veðr gékk í mót konungi, ok sigldi hann þá í Vestrafjörð á Skíði ok lá þar nökkura hríð ok tók vistagjald af eynni. Þaðan sigldi hann fyrir Hvarf, ok er hann kom fyrir Dýrnes, féll veðrit í logn; lagði hann þá inn í Góafjörð. Þat var tveggja postolamessuaptan Simonis ok Judæ, en messudagrinn var á dróttinsdag; konungrinn lá þar um nóttina. En messudaginn, er sungin var messa, kómu til hans nökkurir skozkir menn, er Norðmenn höfðu tekit. Hákon

konungr gaf þeim grið ok sendi þá upp í bygðina, ok hétu þeir at koma ofan með nautum til konungs, en einn var eptir í gisling. Sá atburðr varð um daginn, at ellifu menn af skipi Andres kuza fóru á land á báti at taka sér vatn. Litlu síðar var heyrt, at þeir œptu. Reru menn þá til, ok váru 2 teknir af sundi mjök sárir, en 9 fundust á landi allir drepnir. Höfðu Skotar komit at þeim, en þeir höfðu hlaupit til bátsins, ok var hann uppi fjaraðr. En þeir váru allir vápnlausir, ok varð af því engi vörnin. En þegar Skotar sá, at til var róit, hljópu þeir til skógar, en Norðmenn höfðu líkin með sér. Mánadaginn sigldi Hákon konungr or Góafirði ok lét flytja á land hinn skozka mann ok gaf honum grið. Konungr kom öndverða nótt til Orkneyja ok lá í sundi nökkuru norðr frá Ásmundarvági. Þaðan sigldi hann í Rögnvaldsvág, ok kom þar saman mestr hluti liðsins, er fyrir hafði siglt, ok þá er þeir sigldu yfir Petlandsfjörð, var röst mikil í firðinum, ok týndist þar eitt skip or Rygjafylki ok allir menn þeir, sem á váru. Jón í Hestbœ rak austr eptir firðinum, ok hafði honum allnær, at hann mundi reka í svelginn, en með guðs miskunn rak skipit austr í haf, ok er hann misti eyjanna, sigldi hann til Noregs.

### *Hernaðr Hákonar.*

364 (328). Hákon konungr kom í Rögnvaldsvág, ok var þá mikill hluti hersins sigldr til Noregs, sumir með lofi konungs, en sumir gáfu sér sjálfir leyfi. Hákon konungr hafði þat orð á fyrst, er hann kom í eyjarnar, at hann mundi sigla til Noregs, en með því, at veðrátta tók at harðna, en eigi vildi byrja, tók hann þat ráð at sitja í Orkneyjum um vetrinn. Nefndi hann þá til nær 20 skip eptir at vera, en hann gaf þá orlof öðrum heim at sigla. Þá gerði Hákon konungr menn með bréfum sínum um skipan ríkis síns í Noregi ok aðra hluti. Með Hákoni konungi váru eptir allir lendir menn, þeir sem

vestr höfðu farit utan Eilífr af Naustdal, hann var austr sigldr; en flestir hinir beztu menn or landinu váru eptir með konunginum. Eptir allra heilagra messu lét konungr sigla skipi sínu út til Meðallandshafnar, en hann dvaldist um daginn í Rögnvaldsey ok fór þaðan inn til Kirkjuvágs. Eptir þat sá hverr skipstjórnarmaðr fyrir skipi sínu. Váru sum upp sett í Meðallandshöfn en sum inn við Skálpeið. Hákon konungr reið út til Meðallandshafnar laugardag fyrir Marteinsmessu, þat var um aptaninn, er hann var krankr mjök. Var hann um nóttina á skipi, en um morgininn lét hann syngja sér messu á landi. Síðan gerði hann ráð fyrir skipi sínu, hvar upp skyldi setja, ok bað menn góða stund á leggja at sjá fyrir skipunum. Síðan fór hann inn til Skálpeiðs ok reið svá til Kirkjuvágs. Hann fór í boð byskups með öllum sínum sveitungum, þeim sem hann hélt borð. Héldu þeir báðir borð í höllinni konungr ok byskup, hvárr sínum mönnum. En konungrinn var uppi í herbergjum ok mataðist þar jafnan. Hákon konungr lét skrá lendum mönnum ok sveitarhöfðingjum eyrislönd til vistatöku at halda þær sveitir, sem með þeim váru, ok svá af hverjum eyrislöndum. Andres plyttr skyldi halda sjálft konungsborð ok út gefa hirðinni, gestum ok kertasveinum ok öllum hans sveitungum, þeim eigi ok síðr, sem hann hélt. Þá er menn höfðu sét fyrir skipunum, fóru hverir þannig, sem skipat var. Þessir lendir menn váru í Kirkjuvági, Brynjólfr Jónsson, Erlingr Álfsson, Rögnvaldr urka, Erlingr af Bjarkey, Jón dróttning, Erlendr rauðr ok margir aðrir skipstjórnarmenn ok sveitarhöfðingjar, en aðrir lendir menn ok skipstjórnarmenn váru í heraði á þeim eyrislöndum, sem þeim váru skipuð.

*Sótt Hákonar konungs.*

365 (329). Konungrinn hafði haft um sumarit vökur miklar ok stórar áhyggjur. Var hann opt kallaðr af

sínum mönnum ok hafði lítit frelsi. En er hann kom utan or Meðallandshöfn frá skipi sínu, sem áðr var sagt, þá lagðist hann brátt í rekkju af sótt, ok fór sóttin þó ekki mjök ákaft í fyrstu. Ok er hann hafði legit nökkurar 3 vikur, létti honum heldr, ok var hann þá 3 daga á fótum. Gékk hann hinn fyrsta dag um herbergit innan, en annan í kapellu byskups ok hlýddi þar messu. Hinn þriðja dag gékk hann til Magnúskirkju ok um skrín hins heilaga Magnús jarls. Þann dag lét hann gera sér kerbað ok fór þar í ok lét raka sér. Þá sömu nótt eptir tók at þyngja mjök hans sóttarfari, lagðist hann þá annat sinn í rekkju, ok þótti mönnum þá hans sóttarfar mjök þyngjast. Í sóttinni lét hann fyrst lesa sér latínubœkr. En þá þótti honum sér mikil mœða í at hugsa þar eptir, hversu þat þýddi, lét hann þá lesa fyrir sér norrœnubœkr nætr ok daga; fyrst heilagra manna sögur, ok er þær þraut, lét hann lesa sér konungatal frá Hálfdani svarta ok síðan frá öllum Noregs konungum, hverjum eptir annan. Þá er Hákon konungr þóttist finna, at mjök þyngðist sóttarfarit, þá gerði hann ráð fyrir málagjöfum við hirð sína, ok kvað hann á, at gefa skyldi mörk brenda hverjum hirðmanni, en hálfa mörk gestum ok skutilsveinum ok öðrum sínum þjónostumönnum. Þá lét hann vega allan borðbúnað sinn, þann er eigi var gyldr, ok mælti svá fyrir, at þar sem þryti skírt silfr, þá skyldi borðbúnaðinn gefa, svá at allir hefði góð skil. Þá váru ok rituð bréf, þau er hann vildi senda til Magnús konungs með allri þeiri skipan, sem honum þótti mestu varða. Hákon konungr var oleaðr einni nótt fyrir Lucíumessu. Váru þar at byskupar, Þorgils byskup af Stafangri, Gillibert byskup af Hamri, Heinrekr byskup af Orkneyjum, Þorleifr ábóti ok margir aðrir lærðir menn. Ok áðr hann væri smurðr, þá mintust menn við hann, þeir er við váru. Var þá konungrinn enn málhress. Hann var eptir fréttr í sóttinni af trúnaðarmönnum sínum,

ef svá erfiðliga yrði, at hans misti við eða Magnús konungs, hvárt hann ætti engan son eptir, eða hvárt nökkut væri í annan stað til at ganga, þar sem hans afkvœmi væri. En hann tók mikit af því, at hann ætti engan son eptir sik nema Magnús konung ok eigi dóttur, þá er menn viti eigi áðr. Þá er lesit var konungatal framan til Sverris, þá lét hann taka til at lesa Sverris sögu. Var hon þá lesin bæði nætr ok daga jafnan, er hann vakti.

### *Andlát Hákonar konungs.*

366 (330). Messudagr Luciæ meyjar var á fimtadag, en laugardaginn eptir síð um kveldit þröngði svá sóttarfari konungsins, at hann misti máls síns. Nær miðri nótt var úti at lesa Sverris sögu. En heldr at miðri nótt liðinni kallaði almáttigr guð Hákon konung af þessa heims lífi. Var þat öllum mönnum hinn mesti harmr. þeim er þar váru við staddir, ok mörgum öðrum, þeim er síðan spurðu. Þessir lendir menn váru við andlát konungsins, Brynjólfr Jónsson, Erlingr Álfsson, Jón dróttníng, Rögnvaldr urka ok nökkurir þjónostumenn þeir, sem næst höfðu gengit konunginum í sóttinni. Þegar eptir andlát konungsins var sent eptir byskupum ok lærðum mönnum, ok þegar er þeir kómu, sungu þeir sálutíðir. Eptir þat fóru allir menn or herberginu nema Þorgils byskup ok Brynjólfr Jónsson ok 2 menn aðrir. Þeir þvógu þá líkinu ok rökuðu ok veittu alla þjónostu, sem sómdi svá ágætum konungi, sem Hákon konungr hafði verit. Sunnudaginn var líkit borit upp í lopthöllina, váru þar búnar barar með ágætum búnaði. Líkit var klætt tignarklæðum ok sett garlant á höfuð honum ok búit um at öllu, sem býðr um svá ágætan höfðingja ok kórónaðan konung. Líkit var á barar lagt; géngu þangat þá byskupar allir ok kennimenn, þeir sem í váru bœnum, ok allir handgengnir menn. Þá héldu kertisveinar kertum, var þá ljóst um alla höllina. Þá gékk til fólkit at sjá

líkit, ok sýndist öllum bjart ok þekkiligt ok fagr roði í andlitinu sem lifanda manni. Var mönnum þat mikil huggan af þeim mikla harmi, er þá höfðu menn fengit, at sjá svá fagran líkama framfarins manns ok síns herra. Síðan váru sungnar sálutíðir hátíðliga. Vakti hirðin yfir líkinu um nóttina. En mánadaginn var lík Hákonar konungs borit til Magnúskirkju ok náttsett þar aðra nótt. Þriðjadaginn var lík Hákonar konungs lagit í kistu með slíkum umbúnaði, sem siðr er til eptir kórónaðan konung. Hann var jarðaðr í kórnum í Magnúskirkju þar á gradunum fyrir skríni hins heilaga Magnús jarls. Síðan var aptr luktr steinninn sem áðr yfir uppi, ok var breiddr yfir kögurr. Þá var átt hirðstefna ok gert þat ráð, at allan vetrinn skyldi halda höfuðvörð yfir leiði konungsins. Um jólin veitti byskup ok Andres plyttr, eptir því sem Hákon konungr hafði ráð fyrir gert. Var þá ok öllum mönnum gefinn góðr máli.

*Líkferð Hákonar konungs.*

367 (331). Hákon konungr hafði til þess skipat í sótt sinni, at lík hans væri flutt til Noregs, ok væri hann grafinn í Björgyn hjá feðr sínum ok öðrum frændum. Ok þegar af leið hávetrit ok sjór tók at hœgjast, var framsett skipit þat hit mikla, er konungr hafði vestr haft, ok búit sem skjótligast. Öskudag var lík Hákonar konungs tekit or jörðu,. þat var hinn 3 nonas Martii mánaðar. Gékk þá öll hirðin með út um Skálpeið, ok var líkit flutt í báti út til skipsins. Þeir váru mest fyrir skipinu, Þorgils byskup, Erlingr Álfsson ok Andres plyttr. Þar var á hirð konungsins, sú er vestr hafði farit. Ok er þeir váru búnir, létu þeir í haf. Þeir sigldu út laugardaginn fyrsta í föstu ok féngu hörð veðr ok þver ok tóku land suðr í Silavági, ok sendu þegar bréf Magnúsi konungi ok sögðu honum þau miklu tíðindi, er í þeira ferð höfðu gerzt. Eptir þat fóru þeir norðr til Björgynjar,

þegar leiði gaf. Kómu þeir í Laxavág um daginn fyrir Benedictusmessu. Messudaginn reri Magnús konungr í mót þeim ok Pétr byskup, var þá skipinu lagt til bæjarins við konungsgarð; var líkit borit af skipi upp í sumarhöllina. En um morgininn eptir var líkit borit út til Kristskirkju, gékk þar með Magnús konungr ok dróttníngarnar báðar, byskupar, lærðir menn, handgengnir menn ok allr bœjarlýðr. Váru þá sungnar sálumessur. Eptir þat var lík Hákonar konungs jarðat í kórinum í Kristskirkju, ok þakkaði Magnús konungr líkferð með mörgum fögrum orðum ok talaði snjalt erendi yfir greftinum. Þar stóð allr lýðr yfir með hryggu hugskoti, sem Sturla kvað:

Þrimr nóttum kom þróttar | margr stóð málma skerðir,
þinghlynr til Björgynjar | mikit stríð var þat síðan,
áðr en allvald prúðan | lýða grams yfir leiði
ófs dynviðir grófu; | lítt kátr með brá váta.

Hákon konungr var jarðaðr 3 nóttum fyrir Maríumessu. Þá var liðit frá burð ok holdgan várs herra Jesu Krists þúsund tvau hundruð sextigir ok þrjú ár ok þrim nóttum minnr.

*Af yfirlitum ok límavexti Hákonar konungs.*

368 (332). Hákon konungr var ekki hár meðalmaðr, vel vaxinn, herðibreiðr, miðmjór, heldr hár í sessi, ekki fótlangr, nökkut útskeifr, vaxinn mjök á þann hátt, sem verit hafði Sverrir konungr, mikilleitr í andliti, litgóðr, hærðr vel, eygðr mjök ok þó vel. Öllum var hann hugþekkr, þá er honum var gott í skapi, en grimmligr ok ógurligr, ef hann var reiðr. Hann var hverjum manni kátari ok vakrari ok léttari á sér, blíðr við fátœka menn ok þurftuga, þvíat aldri var hann í svá þungu skapi, at eigi svaraði hann þeim blíðliga. Hann var látgóðr ok tiguligr, þá er hann sat með öðrum höfðingjum, hugaðlátr ok veglátr, snjallr maðr ok vel talaðr á þingum. Manna var hann vitrastr bæði til laga ok ráðagerða. Þat mæltu þeir vitrir menn, er sendir váru til hans af öðrum höfð-

ingjum, at þeir höfðu alls engan höfðingja sét, þann er þeim þœtti heldr vera bæði konungr ok herra ok félagi. Hákon konungr lét í mörgu bœta lög ok landsrétt í Noregi. Hann lét setja bókina, er nú er kölluð hin nýju lög. Af tók hann öll manndráp ok fóthögg. Engi skyldi sá þrífast í landinu, er tœki annars manns eiginkonu. Ættvíg öll lét hann af taka, svá at engi skyldi gjalda annars tilverka, nema bœta þeim, er lög segði.

*Velgerðir Hákonar konungs.*

369 (333). Hákon konungr lagði meira hug á at styrkja guðs kristni í Noregi en engi konungr fyrir honum, síðan var hinn heilagi Ólafr konungr. Hann lét gera kirkju norðr í Trums ok kristnaði alla þá kirkjusókn. Til hans kómu margir Bjarmar, er flýit höfðu austan fyrir úfriði Tattara, ok kristnaði hann þá ok gaf þeim þann fjörð, er Malangr heitir, ok lét hann kirkju gera í Ófótafirði ok virki við Agðanes. Hann lét gera tréhöllina í konungsgarði í Niðarósi ok öll hin beztu hús. Hann lét gera kirkju í Guley norðr frá Björgyn ok offraði þar til gullhring. Hann lét gera Postolakirkju í konungsgarði í Björgyn af steini. Hann lét gera Ólafskirkju ok klaustr af sínum kostnaði. Hann lét húsa konungsgarð í Björgyn, ok steinmúr um ok kastala yfir báðum hliðunum. Hann lét gera Katrínarkirkju við Sandbrú ok spitalinn ok gaf þar til 200 mánaðarmata ból. Hákon konungr lét alhúsa borgina í Björgyn, eptir þat er brunnit hafði, ok gera múrinn at 2 hlutum ok vígskarða ok gera útborgina. Þá var ok reist af grundvelli allra heilagra kirkja í Vágsbotni með ráði konungs, ok gaf hann þar til 100 mánaðarmata ból í sótt sinni. Hann lét gera steinkirkju á Ögvaldsnesi, er hin fjórða er mest heraðskirkja í Noregi. Hann lét ok reisa steinmúr um Túnsberg ok kastala yfir portunum, ok Gautakastala yfir Danakleif. Hann lét ok húsa alt bergit ok konungsgarð við Lafr-

anzkirkju. Hann lét ok gera spital fyrir sunnan Ólafskirkju ok gaf þar til 300 marka ból. Hann lét grafa út djúp við Skeljastein, svá at nú má fara kuggum, er áðr skriðu varla smáferjur. Hann lét gera Berfœttabrœðra kirkju í Túnsbergi, ok var hon síðan fœrð suðr í Dragsmǫrk. Hann lét ok gera Maríuklaustr ok steinkirkju ok gaf til 50 marka ból. Hann lét ok gera borg á Válkabjörgum ok lét fœra þangat Nikuláskirkju í Osló. Hann lét húsa konungsgarð út á Eyrum í bœnum ok lét ok gera borg í Konungahellu í Ragnhildarhólma ok húsa konungsgarð í bœnum. Hann lét ok byggja Gulleyna, húsa ok ryðja Ekreyjar ok gera þar trékirkju. Hann lét byggja Mástrandir ok margar aðrar eyðieyjar í Víkinni. Hann lét gera steinhús í Mjörs í hólmanum við Hringisakr ok húsa. Hann lét gera veizluhöll á Steig ok endrbœta kirkjuna, þvíat áðr var mjök at falli komin. Hann lét gera bú á Hofi í Breiðin ok veizluhöll ok lagði eignir við. Hann lét gera veizluhöll í Húsabœ í Skaun á Heiðmörk ok aðra á Hringisakri. Hann lét gera bú á Viðheimi í Eyju. Hann lét gera kapellu á Þoptyn, er engi var áðr, ok veizluhöll. Hann lét ok gera múrinn um Sverrisborg á Steinbjörgum ok húsa, síðan Baglar höfðu brotit.

# Register over Personsnavne.

# Register over Tilnavne.

Dvergr, Eilífr.
Dyn, Hreiðarr.
Dyntill, Áslákr.
—, Herjólfr.
Dýnulauss, Ívarr.
Dyttr, Brúsi.
Eðlungr, Guðleikr.
Eikiland, Ögmundr.
Einhendi, Kári.
Elda, Ívarr.
Eljubjarni.
Eplastöng, Eilífr.
Eysill, Hákon.
Eyskeggjar.
Faðir, Klemet.
Fari, Úlfr.
Fasi, Úlfr jarl.
Feykir, Eyvindr.
Flekkr, Bárðr.
Fleskún, Helgi.
Fliða, Páll.
Fljóðakollr, Ívarr.
Flotbytta, Guðleikr.
Fluga, Ketill.
Flý, Úlfr.
Foka, Arnþórr.
Fótr, Páll.
Fuðendr, Þorgils.
Furulangr, Björn.
Fylbeinn Þormóðr.
Galinn, Gunnarr.
—, Hákon.
Galli, Ívarr.
Gás, Páll.
Gási, Óttarr.
Gauti, Gjafvaldr.
Geigr, Guðini.
Gemsir, Þorsteinn.
Gilli, Haraldr.
—, Nikulás.
Gloppa, Þorgils.
Gnit, Özurr.
Gnitaskör, Guðlaugr.
Góði, Magnús.
Gott smjör, Gauti.
Grábarði, Guthormr.
Grettir, Ívarr.
Griðkona, Atli.
Griðmaðr, Jón.
Gríss, Hákon.
Grjónbakr, Gunnarr.
Grön, Kolbeinn.
Gullbeinar.
Gullkroppr, Reiðúlfr.
Gullskór, Hallvarðr.
Gullvægr, Eilífr.
Gums, Andres.
Gusi, Ívarr.
Guss, Áslákr.
Gustr, Áslákr.
Gæslingr, Ívarr.
Gœla, Hallvarðr.
Görn, Birgir.
—, Helgi.
Hali, Bárðr.
Hálmhauss, Ívarr.
Hamarskalli, Ásgeirr.
Hani, Úlfr.
Harmr, Ásvarðr.
Hattspjörr, Knörr.
Hegri, Eindriði.
—, Guthormr.
Heimnes, Þorsteinn.
Helga hin, Sunnifa.
Helgi hinn, Eiríkr Svíakonungr.
— —, Hallvarðr.
— —, Kolumba.
— —, Magnús jarl.
— —, Ólafr konungr.
— —, Rögnvaldr jarl.
— —, Thomas erkibyskup.
— —, Þorlákr byskup.
Herka, Steinarr.
Hestr, Bjarni.

Leppr, Loðinn.
Lest, Gunnarr.
Limr, Bótólfr.
—, Sæbjörn.
Línseyma, Páll.
Litli, Benedikt.
—, Einarr.
—, Veseti.
Ljóðhorn, *se:* hljóðhorn.
Ljoxa, Eindriði.
Loki, Þórðr.
Lungbarðr, Einarr.
Lygra, Einarr.
Lyxusveinar.
Magni, Jón.
Mangi, Magnús.
Marardráp, Hallvarðr.
Matjarl, Árni.
Maull, Bergr.
Maxi, Eiríkr.
Minniskjöldr, Magnús.
Mirman, Gunnarr.
Mjóbeinn, Þórir.
Mokr, Ólafr.
Munki, Sveinn.
Muntari, Hagbarðr.
Möndull, Nikulás.
Nef, Brynjólfr.
—, Ívarr.
Nefja, Víkingr.
Njáll, Þorkell.
Næpa, Sveinn.
Orri, Eilífr.
—, Eysteinn.
Paris, Jón.
Peini, Eindriði.
Petill, Sigurðr.
Pík, Þjóðólfr.
Píkr, Erlendr.
Piltr, Vilmundr.
Plyttr, Andres.
Posi, Arnbjörn.
Pottr, Andres.
Púss, Ingimundr.
Pæla, Þórir.
Rakki, Eindriði.
Rangi, Pétr.
Rauði, Eilífr.
—, Erlendr.
—, Kolbjörn.
—, Helgi prestr.
Rauðr, Ámundi.
—, Hallvarðr.
Ribbungar.
Ribbungr, Sigurðr.
Rigr, Þorbjörn.
—, Þorgeirr.
Ritakári.
Rófa, Ívarr.
Rostungr, Ögmundr.
Rufa, Árni.
Rúmstafr, Erlingr.
Ruza, Áskell.
Rympill, Þórólfr.
Sála, Bárðr.
Sámr, Gunnarr.
Sandveykr, Álfr.
Selki, Ívarr.
Síkr, Sóni.
Silki, Jón.
Silkiauga, Sigurðr.
Sine terra, Jón Englakonungr.
Sinkr, Hallsteinn.
Skaðareðr, Árni.
Skakalokr, Andóttr.
Skakki, Erlingr jarl.
Skalpr, Þorleifr.
Skamháls, Erlingr.
Skarði, Þorgils.
Skaufhali, Nikulás Árnason.
Skefla, Þorsteinn.
Skeifr, Þorbjörn.
Skerfla, Símun.
Skinhringr, Þóraldi.

# Register over Stedsnavne og Folkenavne.

# Sagregister.

# DET NORSKE OLDSKRIFTSELSKABS

# SAMLINGER.

XIII.

## KONUNGA SÖGUR

ELLER

## SAGAER OM SVERRE OG HANS EFTERFÖLGERE,

UDGIVNE AF

C. R. UNGER.




FØRSTE HEFTE.

CHRISTIANIA.

TRYKT HOS BRØGGER & CHRISTIE.

1870.

Til Grund for denne Udgave af Sverres Saga og de følgende Kongesagaer er lagt en gammel Skindbog kaldet Eirspennil, dog saaledes at aabenbare Feil i denne Text ere blevne berigtigede ved Hjælp af andre Haandskrifter.

---

## Selskabets Kommissionærer.

| | |
|---|---|
| Aalesund. | Prokurator Sanne. |
| Arendal. | Boghandler E. Omholt. |
| Bergen. | Cand. theol. W. Christie. |
| Brevik. | Byfoged Blom. |
| Bodø. | Distriktslæge Arntzen. |
| Drammen. | Rektor Knutzen. |
| Farsund. | Boghandler Osmundsen. |
| Flekkefjord. | Sagfører P. Heidenreich. |
| Fredrikshald. | Overlærer Andersen. |
| Fredriksstad. | Overlærer Voss. |
| Grimstad. | M. Smith-Petersen. |
| Hammerfest. | Kateket Smitt. |
| Hamar. | Civilingeniør Schønheyder. |
| Horten. | Kaptejn Geelmuyden. |
| Kongsberg. | Byfoged Hoffmann. |
| Kongsvinger. | Foged Oftedahl. |
| Kragerö. | |
| Kristiania. | Adjunkt Siegw. Petersen, Grosch's Gaard. Torvet. |
| Kristianssand. | Adjunkt Nygaard. |
| Kristianssund. | Toldinspecter Thue. |
| Langesund. | Overtoldbetjent Berg. |
| Laurvik. | Grosserer Chr. Christiansen jr. |
| Lillehammer. | Apotheker Grundtvig. |
| Mandal. | Skibsreder A. Dedekam. |
| Molde. | Kjöbmand B Width. |
| Moss. | Overretssagförer Bredal. |
| Risör. | Overretssagförer Horn. |
| Sandefjord. | Inspektör Boetius. |
| Sarpsborg. | Overretssagfører Grimsgaard. |
| Skien. | Postmester Dietrichson. |
| Stavanger. | Konsul Jacob Sömme. |
| Throndhjem. | Kjöbmand F. Bing Buck. |
| Tromsö. | Postmester Nielsen. |
| Thvedestrand. | Toldkasserer Tönsberg. |
| Tönsberg. | Sagförer Erlandsen. |
| Vadsø. | Toldopsynsbetjent Hanssen. |
| Vardö. | Kjøbmand Søren Meyer. |
| Stockholm. | Boghandlerne Samson & Wallin. |
| Kjöbenhavn. | Boghandler Gad. |

DET NORSKE OLDSKRIFTSELSKABS

SAMLINGER.

XV.

# KONUNGA SÖGUR

ELLER

# SAGAER OM SVERRE OG HANS EFTERFÖLGERE,

UDGIVNE AF

C. R. UNGER.

ANDET HEFTE.

CHRISTIANIA.

TRYKT HOS BRØGGER & CHRISTIE.

1871.

